oss drottni egi daꜹþi siþann.» Þa blezaþi drottinn Adam oc alla helga. Þa tok guþ i haꜹnd Adami oc ste up meþ hann til paradisar, oc fylgþo drottni allir helgir. Þa saꜹng David konongr hátt: Cantate domino canticum novum quia mirabilia fecit, oc tvaꜹ vers or þeim psalmi en nęsto. Þa svaroþo allir helgir oc qvaþo amen oc melto: «Gloria deo et sanctis eius, amen alleluia.» Oc eptir þetta melti Abbacuc propheta: «Etlaþir þu heilso[1] þioþ þinni at leysa valaþa þina.» En allir helgir svaroþo: «Se lofaþr sa er cømr i nafni drottins guþs, er leysti oss, amen.» Sva melti oc Micheas propheta: Hverr er guþ slic[r sem] var g[uþ? Þ]u ert sa, er braꜹt rac illzcor órar, oc stigr yfir [synþir] órar oc helldr vittni [reiþi] þinnar, þvi at þu ert viliandi misconn oc snyr t[il v]ar, deyþir þu allar illzkor [or]ar oc allar synþir orar i gliking daꜹþans, sva sem þu svarþir feþrom orom.» Oc svaroþo allir helgir sva: «Sia er guþ var at eilifo of verolld verallda, mon hann rikia i verolld, amen, amen.» Sva toko allir spamenn hver sin orþ at lęsa, er þeir fylgþo drottni orom.

9. En guþ baꜹþ Michaeli engli at leiþa þa alla i paradisar faꜹgnoþ. Þa runno .ii. menn a moti þeim. En spamenn spurþo þa, hverir þeir veri, «er it hafit egi dait meþ oss i helviti, helldr eroþ it þegar meþ licama comnir i paradisum.» Þa svaraþi annar þeira: «Enoc heiti ec, ec var meþ guþs orþi hingat leiddr; en sa er mer fylgir heitir Helias, er Tespides var calladr, hann var hingat ękinn i elldligri kęrro. Egi hofom vit en daꜹþa bergt, vit scolom lifa til þess, unz Anticristr er uppi, oc beriasc viþ hann meþ guþs tacnom oc iarteinom. Mun hann i Jerusalem lata vega ocr, en eptir .iii. (daga) oc halfom(!) fiorþa verþom viþ meþ scyiom i annat sinn upnomnir.» Þa er þeir Enoc oc Helias reddo umb slict viþ guþs helga, þa com at gangandi otirligr maþr, sa hafþi cross a herþom. Þa spurþo guþs helgir, hver sa veri: «Oss synisc[2] þu odygligr, eþa hvi gegnir, er þu ber cross a herþom?» Hann svaraþi: «Ec var þiofr, oc gerþa ec mart ilt a iorþo, en gyþingar crosfesto mic meþ Jesu. En þa er ec sa undr þaꜹ er gor[þosc], þa þottomc ec scilia, at Jesus mondi vera scapari allrar scepno, oc baþ ec hann misconnar mer, oc mel[ta] ec þetta: Minzc þu min, drottinn, er þu cemr i riki þitt. Hann toc vel mali mino oc melti: Sat segi ec þer, i dag verþr þu meþ mer i paradiso. Þa gaf hann mer þetta mark oc melti sva: Ef engil(l) sa bannar þer ingaꜹngo, er vorþr er paradisar, þa syn þu honom þetta crosmark,

1 þioþar *tilf. Cd.* 2 sinysc *Cd.*

oc seg honom þat, at Jesus Cristr en crosfesti hafi þic hingat sent. Nu gerþa ec eptir þvi sem mer var kent. Engil(l) lꜹk mer up þegar paradisar hliþ oc leiddi mic in til hégri handar iafntit oc melti: «Her scalltu biþa litla þa stund, af þvi at Adam faþir allz mankyns mon hingat coma brát meþ bornom sinom, helgom oc retlatom Cristz drottins.» Þa er hǫfoþfeþr oc spamenn heyrþo þat, er þiofr melti, þa toko allir senn at męla: «Lofaþr se þu, almattigr guþ, er sva misconnsamr ert, at þu veitir overþom.

10. Karinus oc Leucius fundosc egi i grofom sinom eptir upriso Cristz af dꜹþa, helldr hafa þeir up risit meþ honom, oc margir aþrir, sva sem ritiþ er i guþspiollom. Margir likamir heilagra dꜹþra manna, er sofnat hofþo, riso up. Carinus oc Leucius varo senir siþan i borg Joseph Arimathia oc ri[to þe]nna þatt niþrstigningar Cristz, af þvi at þeir villdo ecki viþ menn męla, oc letu b[ok] coma i hendr Nichodemo oc Joseph, en þeir lasu up siþan fyr ꜹþrom. En morgom manzꜹldrom siþarr comsc at boc þeiri Teodosius keisari [1] son Archadij oc hafþi meþ ser i Miclagarþ oc let þar up raþa, oc varþ monnom þa dat umb. Per omnia benedictus deus. Amen.

---

# III.

(*Cd. 233 folio; kun første ok fjerde Spalte af et Blad.*)

cipes uestras, et eleuamini porte eternales, et introibit rex glorie. Þetta vers þydiz sva æ vara tungu: Takit þer hlid hofdingiar ydrir(!) ok hefit upp hlid eirlig, ok man inn ganga konungr dyrdar. Þa mæltu helvitis buar vid Sathan: «Far a brott þu or sætum varum, ok berst nu hart vid konung dyrðarinnar, ok ecki villdum ver vid hann eiga.» Þeir raku þa hofdingia sinn or helviti. Enn Sathan er hann kom ut, þa sa hann englalid hit mesta komit til helvitis, enn eigi gud. Hann for þa eigi til fundar vid þa, helldr sneiddi hann þar hia. Þa bra hann ser i dreka liki ok hugdiz at vera sva mikill, at hann mundi liggia i hring um allt helviti.

1 k$^{a}$eiri *Cd.*

Hann sa þau tidindi, er gerduz at Jorsolum, at Jesus Cristr var i liflati, ok for þangat, þegar hann matti, ok hugdiz slita mundu ꜹndina fra Jesu. Enn þa er hann kom ok hugdizst mundu gleypa Jesum ok hafa hann med ser, þa beit ꜹngull guddomsins hann, enn krossmarkit fell ꜵ hann ofan, ok vard hann sva veiddr sem fiskr ꜵ ꜹngli, edr mus undir treketti, edr melracki i gilldru, eptir þvi sem fyrir var spad. Þa for til varr drottinn ok batt hann, en kvaddi til engla sina at vardveita hann.

**Her seghir hvern vidbunat dioflarnir hofdu.**

5. Nu er fra þvi at segia, hvat þeir hofduz at i helviti, sidan er Sathan for ut. Rikisdioflar i helviti mæltu vid smidiukappa sina: «Takit þer nu ok byrgit hlið ꜹll, ok setit fyrir iarngrindr ok iarnbranda, ok verit hart ok standit vid vel, at þer verdit eigi uppteknir, edr þat verdi af ydr tekit, er þer hafit ꜵ at hallda.» Guds helgir er þeir heyrdu þetta, þa mæltu þeir sva: «Latit upp hlidin, at konungr dyrdar megi inn ganga.» Þa tok David konungr ok spamadr hatt at mæla vid guds menn: «Þa, sagdi hann, er ek var lifs ꜵ iordu, ok var ek kalladr konungr i austrvegs riki, at ek sagda þetta: confitemini domino misericordie eius, et mirabilia eius filiis hominum, quia contriuit portas ereas et uectes ferreos confregit. Suscepit eos de via iniquitatis eorum.» Þersi vers þydaz sva ꜵ vara tungu: iati þer drottni ok miskunn hans, þviat hann gerdi dasamliga luti sonum manna, þviat hann [braut hlid [1] eirlig ok lamdi lokur iarnligar, tok hann þa af gǫtu illzku þeira. Þa mælti Ysayas spamadr: «Veitz þu, at ek sagda sva, þa er ek var ꜵ iardriki, at daudir mundu upp risa, ok fagna þeir, sem i grofum lægi, enn daudi ok helviti mundi sigri tyna.» Guds helgir er þeir heyrdu þetta, þa kalladu þeir akafliga a helvitis folk: «Lukit upp hlidin, ella verdit þer bornir ofriki.» Þa heyrdu þeir i annat sinn rꜹdd sva mikla, at skialfa þotti allt helviti: Tollite portas principes vestras. Hǫfdingiar helvitis, er þeir heyrdu tysvar kvatt, at upp skylldi luka hlidin, þa brugduz þeir vid ukunnir ok spurdu: «Quis est iste rex glorie, hverr er þersi konungr dyrdar?» Þa svaradu englarnir: «Dominus fortis et potens, dominus potens in prelio.» Þersi ord þydaz sva: drottinn styrkr ok mattugr, drottinn mattugr i orrostu. Þa mælti David konungr: «Þar kennir ek ord þau, er

1 [ *aabent Rum i Cd.*

þar voru mælt, af þvi at ek spada þetta fyrir helgan anda. Nu man drottinn sigra ydr, styrkr ok mattugr ok ⱥflugr i orrostu, hann er konungr dyrdar, þviat hann leit af hæd sinni heilagri af himni a iordina . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . drottinn varr baud Michaele hofudengli at fylgia Adam ok ⱥllum helgum hans at leida þa i paradisum hina fornu.

**Her seghir fra Enok ok þeim Helias.**

9. Ok sem þeir komu þar, þa runnu .ii. menn ꜳ moti þeim, þeir spurdu þa, hverir væri, «er þit hafit eigi daudir verit med oss i helviti, helldr erot þit nu likamligir i paradiso.» Þa svaradi annarr þeira ok mælti: «Enoch heiti ek, ok var ek med guds ordi hingat færdr. Enn sa er med mer er, heitir Helias ok kalladr Thesbites, hann var hingat ekinn i elldligri kerru; ok enn hôfum vid eigi ꜳ dauda bergt, vid skulum her enn vardveittir vera, til þers er Anticristr er borinn. Enn þa skulum vid fara nidr i heiminn ok beriaz vid hann med guds iartegnum ok taknum. Enn hann mun i Jorsalaborg lata vega ockr. Enn eptir .iii. daga lidna ok halfum fiorda verdum vid med skyium uppnumnir.» Ok er þeir Enoch ok Helias taladu þetta vid helga menn guds, þa kom þar at gangandi einn madr allosælligr hafandi krossmark ꜳ herdum ser. Þa er guds helgir sꜳ þenna mann, spurdu þeir, hverr hann væri, «oss syniz, sem þu munir illvirki verit hafa, edr hvi gegnir, at þu berr krossmark?» Hann svaradi: «Segir ek ydr, at ek var illvirki, ok gerda hvetvetna illt a iordu, enn Gydingar krossfestu mik med Jesu. Enn þa vid þat er ek sꜳ undr þau, er gerduz, at ek þottumz vita, at Jesus mundi vera skapari allrar skepnu, tok ek þa at bidia hann mer miskunnar, ok mælta ek sva: Miskunna þu mer, drottinn, þa er þu kemr i riki þitt. En hann tok val minu mali, ok mælti þa þegar vid mik: Vist segir ek þer, i dag skaltu med mer i paradiso. Þa gaf hann mer þetta krossmark[2], ok seg honum, at Jesus Cristr, sa er nu er krossfestr, hefir þik hingat sent. Nu mælta ek þetta vid engilinn paradisar vôrdinn, ok hann lauk þegar upp paradisar hlid ok leiddi mik til hægri handar ser ok mælti: Her skaltu nu bida litla stund, þviat Adam man bratt her koma med bôrnum sinum helgum ok rettlatum hins krossfesta

1 *En Linie oversprunget se ovenfor S. 8*15, 16, *13*38, 39.

Cristz drottins. (En er) fedr ok spamenn heyrdu þat, er illvirkinn sagdi, þa toku þeir allir senn sva at mæla: «Lofadr ser þu, almattigr gud, er sva miskunnsamr ert, at þu veittir uverdum eylifa sælu um allar alldir.

**Fra Karin ok . . . . . .**

10. Karinus[1] ok Leutius synir Simeonis hins rettlata funduz eigi i grofum sinum eptir upprisu Cristz ok dauda, helldr hafa þeir upprisit med honum ok margir menn adrir, sva sem ritat er: Et multa corpora sanctorum, qui dormierant, surrexerunt. Ok margir likamir heilagra manna, er sofnad hofdu, risu upp. Karinus ok Leucius voru sidan senir i borg þeiri, er heitir Aremathia, at Josephs ok skrifadu þenna þatt nidrstigningar Cristz, þviat þeir villdu ecki vid [menn mæla[2], ok letu bokina koma i hendr þeim Nichodemo ok Joseph, enn þeir hafa upp lesit sidan. Enn mǫrgum mannzo̜lldrum sidarr komz at þeiri bok Theodosius keisari, hann var son Archadij, ok hafdi med ser i Miklagard ok let þar upp lesa, ok vard monnum þa nytt [um dasemdir almattigs guds per] omnia benedictus deus i secula seculorum. Amen.

---

## IIII.

(*Membranblad i 238 folio.*)

þesse er son minn elskuligr, vidr þann er mier likadi vel, ok for eg fyrir asionu hans ok steig eg nidr til ydar, til þess at segia ydr, at sialfr guds son upprennandi af hifna hæd mun skiott koma ok vitia ydar ok allra sinna vina, þeira er sitia i myrk(r)um ok i skugga daudans.»

2. Ok þa er Adam fadir vor heyrdi þat sagt, at Jesus er skirdr i Jordan, gladdiz hann geysi miog ok leit til Seth sonar sins ok mællti vid hann: «Heyrdu, son minn, sagdi hann, ber fram ok boda hofutfedrum alla hluti, þa er þu heyrdir af Micaele hofud-

1 Marinus *Cd.* 2 [ mæla mæla *Cd.*

eingli, þa er eg senda þik til paradisar hlids, at þu skylldir bidia drottin, at hann sendi eingil ok gæfi þer vidsmior af myskunartre, at eg smyrda likama minn, þa er eg var siukur.» Þa geck Seth fram ok sagdi til hofudfedrum(!) ok spamanna(!) ok mællti sva: «Eg Seth, þa er eg kom til hlida paradisar, eg sa elld brennanda, sa er bannade hverium sem einum manne ingaungo, ok einglar guds vardveittu þessi hlid bædi fyrir diofli ok syndugum monnum, ok þar sem eg stod, vard eg miog gagnhræddr, ok bad eg til drottins med miklum otta. Þa syndiz mier Mikael eingill ok mællti vid mik: Eg er sendr til þin af drottni, eg er skipadr yfir mannlegum likama. En eg segi þier, Seth, med sonnu, eigi þarf þu at starfa med ervidi eda tarum bidia sakir vidsmiors myskunartres, at þu smyrir fodur þinn Adam, at betridz likams sott hans, þviat med aungum hætti mattu taka þetta vidsmiorh nema a efstum dogum okomins tima, þa er adr fyllaz .v. þusundir .c. ok þritigir ara; þa mun koma yfir iord hin elskulegsti guds son Kristr at vekia upp likame daudra manna. Oc þa er hann sialfr kemr, mun hann skira i vatni ok helgum anda. Þa mun hann smyria alla þa, er a hann trua, med vidsmiorvi sinnar myskunar, ok mun þetta myskunar vidsmior vera til endrgetningar þeim, er fa muno af vatni ok helgum anda i eilift lif. Þa mun nidr stiga til iardar enn elskuligsti sonr guds Kristr, ok mun þa in leida fodur þinn Adam i paradisum til myskunartress.» Ok þa (er) allir hofudfedr ok spamenn heyrdo þessa hluti framsagda af Seth, þa fognudo þeir med mikille gledi.

3. 4. Ok þa er allir helgir glaudduz med fagnade, þa kom til þeira helvitis hofdingi leidtogi daudra i liking hrædilegs dreka ok miog auskurlegs, sa er stundum syndiz þeim med sio hofdum, en stundum med .iii., stundum i mannz liki. Hann hliodadi þa med hari roddu til helvitis ok sagdi: «Bu þig sialfr med allri kunnattu at taka vid Jesu, sa er sialfan sik dyrkar ok segiz vera Kristr son guds, en hann er madr, þviat hann ottaz daudann svo mælande: Hrygg er ond min allt til dauda. Ok margar illgiordir fyndi hann i moti mier, ok marga græddi hann med ordi sinu, þa er eg giorda blinda, hallta, krepta, likþra, ok kvalda meinsemdum. Þa svaradi helviti ok sagdi til Satans hofdingia: «Hver er sva mattugr i orde, ok se hann þo madr, ok ottaz dauda, þviat alla mattuga iardar hofdingia hefi eg halldit undir mino vallde, þa er þu fluttir nu undirorpna med þinum styrk. En ef þu ert mattugr, hver er þessi madr Jesus, er ottaz dauda ok stendr þo i moti þier ok þinu

valldi, ef hann er þvilikur i mandomi mattugr ok styrkr. Sannliga segi (eg) þier, almattugr er hann þo i gudome, ok eingi mun þa mega i moti standa hans styrk ok mætti. Ok ef hann segir sva hræddan[1] hrædaz dauda, þa vill hann leyna gudomsmætti sinum, ok eigi mun þat vera um eilifar veralldir.» Þa svarar Satan helvitis hofdingi ok mællti: «Hvi efar þu eda ottaz at taka þenna Jesum, er bædi gioriz minn ok þinn mo(t)staudumadr, þviat eg freistada hans ok vakta upp lyd hans Gydinga flock med ofrkappe ok reide i moti honum; hvesta eg spiot, ok fram egiadi eg at legia a sidu honum; gallsuro blandada eg at gefa honum i þostadryck; eg bio tre at krossfesta hann; ok nu er miog nalægr daudi hans, ok mun eg leida hann til þin ok min yfirkominn.» Þa svarade helvite ok mællti: «Þu sagdir mier, at þessi er sa sialfr, er dauda menn dro fra mer; en margir eru þeir, er eg hiellt i valldi, er fra mer voru gripnir, [er þeir[2] lifdo **a** iordu. En hver er þersi Jesus, er med ædi sinu ok gudligum bænum kallar dauda menn til lifs, almattigr er hann, sa er dro af mier dauda menn, þa er eg hugdumz mattuliga hallda mundo undir minu vallde? Mun eigi þessi sa vera, er leysti Ladarum(!), sa er i grauf la .iiii. daga, þann er eg hellt daudan i mino vallde ok gallt hann lifanda fyrir ord sins almattar?» Þa svarar Satan hofdingi daudans ok segir sva: «Þersi sialfr er sa Jesus.» Ok þa er hann sagdi þetta, heyrde helvite ok sagdi til hans: «Særi eg þig fyrir krapta þina ok mina, at eigi leidir þu hann hingat til min, þviat þa er ek heyrda styrkan matt ordz hans, þa vard ek miog gagnhræddr med skialfanda otta, ok allir helvitis þionar med mier urdo skialfer. Ok eige matta ek hallda Ladarum med aullum styrk ok fliotleik minum, ok spratt hann upp lifandi ok heill, ok sialf iord, su er hiellt daudligan likama Ladari, gallt hann lifanda, ok fyrir þvi veit ek, at sa madr, er þessa alla hluti matti giora, hann er styrkr i valldi, mattugr i manndomi, grædari allz mannkyns, ok hann mun leysa þa, er byrgdir eru i grimre myrkvastofu ok stridligum[3] synda baundum, ok leida til lifs sins guddoms.» Þad var ok i þat mund dægra ok þenna tima, at himen opnadiz, þa kom fram fyst hestr hvitr, en sa kongr er reid hesti þeim, er maurgum hlutum er fridari ok fegri en allir adrir ok tigolegri, augu hans voru sem elldz loge, hann hafdi koronu þa **a** hofdi, er morg sigrmerki synde; hann hafdi þat klædi um onnur utan, er blodstocket[4] var; **a** klædi hans yfir

1 *Tre Punkter ere tilføiede over Bogstaverne* ræ *i Ordet* hræddan.
2 [ af þier *Cd.* 3 st$^{i}$dligum *Cd.* 4 blodstocken *Cd.*

miodmenne voru þessi ord ritud: Kongr konunga ok drottin drottna. Hann leiddi med sier her hinn mesta; þeir er honum fylgdu, ridu hvitum hestum ok voru klæddir silke hvitu, lioser hardla. Sa hinn rikazti allvalldr leit þa til Jo(r)salaborgar ok mællti: «Gilldra su er at Jorsolum er, verdi midgardzorme at skada.» Hann fal aungul sin i æzlino, þvi er i gilldruna var lagt, ok sva gat hann vadin folgin, at eigi matti um sia. Þa baud hann nockurum sinum elskuligum vinum, at þeir skyllde fyrir fara ok boda tilkvomo hans.

5. En þa er þau tauludo med sier, sem fyrir sagt, Satan hofdinge ok helvite, þa vard hvell rodd mikellar reidarþrumo ok andlekt kall sva mælandi: «Heyrit, hofdingiar helvites, luk(it) upp hlid ydur, ok hefiz upp eilif hlid, ok mun i ganga kongr dyrdar.» Ok þa er helvite heyrdi þessi ord, þa sagdi þad til Satans hofdingia sins: «Far þu brott hiedan ok fly skiott ut af minum sætum. En ef þu ert mattugr bardagamadr, þa berstu vid dyrdarkongin, þviat hvat aa eg at skyllda med honum.» Ok eptir þat rak þad Satan hofdingia sinn ut af sætum sinum. En þa er Satan var brott rekin, leit hann utarligan(!) fiolda himnesks folks ok herlids, en eigi sa hann þo dyrdarkongin þar komin, ok villdi hann þo eigi moti þeim ganga, helldr hneigdi hann sik fra augliti þeira. Þa likti hann sik i mynd ogurligs dreka, þeim er iafnat er at mikeleik vid midgard(z)orm, sa er sagt, at ligi um allan heimin. Hann sa þa takn þau, er voru i Jorsalaborg, drottin varn i andlati, ok iamskiot

---

# NIKOLAUS SAGA ERKIBYSKUPS.

---

## I.

(*Cd. Holm. 2 folio*).

**Her hefr upp sogu Nicolas erkibyskups.**

1. Nicholas var ens gôfgazta kyns or borg þeiri er Patera heitir, su er i þann tima var fiolmenn ok agæt, en nu er miôg sva eydd. En þar skamt fra borginni er vôllr, sa er slitnar sem klædi fornt, ok leggr or þeim rifum svartan reyk um daga en elld um nætr sem ur afli. En edli elldz þess er þat, at madr kenner hita, ef hann rettir hônd sina i elldinn til forvitnis, en hann brennr þo eigi af elldinum. En i borg þessi, þa er hon var enn agæt at mannfiolda, voru frændr Nicholas gôfgir at kyni en allra gofgaztir at godum sidum, elskudu þeir meir himneska tign en iardliga. Fadir hans ok modir þau attu aud mikinn, en fyrir guds sakir villdu þau eingva tign hafa iardliga, helldr bunduz þau i reinlifi, þviat þau voru ung, er þau gatu þenna son, en sidan helldu þau sik fra allri likams munud ok badu þess gud, at sia einn skylldi eptir þau lifa erfingi eigi at eins at aurum helldr ok i godum sidum. En gud heyrdi bæn þeira ok let ser soma at syna þeim bratt, hvilikr verda mundi sveinninn; þviat þegar er hann var borinn, stod hann einn i munnlaugu rettr halfa stund dags, er honum var þvegit. Enn fylgir þar ônnur iartein, su er faheyrd er i verôlldu, þat at hann drack sinn a degi briost modur sinnar, midvikudag hvern ok fôstudag. Þessar iarteinir foru bratt ok urdu sagdar byskupi þeim er Nicholas het, hann var modurbrodir ens unga sveins. En er hann fra þetta, þackadi hann gudi ok mællti: «Dyrd þer, gud, er agætr ert i helgum manni þinum ok lofadr um alldir, þviat nu er guds madr borinn.» En sveini var nafn gefit

modurbrodur sins ok kalladr Nicholas. En stundum for hann einn ok festi i briosti ser þat, er hann heyrdi sagt fra helgum ritningum. En er hann geck til kirkiu um dag, mætti hann halltri konu ok bad hana stadar nema. Sidan gerdi hann crossmark yfir henne, ok stod hon upp heil a fætr sina, ok rann hon þegar ok sagdi fôdur ok modur Nicholas, en þau sôgdu Nicholasi byskupi iartein þessa, en hann þackadi gudi, er hann fra þetta. En sveinninn fell til fota modurbrodur sinum ok mællti: «Heilagr fadir, bid þu fyrir syni þinum, at drottinn Jesus Kristr geri mik verdan himneskrar blezanar af þinum bænum.» Þa hellt byskup hôndum til himins ok mællti: «Drottinn gud almattigr ok (o)umrædiligr, veittu þessum sveini Nicholasi gôfugt lif ok þeckiliga atferd, at hann se verdr at finnaz i tôlu heilagra manna þinna.» Munkr nôckur heilagr var opt vanr at koma til fundar vid Nicholas byskup, ok vard þeim rætt um enn unga svein Nicholas, ok sagdi byskup marga hluti fra honum. En er þeir sofnudu, þa kom eingill guds at byskupi ok mællti vid hann: «Fylgdu mer.» Þa leiddi eingillinn byskup i austrætt a fiall ok syndi honum fagran stad ok dyrd paradisar. Þar voru hallir biartar ok fagrbunar ok vellir blomgadir ok dyrligir, ok sva mikil dyrd ok fegrd, at eigi ma fra segia. Þar sa hann ok holl eina sva mikla ok sem nygerva, gulli fegri ok gimsteinum. Dyrligr eingill guds mællti vid Nicholas: «Þessa hôll mun drottinn gefa enum dyrligzta vin sinum Nicholasi.»

2. En þa er andadr var fadir ok modir Nicholas, þa mintiz hann a þat, er mællt er i gudzspialli, at eingi matti Criz lærisveinn vera, utan hann fyrirleti allt þat er hann ætti. En er hann barst þat fyrir at gefa alla eigu sina, þa ugdi hann, at manna lof mundi fyrir honum spilla þvi, er hann villdi til gods gera; af þvi bad hann, at gud skylldi skiota þvi i hug ser, at hann starfadi þat fyrir aurum sinum, at hann likadi framar gudi en mônnum. En þa bar volat at einum borgarmanni, þeim er audigr hafdi verit, en hann vard sva voladr, at hann hafdi ser eigi atvinnu. Þa villdi hann selia dætr sinar .iii. til saurlifis. En þat for bratt um borgina, ok vard mônnum fiôlrætt um þat. En er Nicholas fra þetta, þa harmadi hann vesold þeira, ok þottiz hann eigi mega sia betra rad fyrir aurum sinum (en) at renna þvi radi, at kyngôfgar meyiar væri til saurlifis selldar, en hann villdi eingan annan hafa vott en Crist at verki sinu. Þa leitadi hann þess, ef hann mætti sva gefa, at sa vissi eigi til, sem gefit væri. Þa for byskup nockura nott

til hus ins volada manz ok batt gull i duki ok kastadi þvi inn i glugg, er var a husinu, ok vard eingi varr vid þat, er hann kom þangat, ne vid þat, er hann for þadan. En er enn voladi madr reis upp at morni ok fann gullit, þa felldi hann tar ok gerdi gudi þackir ok grof sidan eptir, hverr sa madr væri, er sva mikla huggun hafdi honum veitta, ok matti hann eigi þess vis verda. En Nicholas þræll Jesus Cristz kom til husa ens volada manz litlu sidar ok gerdi slikt verk sem fyrr. Ok er dagr kom, reis bondi upp ok fann gullit iafnmikit ok fyrr, ok vard feginn ok for þegar til bænar ok mællti a þessa lund: «Drottinn gud, er ǫllu rædr, ok ecki laufsblad fellr a iordu an þinum vilia, bid ek þik, er alla hluti veiz, at þu synir mer syndugum, hverr sa er, er sva mikla hluti veitir mer overdugum; gerdu mer kunnan þræl þinn, þann er eingla atferd hefir i milli manna, at ek dyrka nafn þitt, þat er lof(at) er um allar alldir.» Slikum ordum bad hann ok eggiadiz a þat at vaka allar nætr i gegnum, unz gud syndi honum þræl sinn. En er fair dagar voru lidnir, þa kom þrenningar iati Nicholas ok villdi i þrenningar tǫlu fylla godgerning sina ok kastadi inn i gluggin pundi gullz. En bondi vaknar vid dettinn, ok spratt upp þegar ok rann eptir honum ok kalladi: «Nem þu stadar ok fly eigi mik, fyrir longu var ek fus at finna þik.» En er hann hafdi þat mællt, þa rann hann, unz hann kom sva nær, at hann kendi Nicholas, ok fell þegar til iardar ok villdi kyssa fætr hans. En Nicholas bannadi honum ok bad þess a moti, at hann skylldi eingum manni segia, hverr þetta verk hefdi gert, medan Nicholas lifdi.

3. En ad lidnum þessum hlutum þa andadiz byskup i borg þeiri er Mirrea heitir. Hans dauda harmadu[1] byskupar nalegra[2] borga, hann hafdi verit sidsamr, ok qvomu margir kennimenn at velia byskup i stad ens andada. A þeim kennimanna fundi var einn heilagr byskup, sa er allir urdu a þat sattir, at hann skylldi fyrir rada, hvern þeir skylldu til byskups taka. En hann fylgdi postola dæmum at ǫllu ok bad þa alla fasta ok vera a bænum, unz almattigr gud syndi þeim nytsamligan hirdi sauda sinna, sa er fordum syndi Mathiam verdan at fylla postola tǫlu. En er kennimenn voru a bæn, þa heyrdi heilagr byskup rǫdd af himne mælandi, at þeir vigdi þann til byskups, er fyrst kæmi til kirkiu þa nott, ok var sagt at Nicholas mundi heita. Þa sagdi byskup kennimǫnnum vitran þessa ok mællti: «Er skulit hallda framm

1 harmadi *Cd.* 2 volegra *Cd.*

bæn ydarri, en ek mun uti vera, ok trui ek, at vær munum na fyrirheiti guds.» Ok vardveitti byskup kirkiudyrr med heilagri slægd. En Nicholas kom fyrr en allir adrir til kirkiu, sem hann væri af gudi sendr. En er hann kom at kirkiudyrum, þa spurdi byskup hann at nafni, en hann neigdi hôfud sitt ok laut byskupi: «Nicholas heiti ek, qvad hann, þræll ydars heilagleiks.» Þa tok byskup i hônd honum ok mællti: «Sonr, fardu med mer, skyllt mal a ek vid þik.» En er byskup kom inn i kirkiu, þa kalladi hann hatt: «Nu er þat sannat, brodir, er drottinn mællti, at hverr mundi geta þat, er hann bædi i guds nafni, ef hann trydi þvi. Nu hôfum vær getit þat, er vær badum, ok er byskup sa er vær leitudum.» En allir urdu fegnir, er þeir litu Nicholas, ok helldu allir hondum til himins ok lofudu milldi guds. Þa var Nicholas vigdr til byskups þegar enn sama dag. En er hann tok byskups velldi, þa hellt hann litillæti, sem fyrr hafdi hann; opt var hann a bænum ok mæddi likam sinn i vokum ok fôstum; hann var gestrisinn ok blidr i mali, avitadi hann ofreflismenn, en hann rækti ofstopamenn ok rikis, en hann huggadi hvern, er ryggr kom til hans fundar. Hvern dag gengu sôgur fra gæzku hans, ok ræddu hans lof gofgir menn ok ogôfgir. Eigi ma ordum skrifa crapta hans ok verdleika, en sa er vita vill, hvilikr hann var, lydi hann þvi, er eptir ferr, ok leggi nidr ôfund.

4. Nicholas skein i ôllum crauptum, ok eignadi hann ecki ser helldr allt gudi, en hann var sva mattigr i taknum, at þeir fundu hialp ok heilsu, er a hann hetu, þott hvar fiarri væri. Menn foru a skipi um dag, ok gerdi rid at þeim ok frost, ok kôlludu þeir ok mælltu: «Nicholas guds þræll, ef þat er satt, er vær heyrum sagt fra þer, lattu oss nu þat reyna i þessum haska, leys oss fra grimmum sæ, at vær megim þacka gudi ok þer.» En er þeir hôfdu þetta mællt, þa gerdiz undarligr hlutr, þa vitradiz þeim madr ok mællti vid þa: «Her er ek nu, hvat kôlludu þer mik.» Ok tok hann ok bætti skipreida þeira ok reip, er slitnat[1] hôfdu, ok fell þegar hridin ok hafgialfrit allt, en fardreingir qvomu gladir til þeirar hafnar, er þeir villdu, ok gengu þegar af skipi ok spurdu, hvar Nicholas væri; en þeim var visat til hans i kirkiu, ok gengu þeir til hans ok kendu, at hann hafdi þeim a skipi vitraz, ok fellu til fota honum ok sogdu, hve þeir voru leystir fra dauda. Nicholas mællti: «Eigi skulit þer mer kenna, gud barg ydr fyrir tru ydra, skili þer ok þa, hversu mikit ma fyrir gudi hrein trua, þviat vær

1 slitnut *Cd.*

erum hvern dag bardir fyrir syndir vorar, en ef vær snuumz til guds af ôllu hiarta, þa veitir hann oss miskunn sina ok leysir oss or pislum. Af þvi verit er eigi traudir, brædr, vel at gera, halldit litillæti ok olmusum, truit er þvi, at eingi godgerning er gudi þægri en ôlmusugerd, ef eigi er til heimskrautz gert.» En er Nicholas taldi fyrir þeim þessum ordum, þa foru þeir leidar sinnar ok undruduz mikileik crapta hans.

5. A nôckurri tid qvomu menn or borg einni til heilags Nicholas ok mællto vid hann: «Vær bidium þik, heilagr fadir, at þu veitir oss fullting þinnar gæzku, þviat oss er naudsyn at hôggva tre eitt mikit, er stendr hia borg vorri; en þar er ohreinn andi i trenu ok lætr oss eigi hôggva þat, en vær truum, at þu rekir i brott fiandann, ef þu kemr til.» Nicholas sagdi: «Fôrum vær ok þa brædr, verdi vili drottins.» En er þeir qvomu til tresins ok þordu eigi at hôggva, þa geck Nicholas þangat ohræddr ok reist med ôxi kross a trenu, ok hio .vij. hôgg ok bad adra hôggva. En er tred brast, þa hugdiz fiandinn mundu gera môrgum manni mein, ok villdi hann fella tred a menn. En heilagr Nicholas tok hôndum vid trenu ok hratt þvi fra mônnum. Þa flydi fiandinn veinandi ok mællti: «Bygd minni glatada ek, ok fyllda ek vilia minn, þviat Nicholas rak mik a brott, ok ma ek eigi her vera.» En smidir hiuggu i sundr tred ok gerdu sem Nicholas baud.

Enn qvomu menn or ôdrum kastala til heilags Nicholas ok mællto vid hann: «Langt eigum vær til ydar, þviat kona ein od do i brunni þeim, er vær attum, ok er þar sidan ohreinn andi i brunninum, ok þora menn eigi at drecka or þeim brunni. Enn hafdi verit fordum annarr brunnr skamt fra oss, en vær megum eigi þann finna, en vær truum þvi, heilagr fadir, at þu megir þat geta at gudi, at vær megim þar vatn finna.» Þa mællti Nicholas: «Forum vær, brædr, ok hôfum traust i milldi guds.» En er þeir qvomu þar, þa fell Nicholas a kne til bænar. Sidan tok hann graftol i hond ser ok grof i iord halfrar annarrar alnar diupt, ok spratt upp þegar nogt vatn, ok þôckudu allir gudi, at hann gaf þræli sinum brunnvatn. En er þeir qvomu til ens[1] ohreina brunz, þa var heyrd diôfuls rôdd ok blistrun. Þa fell Nicholas a kne til bænar. En er allir svôrudu bæn hans ok sôgdu amen, þa sa allir svartan diôful koma upp or brunninum, ok gneggiadi hann ok mællti: «Med ôllu ma ek eigi standaz vidlit heilags Nicholas.»

Þeir menn qvomu or heradi þvi, er Andronika heitir, til

[1] eins *Cd.*

Nicholas, ok færdu honum odan mann ok mællto: «Margar þrautir gerdi sia enn odi, at eigi færdim vær þer hann, fadir.» Nicholas svaradi þeim: «Leysi þer skepnu guds, þviat drottinn mun biarga honum.» Þeir sôgdu: «Eigi þorum vær, þviat hann mun flygia ok finnaz eigi.» Nicholas sagdi: «Eingi ma lifa an augliti guds.» Þa geck Nicholas til kirkiu ok vigdi vidsmior ok smurdi enn oda mann, ok vard hann heill at ônd ok likama ok for leid sina ok gerdi gudi þackir ok enum helga Nicholasi.

Enn sa Nicholas um dag blindan mann sitia fyrir kirkiudyrum ok mællti vid hann: «Hversu leingi hefir þu sionlaus verit?» En hann svaradi: «Fyrir .iiir. vetrum misti ek synar minnar, ok gaf ek alla eign mina læknum, ok mattu þeir mer ecki stoda.» Nicholas mællti þa vid hann: «Fyrir hvi heztu eigi a helga menn, er þik mundu felaust græda i crapti guds, ef þu trudir þeim?» Enn blindi madr svaradi: «Trui ek gudi ok helgum bænum þinum, at þu matt geta þat af gudi, at hann taki blindi af mer ok lati mig sia lios.» Þa miskunnadi Nicholas honum ok gerdi crossmark yfir honum ok smurdi augu hans vigdu vidsmiôrvi ok mællti: «Þess væntir ek i crapti drottins mins Jesu Cristz, at þu munir a morgin snemma sia lios himins.» En sva vard, sem Nicholas sagdi, ok sa hann lios, ok for hann gôtu sina fagnandi ok dyrkandi gud. Þa fra annarr siukr madr, at enn blindi hafdi syn tekit, ok kom þegar ok fell til fota guds þræli ok mællti: «Drottinn heilagr fadir, .iiij. manadi hefir ek haft sott, þa er ek ma eigi af iordu risa ne til verks taka, ok ma mer eigi fæzla siatna, ok veitti ek morg audæfi læknum, ok stodadi mer ecki þat.» Nicholas svaradi honum: «Ek mun selia þik þeim lækni, er þik mun græda at heilu felaust.» Enn siuki mællti: «Hverr ma mik sva skiott græda?» Nicholas svaradi: «Her er hann nôckur.» Þa litadiz enn siuki madr um ok hugdiz sia mundu lækninn. Nicholas mællti: «Hyggr þu þik munu sia lækninn, þann er þik grædir? Ef þu truir lækni minum af ôllu hiarta, þa mun ek bidia hann, at hann gefi þer heilsu þina andar ok likams.» Enn siuki madr svaradi: «Trui ek gudi lifanda ok heilagleik þinum.» Þa bad Nicholas fyrir honum ok blezadi hann i nafni Jesus Cristz ok mællti: «Verdu heill fra þessi stundu.» Þa vard hann þegar heill ok for heim til hus sins lofandi gud.

Enn komu margir menn um dag at gista helgan Nicholas, ok er þeir qvomu til gestaskala ok satu a beck, þa baud Nicholas diakna sinum at skipta fæzlu med þeim ok byrla þeim dryckiu. Diakninn gerdi sem honum var bodit. En gestir sa, a(t) vin var i

litlu keri, þat er þeim var ætlat. Þa mællto nôckurir med ser, at þeim mundi eigi hoska ôllum dryckr sa. En er Nicholas vard varr vid þetta, þa kom hann til þeira ok mællti: «Mer byriar sialfum at vinna ydr beina i dag, at vær fagnim allir saman.» Sidan blandadi hann vinit vatni ok byrladi þeim ôllum til nogs, ok urdu þeir druknir sem af hinu bezta vini ok dyrkudu gud, þann er iok ok bætti dryckiu þeira fyrir þræl sinn Nicholas.»

Enn let Nicholas kirkiu gera ok safnadi til smidum ok verkmônnum, unz urdu .vii. tigir. En þat gerdiz, at þeir mattu eigi vellta steini einum miklum þangat, sem þeir villdu, ok leitudu þeir vid þat allan dag, unz þeir voru modir ok lettu af verki. En Nicholas for til vid .iii. menn i guds trausti. Nicholas vellti steininum þangat, sem hann villdi, a halfri stundu dags. En þeir lofudu gud, er hia voru, þann er sva mikinn crapt veitti helgum Nicholasi, at hann matti færa or stad biorg ok steina.

Tveir menn qvomu nordan um fiall or stad þeim, er Evandi heitir, ok færdu helgum Nicholasi mey siuka, þa er hvergi matti sik hræra, ok lôgdu þeir hana fyrir fætr Nicholasi ok mællto: «Miskunnadu þessi vorri mey, er sarliga qvelz i ôllum limum ok hefir .vii. vetr siuk verit.» Guds þræll sagdi: «Ef er truit af ôllu hiarta, at drottinn ma græda ônd ok likam þessarrar meyiar ok fylla vilia ydarn.» Þeir sogdu: «Af ôllu hiarta truum vær gudi ok vilium lyda þer, godgiarn fadir.» Þa miskunnadi Nicholas þeim ok bad leingi fyrir þeim, en er hann hafdi lokit bæn sinni, þa vard mærin heil ok for heim med forunautum sinum fagnandi ok lofandi gud.

6. A nôckurum degi kom diôfullinn, þar er heilagr Nicholas var a bæn sinni, ok bra a sik lioss eingils liki. En er Nicholas leit hann, þa mællti hann: «Hverr ertu edr hvi komtu her?» Diofullinn svaradi: «Eingill guds em ek, ok kom ek higat at sia verk þin.» Þa skildi Nicholas, at diôfull var, ok gerdi crossmark a moti honum ok mællti: «Þu enn slægi andi, gacktu ut or husi minu fra augliti mer ok dvel ecki.» Fiandinn svaradi: «Hvat gerdi ek þer til meins, lattu mik hvilaz her.» En Nicholas avitadi diôfulinn ok bad hann flyia. Þa for diofullinn ut ylandi ok mællti: «Þottu rekir mik a brott hedan, þa mun ek eigi langt fra þer fara.» Þa hvarf ohreinn andi or augliti hans, er hann hafdi þat mællt. Litlu sidar kom sa enn sami diôfull i elldhus ok fann einn þion heilags Nicholas, þann er skipti brædra fæzlu, þeira er voru med Nicholasi, ok slo diôfullinn ædi a hann. En er Nicholasi

var sagt, þa for hann þangat skyndiliga. Þa fann hann þann enn sama mælandi margar orar ok gudlastan. Þa minti Nicholas hann a þat, at hann vi(t)kadiz af gudlastan. Enn illgiarni andi var þess akafari ok mællti fleiri orar fyrir munn ens oda manz. Þa skildi Nicholas, at diôfullinn mællti fyrir munn honum, ok geck hann nær ok tok i hônd honum ok mællti: «Signdu þik, brodir.» En er hann signdi sik, þa var senn fara fra honum ohreinn andi sva sem brendr ok svidinn, ok geck ut i elldhus dyr veinandi ok mællti: «Yfir em ec stiginn af Nicholasi, þviat hann lætr mik hvergi gera minn vilia.» En sa er odr hafdi verit vitkadiz ok fell til fota Nicholasi ok tok blezan af honum, ok þordi diôfullinn alldri sidan at koma til hans.

Hion .ii. qvomu til Nicholas enn um dag ok fellu til fota honum ok mællto: «Miskunnadu ockr, heilagr fadir, fra skemd ok bid fyrir ockr, þviat vid hôfum .xxx. vetra saman verit ok megum eigi son ala, en vid væntum ok treystum i guds nafni, at drottinn gefi okkr avôxt fyrir þinar bænir.» Þa hellt Nicholas hondum til himna ok bad fyrir þeim halfa stund dags ok blezadi þeim ok let þau fara leidar sinnar. En guds miskunn veitti þeim bæn þa, ok færdu þau Nicholasi son sinn til blezunar a enum (næstum) misserum. Þa er Nicholas taldi fyrir lyd i kastala nôckurum, þa fell til fota honum einn ridusiukr madr ok mællti: «Miskunnadu mer, heilagr fadir, ok ger eigi eptir otru mins verdleiks, at eigi fyrirfôrumz ek, þviat ek heyrda sagt mart fra iarteinum þinum, ok gerdi ek eigi at trua; þa syndiz mer nôckura nott i draumi ohreinn andi med sauri, ok fell ek a ana, þa sa ek þik standa annan veg fra mer, ok kallada ek a þik til fulltings, en þu rettir hond þina i gegn mer ok drott mik or sauri. En nu bid ek þik, at sva sem þu leystir mik i draumi, sva lattu þer nu soma at leysa mik fra sott þeiri, er þa tok ek i þeim draumi.» Nicholas sagdi: «Sonr, vertu trur hedan fra, þviat otruum manni verda iarteinir at afallzdome. Far nu ok ver heill af sott þeiri, sva sem drottinn leysti þik i draumi.» Þa vard hann heill ok lofadi gud ok enn helga Nicholas.

Enn var Nicholas a bænum um nott ok sông salma med presti sinum. Þa syndiz þeim badum ohreinn andi, sva sem madr gengi upp ok nidr eptir stiga. Þa hræddiz prestr, en Nicholas styrkti hann ok mællti: «Eigi skalltu hrædaz, sionhverfing diôfuls er þat er þu sier, en eigi madr, venia hans er su at svikia avallt þræla

guds.» Þa gerdu þeir badir crossmark a moti dioflinum, ok hvarf þegar or augliti þeira bædi stiginn ok sva sa er eptir for.

7. Smidir ok verkmenn qvomu um dag til Nicholas byskups, ok skylldi gera kirkiu. En er Nicholas sa þa vera komna, þa spurdi hann matskiptismann, hversu mart braud þa væri buit at gefa þeim, er komnir voru. En hann vard ogladr vid ok svaradi: «Of sid gaztu fyrir mer, fadir, verkmanna þessa, þviat ek a nu skyllt at vinna, ok er eigi meira en einn leifr brauds.» Nicholas mællti: «Vertu eigi ryggr, brodir, ok sel mer leifinn, ok skiptum honum med verkmônnum.» En þeir atu ok hôfdu allir nogt .lxxx. manna. En er þeir voru sva taknsamliga fæddir af einum leif, þa gerdu þeir þackir gudi ok enum helga Nicholasi.

A nôckurri tid gerdi Nicholas for sina til Jorsala, ok voru med honum prestar hans .iii. Amoti ok Artheman ok Emeus, ok gengu þeir a skip. En a enni somu nott gerdi hrid sva mikla, at miôg sva mundi dreckia skipi þeira. Þa syndiz þeim logandi fiandi fara eptir skipinu, ok villdi hann vellta þvi um. Þa gerdi Nicholas crossmark a mot honum, ok flydi ovinrinn þegar i stad. En einn þeira fell nidr a skipinu, ok la sem daudr væri, ok stodu menn ryggir yfir honum. En Nicholas bad fyrir honum ok tok i hond honum ok reisti hann upp heilan ok mællti: «Siglum vær nu i nafni drottins.» Þa kom þegar byr, ok sigldu þeir .v. daga, en sidan lendu þeir i Jordan. En er þeir gengu af skipi, þa gerdi enn heilagr Nicholas margar iarteinir, i hverium stad, þar er hann kom, græddi hann siuka ok rak diofla fra odum mônnum, ok dyrkudu allir nafn drottins, er sa edr heyrdu crapta ens helga Nicholas.

8. A nockurri tid gerdi oaran mikit, ok spilltiz akrar manna, ok hafdi Nicholas mikit kostgæfi til þess at hialpa voludum, ok for hann at kaupa þeim fæzlu. Þa var honum sagt, at skip morg voru korni ladin komin i hofn þa, er Laudaticus heitir. Þa kom Nicholas þangat ok mællti vid skipamenn: «Ydr em ek kominn at finna ok at bidia, at er midlit nôckut af hveiti ydru vid þann lyd, er hungradr er.» En skipamenn sogdu: «Eigi þorum vær, fadir, at veita þer þat, er þu bidr, þviat vær erum sendir eptir konungsmanna fæzlu, ok skulo konungs þrælar taka vid korni þvisa ok reida allt vættum ok mælum. «Hlydit er mer, sagdi Nicholas, ok veitit .c. mæla af hveriu skipi, en ec heit ydr þvi i nafni drottins, at eigi munit einskis mælis missa, þa er er reidit kornit af hendi.» Þa gerdu skipamenn, sem hann bad, oc veittu

.c. mæla af hveriu skipi, en sidan gaf þeim byr, unz þeir qvomu allt til Miklagardz. En er þeir reiddu kornit af hendi, þa misstu þeir einskis mælis, ok sǫgdu þeir konungsmǫnnum, hvat gerz hafdi. En er þeir heyrdu þessi tiþindi, þa lofudu hvorirtveggiu nafn drottins. En er guds madr tok vid hveiti, þa skipti hann þvi sva med hverium, sem honum þotti þaurf vera En guds mattr iok þat et litla korn, er Nicholas veitti, at þat vanz þau misseri ǫll til fæzlu ok ǫnn(ur) en næstu ǫllum lyd, sem þurfti, ok freistudu margir fordum at sa þvi korni, ok urdu akrar þeir godir, er þadan af græddus.

9. Sva er sagt, at allra blota mest var þa magnat Gefionar blot, þviat margir þorpkarlar gǫfgudu skurdgod hennar allt til þess, unz Nicholas kom þangat, en hann braut nidr villu þa ok eyddi allri hindrvitni heradsmanna. En er diofull sa sik ræntan veg gǫfganar sinnar, þa fylldiz hann reidi i gegn guds þræli ok leitadi nyrrar vælar, ok hafdi hann af fiolkyngum mǫnnum eitrblandin smyrsl, ok bra hann a sik liki nǫckurrar truadrar konu ok retti a mot þeim mǫnnum, er foru a skipi med landi framm til fundar Nicholas byskups, ok mællti: «Se ek, at þer vilit sækia fund Nicholas byskups, ok villdi ek fara med ydr, þviat ek væri fus at hafa blezun hans; en fyrir þvi at ek ma eigi fara, þa bid ek, at þer færit vidsmior þetta til kirkiu hans i mina minning.» En þeir toku vid þvi, en vissu eigi von diǫfuls vælar. En er þadan var skamt lidit, þa sa þeir skip mǫnnum ladit fara a moti ser, ok var þar einn enn likazti madr Nicholasi ok mællti: «Hvat selldi konan ydr?» Þeir svorudu: «Vidsmior selldi hon oss ok bad oss bera til kirkiu ens helga Nicholas.» Hann mællti: «Vili þer nu vita, hversu konan var? þat var en odyggva Gefion; kastit þer i brott langt fra skipinu, ok munu þer vita, at ek segir satt.» Þa gerdu þeir þat, er þeim var bodit. En þegar er vidsmiorit kom a sio, þa kyndiz elldr mikill a sionum, ok brann vida. En er þeir stǫrdu a undr þessi, þa var skipit horfit, þat er i moti þeim for, en þeir helldu fram for sinni ok fundu Nicholas ok mælltu: «Sannliga ertu sa, er oss syndi mikit undr a sæ ok leystir oss fra vælum diǫfuls.» En er Nicholas heyrdi þat, þa þackadi hann þat gudi, ok kendi þeim vel at lifa sitt lif ok treystaz vardhalldi guds, þess er einskis lætr meir freista en standaz ma. En þeir toku blezan af Nicholasi ok foru til heimkynna sinna.

10. Vikingar ok styrialldarmenn gerdu ofrid a landi þvi, er Frigida heitir; þa sendi Constantinus konungr .iii. hǫfþingia i moti

þeim med miklu lidi, en þeir eru nefndir Nepocianus ok Ursus ok Eliveus, en þeir foru a skipum fra Miklagardi, unz þeir qvomu til hafnar þeirar er Adriaticus heitir, en su er litlu meir en .iii. milur fra Mirrea borg. En er eigi var byrr at sigla, þa gengu nôckurir menn af skipi sva sem at matkaupum, en þeir gerdu landzmônnum oskil ok toku at heria. En er Nicholas vard varr vid þat, þa for hann skyndiliga til skipa at[1] bidia fridar lydnum. En hôfþingiar ok sva adrir lutu byskupi, er þeir sa hann. En Nicholas spurdi þa, hverir þeir væri, edr hverr þa sendi, edr hvert þeir færi. Þeir sogdu: «Fridarmenn erum vær, ok sendi oss Constantinus konungr af Friggialandi at stôdva ofrid, en vær bidium þik, at þu bidir fyrir oss vid gud, at hann greidi fôr vora.» En Nicholas bad þa, at þeir færi til borgar med honum ok kæmi til kirkiu ok tæki blezan af honum. En er hôfþingiar reyndu heilagleik byskups, þa bônnudu þeir skipverium sinum at heria a landzmenn. En er þeir rædduz þetta vid, þa qvomu menn or borg ok mællto vid Nicholas: «Ef þu værir innan borgar, fadir, þa mundi eigi .iii. saklausir til dauda dæmdir i dag.» Nicholas mællti: «Fyrir hveria sôk eru þeir til dauda dæmdir?» Þeir sôgdu: «Domandi hefir tekit fe til hôfuds þeira, en allr lydr leitar þin ok ma eigi finna.» En Nicholas vard ryggr, er hann heyrdi þat, ok spurdi, ef þeir lifdi, er dæmdir voru. En honum var sagt, at þeir lifdi, en þa voru þeir til hôggs leiddir ut or borginni. Þa rann Nicholas þangat, er þeir voru leiddir ok stodu bundnir, ok voru andlit þeira dukum hulit, en einn madr stod med brugdnu sverde buinn at hôggva þa. En er Nicholas kom þar, þa tok hann or hendi honum sverdit ok kastadi lang(t) i brott, sidan leysti hann bônd af þeim, er fyrirdæmdir voru, ok leiddi þa til hus iarlz þess, er Eustasius het. En er dyrvordr sagdi Eustasio iarli, at Nicholas var kominn, þa geck hann ut þegar i moti honum ok villdi luta honum. En Nicholas bannadi þat ok mællti: «Þu vigamadr, fyrir hvi þordir þu at koma i augsyn mer fundinn at sva morgum glæpum? Einga likn mun ek veita þer, helldr mun ek segia konungi, hversu þu skipar edr hveria glæpi er þu gerir.» Þa fell iarl til fota Nicholasi ok mællti: «Reidztu eigi drotni þinum, ok vertu þo linmodr ok lyd enu sanna, þviat ek villdi eigi þvisa, helldr .ii. hofþingiar Eudoxius ok Simonides. Nicholas mællti: «helldr gull ok silfr, er þu tokt til hôfuds þeira.» Þa badu hertugar, er fra skipum voru komnir, at Nicholas veitti likn iarli,

[1] ok *Cd.*

en hann gerdi sva ok leysti ena saklausu menn .iii. or bandi. En hertugar atu ok drucku med byskupi ok toku blezan af honum; en sidan foru þeir a Friggialand, er þeim gaf byr, ok gerdu þar frid orrostulaust ok foru sidan aptr til Miklagards. En er konungr spurdi, at þeir hôfdu sigr, þa vard hann feginn ok for sialfr i moti þeim med miklu lidi, ok var vegsamliga vid þeim tekit, ok hofdu þeir mikenn metnad af konungi.

Þa toku nôckurir menn at ôfunda þa vid hann, ok leitudu saka i gegn þeim ok mattu eigi finna. Þa qvomu þeir til mals vid greifa þann, er Ablavius het, ok hetu þeir at gefa honum gull mikit, ef hann rægdi hertugana vid konung. En hann vard feginn fevon þeiri ok for til mals vid konung ok mællti: «Mikil ostiorn geriz i velldi þinu, konungr, þviat þeir hertugar, er þu sendir a Friggialand, bera fe undir rikismenn ok heita miklum fridendum ok rada þik or landi; en er ek vard varr vid þat, þa var eg skylldr at segia þer, konungr, en þu ger sidan sem þer likar.» Þa reiddiz konungr ok let setia i myrqvastofu hertugana, sva at þeir qvomu hvorki fyrir sik ordi ne eidi. En er nôckura stund frestadiz drap þeira, þa qvomu rogmenn ok mællto vid greifann: «Fyrir hvi settir þu þa i myrqvastofu ok letz þa lifa? Winir þeira munu tægia þeim ok leida þa or myrkvastofu ok setia oss i þeira stad. En er Aflavius greifi heyrdi þat, þa for hann enn til mals vid konung [ok qvad[1]: «Eigi lata hertugarnir enn af illum radum sinum, þviat menn koma til myrqvastofunnar um nætr ok hafa mal af þeim.» Þa mællti konungr, at hôggva skylldi hôfud af þeim þa ena somu nott. Greifinn vard gladr, er hann heyrdi þetta, ok geck ut or hôll ok mællti vid myrqvastofuvordinn: «Þessa .iii. menn, er þu hefir at hallda, bu þu til dauda a þessi nott.» Myrqvastofuvordr vard ryggr vid þat ok kom til þeira ok mællti med grati: «Er drottnar minir, ek villdi vid ydr mæla, en hræzla dauda ydars ryggir mik, ok ma ek eigi mæla vid ydr, þviat konungr hefir sva bodit, at er skulit deyia a þessi nott.» Þa urdu hertugarnir ryggir af hræzlu dauda ok iosu molldu i hôfud ser ok mællto med tarum: «Hvat hôfum vær sva illt gert, at vær se(m) eigi verdir at koma ordi ne eidi fyrir oss, adr vær deyim.» En er þeir mællto þetta med miklum ryggleik hugar, þa mintiz Nepocianus, hversu heilagr Nicholas hafdi fordum leysta menn fra dauda saklausa, ok mællti med tarum: «Þu heilagr drottinn ok eilifr konungr gud, upphaf veralldar lioss ok skapari allra hluta,

1 [ qvad hann *Cd.*

miskunnadu oss þrælum þinum ok leys oss i taknum þinum, sva sem þu leystir .iii. menn saklausa fyrir þræl þinn Nicholas.» En er hann hafdi þetta mællt, þa kôlludu þeir allir samt a enn helga Nicholas ok mællto sem einum munni: «Þu milldr iatari guds, makligr allrar gôfganar, þu enn trausti þræll himnakonungs Nicholas, þottu sier oss fiarri at likam, vertu þo nær bænum vorum, ok leys oss or haska, sem þu leystir fyrr þria saklausa menn, at vær megim enn sia þik ok gera þackir fyrir godgerning þinn.»

En er þeir luku bæn sinni, þa vitradiz heilagr Nicholas Constantino konungi i svefni a þeiri stundu ok mællti: «Constantine, ris þu upp skiott ok lat utleida or myrqvastofu .iii. hertuga, þa er þu lez þangat leida, þviat þeir eru saklausir ok hafa ecki þess gert, er þeir se dauda verdir. En ef þu vill fyrirlita bodord mitt, þa mun ek bidia drottin minn Jesum Crist, ok mun hann vekia orrostu i gegn þer, ok munu dyr slita hræ þin.» Konungr vard hræddr ok sagdi: «Hverr ertu sva diarfr ok mattugr, er um nætr þorir inn at ganga i hôll mina?» Nicholas svaradi: «Ek em Nicholas, ok er ek Mirrea borgar byskup.» Þa syndiz hann ok Aflavio greifa ena somu nott ok mællti vid hann: «Þu illr domandi, fullr flærdar ok lygi, ris upp þu skiott ok leid or myrqvastofu hertuga þa, er þu rægdir, en ef þu gerir eigi þat, þa mun ek bidia himnakonung, at hann lati þik falla i sut, ok muntu vella môdkum sialfr ok ôll hiu þin.» Greifinn spurdi: «Hverr ertu er þat mælir?» «Ek em Nicholas þræll Jesus Cristz Mirrea byskup.» En konungr reis upp þegar, er hann vaknadi, ok sendi ord greifanum, ok sagdi hvorr ôdrum draum sinn. En annan dag eptir let konungr leida hertugana or myrqvastofu ok leit til þeira reidiliga ok mællti: «Segit er mer, vesalir menn, hvar namud er fiôlkyngi til þess at hræda oss um nætr med draumaskrimslum ok sionhverfingum?» En er þeir svôrudu eigi fyrir hræzlu ok stodu neigdu hôfdi, þa spurdi konungr tysvar edr .iii. ens sama mals. Þa sagdi Nepocianus: «Þu enn milldi konungr, er drottinn ert allz þessa heims velldis, en vær þrælar þinir hôfum hvergi fiôlkyngi numit.» Þa mællti konungr: «Segit er mer, ef er vitit nôckurn byskup þann er Nicholas heitir.» En er þeir heyrdu nafn heilags Nicholas, þa felldu þeir tar fyrir fagnadi ok kolludu a Nicholas, at hann tædi þeim ok leysti þa fra dauda. Konungr mællti vid þa: «Leggit nidr hræzlu ok segit mer, hverr er sia Nicholas, sva heilagr ok milldr ok rettlatr ok sva nalægr gudi, at slika hluti ma gera?» Þa sôgdu þeir konungi allt þat, er þeir hôfdu sied ok heyrt fra

helgum Nicholasi. En konungr mællti vid þa: «Farit er ok þa ok gerit þackir gudi ok enum helga Nicholasi, þeim er ydr leysti fra dauda i bænum sinum, ok færit honum fornir þær, er ek mun senda honum, þat er gullritin bok ok .ii. kertistikur or gulli ok dryckiarbolli gerr af gulli ok dyrligum gimsteinum; berit honum ord min til þess, at hann bidi fyrir oss vid gud drottin vorn, þann er gerir takn a himne ok iȯrdu.» Þa foru þeir, unz þeir qvomu til Mirrea borgar ok fundu Nicholas ok færdu honum konungs giafir ok sogdu honum alla hluti, þa er gerdiz(!) um hag þeira, en Nicholas hof augu sin til himna ok þackadi þat gudi. Sidan foru þeir heim fagnendr ok lofudu drottin Jesum Crist.

11[1]. A nȯckurri tid kom kona ein til kirkiu, þar er Nicholas var inni a bænum, en hon færdi þangat son sinn diȯfulodan, þann er klædi reif ok beit af ser, ok lagdi hon hann fyrir fætr helgum Nicholasi ok mællti: «Miskunnadu, þræll guds, veslingi syni minum, er qvelz af diofli.» Þa tok Nicholas i hȯnd honum ok bles i andlit honum, ok flydi þegar ohreinn andi fyrir guds crapti ok verdleikum heilags Nicholas, ok for sveinn heill heim med modur sinni fagnandi. A annarri tid kom madr med konu sina oda til munklifis heilags Nicholas ok fell til fota honum ok mællti: «Heilagr guds þræll, hialp þu þessi konu, er þungliga qvelst af diȯfli.» En þegar er Nicholas bad fyrir henne, þa rak hann a brott ohreinan anda fra henne, ok for hon heim til huss sins dyrkandi gud. Enn var siukr madr færdr helgum Nicholasi um langafȯstu, en sa madr var þornadr i ȯllum lidum ok matti sik hvergi hræra, en þeir er honum fylgdu, badu Nicholas bidia fyrir honum, at hann mætti heilsu fa. En Nicholas smurdi vigdu vidsmiorvi enn siuka ok bad fyrir honum ok gerdi heilan, ok tok hann blezan af Nicholasi ok for heim til hus sins lofandi gud. Enn var odr madr leiddr til munklifis heilags Nicholas, sa het Timotheus, sa hafdi fallit opt i brot ok lostit hofdi sinu vid steina, ok fell vogr ok madcar or hȯfudsarum, en þeir menn leiddu hann fyrir Nicholas ok badu, at hann skylldi gefa honum heilsu ok mællto: «Nicholas þræll guds, lettu sott þessa manz, ok bid fyrir honum, at gud miskunne honum.» En Nicholas signdi hann ok leysti hann af allri sott ok sendi hann heilan heim fagnanda ok lofanda gud.

12. En er Nicholas skein i slikum iarteinum, þa tok hann banasott. En er hann la i reckiu, þa kom til hans kona tungl-

[1] Iarteinir ens helga Nicholas byskups *Overskr.*

siuk, su het Eugenia, hon bad hann veita ser heilsu. En Nicholas bad fyrir henne, ok tok hon þegar heilsu. En guds þræll Nicholas sa andlat sitt nalgaz, ok var hann þa þrasamliga a bænum, en hann bad þess drottin, at hann sendi eingla sina a mot ônd hans. En er hann lauk bæn sinni, þa sa hann eingla koma til sin, ok hneigdi hann hôfut sitt ok skryddi sik crossmarki ok sông enn þrettuganda salm i salltara, unz at þvi versi kom, er sva mælir: i hendr þinar, drottinn, fel ek anda minn, þu gerdir mik, drottinn minn, gud minn. Er hann hafdi þat sungit, þa tok hann corpus domini ok blezadi presti sinum ok lærdum mônnum, þeim er hia stodu, ok hvarf hann til þeira. En sidan andadiz hann, ok toku einglar ônd hans ok baru til eilifrar dyrdar. En er heilagr Nicholas var andadr, þa var allr Mirrea borgar lydr i mikilli ogledi. Lærdir menn, munkar ok allr lydr karla ok qvenna fylgdu liki ens helga Nicholas ok gretu ok sôgdu sik mist hafa ens milldazta fôdur, er[1] hlifskiolldr var allz herads. Þa kom þangat margr lydr eigi at eins or enum næstum borgum helldr ok or ôllu herade, þviat allir hôfdu notit iarteina hans ok godgerninga, medan hann lifdi. En likami hans var lagdr i steinþro ok buit um dyrliga, sem vera atti. En hann synir nu margar iarteinir, sva sem þa er hann lifdi i likam, ok veitir hann eigi at eins þar, er hann er grafinn, helldr ok hvervetna i heime, þar er a hann er heitit. En or steinþro hans fliota .ii. heilsubrunnar, vidsmiors brudr af hofdi, en annarr brunnr vatz af fotum, ok fa heilsu siukir menn, er þvi vidsmiorvi eru smurdir edr af þvi vatni bergia. A nôckurri tid vard byskup einn rekinn fra byskupsstoli sinum at radi Mirrea borgar greifa fyrir ôfund manna, en þegar er hann var utlægr[2] gerr, þa draup eigi vidsmior ne vatn or steinþro Nicholas byskups til heilsu siukum mônnum; en er hann kom aptr, þa gafuz ôllum guds vinum margar iarteinir, er þangat sottu.

13. Enn eru nockurar gamansamligar iarteinir at segia fra helgum Nicholasi. Þa er vikingar komu af landi þvi, er Affrica heitir, ok heriudu vida ok brendu bæi, þa fann heidinn madr i husi nockurs cristins manz likneski heilags Nicholas skrifat a tabulo, ok gerdi eigi segia lagsmonnum sinum til þessa fundar. En er hann kom þar, er cristnir menn voru, þa syndi hann einum þeira tabulum ok sagdi, hvers likneski þar væri markat. En er likneskit sa cristnir menn, þa mællto þeir med tarum: «Þetta er likneski ens helga Nicholas, er biart er fyrir gudi ok monnum i

1 ok *Cd.* 2 utlætr *Cd.*

morgum iarteinum, ok sannar hann þat i taknum, at hann lifir med gudi eptir dauda.» En er enn heidni madr heyrdi þetta, þa fal hann likneskit ok let þat ecki i skipti koma, en sa var audigr madr ok var tollari. En er hann var heim kominn til husa sinna, þa setti hann likneskit um dag yfir dyrr hus sins, þar er gull hans ok silfr var allt inni ok dyrlig klædi, er hann atti, ok mællti vid likneskit: «Nicholas, vardveittu hus þetta, þviat ek a naudsyn til fra at fara.» En er hann hafdi þetta mællt, þa geck hann i brott fra opnu husinu, sva sem hann hefdi þar sett margan vardhalldzmann. En þiofar voru nær husino ok sa husit opit, sva at eingi vardveitti, ok foru til husins ena sômu nott ok toku i brott gull[1] ok silfr ok allt, þat er femætt var inni, en likneskit eitt var eptir, þviat þat var sett ut fyrir dyr. En er enn heidni madr kom heim ok misti fiar sins, þa vard hann ryggr ok leit til likneskis grimmum augum ok mællti vid þat sem vid lifanda mann: «Þu Nicholas, ek hugdi þik vera godan vardhalldzmann fiar mins, hvat gerdir þu, gialltu mer fe mitt, ella mun ek beria þik.» En er hann mællti þat, þa tok hann svipu ok bardi likneskit; en er hann var modr af þvi, þa mællti hann: «I elld mun ek þer kasta, ef þu gelldr mer eigi fe mitt.» En enn milldazti Nicholas leit miskunnar augum a likneski sitt, ok kom skyndiliga þangat, er þiofarnir skiptu feingi þvi, er þeir hofdu tekit or husi ens audga manz, ok mællti Nicholas vid þa: «Hvat gerit þer, vesalir, vitit er eigi, at ek var þar, þa er er stalud þadan, ok sa ek allt þat, er er tokud or husinu.» Ok skyrdi hann fyrir þeim mikilleik þess, er þeir hôfdu tekit, ok mællti hann vid þa: «Þat skulut er vita, at ek mun gera augliosan stuld fyrir ollum monnum, nema er berit aptr allt þat, er er tokut þadan, þviat mer var þat sellt til vardveizlu, ok var ek bardr saklaus fyrir glæpi ydra; af þvi mun ek eigi vægia ydr, helldr mun ek selia ydr til dauda a morgin, nema er latit at radi minu.» En er þiofarnir sa, at þeir voru fundnir at stuldi, þa hugdu þeir vera bæiarmann nôckurn þann, er mællti vid þa, ok hræddu*z* þeir daudann ok baru aptr þat, er þeir hofdu stolit, ena sômu nott til hus ens audga manz. En er hann kom ardegis til huss sins ok fann alla eigu sina, þa er hann hafdi mist, þa felldi hann tar fyrir fagnadi ok mællti vid likneskit: «Þu heilagr Nicholas, trur ok rettlatr, milldr ok miskunnsamr þræll ens hæsta guds, mikill ok mattugr ok nalægr gudi odaudligum konungi, þeim er þu þionadir, medan þu lifdir, ok hefir þu nu tekit velldi af honum at gera

[1] gullr *Cd.*

slika hluti, sem þu synir mer heidnum manni; en fra þessi stundu mun ek trua a Crist ok þik.» Þa tok hann tru ok hiu hans ǫll, ok let hann kirkiu gera til vegs helgum Nicholasi ok þionadi gudi ok helgum Nicholasi alla sina æfi sidan. Þa tok nafn heilags Nicholas at kynnaz sva heidnum monnum, at þeir margir gǫfgudu hann, er eigi hofdu skirn.

14. Einn audigr bondi var gǫfugr at þessa heims audæfum, sa var vanr a hverium misserum at[1] koma til Mirrea borgar ok gofga helgan Nicholas, en hann het þvi a nockurri tid at gera gullker eitt dyrligt ok gefa þat til kirkiu Nicholas. Þa heimti hann til sin enn kænsta smid ok selldi i hǫnd honum gull mikit ok gimsteina ok sagdi, hvat hann skylldi or gera. En smidrinn tok vid gullinu ok gerdi kerit, sem hann kunni vandliga; en sva tædi Nicholas honum at smid þessa gullkers, at hann undradiz sialfr handaverk sitt ok þottiz ecki smidi iafnvel gert hafa. En er gullkerit var gert, þa selldi smidrinn þat buandanum, en hann gallt smidnum verdkaup fyrir smidit, ok lofadi hann miog smidit. En sidan lagdiz honum eigingirni a kerit, ok nenti hann eigi at gefa þat Nicholasi, sem hann hafdi heitit. Þa heimti hann enn til sin enn sama gullsmid ok selldi honum slikt gull ok gimsteina sem fyrr ok bad hann gera annat likt enu fyrra, ok matti (hann) eigi. Þa kom hann ok sagdi bondanum, at hann matti eigi af gera kerit, en bondi hellt þo enni somu eigingirni sinni ok ætladi at færa helgum Nicholasi gull þat ok gimsteina, er smidrinn matti eigi kerit or gera. En er ad þeiri tid kom, er hann var vanr at sækia helgan dom Nicholas, þa ste hann a skip, ok for med honum kona hans ok morg hiu hans, ok gaf þeim þegar byr til siglingar. En er þeir sigldu a midium firdi, þa þysti bondann, ok bad hann son sinn færa ser dryck i þvi enu dyrliga keri, þviat honum þotti kerit svo gott, at eingi skylldi a þvi taka utan kona hans ok sonr. En er sveinninn villdi blanda vatni vid vin ok seildizt utan bords, þa fell gullkerit utan bordz, ok hann sialfr, er hann seildiz eptir kerinu; en skipit var fullskrida, ok bar vindr þat þegar langt i brott fra sveininum, sva at eigi var von, at honum mætti biarga. Þa hafdi rǫng agirni þat, er makligt var, en bondi hellt þo framm for sinni, sem stofnad var, ok for þegar til kirkiu Nicholas, er hann kom at landi, ok lagdi gull þat ok gimsteina yfir allteri hans, er hann ætladi at gefa fyrir gullkerit; en þat hraut þegar langt fra allterinu, sem þvi væri kastad med mikilli reidi. Þa idradiz

1 ok *Cd.*

bondi syndar sinnar ok sagdi, hversu hann hafdi gert, edr hversu hann hafdi lagt aptrmund a gullkerit, þat er hann het at gefa Nicholasi, edr hversu hann hafdi i þeiri for hormuliga mist sonar sins ok gullkersins. En er hann hafdi þetta allt sagt med tarum, þa bad hann alla, þa er þar voru, bidia fyrir ser, ok fell sialfr til bænar ok het þvi, at hann mundi mikinn hlut eigu sinnar gefa enum helga Nicholasi, ef hann gylldi honum son sinn. En er hann hafdi þetta heit einradit fyrir ser, þa geck sonr hans inn i kirkiu, sa er a midium firdi stôck utan bordz ok hann hugdi daudan vera, ok hafdi hann i hendi ser gullkerit heillt. En er fadir hans ok modir sa hann, þa urdu þau fegin ok gerdu þackir gudi ok enum helga Nicholasi. En sveinninn sagdi, at gôf(ug)ligr alldradr madr kom at honum, þa er hann for utan bordz, ok bar hann i fadmi ser til landz ok hvarf þegar or augliti hans. En er hann sagdi þetta, þa þôckudu allir gudi ok enum helga Nicholasi þær iarteinir, er gerduz, en bondi leysti af hendi heit sitt ok gallt Nicholasi gullkerit ok margar adrar godar giafir, ok for sidan gladr til heimkynna sinna med ollu sinu lidi ok lofudu gud.

15. Kaupmadr nôckurr var sa, er mikinn aud hafdi æxtan i kaupum sinum, en sidan geck hann i dryckiur ok eyddi aurum sinum i morgum vanhôgum, unz hann vard valadr um sidir. En er hann skammadiz at verda at fyrirsion fyrir voladi, þa bad hann gyding nôckurn audgan midla aura vid sik, at hann mætti þvi veria til avaxtar ok firra sik voladi. En er gyþingrinn trudi eigi cristnum manni, þa beiddi hann nôckurs i ved fyrir fe sitt. Þa mællti enn cristni madr: «Ecki hefir ek at leggia i ved, nema þu vilir taka helgan Nicholas handsalsmann fyrir mik.» Gyþingrinn svaradi: «At þvi er margir menn segia ok iarteinir hans bera vitni, þa trui ek þvi, at hann se godr madr, ok mun ek selia þer feit, sem þu beidir, i hans trausti ok handsôlum, þviat ek hefir fregit, at hann var trur himnagudi, ok væntir mik, at hann muni mik eigi væla, ef ek truir honum.» Þa gengu þeir badir til kirkiu Nicholas, ok lagdi enn cristni madr hendr sinar yfir allteri ok mællte: «Þetta allteri sel ek þer i ved ok sialfan Nicholas handsalsmann fyrir mik, fyrir hans augliti heit ek at giallda þer i nefndum degi þat, er þu veitir mer nu i naudþarfir.» Þa for gydingrinn heim ok selldi enum cristna manni gull slikt, sem hann villdi. En heilagr Nicholas tædi honum sva, at a skamri stundu var hann iafnrikr, sem hann hafdi verit. En er at eindaga kom, ok gydingrinn heimti fe sitt at honum, þa bad hann, at færa

skylldi eindagann, ok het at giallda allt sidar. En gydingrinn veitti þat, er enn cristni madr bad. En er þrysvar var færdr eindaginn, sem enn cristni beiddi, þa kom gydingrinn at heimta aura sina. En enn cristni madr gleymdi godgerningi þeim, er honum var veittr, ok sagdi hann golldit hafa allt gydinginum. En er þeir urdu eigi sattir um þetta, þa sagdi gydingrinn domôndum, hvat hann atti at heimta at enum cristna manni, ok bad hann þa, at þeir skylldi duga honum, at hann nædi fe sinu. En enn cristni þrætti ok qvaz golldit hafa þat, er hann heimti. Þa dæmdu domendr þat, at hann skylldi giallda gydinginum þat, er hann heimti, edr vinna ella eid, at hann hefdi golldit. Þa mællti gydingrinn: «Þvi trui ek, at Nicholas er tryggr, en undir hans trausti selldi ek gull mitt þessum manni, sem mik vill væla; en ef hann vill sveria yfir allteri þvi, er hann lagdi i ved, þa mun ek litils virda fiarskada minn, þviat ek veit, hverium ek truda, ok mun sa eigi væla mik.» Þa gerdi enn cristni madr nyian staf holan innan ok grof þar i gull slikt, sem hann atti at giallda gydinginum. En er at þeim degi kom, er hann skylldi eidinn vinna, þa foru þeir badir til kirkiu Nicholas, ok hafdi hvortveggi med ser votta sinna laga. En er þeir qvomu til kirkiu, þa bad enn cristni gydinginn taka vid stafinum, er gullit var i folgit, ok ætladi hann ser þat til eid-hialpar, er hann hafdi gydinginum sellt i hond þat, er hann heimti. En ecki ma mannlig slægd i gegn guds radi edr heilagra manna. Gydingrinn tok vid stafinum ok vissi eingrar slægdar von; en enn cristni madr lagdi hendr sinar a allteri ok sor ohræddr, at hann hefdi sellt i hond gydinginum allt þat, er hann heimti. En er hann hafdi eid unninn, þa for (hvorr) til sins heimkynnis. En er enn cristni madr kom midleidis, vard honum sva hôfugt, at hann vard þar ath leggiaz nidr, sem hann var kominn a midri gôtu. En er hann var þar sofnadr, þa foru menn þa leid med vagnhlass mikit, þat er ôxn voru fyrir beittir; en er þeir qvomu at, þar er hann svaf, þa mattu þeir eigi vekia hann ok eigi vikia vagninum, en yxninir hliopu framm, sem þeir væri keyrdir, ok drogu vagnenn yfir hann þveran, ok var hann allr lamdr þegar ok eyrendr; en stafrinn brotnadi, er hann hafdi lagdan hia ser. Þa kom upp fyrir domendr ok alþydu, hveria slægd hann hafdi haft vid gydinginn, ok tok gydingrinn vid gulli sinu at radi domanda, er hann kendi stafinn ok margir adrir. Sidan rann gydingrinn skyndiliga til kirkiu Nicholas ok mællti, sva at margir heyrdu: «Þackir geri ek þer, guds madr Nicholas, þviat þu hefir truliga golldit mer þat, er

ek sellda at þinu trausti; en fyrir þvi attu vart mer overdum godr ok lezt eigi vælamann þenna bleckia mik, þa mun ek gofga þik hedan i fra sem enn hæsta guds vin. En ef þu veitir mer af crapti þins verdleiks, at þessi slægdarmadr risi upp ok lifni, þa mun ek trua a gud þinn ok hiu min ôll ok þeir menn allir, er ek ma radi vid koma.» Ok er hann hafdi þetta mællt, þa geck sa inn i kirkiu, er daudr hafdi verit, ok fell til iardar fyrir allteri heilags Nicholas ok idradiz þess, er hann hafdi gert, ok bad ser liknar med tarum ok for heim til hus sins. En er gydingrinn sa þat, at hann var upprisinn ok þar kominn, þa vard hann hardla feginn, tok hann þa tru ok ôll hans hiu, ok þionadi gudi avallt ok helgum Nicholasi.

16. Þa er gud almattigr villdi efla miskunn sina ut i Bar ok vitia þeirar borgar med skini milldi[1] sinnar, þa gerdiz þat, at þadan foru menn .iii. kaupskipum til Anþeckiu. En er þeir komu a leid, þa redu þeir um þat, hversu þeir skylldu a brott taka helgan dom heilags Nicholas or Mirrea borg. Sidan hvôtudu þeir kaupfôr sinni ok selldu varning sinn skyndiliga ok foru sidan til Mirrea borgar. En er þeir qvomu til hafnar, þa foru .vii. menn (ens) .v. tigar upp af skipum, en allir adrir voru eptir at vardveita skip vid vikingum, er þar hôfdu grimliga heriat. En þeir er af skipum hôfdu gengit, qvomu til kirkiu Nicholas ok fundu þar .iiii. vardhalldzmenn ok mællto vid þa; «Synit er oss, brædr, hvar heilagr Nicholas hvilir.» En hinir hugdu, at þeir spyrdi þess af þvi, at þeir villdi þar bidia fyrir ser edr gefa þangat fe, ok syndu, hvar Nicholas hvildi. Þa geck einn þeira at ok laust hamri a golfþilit yfir likam heilags Nicholas ok braut i sundr marmarasteininn, en adrir grofu, unz þeir fundu steinþro heilags Nicholas; en þa þordu þeir eigi at briota steinþrona ok ugdu, at þeir mundi fyrir taka. En sa er fyst red til at briota golfþilit, hann laust ok fyst a steinþrona, þviat hann lagdi mestan hug a at koma framm þvi verki. En er upp la(u)kz steinþroin, þa vard sva dyrligr ilmr, at allir hugduz i paradisu vera, þeir er hia voru. En þeir toku likam heilags Nicholas or steinþronni ok lôgdu i duk hreinan, er prestr nockurr atti, er i þeiri ferd var. Sidan toku þeir vopn sin ok foru skyndiliga til skipa sinna med helgan dom Nicholas ok lofudu gud. Sidan gaf þeim byr fra landi, ok voru þeir uti .xx. daga, unz þeir komu heim i Bar. En likamr heilags Nicholas var a brott tekinn or Mirrea borg, þa er .xi. dagar lifdu manadar þess er

1 milldar *Cd.*

Aprilis heitir, en hann kom i Bar enn .ix$^{da}$. dag manadar þess er Maius heitir, en þa var drottinsdags aptan, ok var hann borinn af skipi til kirkiu heilags Benedictus, en su kirkia var i munklifi þvi, er sa aboti red fyrir, er Elias het. En þat var .m. vetra ok .iii. vetrum ens .ix$^{da}$. tigar eptir burd Crisz. A þeiri nott ok enn næsta dag eptir urdu þar heilir af allzkyns sottum .vii. menn ens .v$^{ta}$. tigar, en þeir voru allir þar borgarmenn. En enn .iii. dag var borinn likamr ens helga Nicholas þangat, sem nu er kirkia hans ger, en þangat komu or môrgum borgum ok bæíum hvern dag siukir menn, ok urdu þar heilir a þeiri viku .xv. menn ok .c., ok fær þar otal manna hvern dag heilsu i nafni drottins vors Jesus Cristz, þess er med gudi fedr ok helgum anda lifer ok riker einn gud i heilagri þrenningu um allar alldir allda. Amen.

---

## APPENDIX.

### 1.

(*2 Pergamentblade 655 qv. III; jvf. ovenfor S. 38*$^{1}$ *ff.*)

Þa sagþi bvandinn þeim ollom, es hia voro, hvat hann hafþi gort eþa hverso hann hafþi eignat ser gollkerit, þat es hann hafþi gefit Nicolao, oc talþi sik sekian oc syngan, oc sagþi hann meþ tarvm tion sonar sins oc gollkers, oc baþ hann alla biþia fyrir ser, þa es hia stoþo. Siþan het hann at gefa Nicolao mikinn hlvt eigo sinnar, ef hann gyldi honom aptr sonn sinn. Enn gyþs(!) iatere dvalþi eigi lęngi at høyra bøn hans, þvi at a þerri inni somo stvndo kom sonr hans i kirkio, sa es vtan borz hafþi stokit a miþivm firþi, oc hafþi hann i hendi sér gvllkerit heilt. Þa varþ faþir hans feginn oc moþir hans, oc allir þeir es þar voro, oc gorþo gvþi þakkir oc envm helga Nicolao. Enn sveinninn sagþi sva, at þa es hann kom niþr a se, at honom vitraþisc gamall maþr oc garfvgligr at alite oc sva at bvningi, «oc bar hann mik i faþmi ser til lanz, oc hvarf hann mer þegar,» qvaþ sveinninn. Enn bvandinn laysti af hendi heit sinn oc galt fagnanndi af hendi gollkerit,

þat es hann hafþi fyrr sparat, oc fór aptr siþan glaþr meþ syni sinom oc ollo liþi oc dyrkaþi gvþ i ollom iarteinvm, þeim er honom voro vęittar fyr helgan dom Nicolas.

Cavpmaþr vas einn avþigr, sa es miklo fe avddi i drvkkio oc i margri avra lógon, oc fann hann eigi, aþr hann vas orþinn miok sva ǫreigi. Enn es hann scammaþisc at verþa annarra berliga þvrfi, þa fór hann til gyþings neqqvers, es þar atti hvs scamt fra honom, hann vas avþigr at femunum, oc baþ kavpmaþrinn hann selia sér fe at lani oc hvga sva valeþe sitt. Enn gyþingrinn vildi eigi trva cristnum manni oc beiddi, at hann legþi grip neqqvern i veþ. Enn inn kristni maþr svaraþi: «Eki hefi ek at leggia i veþ, enn ef þv vill taka Nicolavm hansalsmann fyr mik, þa mon ek þat bioþa þér.» Gyþingrinn oc(!) svaraþi: «Vist trvi ek þvi, qvaþ hann, at Nicolavs se goþr maþr, sa es þv byþr mér at hansalsmanni, þvi at ek hefi hayrt sagt fra iarteinum hans, ok sva fra þvi at hann vęri avallt trvr himnagvþi. Af þvi mon ek selia þer fe at lani vndir hans travsti, ef þv vill, þvi at ek trvi þvi, at sva s(c)ynsamr maþr mvn eigi mik lata veltan verþa i sinv travsti.» Þa foro þeir baþir til Nicolavs kirkio, oc lagþi enn crist(n)i maþr hendr sinar yfir altara oc melti sva: «Þetta altera legg ek i veþ, oc byþ ek helgan Nicolavs handsalsmann fyr mik, oc heit ek i hans nafni at gialda þer a nef(n)dom degi alt þat, es þv veitir mér til hvggonar i þessa þyrft(!). [Enn þa[1] es enn cristni maþr het honom þvisa, þa seldi gyþingrinn honom gvll mikit at lani. Enn hann tok viþ fe þvi oc varþi til avaxtar, oc vas scamt at fresti, vnz hann varþ avþigr, sem hann hefþi fyrr verit. Enn es at eindaga kom, þa heimti gyþingrinn fe sit at honom. Enn enn cristni maþr baþ sér fresta oc lezk siþarr myndo gialda alt. Gyþingrinn gorþi, sem inn cristni maþr beiddi, oc þokaþi eindaganvm. Enn es ein[daginn] vas .iii^var^. forþr, þa kom gyþingrinn oc heimti fe sitt. Enn inn cristni maþr glømþi þa vin[atto, es] gyþingrinn hafþi veitt honom, oc varþ hann tęldr af slǫgþ diofvls oc sagþisk alt goldit hafa. Enn es þeir vrþo eigi a eitt sattir of féét meþ sér, þa sagþi gyþingrinn domondom, hverso enn cristni maþr helt fyrir honom fe þvi, es hann hafþi selt honom at lani. Enn enn cristni maþr dvlþi alz fiarins oc lézk goldit hafa alt þat, es gyþingrinn heimti. Þa dømþo domendr þat, at inn cristni maþr scyldi gialda gyþingi fé sitt, eþa vinna eiþ ella, ef hann þǫttisc alt gǫldit hafa. «Þvi mon ek trva, quað gvþingrinn, at Nicolavs er trvr, þótt sia maþr

[1] [ Þa Enn *Cd.*

vildi mik vela i trvgþ oc i hans trꜹsti. Enn ef hann vill eiþ vinna yfir altera þvi, es hann seldi mer i veþ, þa mon ek eigi rǫkia fiarscaþa minn, þvi at ek veitt, i hvers trǫsti ek selda gvll mit af hendi, oc mvn sa eigi vęla mik.» Siþan foro þeir baþir til kirkio Nicolavs gyþingrinn oc inn cristni maþr, oc vattar þeirra meþ þeim, sem lǫg voro til. Enn inn cristni maþr hafþi holaþan innan staf sinn oc fǫlgitt þar gvll þat, er hann atti at gialda gyþinginum oc hann heimti at honom. Enn es þeir komo baþir til kirkio, þa seldi inn cristni maþr i hond gyþinginvm stafinn meþ gvlli, sva sem þa mętti hann þess retligar sveria, at hann hefþi alt selt i hond gyþinginum, þat er hann atti honvm at gialda. Enn eigi es mannlig vitra ne slo(g)þ i gegn gvþi. En gyþingrinn tók viþ stafnum oc vissi eigi vanir þessar flęrþar, oc gingo inn baþir i kirkio Nicolꜹs. Siþan lagþi inn cristni maþr hendr sinar yfir altera oc sorþi sik ohredr, at hann hefþi hvernn eyri seldan i hond gyþinginvm, þann es hann atti honom at gialda, oc fór siþan glaþr a brꜹt, sva sem hann hefþi inn bezta eiþ vnninn. Oc fór þá hvarr til sins heimilis. Enn es inn cristni maþr fór sinnar leiþar, þa gorþi[1] honom hofvkt a miþri gǫto, sva at hann hvgþisc eigi mundo lifa, nema hann legþisc niþr oc somnaþi; oc gorþi hann sva ok lagþi hia sér staf sinn, þann es gollit vas i folgit. Enn es hann vas sofnaþr, þa foro menn meþ vagnhlass mikit þessa goto ena somo, es hann svaf, oc voro oxn beittir fyrir vagninn. Enn es vagnkarlarnir komo at, þar es hann svaf a gotonni, þa vildo þeir vekia hann, oc mattv eigi. Enn oxn hliopo fram hart, sva at hinir matto eigi yqqva vagninum af honom, oc vas hann þegar ǫrendr; enn stafrinn brotnaþi þegar, es la hia honom. Þa vas set, yfir hvi stafrinn hafþi bvit, oc vas þar gvll mikit, oc kom þa vpp fyrir alþyþv oc fyr domendr, hveria slogþ enn cristni maþr[2] hafþi fǫrt at honom meþ slǫgþ sinni. Þá rann gyþingrinn til kirkio Nicolꜹs oc męlte: «Þakkir gǫri ek þer, goþr maþr[2] Nicolꜹs, þvi at þv galzt mér gvll þat, es ek selda af þinvm trvnaþi. Enn alz þv ueittir mer overþvm sva mikla miskvnn oc lezt eigi sykera(!) geta veltann mik, þa mon ek heþan fra gofga[3] þik sem drottinn oc inn hesta gvþs vin. Enn ef þv vildir syna mer crapt verþleiks þins oc reisa af dꜹþa þenna slogþarmann, þa monda ek meþ ollo liþi minv oc af ollo afli gofga Crist þann, es þv þionaþir, oc snva ollom til cristinns siþar, þeim es ek metta raþi viþ koma.» Enn es gyþingrinn hafþi þetta melt, þa kom inn farandi i kirkio sa, es

1 fórþi *Cd.* 2 ᛘ. *Cd.* 3 ggofga *Cd.*

da*u*þr (hafþi) verit, oc fell till iarþar fyr altera Nicola*v*s oc gorþi iþron synþa oc baþ sér liknar fyr þat, er hann hafþi gort, oc feldi morg tór a bøn sinni oc fór heim siþan til innis sins. Enn gyþinngr tok þegar trv, oc hiv hans oll, oc fyrlét alla gyþinga villo oc vas avallt siþan uinr guþs oc gofgaþi Nicola*v*m.

Tha(!) es almattegr gvþ villdi vitia lyþs sins, þess es i Bór[1] es, oc pryþa alla heraþsbygþ meþ eno bi(a)rtasta liose mildi sinnar, þa gorþisc þat, at menn foro .iii. scipvm ka*u*pfor yr Bór til Anþekiu. Enn es þeir uoro komnir a fór, þa sca*u*t gvþ þvi raþi i hvg þeim, at þeir scyldi taka a bra*u*t likam Nicolavs yr Mirrea borg. Enn es þeir hofþo þetta raþ stǫfnat, þa hvotvþv þeir for sinni oc seldo varninng sinn scyndiliga oc ka*u*pto þat eit, es þeim vas na*u*þsynlict, oc heldo siþann scipum til Mirrea borgar. Enn es þeir vrþo landfastir, þa ginngo sia*u* menn ins fimta tigar af scipvm til borgarinnar, enn aþrir varþveittv scip þeirra viþ vikingom, es þar lago viþ land oc hęrioþo. Enn þér(!) es af scipom gingo, foro til þess, vnz þeir komo i borgena Mirreo oc i kirkio Nicola*v*s oc lvto altera hans, oc fvndo þar fiora eina varþhalzmenn oc melto viþ þa: «Syniþ oss, broþr, hvar heilagr domr es Nicola*v*s byscops.» Enn uarþhalzmenn hvgþo, at þeir myndi þar vilia a bǫnom standa, oc syndo þeim, hvar inn helgi Nicola*v*s hvildi. Þa tok einn af scipamonnom hamar i hond sér oc lavst hart a golfit oc bravt þegar i syndr marmarahello, þa er iafnt vas yfir helgom dome hans. Siþan grofo þeir iorþ, vnz þeir fyndo(!) steinthro(!) sva hvita sem snęr. Enn þeir oc(!) þorþo eigi at drepa i syndr steinthro oc vggþo, at þeim myndi neqvet til meins verþa, ef þeir gorþi þat. Enn einn þeirra, sa es ohręþnastr var, sa eki fyr þvi, þott honom yrþi neqquet til meins, oc la*u*st steinþrona ovan oc bra*u*t steininn, sva at vpp la*u*zk(!) oll steinþroin. Þa gorþi þar sva dyrligan ilm, at allir þottosk i paradiso komnir, þeir es hia stoþo. Enn steinþroinn vas fvll viþsmiors. Þa tóko þeir þaþan helgan dom Nicola*v*s oc logþo i hreinan dvk, es prestr neqqverr atti i for þeirra. Siþan toko þeir vapn sin oc foro til scipa sinna meþ helgan dom Nicola*v*s oc lofoþo crapt gvþs. Enn es þeim gaf byr, þa toko þeir til segls oc voro vti fiora togo døgra, vnz þeir komo aptr i Bør. Likami heilax Nicolavs vas a braut tekinn ór Mirrea borg, þa es .xi. netr lifþv Aprilis manaþar, enn hann kom i Bár inn niunnda dag þess manaþar es Maivs heittir, enn þat es sex nottom eptir Crvcis messo of varit. Enn þa vas drottinsdags aptann, es þeir komo til borgarinnar, oc

1 bórg *Cd.*

vas heilagr domr Nicolavs borinn af scipi til Benedictus kirkio, þar es fyr mvnklivi reþ abbati, sa es Elias het. Enn þa vas þvsvnd vetra liþin fra bvrþ Cristz oc .iii. vetr ens niunda tigar. Enn a þeirri nott oc annan dag eptir enn nęsta þa toko siav menn heilso ens fimta tigar af bonom oc verþleikvm heilags Nicolavs. Enn þeir voro allir innan borgar menn. Enn inn þriþia dag viko vas hann forþr þangat, sem nv es hann dyrkaþr, oc nv es honom kirkia gor. Þa kom þangat mikill fiolþi manna yr borgom oc bǫiom oc heroþom meþ sivka menn, oc toko þar heilso fimtan menn oc hvndraþ a þeirri viko. Oc taka þar margir hvern dag heilso oc verþa grǫddir af otalligom sǫttom i namfni drottins Jesus Cristz oc af verþleikvm heilags Nicolavs. Oc eigi þar at eins, es hann hvilir at likam, nema oc horvetnna þess, es a hans nafn es kallat, hvargi sem menn verþa staddir heimsins i haska eþa i sottom, eþa i hverregi m(e)insemi, þegar ef hann biþia miskunnar meþ rętto hvgscote, þa fa hvggvn sinna meina. Eigi ma menzkom manni avþvelt verþa at vita iarteinir hans allar, þar es iarteinir gorþþosc of hann, þegar es hann kom i þenna heim, oc scin sva i heilagri atferþ alla eve, at gvþ veitti honom hǫttvętnna þess, es hann baþ. Sva hefer drottinn gofgat hann, at hann gorþi hann hofþingia cristni sinnar oc gaf honom byscops tign þess i ǫmbon, es hann gaf gvþi alla foþorleifþ sina oc vildi sialfr engi metorþ hafa þessa heims. Enn siþan es hann varþ byscop, gorþisc sva mikill mǫttr at crafsti hans, at menn fingo likn meina sinna, þa es þeir kavlloþo á hann, þott þeir vęri a oþrom londom eþa miok i fiarrǫt, oc syndisc hann þeim, es a hann heto, stvndom vakondom enn stvndom sovǫndom, oc vas hann þo heima at stoli sinom sem aþr.

Vel hefir hann nafn sitt sannat, þar es hann heitir Nicolavs, þvi at þat es [1] at þyþa i várt mal sigr lyþs. Hvat se enn betr męlt, nema hann se sigr lyþs, fiorgiafi alz lyþs, þar es hann veitir þat fylting, at huerr vegr sigr a sinvm vandręþvm, es a hann heitr. Sannliga es sia enn helgi maþr sęll, es til sva mikils gǫþs kom i heim þenna, at hann matti sva styra vegsemþ heimsins, at gvþs aost vas avalt i briosti honom, oc hvgr hans girnþisc enscis nema himnescra hlyta einna, þott hann varkyndi iar(þ)ligvm mǫnnom aymþ sina. Sva stilti hann lifi sino, at hann sǫmþi meirr viþ heiminn enn aþrir helgir menn, þeir es ver vitom deili a, þvi at hann vas bętri bøna enn flęstir aþrir, oc vas dęll oc inn mildasti viþ alla goþa menn, þa vinato oc giafar at konongvm oc gofgom

1 et *Cd.*

monnom oc vas rikr viþ vanda menn. Enn þott hann vęri bvndinn i slikvm hlvtvm, þa varþveitti hann þo anliga vpplitningarlif sem einsetomvnkar oc savrgaþisc eigi i sinni syslo, heldr tok hann margfold lavn fyr erfiþi sitt. Makligr er heimrinn at gofga gvþs vini oc allra makligastr[1] viþ þa, es slika ahyggyo(!) oc erfiþi hafa drygt fyr honom sem inn helgi Nicolavs, es alla verǫld hefir prydda meþ siþom goþom oc iarteinagorþ bęþi i lifi sino oc eptir andlát. Sva vas hann orr oc miscvnnsamr, at hann dygþi heiþnum monnom oc syndi

2.

(*Pergamentblad i Norske Rigsarkiv; jvf. ovenfor S. 38 Cap. 15.*)

at fe oc atti hann bratt hvesvetnna gnott. Enn er sva (var) komit hans mali, at hann þottiz þa eigi meir fiar þurfa at afla, þa fecc hann þat sannreyntt sem mællt er, at ongvm er allz leð ne allz varnat; þvi at þat var honum veitt at afla fiarins ok verða mikils eigandi, enn hins var honum varnat, at vel helldiz a. Af þvi at þa var sva komit, at honum þotti ei(n)gis gæta þurfa, þa lagdiz hann i dryckior oc oga, oc var þat eigi minnr fra, hve sciott þa eydiz ok ferliga, enn þat hve sciott oc kænliga hann hafþi aflat. Fann hann þa sialfr sva fremi, er hann var alsnavdr vordinn, oc var engi kavpeyrir eptir, oc mioc þrotin atvinnan, oc hvgdi hann þa illa meðferþinni, þeiri sem vorþit hafði, oc sannadi(z) þa þat með honvm, sem mællt er, at eptir koma osvinnvm rad i hvg. Sa hann þa ser ecci annat fyrir liggia at sva bvnv nema vá oc vesolld, oc kviddi hann þvi mioc, sem eigi var kynligt, þviat hart er at hyggia til en verra at reyna. Leitadiz hann um þa a marga vega, hvat fyrir mundi liggia, oc toc hann siþan rad, at hann for a fvnd gyþings eins, þess er var vellavdigr at fe, sem þeir vorv iafnan gyþingarnir, hvar landa sem þeir ero, oc baþ, at hann mvndi lana honvm fe nockvt. En hann sagdiz vera kæn vid kavpeyri at fara oc kvad ser mvndv verda mikit til snvdar, ef hann lanaði honvm feit, oc kvaz honvm einkar vel giallda mvndo. En hann svarar gyþingrinn oc qvad ecci sva mikla trvleika vera a milli gyþinga oc cristinna manna, at hann mvndi honvm fe lana, nema hann fengi honvm annathvart veþ eþa vorzlvmann. Enn cristni maðr sagði: «Ek ma þer ecci veð fá, þar er ec em felavs, at sva bvnv, enn

1 magligastr *Cd.*

vorzlvmann mvn ec fa þer sva goðan, at vist er, at þv mvnt eigi þins missa.» Oc bar sva ravn á, at hann sagði sannara, en hann ihvgadi. «Hverr er sa, sagði hann gyþingrinn, er þu bydr fram til vorzlonar?» «Ek byþ fram, qvad hann, enn helga N. byskup, at hann scal i vorzlvnni vid þic.» Gyþingrinn sagdi: «Heyrtt hefi ek hans getit, oc þo at vid hafim eigi samtrvadir verit, þa ifa ek hann eigi goþan mann vera, oc ek hefi heyrdar margar oc storar hans iarteinir sagdar med sanni(n)dum. Nv mvn ek honvm iata til vorzlvnnar oc trva þvi fastliga, at ec mvn eigi mins missa, ef þv sver mer þat vndir hans trvnadi.» Þeir keyptv nv saman, sva at þeir gengo til kirkio oc til altaris ens helga N., oc lagdi enn cristni madr hendr sinar a altarit oc mælti sva: «Þetta altari legg ec þer i ved i ockrvm kavpvm, en ec heit þer þvi vndir trvnat ens helga N., at ek skal þer hvernn penning giallda eptir sannindvm, þann sem þv átt at mer.» Oc er þeir hofþo þetta at syst, þa forv þeir heim til hvsa gyþingsins, oc selldi hann honvm slict fé at lani, sem hann beiddiz. Var siþan (a qveðit), hve mikit gvll en cristni madr scylldi gyþinginvm giallda, oc scildvz þeir nv vinir, oc mælti hvarr vel fyrir avðrvm. Oc for enn cristni madr heim til herbergis sins oc vndi vel sinvm lvt. Enn er sa en cristni madr hafþi fengit ser nockvr(n) cavpeyri, þótt helldr væri at lani en at eiginorði þa fyst, þa tekr hann ena savmv iðn, sem hafdi vel hagnat fyrr, oc gafz honvm sem hveriom annarra, er a hittir a sin forlavg, at þa hagnar. Rez hann nv i kavpferþir, oc varþ en gott (til) penninga, oc toc sciotara voxt feinn en forsia eþa ra(d)vendi, þvi at þat þroadiz seint med honvm hvartveggia; hafdi hann ok (i) hellzta lagi ravn a þvi, sem drotinn segir i gvþspiallinv, at mangi ma tveim drotnvm senn þiona, oc verdr hann at hafna avðrvm, ef hann sæmir vid annan. Nv for honvm oc sva, at it fyrra sinn er hann fecc feit, þa eyddi hann þvi ollo[1] . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

borgvnvm vm Abrahams daga Sodoma oc Gomorra oc morgvm vm Moyses daga, oc opt hafa siþan margir tynnz vm þa env savmo savk. Nv þionadi hann þa it fyrra sinnit, er hann fecc feit, eptir fyst sinni rangri, enn eigi let hann hana þa drottna ser. Enn drotinn beiþ hann þolinmoðliga oc let hann eitt i moti koma, sem iafnan er vant eptir vanstillit at koma, feleysi ok fatæki. Enn it sidarra sinnit, er hann varþ mikill(!) fiarins eigandi, þa for hann ecci þverra fæti at, oc þionadi hann þa þeim, er drotinn kalla(r) Mamm-

1 *Her et Par Linier bortskaarne.*

ona i gvþspiallinv, er agirni diofvls kallaz; oc er þat sannligt, at agirni merkir helviti, þvi sva segir Salomon enn spaki, at þat verdr alldri fyllt ne avgv agiarnz mannz. Enn þenna glep let sia en cristni madr sva drotna, sem heyra ma i þeiri frasogn, er eptir ferr. Nv kom at þeiri tiþ, er gyþingrinn atti gialldit mællt af envm cristna manni, oc kom þa at vitia gialldsins oc heimti þa feit at honvm. Enn hann svarar vel oc baþ en nockvra fresta vm gialldit ok kvaz siþarr mvndo betr viðlatinn[1] vm giolldin. Oc let hann enn eptir þvi vera gyþingrinn, sem hann beiddi. Oc en i annat sinn bað hann fresta a oc kalladi ser þa miclo meira skipta, qvad þa storvm riþa mvndo, oc var sva oc enn sialfvm honvm til ofarnadar oc a(ll)drtila. Gyþingrinn let enn leidaz eptir hans vilia oc var þo nockvro tregari til. Enn er þav stef voro liþin, er giolldin voro mællt, þa heimti gyþingrinn feit oc letz þa hafa villia. Enn enn cristni maðr brazt vkvnnr þa við vm scylldina oc kalladiz golldit hafa eptir maldogvm, þa er hann hafþi heimt at honvm. Enn gyþingrinn sagdi, sem satt var, at[2] hann hafdi (engi) penning af golldit, ok hann hafdi avallt fresta a beitt vm giolldin þangat til, sem þa var komit. Oc er þeir hofdo noccvra stvnd þrætt vm þetta mál, en hvargi hafdi vitni til at sanna sitt mal, kæra nv þetta mál siþan fyrir fleirvm monnvm, oc var borit fyrir ena vitrosto menn i borginni oc þa, er forstiorar voro oc domarar. Segir gyþingrinn nv sina savgu sanna oc hve vel hann hafði i mot raði(t) við enn cristna mann, lanat honvm féit fyst, sem hann beiddi, enn vnnt honvm avallt siþan fresta vm giolldin þangat til, (er) hann hafþi beþit, oc þottiz hann af þvi omakligr at missa. Enn cristni maðr sagdi oc sina sogv, þa sem hann hafdi fyrir ser fest, oc kalladiz golldit hafa hvernn penning oc sagdi þat, at vitrir menn mætti þat at licindvm rada, at hann mvndi eigi allt saman hafa vilia teiti fiar oc micla scvlld. Oc er þeir hofdo a þa leid tiað tveggia vegna, sem nv var fra sagt, þa syndiz þat domvndom, at inn cristni maðr sannadi þat með eiþvm oc vitnvm, at hann hefdi allt fé af hendi golldit, þat sem gyþingrin atti at honvm. Hann gyþingrinn mællti vid mennina: «Baþir mvno vid, hvat vid hofvm vid mælz, þot viþ se(m) nv eigi baþir réttorþir i frasavgninni; þv lagdir mer i veð altari ens helga N. byscvps oc hetz yfir þvi altari vndir hans trvnat at giallda mer hvernn penning mins fiar, sva at mer licadi vel, enn ec trvi honvm sva fastliga N., at hann mvn mic eigi svikia lata i þesso mali, er ek hefi allan trvnat

1 vidlatann *Cd.* 2 af *Cd.*

við hann lagdan. Ef þv sver eid yfir þesso savmv altari vndir trvnat ens helga N. oc sannar sva þina savgv, at þv hefir mer allt golldit fe, þat sem ec hefi at þer, þa scal ek at sidr heimta fe at þer þadan ifra, at ek scal eigi illa kvnna eþa vid vna, ef hann (mvn) sva vera lata. Enn eigi trvi ek fyrr enn fram kemr, at sva verdi.» Slict er avmligt at heyra oc hormvligt, at gyþingrin vscirdr scylldi syna trvleik oc réttlæti, en cristinn maðr svic oc velar, oc kom þat enn hvarvm eptir, sem til verkadi . . .

---

## II.

*(Cd. Holm. 16 qv.; Cd. 638 qv., Codex Resenianus; Cd. 640 qv.; Cd. 643 qv.; Cd. 641 og 642 qv., de to sidste indeholde Fragmenter af 5 forskjellige Haandskrifter.)*

### Bref herra Bergs abota.

Ollum guds vinum ok sinum, þeim sem þenna bækling sia eda heyra, sendir brodir Bergr Sockason kvediu guds ok sina. Medr þvi at ek klerklauss madr dirfiz at giora sva mikinn hlut fyrir bænastad nockurra manna at snara lifssogu hins sæla Nicholai erkibyskups helldr fullari, en adr finnz skrifud i fornum bokum, er ek bidiandi litillatliga þa menn, sem þetta verk eru heyrandi ok vel skiliandi, at þeir þyrmi minni fafrædi, þa er þeir sia atfyndiligt, bætandi vanskilt, en eigi fyrirdiarfandi sialft verkit, at sa partr, sem heill er, megi til nytsemdar koma. Þa bidr ek annat, at sa, er soguna less, segi iafnan capitulum, fyrr en annat byriz, þviat malshattrinn beidir þess i morgum stodum. Þess bidr ek hit þridia i min starfalaun, at hverr, sa er skrifar soguna, lati þetta mitt bref iafnan fyrir standa bokinni, en eigi nidr falla, þviat min bæn er su hin sidazta, at hverr madr i herbergi nærri staddr i upphafi sogu þessarrar lesi minni sal til fridar ok nada elskuligt vers Ave Maria. Einkannliga bidr ek þik, dugandis madr, sem til

er skipadr at lesa soguna, at þu alla aminnir fyrir mina hond sva at gera, at i þessum stad segiz skynsamliga Ave Maria[1].

### Prologus fyrir sogu sancti Nicholai.

Þat ord er i upphafi var med gudi, fyrir hvert gud skapadi alla hluti, gefi þann framburd tungu minni medr haleitri miskunn sinni, at ek megi heyriliga boda lif ok iarteignir volldugs herra virduligs Nicholai Mirrensis erkibyskups medr þvi efni ok undirstodu, sem meistari Johannes Barensis erkidiakn hefir sett ok samit i latinu. Þvi er heyrandi i fyrstu sa prologus, sem hann frammi skrifar i ondverdu briosti sinnar frasagnar, sendandi nockurum brodur Athanasio at nafni sva sem heilsanarbref undir kærleik astarinnar.

### Bref Johannis diakna til Athanasij.

Johannes, minztr diakn i guds kristni ok lægstr þionostumadr heilags Januarij, sendir þer guds kvediu, brodir Athanasi. Þer er kunnigt sem godum klerk, at hvert þat smidi, sem af litt hogum manni er uppreist, þolir eigi at eins ofagrt lyti smidarinnar, helldr iafnvel lastaudgan skada nidrfallz ok hrapanar; somu leid ferr þat, ef ufrodr madr i bokliga list berr sik med diorfung til nys framburdar ok letrligs setnings, þviat hans verk er eigi at eins hlutlaust af snilldinni, helldr langt nidrhrapanda af rettum skilningi. Hveria grein, minn kærazti brodir, er ek ottadiz morgu sinni sakir mins stirdleiks ok fafrædi, þa er þu vart mik optliga bidiandi at skrifa nockut af frægdarfullu lifi hins helgazta fodur Nicholai. En sva sem þu stadfestiz i byriadri bæn tiandi optliga minum eyrum postoliga roksemd, er sva segir, at astin sigrar alla hluti, veitti ek

1 *Her indskyder Cd. Resenianus:* gracia plena dominus tecum, benedicta tu in mulieribus, et benedictus fructus ventris tui Jesus Cristus. Amen.

Presens huic operi sit gracia pneumatis almi
Me vivet et faciat implere quod utile fiat
Assit principio sancta Maria meo
Ave tumbam sancti dilectam dat Nicholai
Infundens olei sudorem sanctificati
Det michi peccanti ius patris scribere tanti
Wt prosit menti concordans sepe legenti
Scribere si noris fructus tibi crescit honoris.

til um sidir mitt samþycki, at fyrir þa godfysi til helgazta fodur Nicholaum erkibyskups, sem þu fagnar þik tekit hafa sva sem i erfd þinna forfedra, bar ek mik til at skrifa hans fæding, lif ok iarteignir, sem gud drottinn vann fyrir sinn virktavin miok stormerkiliga. Nu medr þvi at ek kennir mik hvergi nær standa fridum meistaramonnum i letrligri mekt eda fogrum framburdi, bidr ek alla samt, er þetta verk eru lesandi, at eigi risi þeir forliga upp i mot mer, med opinberu[1] hareysti dæmandi mik þegar i fyrstu miok diarfan ok oþrifinn, helldr er heyrandi min bæn, sem ek frammi hefir, at likn se gefin litlum alldri ok natturligu mannzins edli; þviat þann tima sem ek yfir sat greindu verki, var ek enn eigi halfþritugr at alldri, meir i skola verandi sva sem upprennanda nytt klerksefni, helldr en bækr diktandi eda i meistara tolu uppsitiandi. Uppras, lif ok andlat þessa dyrdarmannz bladdi ek brott med stuttu mali or þvi lofi, er herra Methodius patriarcha skrifadi fogrum stil einum rikum manni Theodoro at nafni. En þær iarteignir, sem ek er setiandi, tok ek upp af odrum doctoribus, meir fylgiandi efni

1 opinberri *1 Cd.*

---

Sicut omnis materia, si ab imperito artifice constructa fuerit, non solum deformitatis verum etiam ruinæ damna patitur: ita scipturarum series, si a viro indocto prompta verbositate ordinata fuerit, non a venusti tantum sermonis facundia, sed etiam ab intellectus corruet altitudine. Quod ego Johannes indignus diaconus servus sancti Januarii multum devitans, tibi me sæpius roganti, frater Athanasi, rusticitatis obstaculum opponebam. Sed cum mihi crebris in precibus illud apostolicum ingereres, caritas omnia vincit, tandem aliquando assensum præbui, et propter devotionem, quam te erga sanctissimum dei famulum Nicolaum a progenitoribus habere gaudebas, nativitatem et vitam atque miracula, quæ per eum dominus gessit, latinis explicare sermonibus aggressus sum. Verum quia scio me penes liberalissimos magistros inefficacis sermonis esse, ideo deprecor omnes, qui huius operis studiosi lectores accesserint, ut non facillimum prorumpant in vocem, et me indoctum meque iudicare inertem incipiant. Dent rogo veniam ætati, dent et naturæ. Enimvero quintum percurrens lustrum natura fragilior plus discere quam scribere aliquid appetebam. Sane ortum Sancti huius et vitam et laudem, quam Methodius patriarcha argolico stilo cuidam primicerio Theodoro nomine eum roganti de eo est prose-

en ordferli. Nu sem verda kann, ef nockurum mislikar þat, er vær giorum skamma ok stutta vara rædu, sendum vær þann til skreyttra boka girzkra meistara, er þvi ollu framarr ok fulligar skrifudu af greindum guds manni, sem þeir voru honum nalægri bædi at kynferdi ok mali. At þvilikum ordum framsettum bidium vær þik, guds þionostumadr brodir Athanasi, ok allan brædra safnat i ydru munklifi, at medr skærum bænum audliz þer allir saman af sialfum gudi, at hann veiti mer usniollum þa miskunn, at ek skrifi tilheyriliga; þviat eigi at eins giorir hann sniallar ungbarna tungur, þa er honum likar, helldr leysir hann iafnvel skynlausra kvikenda munn til greidligs ordaframburdar; ok þvi, minn kæri brodir, legg eigi af at bidia fyrir oss einkannliga vernd ok asia þessa guds vinar Nicholai erkibyskups, at þa hluti sem vær dirfumz af hans lifi at skrifa, se þeckiligir ok vel ilmandi meir fyrir guds augliti en daudligra manna, at sva sem vær lasum marga miok gladda undir vernd ok skyling þessa guds vinar, sva fagnim vær oss fyrir hans verdleika frelsi odlaz af ollu valldi umsitianda ovinar. Sva bidr ek þina milldi, drottinn minn Jesus Kristr, at þu styrkir mik i godum

---

cutus, summatim breviterque studuimus carpere. Si cui forte displicet hæc nostra brevis narratio, mittimus eum ad Græcorum phalerata commenta, quæ tanto largius de eo disseruntur, quanto illi et in genere et in sermone congruunt. Cætera quoque miracula eius, ex aliis doctoribus sumentes, magis sensum quam verba protulimus. Excessum vero eius, qualiter e seculo Sanctus abierit, ideo non scripsimus, quia nusquam illum invenire potuimus. Sed cur eius finis obstinatius inquiritur, cum tantæ virtutes operationum indicent, eum post vincula carnis, post luteam domum liberum volasse ad æthera et in sede cælesti cum Christo triumphare perenniter. His ita præmissis rogamus te, monache dei, cunctam postulare congregationem, ut fusis precibus pariter obtineatis a domino, ut mihi imperito scribendi tribuat facultatem; qui, cum voluerit, non tantum linguas infantium facit disertas, sed et brutorum animalium ora resolvit in verba loquentium. Deinde tu, frater mi, specialiter huius Sancti patrocinium pro nobis petere non desistas, ut ea, quæ de illo scribere præsumimus, non humano sed divino sint approbata iudicio; et sicut multos ex eius protectione gavisos legimus, ita nos meritis illius ex antiquo hoste ereptos et ab inimicis tutos fore lætemur.

vilia, þviat þu ert bædi lif ok heilsa, synandi þin verk ok stormerki eigi sidr a sionum en viderni iardarinnar. Heyrdu þar næst, sannr guds iatari sæll Nicholae, sæmiligr ok fyrir allar heimsins ættir[1] hveriu lofi makligr! þu rekr diofla langt a flotta, veitandi salunum miuka næring þinna lækidoma; þat iatar ek, at þin verk eru miklu fleiri ok meiri milli upphafs ok enda, en mer fafrodum se mattuligt þau at boda, ok þo at allar tenn i minu hofdi sneriz upp i sniallar tungur medr sinum framburdi, fengi þær eigi um alldr truliga talit allar þær dygdir, er gudi likudu i þinu lifi. Nu þat er skrifat verdr, skrifar ek þer til sæmdar en mer til saluhialpar ok syndalausnar, at þu bidir almattigan gud fyrir mer, at ek reiknumz i eilifri tolu hans valdra manna, þviat ek trui styrkliga ok ek iatar uefanliga, at þat er þu bidr, veitir þer konungr konunga ok drottinn allra verallda. Hvar fyrir ek byriar undir þinu trausti upptekit mal, sem gud gefr skilia.

**Her hefr upp sogu hins blezada Nicholai byskups eptir þvi sem Bergr aboti hefir saman sett[2].**

Þa er lidit var fra higatburd vars herra Jesu Kristz sex hundrat ara ok .iii. ar, tok cesar Foka til at rikia. Af honum er þat lesit, at hann logtok med keisaraligu valldi ok beztu manna radi, at Petrs kirkia i sialfri Roma skylldi vera hofud ok forpris allra kirkna i kristninni, þviat Constantinopolis var adr kollud ok skipud hæstrar raddar ok virdingar. A fimta ari hans keisaradoms tok virduligr herra Bonifacius quartus postoliga stiorn yfir romverskri ok almenniligri guds kristni, ok miok at verdugu, þviat þessa hins blezada sins stiornara hefir hon æ sidan eilifar miniar allt til enda[3]. Þviat sva er lesit in Ecclesiastica Historia, at Bonifacius quartus bad fyrr nefndan Fokam keisara, at hann gæfi kristninni fornt hof, er stod i Roma, Pantheon at nafni, hvat[4] er i fyrrum blotskapar timum hafdi haft verit til diofla faganar framarr en onnur hus i heiminum. Ok sva sem hann þa sina bæn fyrir keisarans godfysi, sneri hann blothusinu upp i guds mustari vigiandi þat heilagri þrenning til sæmdar ok virdingar, þar næst gofugligri guds modur fru sancte Marie drottning, ok sidan ollum samt guds helgum monnum til heidrs ok uendiligrar minningar. Þviat herra pavanum

1 bygdir *2 Cdd.* 2 *Saaledes lyder Overskriften i Cd. Resen.*; *Cd. Holm. har:* Her hefr upp sogu Nicholaj Mirrensis erchibyskups ok patronis ecclesie. 3 *saal. 4 Cdd*; þessa dags *1 Cd.* 4 þat *2 Cdd.*

syndiz þat vidrkvæmiligt, at sa stadr, sem fyrr var saurgadr i svivirding[1] allra diofla, væri sidan biartr ok hatidisfullr i gofgan allra guds heilagra. Er i þessa minning skipud i kristninni allra heilagra messa, er greindr guds vin Bonifacius quartus baud hallda sidan.

2. A setta ok hinu sidazta ari pavadoms virduligs herra Bonifacij riss agætr madr Eraclius upp til veralldar rikis ok verdr cesar eptir Fokam framlidinn. Sagdr Eraclius var merkiligr madr ok storliga vel kristinn, stridandi fyrir guds kristni ok sitt blod fyrir hana utsetiandi, þegar hon þurfti. Af honum er lesit, at a tolfta ari sins rikis vann hann fagran sigr a hundheidnum ovin Kosdroe Persida konungi, er til hrokanar sinna glæpa hafdi stritt upp a Jerusalem med elldzgangi, ranum ok manndrapum, fandi um tima sva mikit valld yfir borginni, at hann bar brott med ser heilagan kross drottins vars Jesus Kristz, er Helena modir mikla Constantini keisara hafdi latit nyfundinn virduliga bua. Eptir þessa herfor Kosdroe konungs digraz hann sva mikit i diofuligum metnadi, at hann gerdi ser glerhimin, setiandi þar yfir sinn stol, ok þottiz gud vera, gefandi nidr vatn af glerhimninum sva sem regn yfir iordina, hvat er adr hafdi hann meistarliga latit upp vinda yfir glerhimininn miok leyniliga, ok tok hann þat or iordinni sem daudligr madr, er hann drambadi sik veita i þa mynd sem gud. Af nefndum glerhimni steypir Eraclius umilldum Kosdroe nidr til helvitis, þviat hann villdi eigi taka tru retta ne fromdum illgiordum af letta. Odladiz sva Eraclius kross drottins vars Jesu Kristz aptr snuandi til Hierusalem medr miklum pris ok fagnadi. Giorduz þa morg stormerki ok iarteignir i guds lofi.

3. Eraclius cesar rikti siau ar ok .xx. Hann atti tva sonu Constantinum skilgetinn ok Eraklionem laungetinn. Tok Constantinus rikit eptir dag fodur sins, niotandi eigi meir en sex manadi, adr Martina modir Eraklionis sveik hann medr eitri. Rikti þa ranglatr Eraklionis tvau ar. Sidan kom til rikis annarr Constantinus son hins fyrra, rikiandi .xx. ar ok atta. Eptir hans dag tok keisaradom son hans hinn þridi Constantinus, rikti hann sextan ar. Eptir hann var rikiandi Justinianus tiu ar.

Þvi hofum vær talit nefnda hofdingia i upphafi þessa mals, at oss syniz mætir hlutir ok merkiligir ok mikils verdir merkiliga byriandi, ok at sidr komi a uvart, ef nokkurir af greindum hofdingium verda nefndir sidarr i frasogninni. Fyrir þa þridiu grein

[1] virding *1 Cd.*

hofum vær nockurn tilbunad, at eigi syni(m)z vær ganga uþvegnum hondum til bordz medr rikum manni; þviat ef vær giordim enga dvol frammi fyrir sva biortu iarteignabordi stormerkisfullrar samkundu, sem lengra inn stendr i herbergi framburdarins, vyrdim vær of bradlatir til fagnadarins. Þvi skal hedan aptr venda til þeira hluta, sem samtida finnaz verit hafa, sidan vær hofum fundit, hvert oss byriar at snua.

4 Rauksamlig skipan fornrar vizku hefir sva ok helldr, at viderni heimsbygdarinnar er sundr skipt i þria hluti: heitir einn þridiungr Asia, annarr Europa, þridi Affrica. Fyrsti þridiungr, er Asia heitir, gengr af solar uppras sva sem þvert takandi austan af heimskringlunni; en tveir þridiungar Europa ok Affrica ganga vestan i mot sundrskiptir til nordrs fra fullu austri. Er þvilikt sem Asia gangi þvert austan fyrir endimark Affrice ok Europe. Af Asia munum vær skamt tala, en af odrum tveimr þridiungum eigi meira, en nu matti heyra. Asia hefir nafn tekit af konu nockurri, er i fornum timum hellt austrriki; hun liggr i tveim hlutum, heitir annarr hlutr Asia maior, en annarr Asia minor, þat er at skilia hin meiri Asia, en onnur hin minni. Asia maior hefir morg storlond ok hofudborgir i ser: þar er India hvartveggi, Parthia, Assiria, Media ok Persida, Mesopotamia, Arabia, Siria, Palestina, Judea, Samaria, Galilea, Egiptus, Armenia, Kapadocia, ok morg onnur riki. I austrhalfu meiri Asie er sa stadr, er Paradisus heitir, hann er fullr med ollu kyni blomganda vidar; i honum er lifstre; þar kemr eigi kuldi ne ofrhiti, helldr stendr þar obrigdiliga eilifr loptzins skærleikr; þar sprettr upp brunnr i midiu doggvandi skoginn allan, en skiptiz sidan i fiorar fallandi ar. Þessi er sa stadr, er ollum var bannadr ok sterkliga byrgdr eptir fall fyrsta mannz, en var upplokinn med pinslarlykli drottins vars; veitiz æ sidan þessi stadr guds astvinum, sem enn mun sidarr getit verda. Til vestrhalfu greindrar Asie liggr Capadocia, er fyrr var nefnd, ok þadan vestr i hafit hin minni Asia. Gyrdir at henni sior ollum megin utan til austrættar, er hun snertr Capadociam. Sunnan at gengr sior vidkendr Egiptaland ok kalladr Mare Egiptium. Ma um þann sio sigla til Jorsala, Egiptalandz ok Italiam. Nordan at gengr sior Euxinum, en vestan Propontidis. Asia (minor) hefir i ser sva heitandi halfur: Bittiniam, Frigiam, Galaciam, Libiam, Cariam, Pamphiliam, Isuriam, Liciam, Ciliciam. Bittinia liggr nyrdzt en Licia synzt. Margar frægar borgir eru i nefndu riki: Nichomedia, Anthiochia, Effesus, Troia, Mirrea, Patera; Nichomedia stendr i

Bittinia, en Mirrea ok Patera standa badar i Licea. Mirrea er erkistoll, sva sem sidarr mun getid verda. Munum vær landagreinir her upp gefa, þviat nu er fundit med guds vilia, hvert vær eigum varn gimstein at sækia.

5. A dogum fyrr nefndz Eraclij hins goda cesaris stod hin frægazta borg fyrr greind Patera med miklum soma, forpris hafandi yfir ollum stodum i Licia bædi sakir sterkra mura, rikdoms, fiolmennis ok vapnafla, sva at erkistollinn i Mirrea var eigi samvirdiligr i giofum nefndra greina. Af þessi borg Patera er lesinn einn undarligr hlutr ok monnum miog uskilianligr. Sva segir meistari Johannes, at i nalægd vid borgina er einn slettr vollr, sa er opnaz med storum iardarrifum, sva til likendis at taka sem klædi slitnar af langri fyrnsku. Af þessum rifum brennr elldr um nætr, en leggr reyk um daga. Elldr sa er eigi sva mikils hita, at hann brenni þat, er hann snertr, helldr giorir hann meinlæti mikit, ef madr rettir hond sina i hann sakir profanar ok forvitnis. Ysidorus Ethimologiarum nefnir fiall Cimeram segiandi, at þar af brennr elldr a nottum, ok stendr i Licia heradi, sem fyrr var greint af vellinum.

6. Nu þott vær synimz gera nockurn fragang fyrra efnis, ætlum vær þessi ord verolldinni miok nytsamlig, ok bodum vær, segir meistari Johannes, þessa hluti i sannleik, at heimligir menn hrædiz þvi framarr ogurligan guds dom fyrir syndirnar, sem þegar sia þeir her lifandis hrædiliga stadi pinunnar. Ok fyrir þa grein at vær sogdum þetta undr eptir þeim sannendum, sem uefasamliga bar madr manni allt fram a vara daga, er at hyggianda kristnum lyd medr astriki ok þacklætisanda, hversu dasamlig er milldi guds fodur i himinriki, er sva er almattigr, at engi hinn rikazti madr a iardriki þorir hann spyria: «Gud, hvi giorir þu sva?» Þessi sami gud drottinn med sinum natturligum godleika slær eigi med skiotum atburd glæpafulla menn, ok eigi glatar hann synduga menn i bradum dauda, helldr hefir hann ymist frammi fodurliga blidu ok astud monnunum til leidrettu, stundum strangligar ognir i moti natturu, stundum hrædir hann biortum iarteignum, at um sidir idriz madrinn af fromdum illgiordum ok fordiz makligar hefndir i guds domi miklum ok rettlatum.

Til framsettra greina hofum vær gnog efni ok dæmi i heilogum ritningum skinandi liosi biartara. Ef vær litum a fyrstu grein, er sva hliodar, at gud drottinn slær eigi glæpafulla med skiotum atburd, helldr hefir hann frammi fodurliga blidu ok astud,

rennr oss til minnis sæl Maria Magdalena, er fyrrum var full af siau dioflum, fann hun sva mikla ok uvirdanliga astud sialfs himnakonungsins, at hun odladiz hans fætr at þva ok þerra, þiggiandi frid ok fulla likn allra sinna glæpa sva framarliga, at hun matti alldri sidan hofudsynd gera. Þetta skal þorf vinna fyrstu grein.

7. Næsti articulus er sva hliodandi, at gud drottinn hefir stundum frammi strangligan otta moti natturu monnunum til leidrettu. Þessa grein skulum vær sanna giora vida framiz hafa, þott vær fordimz sakir langmælis þadan af framarr en eitt æfintyr segia. Sva er lesit, at ein agæt kirkia varrar fru sancte Marie var brunnin upp at kolldum kolum a Fraklandi i þeim stad, er Laudunum heitir, ok til uppreistar kirkiunni var drottningarinnar skrin borit vida um Franz ok eigi sidr um England. Gerduz miklar ok haleitar iarteignir, hvar sem þat kom fram. Um sidir koma Laudunenses fram i England til þess stadar, er landzmenn kalla Kristikerkam, en þat þydum vær Kristz kirkiu. Þar var kaupstadr mikill, sotti þangat mugr kaupmanna. Kirkia var i stadnum nyliga reist ok hvergi nær fullgior, var þar fyrirsettr einn decan med sinum brædrum, voru þeir allir saman miok feskygnir. Laudunenses gerdu i þeim stad sem i hverium odrum bidiandi decanum, at hann veitti varrar fru heilogum domi sæmiligan stad innan kirkiu, medan þeir dveldiz i stadnum. En um þessa bæn finnz decano storliga litid, þviat hann hræddiz sik munu lata kaupmanna offrit, ef hann veitir skrininu haalltarit. Þvi vill hann med engu moti a þat hætta at missa penningana, þviat fe vill hann hafa lifsgiarna. Hvar fyrir hann leyfir um sidir, at skrinit standi yfir litlu alltari sva sem i hyrning nockurri, þviat regn var storliga mikit, sva at heilagr domrinn matti varla vadalaust vera utan herbergis. En i stad sem kaupmenn verda visir, at her er komit guds modur skrin, hvert þeir hofdu adr heyrt frægiaz fyrir utoluligar iarteignir, snua þeir þangat allir, hverr med sitt offr, sva sem engi þeira sæi decanum eda hans mikla alltari. Hverri þeira tiltekt hann reidiz geysi miok, fyrirbiodandi skrininu alla stodu innan kirkiu. Ok sakir þess, sem fyrr var greint, at regn var æsiligt uti, eru Laudunenses nockut tregir ut af kirkiunni, þviat hvarki ser ne helgum dominum hofdu þeir syslat nockut herbergi. Þvi liggr vid vadann sialfan, hvart decanus mun þyrma helgum dominum, adr þeir vægia undan ut af mustarinu. Sva keyrir hann þa miskunnarlaust ut af kirkiunni, at þeir ok hestar þeira med ollu sinu fargagni standa uti undir regnsins akefd an nockuru herbergi,

þviat hvert hus i stadnum er naliga fullt af kaupmonnum. Ok sva sem guds kennimenn ok sællar Marie drotningar eru naudugliga staddir sakir valks ok vandræda, ser guds modir til þeira, sem hon er iafnan von, med þeima hætti, sem nu skal greina.

8. Ein husfru vel kristin þar i stadnum, sem hon ser Laudunenses sva standa, sampiniz hun þeira kvol einkannliga þat harmandi, er i stadnum birtiz sva mikit astleysi ok umilldleikr vid sialfa miskunnar modurina. Hedan af taraz hun sakir godleika ok godfysi talandi litillatliga til sins bonda: «Minn kæri, sagdi hun, gior fyrir guds nafn, lit a medr þinni hiartaligri godfysi, hversu harmanliga[1] drottning himinsins er fyrir decansins grimd kostud ok utskyfd undir regn ok rasanda vedr med þionostumonnum stadarins. Þvi gior i guds nafni, minn kærazti, syn manndom skylldugan drotninginni veitandi henni med sinum þionostumonnum þat nyia hus, sem skommu smidadiz i þinum gardi ok þu hefir eigi. Nu þott ek viti, at þetta hus hefir þu adr leigsellt kaupmonnum fyrir fulla penninga, iatar ek þer med fullri borgan miklu fridari ombun, ef þu ler guds modur herbergit.» Vid þessi ord sinnar husfru vikz riki madr miok giptuliga, veitandi giarna tiadan velgiorning med fullum godvilia, ladandi skrinit ok alla þionostumenn til godra nada, kallandi þangat sina vini ok kumpana, prydandi herbergit med rikuligu formi friduztu klæda. Kom þar skiotliga saman mikill fioldi kaupmanna, ok einn odrum godfusari festir upp i herberginu þriar klockur, er hann atti, biodandi med þeira són, at her til sæki allir, en engi til kirkiu decani a þeim degi. Hvat er allir samþyckia giarna medr lofataki, leggiandi vid fesekt, ef nockurr bryti þetta sammæli. Eru þar Laudunenses i godum fagnadi.

9. Næsta morgin eptir, sem Laudunenses eru a veg komnir, gioriz udæmiligt undr i nefndum stad, þegar sem þeir eru med helgan dominn i brottu farnir; a þann hatt at dreki hrædiligr kom upp or sionum, er miok var nalægr stadnum, hann bles eitri, elldi ok brennusteini, fliugandi inn i midian stadinn, þar sem stod kirkia ok herbergi fyrr sagdz decani. Brennir hann med sinum blæstri þetta allt upp a einu augabragdi, sva at engi sa ormul eptir. Ok þo med guds vilia komz decan undan med litinn fiarhlut rennandi til skips, er hann atti fliotanda fyrir bænum. En er flugdrekinn verdr varr þessa tiltækis decani, vill hann eigi, at þeir skili at sva bunu, helldr gefr hann þat vel skilia, at hans

1 *saal. 3 Cdd;* hormuliga *2 Cdd.*

erendi er ecki annat en giora decano sem mestan skada. Þvi flygr hann brott af stadnum med hrædiligri ogn ok mikilli akefd fram at skipinu fyrir bænum fliotanda, brennandi þat upp a einu augabragdi med ollu þvi gozi, er a var. Skilr nu decanus, at guds reidi er yfir hann komin fyrir sitt hardbrysti ok miskunnarleysi, er hann hafdi framit i moti sælli himinrikis drotningu, med þvi at hann ser allra þeira goz ok varnad ospilltan standa fyrir allar halfur, sem med skrini sællar guds modur hofdu sæmiliga tekit, einkanliga þess rika mannz, er veitt hafdi herbergit. Nu sakir þess snyz decanus um sidir til idranar glæps sins rennandi berum fotum ut af stadnum, fram til skrins sællar Marie guds modur kriupandi ok miuklatliga fyrirgefningar bidiandi, skiotliga miskunn þiggiandi, sem hann var senniliga idrandi. Þetta dæmi vinnr þorf annarri grein, er fram var sett fyrrum, at gud drottinn knyr opt synduga menn til idranar med strangligum ognum. Þvi er þessu næst i þridiu grein alitanda, er sva segir, at gud milldr ok miskunnsamr hrædir optliga synduga menn med biortum iarteignum ok vikr þeim sva a hialparveg i brott af glæpum sinum.

10. Sagdan hatt gudligrar milldi er skylldugr at predica Paulus postoli, er med biortum iarteignum himneskrar raddar var nidrfelldr i likamligan blindleik af sinum hesti ok barinn til batnadar. Vard hann sidan, sem verolldin veit, gofugligr guds postoli ok agætr predicator, þvi ollu fremri ok kristnum retti nytsamligri, sem fyrr hafdi hann verit grimmari meir af ovizku en illvilia moti gudi. Taka sagdar greinir sinn enda i þessum stad, skal þessu næst aptr hverfa til efnis, sem fyrr var byriat.

11. I fyrr nefndri borg Patera voru margir agætir menn i þenna tima bædi kynstorir[1] ok sva at fiarhlutum fullrikir, þviat þessi stadr var i þann punkt sva sem miok skinandi medr allri heimsins æru, þo at nu se hann, segir meistari Johannes, naliga eyddr ok at þorpi gerr fyrir syndagialld manna. Medal otoluligra rikismanna greindrar borgar var agætr madr Epiphanius at nafni, vel kristinn ok sinum skapara hiartaliga hlydinn. Miog var hann mektugr til veralldar med gnogum audæfum, ulikr odrum monnum einkannliga a varum timum; þviat nu vilia flestir sæmdina þiggia, en þessi Epiphanius elskadi engar nafnbætr i veralldligri vegsemd, utan helldr alla hluti sva gera, sem gudi mætti bezt lika. Var hann þo sennillga sva vel borinn i allar kynkvislir, at hann matti vidrkvæmiliga sakir sinnar ættar herradom bera. Gud drottinn hafdi

1 storir *1 Cd.*

gefit honum fritt kvanfang bædi at ætt ok sidferdi, þat til marks, at hans husfru var systurdottir virduligs herra Nicholai Paterensis byskups.

12. Þessi blezud hion lifdu sva þægiliga ok logunum samþyckiliga, at engi ma fylliliga vitni um bera nema einn gud, þviat i hæsta æskublomi[1] spillti engi uleyfdr astarhiti þeira blodi, helldr brunnu þau bædi i andligri girnd himneskrar fodurleifdar, halldandi i millum sin heilagan hiuskap, bidiandi himneskan fodur gefa ser [afspringi þann[2], er makliga yrdi þeira erfingi bædi samt yfir andligu atferdi ok veralldligu gozi. Undir þessarri astundan fromdu fyrr nefnd hion holldliga sambud, sem gud bydr ok heilug ritning, þat er at skilia, eigi med saurlifisgirndum, helldr med þeiri fysi at reisa upp guds þionostumann af sinum lendum; þviat þau vissu vel, at engi hiuskapr ma rettr kallaz eda heilagr, utan hann fremiz med þeiri grein, at gudi verdi til heidrs ok hans helgum monnum, þviat sa hverr, er eykr tolu heilagra, odlaz mikla sæmd i augliti guds engla. Þessi var þeira optlig bæn i guds mustari, at þeim veittiz godr erfingi. Þvi friovar allzvalldandi gud husfreyiunnar kvid med lifligu sadi heyrandi blidliga sagdar bænir af sinu hasæti. Hvar fyrir Epiphanius ok hans husfru glediaz miklum fagnadi lofandi sannan gud, er þeira raddir hafdi heyrt ok þegit i sinni milldi.

13. Nu sem rettlat husfru ens rika Epiphanij er kvidug vordin med lifanda barni, kemr yfir borgina fyrir syndagialld mikit ok faheyrt afelli med þeima hætti, at enn versti hoggormr fullr med eitri ok illzku skridr inn i stadinn. En til þess at skilianligt verdi med skommu mali, hversu mikit grand a skammri stundu hann matti vinna borginni, skulum vær heyra nafn hans ok natturu eptir ordum Ysodori. Þessi ormr heitir basiliskus at girzku mali, en i latinu regulus, þat þydiz konungr i norrænu; þviat basiliskus er sva sem konungr hoggorma sakir sinnar illzku ok eitrligrar natturu. Þat er hans fyrsta[3], at hverr madr, sem verdr fyrir hans sionum eda blæstri, deyr i stad, ok þo at madr ætli at flyia undan honum, deyr hann af þvi, er ormrinn dregr vedr af likamanum. Engi fliugandi fugl, er fyrir hans augum verdr, kemz omeiddr i brott, helldr er þvi likazt sem þeir brenni i loptinu, þott adr se þeir hardla fiarri orminum. Hann er sva langr sem halfs fotar, eplottr at lit med bleikum fleckum. Nu med þvi at gofugligr fadir himnanna skipadi enga hluti an lækn-

1 *saal. 1 Cd*; elskublomi *3 Cdd.* 2 [ *saal. alle (4) Cdd.* 3 nattura *tilf. 1 Cd.*

ingu tilsettri, er fyrr nefndum basilisko sett i alldrtila, at þat kvikendi, er mustela heitir, skal honum bana vinna. Mustelam kollum vær Nordmenn hreysikatt. Þessarra kykvenda grein er a tvennan hatt, sumir veniaz at vera i herbergium hia monnum, sumir uti i skogum. Þat kyn er miok slægt ok vitrt i sinni natturu. Mikil uvinatta er skipud i milli mustelam ok basiliskum, berr mustela þar iafnan hærra hlut, þviat basilisko er skopud hræzla mikil, sva at hann þorir ecki at bera sik i mot honum. Þvi taka menn sagdan mustelam ok setia leyniliga vidr þa grensmunna, sem basiliskus er vanr inni at liggia. Kann hreysikattrinn sina natturu ok leyniz slægliga, þar til er basiliskus skridr ut af sinu inni, en hleypr þa i milli hans ok munnans gripandi basiliskum flyianda ok deydandi grimliga. Er þessi grein skiliandi af þeim mustelis, er a skogum veniaz uti.

14. Af greindri natturu ormsins ma vel skilia, hvilikan eda hversu mikinn mannskada hann mundi vinna nefndri borg Patera, sva sem hann for at likliga takandi ser stodu yfir einn mur miok hafan, hvadan hann megi sem vidazt sia yfir lydinn. Ma af fyrr nefndri ormsins medferd undirstanda, hversu morg hundrud manna deyia mundu innan litils tima, adr guds miskunn sa til ok lægdi þenna bardaga med þeima hætti, sem nu skal greina.

15. Sem þessi undranartidendi beraz til eyrna rettlatri husfru Epiphanij, er fyrr var greind i þessu mali, sampiniz hun sinum borgarmonnum ok fylliz, sem truligt er, medr leyniligum ablæstri heilags anda takandi folkvapn sterkrar truar i trausti guds miskunnar. Sva væpnir hun sidan alla sina limu girnandiz gladliga i mot orminum til strids at ganga, eigi grioti kastandi eda orum skiotandi, helldr litillatliga framgangandi ein samt af sinu herbergi, eigi framar klædd en einum motli. Er þat fyrst af hennar ferdum greinanda, at ormsins augu megu henni ecki grand giora, ok þvi sidr, at hans sionum verdr nidrat i þessum tima, þviat heilagr andi blæss i briost konunni þat sniallrædi, at hon berr fra ser mottulinn ok synir basilisko beran kvidinn; bregdr honum sva vid þessa syn, at hann fellr daudr nidr, þar sem hann er kominn.

16. Þvilik eru verk vars herra synd ok unnin til birtingar okominna hluta, hvilika miskunn hann mun veita þeim burd sidar, sem nu sitr i modurkvidi lagt ok leyniliga. Vard nu mikill fagnadr i borginni ok undran af annarri halfu, er sva framdiz miok i moti natturu.

17. Nu sem fylldr er fruinnar timi, at hun leysi sinn getnad

eptir skipan guds i himinriki, fædir hun sinn burd med likamligum siukdomi eptir veniuligum hætti. Ok þegar er þessi sveinn er skryddr veralldligu liosi, geislar alla Liciam skinandi iarteigna blomi ok blomberanlig dæmi, uheyrd fyrr i verolldinni, þviat þessi sveinn nyborinn fra modurkvidi stendr rettr upp nær halfa stund dags i munnlaugu an manna fulltingi, takandi sva roskinmannliga þvattar þionostu i mot mannligu edli. Hvar fyrir likligt ma þickia, at sa væri hreinsadr af hinni gomlu synd i modurkvidi, sem yfir nyfæddum skinu þegar þvilikar iarteignir; þviat eigi mun sa framburdr visum monnum skyrligr synaz, at yfir þeim nyfæddum geriz[1] iarteignir, sem helvitismadr væri, ef hann yrdi eigi hreinsadr fyrir vatn ok helgan anda.

18. Nu skulum vær a lita, hversu mikit gud drottinn er þeim vanr at veita, sem hann hreinsar af gomlu synd, adr þeir fædiz a iordina, en sidan, sem vær heyrum lif ok atferd þessa dyrdarmannz, er oss at hyggianda, hvat oss syniz med ganga eda i milli bera. Þat er guds miskunnargiof vidr þa, sem hann hreinsar i modurkvidi, at þeir mega alldri hofudsynd gera a sinni æfi, ok eru þo miklu minnr framlutir i likamligar syndir en adrir menn i þessum heimi. Af þeiri reglu er upplyptandi sæl ok blezud guds modir Maria, er helgud var i modurkvidi, en giordi hvarki meiri synd ne minni i verolldinni, eigi helldr fyrir bodan Gabrielis en eptir, sem sæll Augustinus segir. En Jeremias spamadr ok Johannes baptista misgerdu badir likamliga, þo lett ok litit hia þvi sem adrir menn. Nu ef sva finnz i sogu þessa dyrdarmannz, er vær ætlum fra at segia, at hans atferd hafi likari verit engla lifi en manna her a iardriki, hvat er þa i mot, at hann samlagiz þeiri sæmd, er lesin er af hreinsudum guds vinum i modurkvidi. En þvi setium vær þvilikar skynsemdir her inn med skommu mali, at vær hofum eigi logtekna ritning med nefndum auctore eda skyrum atkvædum.

19. Su fagnadargrein sem lesin er af ordum Gabrielis fyrir segianda fæding virduligs Johannis baptista, at margir mundu glediaz a hans burdartima, þionar sæmiliga þessum nyfæddum sveini, sem vær skulum fra segia, ok virdiz þat enn med odrum fyrrum greinum eigi motstadligt vera; er þat ok miklu fleira i þessa mannz lifi, er þvi samþyckir, en vær megim telia, þviat yfirvættis giafir standa alla vega, sem medr guds lofi munum vær allir samt nockurn part af mega heyra.

[1] skini *1 Cd.*

**20.** Hverr megi ordum skyra þa gledi, er a þeim degi giordiz i husum Epiphanij, er honum fæddiz frumgetinn sonr med sva haleitu stormerki. Þviat ef fullrikum monnum þickir þat mest veralldliga veitaz af gudi, at þeir odliz borinn erfingia, er þat þo frabæriligr auki gledinnar, at sia yfir sinu barni sialfa guds hond med milldri blezan yfirvættis miskunnar. Ok sva mikit finnz ollum nærverandum monnum til þeira hluta, at þegar tala þeir opinberliga, sem her ma heyra: Þetta er takn almattigs guds, segia þeir, er hann fremr i gratanda barni blautrar æsku moti heimsins natturu. Ok an dvol senda þessi blezut fedgin sveinsins fram til fyrr sagdz Nicholaum Paterensem byskups, bodandi greiniliga hvat gud drottinn hefir þeim nyliga veitt i milli annarra hluta. En er byskupinn heyrir þvilika hofudgiptu frændkonu sinnar, undrar hann hardla miok þvilikt stormerki lofandi sannan gud sva mælandi: «Heyrdu eilifr gud, lofligr ok dasamligr um uendiligar veralldir i þinum helgum monnum! þer se dyrd ok udaudlig æra, þviat nu er guds madr fæddr i verolldina.» Eptir sva talat bydr byskupinn, at greindir hlutir se hliodliga geymdir, en eigi þegar i fiolmenni ordfleyttir eda frambornir. Er sva med farit, sem hann gefr rad til. Leidir þat hedan sakir astrikis ok frændsemi, at modir sveinsins vill med engu moti annat samþyckia, en son hennar kalliz þvi sama nafni, sem byskupinn frændi hennar, ok heiti Nicholaus. Er þat virdanda, hversu æskiliga modurinni tokz til at kiosa þetta nafn af ollum odrum til handa syni sinum, þviat Nicholaus i girzku mali þydiz i latinu victoria populi, þat er at skilia i norrænu sigr lydsins. Hvat er skyrri frasogn i gudligum spadomi, en at kalla svein þenna victoriam populi, er nu frægiz um alla verolld i hialp ok fulltingi hveriu mannkyni, er til hans kallar a sio eda landi. Þvi er hann sannr guds iatari ok gofugligr fagari, at hann er skiotr til miskunnar, sendandi ut af sinni birti geisla kraptanna sva sem gladr lampi skinandi hreint ok fagrliga.

**21.** Nu er um runnit i skommu mali, hversu gerzt hefir uppras virduligs guds vinar Nicholai, ok syniz eigi olikt hliod inn bera þess mannz burdartima, sem mestr hefir fæddr verit milli karlmannz ok konu a iardriki. Þvi heyrum vær enn lengra fram, hvat fylgir fyrra efni.

**22.** Sem hinn ungi Nicholaus er lagdr i voggu vafinn reifum, byriar hann med nyium hætti fostur ok bindendi, reiknandi tima ok framtal daganna, sva at alldri brestr honum sin regla at drecka

einmællt[1] modur sinnar briost hvern midvikudag ok fostudag. Er hann ok sva varr um, at engrar annarrar konu briost vill hann þiggia, ok eigi meiri fædu taka en nu var greint innan sagdra tima.

Her yfir segir meistari Johannės: Hvat eru þvilikir hlutir utan þin verk, almattigr gud! Hverr um alldr skal þora daudligra manna disputanargreinir fram setia yfir þinum almættisverkum, umæliligr gud? Hverr mun eigi hrædaz þinn ogurligan matt, þviat þinni skipan þiona allir hlutir iafngladliga med natturunni sem i moti. Hverr er mikill gud sva sem gud varr, gerandi stormerki ok dasamliga hluti framar, en nockur tunga megi skyra. Se her nyian son Zacharie, se her brennanda lampa fagrt lysanda, se her frumgetinn son annarrar Elisabeth! Hinn fyrri son Zacharie er fylldr med helgum anda þegar i modurkvidi, en þessi sidarri vafinn i reifum smidadi þegar heilags anda herbergi med þeim listum, er hann matti. Son fyrri Elisabeth syndi varn herra med sinum fingri, en þessi fylgdi af barnæsku sialfum gudi. Eigi eru sva rettskilin var ord, þo at þessi madr se uvirdanligs verdleiks fyrir gudi, at vær samiafnim hann sælum Johanni, medr þvi at sva segir varr herra Jesus Kristr, at engi karlmadr reis meiri upp af skaddri brudhvilu en Johannes baptista, helldr eru var ord sva skiliandi, at medr þeim greinum, er hæst ganga, girnumz vær at lofa guds stormerki. Þat tolum vær uhræddir i alla stadi, at sæll Nicholaus er pedissequus heilags Johannis, þat þydiz fylgiari eda forunautr, þviat senniliga hefir hann gengit hans fotspor i hreinleik ok hardlifi, i tungunnar vardveizlu, i vandlatu bindendi, sem þegar hof hann upp i voggu liggiandi um sinn dreckandi sitt modurbriost a degi. Hverr mun trua þvilika hluti sanna vera, hverr mun eigi daufheyraz moti framburdi sva unatturligra hluta, ef hann geymir eigi, hvat drottinn varr segir i gudspialli til sinna lærisveina: Fadir minn vinnr allt her til, ok ek vinnr, þviat fadir ok sonr er einn oskiptiligr gud stiornandi allan heiminn medr eilifu einvalldi, skrydandi nyiar salur medr nysomdu likams formi, vikiandi skepnuna eptir sinum vilia upp ok nidr moti natturligu edli, sva sem einvalldzherra til heyrir, er skapadi alla hluti af engu efni.

23. Þessu næst er þat greinanda, hversu blezud fedgin unga Nicholai ombunudu gudi sagdar veizlur ok velgerninga med þeim hætti, at þegar i stad sem þau hafa getid þenna sinn einga son, afneita þau fullkomliga likams munudum, bindandi sik medr hæstu astundan undir hreinlifra manna logum, halldandi greindri dygd

[1] einn tima *1 Cd.*

af æskublomi allt upp i þann lifsenda, sem gud ledi þeim i þessum heimi, elskandi atferd himneska her a iardriki, birtandi þat falslaust vera, sem vær tiadum fyrr, at þau badu fyrir þann skylld erfingians at auka guds heilagra manna tolu i himinriki, hvat er likliga byriaz med guds vilia, at þau megi fullkoma sina fysi, þviat þeira ungi son Nicholaus var odrum bornum usamvirdiligr i sinum medferdum. Sva er þegar guds miskunn med honum vaxandi ok samvinnandi, at engan tima sez hann fylgia leik eda lausung, sem adrir pilltar i sinum uppvexti, eigi elskar hann hlatr eda nockurs kyns hegoma i sinum barndomi, helldr er hann bædi senn ungr ok gamall umfram natturu manna.

24. Þegar a fyrsta namsalldri er signadr sveinn Nicholaus i skola settr bækr at skilia undir godum ok gudhræddum meistara. Er hann sva fliottækr i allri skilning innan litils tima, at audsyniliga birtiz spektarandi guds i himinriki med hans hugskoti rikiandi; her medr er hann sva hlydinn ok audvelldr sinum meistara, at hvern hlut vill hann gera, sem honum ma bezt lika. Odlaz ok vel signadr Nicholaus einkannligri elsku af skolameistaranum en nockurr annarr hans lærisveina, hvar fyrir tendraz [ofundar fnioskr[1] i hiortum klerkanna upp til nockurrar hræringar i mot Nicholao ok miok umakliga, þviat hann var til þeira linr ok astrikr sem allra annarra, hvat er birtaz mun i fylgiandi frasogn hvartveggia satt vera elska hans en illvili þeira.

25. Sva berr til einn dag, sem klerkar hafa heyrt lectiones sins meistara, at hann gefr þeim blitt orlof ollum samt ut af skolanum at letta ser eda leika sva langan tima. Þiggr Nicholaus þetta orlof milli sinna skolabrædra, ok þo medr uliku hiarta, þviat hann hugsar eigi sidr uti en inni himneskan sætleik heilagra ritninga, þat til marks, at hann berr bok sina med ser ut af skolanum siandi þar a, medan adrir klerkar fara med gabb ok galeysi. Þeir setia leikstefnu sina a siovarstrond i einhverium stad, þviat borgin Patera stod sionum storliga nær. Sva eru þeir komnir framarla a strondinni, at þar er eigi veranda i siofarins atfalli. Fylgir sæll Nicholaus sinum kumpanum meir sakir elsku ok sannrar astar en nockurs kyns hegoma eda uþrifins lausleika, sem hann provar liosliga sitiandi hlutlauss hia leikinum, siandi a bok sina ok trakterandi ser lesnar lectiones vel ok smasmugliga, rett ok roskinmannliga, þar til er hann sakir æsku hallaz ut fra bokinni ok sofnar fast rett i flædarmali. Liggr hann, sem gud drottinn

1 [ aufund *1 Cd.*

ser, þar til at klerkarnir gefa upp leikinn, sefr hann þa enn sem adr, ok allt eins vill engi vekia hann sakir ofundar ok illvilia, þviat þeir sia þat margfalldligt yfir honum skina, sem engi þeira villdi sialfr med ser hafa.

26. Sva fara þeir til herbergis, at sveinninn liggr eptir. Fellr nu at sior ollum megin, sem gud sialfr giorir rad fyrir. Ok þegar er skolameistarinn hefir vissu af, at Nicholaus er eigi heim kominn medr odrum skolaklerkum, spyrr hann eptir fast ok innvirduliga, hvar þeir hafa skilit vid Nicholaum. Verda þeir nu at segia, þott naudigir se, hversu umannliga þeir hafa gert vid sinn skolabrodur godan ok meinlausan. Ok an dvol medr ollum skunda rennr skolameistarinn fram til siofarins litandi þar gudligt stormerki: sior fellr a land upp med flædi[1] eptir sinu skipudu edli, en þat er langt i mot natturu, er Nicholaus liggr sofandi þurr ok frials i midiu siofarfalli, þvi likt sem murr gangi umhverfis, sva at hofutskepnan nair hvergi at snerta hann, ok eigi helldr bok hans en har eda klædi. Eru þvilik stormerki vidrkvæmilig gudligri speki, at sa frialsadiz i fyrstu sialfr af siofarganginum, sem sidar frialsadi marga adra or þungum bylgium med sinum haleitum verdleikum. Vaknadi ok hedan i fra iarteignakraptr gofugligs guds vinar Nicholai þegar a unga alldri, sem enn ma framleidis undirstanda i fylgianda efni.

27. Annan tima gengr sæll Nicholaus ut af skola, sem hann hefir heyrt sinn meistara ok tekit gott orlof, ok er hann signadr gengr fram eptir einu stræti borgarinnar, ser hann hallta konu komandi a veginum i mot ser. Þegar i stad tendraz þat blezada ungmenni med miskunn talandi miukliga til konunnar, at hun skuli stadar nema. Nu sem þat er gert, gengr Nicholaus nærmeir signandi konunnar lidu med heilogu krossmarki sva stormerkiliga, at an dvol tekr hun styrka heilsu ok oskadda gongu i alla stadi. En er konan skilr med ser nyframda sva gofugliga iarteign fyrir sveinsins valld ok verdleika, undrar hon geysi miok rennandi medr ollum skunda fram til herbergia sveinsins fedgina berandi þeim fagnadarsogu, hversu hun er heil vordin ok styrk i ollum limum med signan ok sætum verdleikum Nicholai skolaklerks. Fylla þessi tidendi allt hus ok hyski fyrr sagdz Epiphanij med haleitum ok hatidligum fagnadi sva framt, at þessi bædi hion taka hond sonar sins, leidandi hann til fundar virduligs herra Nicholai Paterensis byskups frænda sins, segiandi honum, hvat guddrottins hond

[1] *saal. 2 Cdd;* flodi *1 Cd.*

hefir unnit skommu fyrir son þeira hinn unga Nicholaum. En er byskup heyrir sva nyia frægd ok faheyrda, lofar hann drottin eilifrar heilsu, er einn vinnr stormerki a himni ok a iordu. Ok sem hann hefir endat sin ord, fellr hinn ungi Nicholaus fram a iordina fyrir fætr byskupi sva segiandi medr sælu litillæti:

28[1]. «Ek bidr ydr, heilagr fadir, hiartaliga, at þer minniz ydvars fadernis, bidiandi fyrir mer syni ydrum, er fyrir guds giof i himinriki geck fram i fliotan avoxt sva sem nyr vidr af friori iordu upprennandi, at med ydrum bænum giori drottinn varr Jesus Kristr mik makligan sinni þionostu, skipandi mik oruggan undir himneska blezan.» En er Nicholaus byskup heyrir sva heilagan roskinleik med gloandi godfysi af munni sveinsins moti natturligu edli, taraz hann ok miok vidr kemz, i þacklætis anda ok sannri godfysi sva bidiandi fyrir sveininum til guds i himinriki medr upplyptum augum ok skæru hugskoti: «Þu drottinn gud, almattigr, usyniligr ok umæliligr, er þina skepnu virdiz at kalla þat, er þu formeradir fyrir son þinn i heilogum anda, veittu þessum sveini Nicholao sæmiligt lif ok verk vidrkvæmilig ok atferd agæta, at fyrir þina gofugliga miskunn geriz hann makligr at reiknaz inn i samlag þinna heilagra manna, er med þer glediaz blezudum gudi um allar veralldir verallda. Amen.»

29. Til greindrar bænar fyrir sælum Nicholao framsteyptrar hneigir himneskr fadir giarna sitt gofugligt eyra birtandi þegar i stad byskupinum til uvirdanligrar hugganar, at þat var þegit af hinu hæsta einvalldi, sem hann hafdi godfusliga bedit her a iardriki. Her med veitir þat sannr gud, at annarr skilrikr vattr gengr fram i somu syn byskupinum til efalausrar styrkingar vars herra birtingar, hvat er geriz medr þeiri skipan, er utskyriz i hliodi [fylgianda framburdar[2].

30. Einn godr guds vin var i nalægum kastala vidr optnefnda borg Pateram Sabacianus at nafni, madr mikils kraptz ok heilagleiks fyrir gudi. Þessi madr var hardla kærr Nicholao byskupi, funduz þeir optliga med andligri skemtan i guds lofi. Þessum tveimr guds vinum Nicholao ok Sabaciano birtiz ein ok hin sama syn, sem hvarr bodadi odrum; munum vær byskupsins vitran samtengia þessu mali, at þadan af skyriz sannr skilningr beggia synanna, þviat þær hafa eitt at þyda.

31. Eina nott sem Nicholaus sefr i sinu herbergi, ser hann

1 Bænarord Nicholai unga *Overskr. Cd. Holm.* 2 *saal. 2 Cdd*; fylgiandi frasagnar *1 Cd.*

engil guds frammi standa fyrir ser sva mælanda: «Byskup Nicholae, fylg mer.» Ok er hann fylgir englinum, sem hann baud honum, koma þeir badir saman i fiarlægt herad til austrættar upp a eitt fial storliga hatt i verolldinni. Þar ser byskup blomgandi vollu medr allzkyns ilm ok skemtanarfullum sætleik langt um þat fram, sem mannlig tunga megi eptir verdleikum utskyra. Þessi er sa paradisus, er fyrr var greindr i þessu mali, skipadr af hæsta hofutsmid i heims upphafi, aptr strengdr fyrir mannzins afbrigd, en til lifs upplokinn fyrir dauda vars herra Jesu Kristz. I þessum haleita stad ser Nicholaus byskup hallir skinandi ok osamvirdilig herbergi gior med skiæru gulli, sett gimsteinum ok geislandi birti uti ok inni. Milli annarra herbergia ser hann eina stora holl yfirvættis frida, berandi alla vega sva mikit blom a sinu formi, sem obodanligt er milli daudligra manna. Ok er byskup hefir alitid undrandi sagda holl i [frabæriligri skemtan[1], kemr yfir hann gudlig rodd af himnum talandi sætliga þessum ordum: «Þessi holl er eilif vist, er drottinn virdiz fyrir bua voldum sinum þionostumonnum ok sælum Nicholao.» Her birtiz audsyniliga satt vera þat, sem fyrr var greint, at hallir heilagrar paradisi[2] eru guds astvinum upploknar med pislarlykli grædara vars Jesu Kristz. Þvilik er birting ok fyrirbodan eilifrar sælu hins blezada Nicholai gudliga synd ok fyrirsogd undir tveggia manna vitni.

32. Nu sem sæll Nicholaus var sva gamall at aratolu, at hann mætti elska veralldar skemtan, ef hann villdi, hefir hann sik eptir dæmi Jacobs hofudfodur heima i fodur sins herbergi, eigi fadmandi heimsins usnilli, er þess kyns alldr gerir optliga med gialifi, helldr gengr hann fram retta gotu litillatr ok klockr i hiarta fullr med elsku guds ok manna, radinn þegar ok roskinn i ollu sinu medferdi, fylgiandi fotsporum sinna fedgina medr agætum lifnadi, vitiandi optliga heilagrar kirkiu med hæstu athygli, vardveitandi med styrku minni, hvat er hann heyrdi framborit i ritningum, sva sem þat væri allt til hans talat, er bezt gegnir salinni, hlydinn var hann fodur ok modur eptir guds bodordi, sva lengi sem hann matti þeim sæmd veita her i verolldinni.

33. Þessu næst kemr sa timi, er sialfr guds sonr vill heim bioda fodur ok modur sæls Nicholai til eilifrar vistar ynniligrar paradisi. Tekr þa Nicholaus son þeira allan rikdom eptir rettri erfd, voru þat allzkyns mikil audæfi bædi fost ok laus i gulli ok

1 [ *saal. 2 Cdd*; frabæriligu skrauti *1 Cd.* 2 *saal. 2 Cdd*; paradisar *1 Cd.*

silfri. Ok sem hann hefir i sezt sina fodurleifd, hugsar hann optliga med hiartaligri alvoru til sins rikleika, hversu hann skal honum forsia veita. Eigi vakir hann fyrir þessa grein sem sumir adrir yfir gozinu, at hann girniz med nyium febrogdum at draga ser i siod sem flesta penninga, helldr hugsar hann um þat iduliga, hversu hann megi vitrligaz ok gudi þægiligaz minka rikdominn leidandi þat optliga ser fyrir hugskotzaugu, sem drottinn varr segir i gudspiallinu: Eigi ma sa vera minn lærisveinn, segir varr herra, sem eigi afneitar ollum hlutum þeim er hann a.

34. Nu sem signadr guds vin sæll Nicholaus girniz med allri fysi hugskotzins at fylla þessi guds ord i framningu verksins, piprar hans hiarta i annarri grein medr þess kyns otta, at eigi fiuki þat brott fra honum i stormsomu vedri ordlofsins, sem hann ætladi i fyrstu at gera fyrir ast ok elsku grædara vars. Þvi lykr hann upp sinar hugrenningar fyrir sialfum gudi, bidiandi hans himneska spekt ok obodanliga milldi þat rad blasa ser i briost, sem honum gegnir bezt at hafa, at sa er einn hefir vizku allra hluta, gefi honum þat vel skilia, hversu hann skal sinum rikdomi sva skipa, at guds augliti væri þekt ok vel ilmanda, en hann fordiz heimligt ordlof mannanna.

35. En er hann hefir þvilika hluti at hræra, berr sva til, at einn kynstorr madr þar i borginni hefir sva gersamliga upp eytt ollu sinu gozi, at med engu moti hefir hann likamligt vidværi. Hann hafdi fordum verit fullrikr at fiarhlutum, en sakir vangeymslu ok vandrar ugiptu er hann nu vordinn fyrirlitligr sinum kumpanum. Hann atti þriar dætr, ok voru þær allar fridar meyiar ok storliga vel ættadar, en þoat þær væri vel bornar ok fagrliga skapadar, vilia eigi otiginbornir[1] menn i þenna punct eiga þær, sakir þess at þær voru gersamliga fatækar. Ma fatæki madr ecki med þvi stydiaz, at nockurr vili med logligum hiuskap hans magr geraz. Þvi tekr hann miok at reika salugr i sinum hugrenningum, hvat honum muni vera tiltækiligaz, þviat honum verdr þungr sinn kvidar hungr ok hormulig oreign þvi ollu framarri, sem hann hafdi adr verit sællifari ok rikari. Þat stadfestiz med honum þann tima, sem hungrinn herdir at ollum megin, at hann muni gefa upp dætr sinar til saurlifiss sameiginligrar lostasemi hverium sem villdi, til þess at af þeira ofogrum afla megi hann sitt vesaligt lif nockurn veg næra. Ok sem hann hefir þetta orad uppkvedit, flygr

1 *saal. 2 Cdd;* tiginbornir *1 Cd.*

þetta ok ferr þegar i stad um alla borgina, sva at hverr segir odrum, hvat þessi madr veslugr ætlar rads at taka.

36. Nu sem heilagr guds vin Nicholaus heyrir greinda ufrægd, sampiniz hann hiartaliga þessum auma manni, er vordinn var fyrir sva miklu afelli; þat stangar hann ok sarliga innan, ef sva kyngofgar meyiar skulu seliaz til horanar þvers i moti guds logmali. Þvi hugsar hann innvirduliga, at her mun stadr gefaz nockurum hans penningum til hugganar fatækum fodur en frelsis meyianna, hvar fyrir hann gerir sik radinn til at hugga fatæki þeira leyniliga allra saman med sinum rikdomi, at godar meyiar firriz fullifi. Her med er hann einradinn at hafa engan vitordzmann þessa verks nema einn gud, sva framt at eigi þeim helldr, er olmusuna þarf, vill hann trua. Þvi hugleidir hann smasmugliga, hvern tima hann megi til fara at fullkoma sinn vilia.

37. Nu i bidstundartima olmusunnar setr meistarinn þess hattar ord af sinum klerkdomi til aeggianar, at eigi hindriz ofmiok framkvæmd hialparinnar: «Heyrþu, heilagr guds þionostumadr Nicholae, segir hann, dvel eigi þina godfysi; tak brott sem skiotazt fatækt fodurins ok leys milldliga horanarskemd dætranna. Þin hugskotziord her til fagut med heilogum ristli gangi fram i tvifalldan avoxt, at af einu braudi sediz hungranda fatæki, en af odru leysiz meyianna portlifi; byrg eigi lengr, sæll Nicholae, þann agætisakr, sem varr herra hefir plantad i þinu blezada briosti, er fullkomliga er frials af ollu illgresi; luk upp þinn thesaur, er fagnandi fylliz med rikdomi milldinnar, ottaz eigi hedan af ordlofsgotu alþydunnar, þviat synda logi brennir eigi þat goz utgefit, sem almattigr gud lofar ok sinu valldi þægiligt gerir, ok þat smidi hrædiz eigi eilifan elld, sem upp er reist af hæsta hofudsmid. Nu þa snid i sundr allar dvalir, sæll Nicholae, algerandi gott verk, at menn siai þina dyrd, ok enn helldr skili þina dygd ok dyrki fodur þinn allzvalldanda himneskan ollu styranda an enda rikianda.»

38[1]. Þessi aminningarord meistarans fyllir sæll Nicholaus med sannri godfysi, þviat nockura nott, sem adrir menn eru i svefni, helldr hann voku fyrir ser, stendr upp sidan kyrrliga af sæng sinni takandi mikit gull af sinu gozi, sem adr hafdi hann tilbuit, bindandi þat i einum duk, gengr sidan fram eptir stadnum, sem honum var allt kunnigt, ferr þar til er hann kemr at husi fatæka mannz; hann gengr umhverfiss athyggiandi smasmugliga, hversu hann fai olmosuna fram sellt, sva at engi megi viss verda;

1 Her lætr Nich. siga inn gullit til fatæka mannz *Overskr. Cd. Holm.*

ok þvi næst finnr hann einn lagan glugg ok skapliga mikinn a herberginu, lætr þar hogliga inn siga feit i brott farandi sidan leyniliga.

39[1]. Nu sem morginn kemr, riss hinn fatæki madr upp finnandi skiotliga gullit, dylz þo vid i fyrstu, hvat vera mun, ok leysir þa dukinn. En sidan hann ser, hvat um er, fylliz hann þa med miklum fagnadi, ok sva margfalldar þackir gerir hann almattkum gudi, sem hverr ok einn ma skiotaz undirstanda med fam ordum fyrir þau tar, er gledinnar mikilleikr fram steypti[2] af hans augum, þviat hann skilr sik huggadan fyrir gudliga milldi ok firdan eilifu brigzli. Er nu þegar sva komit hans kosti, at madr velz til at bidia dottur hans. Gerir hann þat med guds logum giptandi ellztu dottur sina med þeiri heimanfylgiu, sem astvinr himnakonungs hafdi honum gefit i olmosu, dragandi af nockurn part ser ok tveimr dætrum sinum til atvinnu, her med eptirleitandi alla vega lagt ok opinberliga, vid hvern mann er hann matti ord a festa, hverr sa mun vera, er sva godmannliga hafdi leynz til hans herbergia. En þess verdr hann med engu moti viss, þviat þess hattar trunadr var undir einskis mannz tungurætr laginn i borginni. Nu sem hann hefir lengi i þessu fengiz at verda her um nockurs viss, gerir þionostumadr Jesu Kristz sæll Nicholaus enn sem fyrr, leggiandi honum iafnmikit gull med somu atferd i alla stadi, sem adr var greint.

40. Ek undraz, segir meistarinn, þenna mann Nicholaum lærdan med allri vitzku, frodan med allri spekt andaligrar godgirndar, hann er sva blezadr, at honum þickir ser eigi þorf vinna at fylla at eins bodskap logmals hins fyrra, nema enn helldr samtengir hann þar med gudspialliga miskunn iatandi sik samþyckianda hvartveggia testamentum forna ok nyia, at medr tveimr votnum af einni uppras framrennandum skuli hann vel doggva þurran gard þverrandi truar, sva at eigi optar megi uppsnidnir þyrnar med snorpu iarni milldinnar undirleggia gudligt sædi med illgresi rangrar spillingar. Þessi meistarans ord truum vær flestum olærdum monnum þung verda nockut i sinum skilningi, þvi vilium vær nockut birta ritningarinnar atkvædi med skommu mali.

41. Þat kallar hann skapliga milldi i hinu fyrra logmali, at Nicholaus hefdi um sinn gefit sitt goz hinum fatæka manni, þviat hit forna[3] vitni var i ollum hlutum sliovari miskunnar en hit

1 Fatæki madr finnr gullit *Overskr. Cd. Holm.* 2 hleypti *1 Cd.*
3 logmalid ok *tilf. 1 Cd.*

sidarra, þat er varr herra Jesus Kristr pryddi medr sinni gofugligri hervist, gefandi ny bodord einkannliga til sannrar astar milli kristinna manna, at hverr elski sinn ovin ok vili odrum iafngott sem ser sialfum. Sva gengr Nicholaus fra einfalldri elsku fyrra testamenti til þrifalldrar astar gudspialligrar miskunnar, at med tveimr votnum, þat er at skilia med tveim testamentis af einni uppras framsprettandum megi hann vel doggva þurran gard þverrandi truar. Tvau testamenta ganga fram af einni ras, þviat sva sem gud drottinn gaf hit fyrra logmal Moysi a fiallinu Sinay, sva gaf Jesus Kristr kristni sinni hit sidarra logmal her i verolldinni af somu uppras, þviat fadir ok sonr er einn gud, brunnr ok uppspretta rettlætis ok miskunnar. Medr þessum votnum doggvadi Nicholaus þurran gard þverrandi truar, þviat hann tok miskunnar orleik af hvarutveggia testamento ok doggvandi þar med þurran gard i briosti fatæka mannz, er þrotinn var i truar styrk ok þolinmædis dygd, radinn at kasta þrimr salum sinna dætra i horanar forad sakir stundligs vidrværis daudligs likama. Þvi doggvadi Nicholaus endaliga þenna gard sediandi hans iord med sinu gulli, at portlifis þyrnar uppsnidnir med glodu iarni gylldrar miskunnar mætti alldri sidan efni til hafa nockurs framgangs eda yfirbods kristiligrar framiatanar, er madrinn heitr i fontinum heilags anda miskunnar. Hvat eru syndir ok saurlifi utan þyrnar ok illgresi, til einskis hæfir nema brenna i elldi. Sogdu illgresi eyddi sæll Nicholaus gefandi fridan fiarhlut ollum dætrum hins fatæka mannz til logligs hiuskapar eptir setning kristninnar.

42. Nu er þar til at taka sem hinn fatæki madr vaknar um morgininn ok ris upp af sænginni finnandi a sinum gardi ok varnadi sva mikit skært gull innkomit, sem einn tima var honum fyrr gefit, hvar fyrir oss virdiz, sem þessi madr megi varla fatækr kallaz hedan i fra. Þvi at gull er eigi stafkarla eign, þvi skulum vær hedan af helldr kalla hann inn rika mann, einkanliga ef Nicholaus gerir enn sem fyrr sina ferd til at audga hann. Verdr þessi madr sva gladr vid fyrr sagt fiar uppgrip, at þott oll malsnilldargiof hins snarpa Omeri eda Maronis hofudspekinga legdi sig fram at skyra, ætlar ek bada mundu synaz sva sem sigrada fyrir mikilleik sva margfalldra þacklætisgerda. En vær vilium her inn setia fa hluti af þeim morgum, er hann taladi, þviat oss syniz betr standa at gefa þegiandi hugsanar stad voskum klerk vel skilianda, en allt at skrifa med langmælis þingan[1] ut til enda.

1 *saal. 1 Cd*; þvingan *1 Cd*; þungan *1 Cd.*

Sva bidr hann til guds milli annarra hluta, sem her ma undirstanda:

43. «Þu herra minn, sannr drottinn, sva mattugr ok mikill, at an þinu valldi ok vilia ma eigi minzti fugl a iardriki sik hræra ok eigi vidarlauf til iardar falla, bidr ek þina uvirdanliga milldi, drottinn minn, þviat þu veizt alla hluti, at þu virdiz mer at syna syndugum manni, hverr sa er, sem mer gerir oaflatliga sva goda hluti; þu veitz, drottinn minn, at eigi bidr ek þessa fyrir þa skylld, at ek ætla med ofdirfd hann at snerta eda hallda minum saurugum hondum, helldr til þess at ek kenna þinn þionostumann, er engiliga atferd hefir her a iardriki verandi med daudligum monnum, hvar fyrir ek dyrka nafn þitt blezat ok lofligt um allar veralldir verallda.» Sva bidr hann til guds, sem nu var greint, talandi her med vid sialfan sik, sva segiandi: «Senniliga mun ek i brottu taka svefn af augum minum; vord mun ek hallda med sannri ahyggiu, vakandi mun ek nætr framleida til væntingar, at drottinn syni mer syndugum þionostumann sinn.» Sva talar þessi madr fyllandi sin ord i fylgianda verki.

44. Hedan lida miok fair dagar, adr sæll Nicholaus vitiar þridia sinn þessa sama mannz herbergi girnandiz at fylla sitt verk med þrifalldri tolu, profandi sik vera faganarmenn heilagrar þrenningar, kastar inn gullinu um hinn sama glugg iafnmiklu at vexti sem tysvar fyrr; ok kemr nu med guds vilia nockuru hardara nidr i herbergit en eptir vana, sva at bondi vaknar vid dettinn, sprettr upp þegar i stad, hafandi sik uti, ok ser skiotliga, hvar madr rennr, sem hvataz matti, i brott fra herberginu; þviat sa tok þegar til fota, sem hann grunar, at honum se eptirfor veitt. Rennr nu hvartveggi, sem mest ma, sækir bondi eptir med karlmenzsku, en Nicholaus flyr undan med litillæti ok guds elsku, ok medr þvi at hann gerir bondanum alldrs mun, verdr hann i skeidinu miklu skiotari. En er bondi ser, at i sundr dregr med þeim, ok kennir a sig vesold ok briostmædi ok erfidi, kallar hann harri roddu sva mælandi: «Statt þu madr, segir hann, bid min, ok renn eigi undan mer olldrodum, þviat ek girntiz longu þik at sia; þvi gior fyrir guds nafn ok bid min, dugandis madr.» Vid þessi ord nemr stadar sæll Nicholaus bidandi hans. Ok þegar sem bondi nalægiz ok kennir Nicholaum at syn, fellr hann allr til iardar ok vill kyssa fætr hans. En Nicholaus med sinum gofugleik ok einfalleik ok litillæti vill honum þat lofa med engu moti, en talar med ast ok sannri elsku sva mælandi: «Gudi allzvalldanda ertu skylldr

þackir at gera, er fyrir eilifa milldi sins godleika hneigdi til þin sitt miskunnar auga, þa er þu vart, brodir minn, adr buinn at falla, þvi skallt þu hann lofa ok dyrka ok þackir gera medr lofligri atferd hedan fra.» Bondinn svaradi þa med klockvanda hiarta: «Ek bidr þik fyrir guds nafn, at þu gerir mer kunnigt, hvat mer byriar at gera.» Sæll Nicholaus svarar: «Geym at hedan ifra, at þu selir eigi dætr þinar nidr i glæpa forad, helldr gef þær i logligan hiuskap godkendum monnum. Lat þat goz ut fara med þeim, sem drottinn sendi þer, sva þo at þu vardveitir af nockurn part sialfum þer til atvinnu; ok ef þu ferr sva med, sem nu legg ek rad a, mun þat litla fe, sem þu helldr eptir, þer allan tima þorf vinna, medan þu þarft at hafa.»

45. Vidr þessi blezud ord gerir bondi skæra idran med fullkominni iatning yfir sinum glæp, at sakir fatækisdoms hafdi hann sigradr vordit sva miok fyrirdiarfandi gudligar setningar ok logmalit, heitandi nu framleidis moti sia ok alldregi sva optar gera a sinum lifdogum, helldr fylgia ok i ollum hlutum fylla þau aminningarord, sem hann heyrdi ser gefin fyrir sælan Nicholaum. Sva skilia þeir, at sæll Nicholaus fyrirbydr bondanum at segia þenna hlut nockurum manni, ok eigi helldr vin sinum en uvin, beidandi hann þar medr þann trunad vel geyma, medan þeir lifdi badir a iardriki.

46. Se her, hversu signadr Nicholaus likir sina gerd eptir sælum meistara varum herra, er eigi at eins fyrirbaud monnunum helldr iafnvel dioflunum at ordfleyta[1] hans frægd med lydnum. Þvi fyrir baud drottinn varr, at eigi milskadi þeir fals med sannyndum. En Nicholaus bannadi fyrir þa grein, at fyrir engis hattar kvitt mætti hans nafn miklaz eda upphefiaz fyrir monnum. Þvi er þessi madr tilheyriligum sæmdum makligr, skiliandi sik eigi mega lika tveimr gagnstadligum volldum, þat er at skilia gudi himneskum ok fallvalltri heimsins blidu med sinum hofdingia fiandanum, þviat þessi volld eru sva sundrlik sin i milli, sem birtaz mun med skommu mali i fylgiondum greinum. Drottinn tekr virdingarnafn af sinum herradomi, er einkannliga honum sialfum til heyrir, er eigi at eins er stiornari helldr skapari allrar skepnu, lifandi ok æ rikiandi konungr konunga ok drottinn allra drottna. Af annarri halfu er diofull herra kalladr, ok þo med engu moti eiginliga helldr sva sem hædiliga, sakir þess at hann setr valld sins bolvads herskapar i þeira manna hugskotum, sem undir hann

1 ordfleygia *1 Cd.*

leggiaz med sinum illum verkum. Þessum tveimr drottnum ma einn ok hinn sami madr med engu moti badum i senn þionostu veita a einum ok hinum sama tima, þviat hardla ulikir ok ymisligir eru þeir hlutir, er drottinn bydr ok diofullinn til teygir, sva sem her greinir. Drottinn almattigr bydr litillæti, en af annarri halfu fylgir diofullinn fram drambsemi; drottinn predicar hreinlifi, en þar i mot hefir diofullinn lostasemi; drottinn bydr olmosugædi, en þar i mot setr diofullinn fram fiar agirni; drottinn bydr frid ok sanna elsku, en þar i mot teygir diofull hatr ok sundrlyndi; ok at vær byrgim þetta med skommu mali, ladar drottinn til kraptaverka ok manndyrda, en diofull eggiar til lasta ok illra verka; ok þvi er ecki mannligt hugskot sva rumt eda vidrtækiligt, at hvaratveggiu þionostu megi senn i ser vardveita. Hvar fyrir signadr guds vin Nicholaus valdi ser þann drottin af þessum tveimr, [er ok hefir sætt en þunga lettan [1]. Þessum blezudum drottni gaf hann sinn hals audmiukan med allri godfysis astundan, brott verpandi blidu veralldarinnar med hiartaligri heims hafnan; eigi villdi hann taka nockut ordlof eda lidandi frægd her a iardriki, at þar fyrir yrdi hann ræntr eilifri sæmd med guds helgum monnum i himinriki; þroadiz hann i godum verkum dag fra degi, hversdagliga sik a hendi felandi sialfum gudi, þeim er virdir ok skipar alla hluti, þa er hann vill ok þann veg sem hann vill.

47. Af fyrr sogdum bonda er þat greinanda, at hann hellt vel ok godmannliga sælar aminningar hins goda Nicholai giptandi dætr sinar allar eptir logmali kirkiunnar, gefandi þeim ollum godan fiarhlut heiman, er Nicholaus hafdi adr honum godmannliga tært [2] fyrir ast ok elsku heilagrar þrenningar. Vard hann sidan alldri mannþurfa geymandi vel sina lifdaga ut i sidarsta enda. Er þvilikr avoxtr guds verkmanna, milli hverra er sæll Nicholaus reiknaz rettliga.

48. Nu sem sa timi kemr, er allzvalldandi gud drottinn vill, at heilagleiks birti hins sæla Nicholai skini biart i verolldunni, sva at allir i verandi guds husi megi þenna lampa sia yfir kertistiku settan fagrt lysanda, geriz sva med guds forsia, at Mirrensis erkibyskup gengr fram þann sama veg um dauda dyrr, sem almenniligr er hveriu holldi. Er nu erkistollinn formannzlauss i Mirrea. Hvar fyrir geriz hin hæsta naudsyn, at annarr kiosiz til i stad hins framfarna. Þvi koma byskupar af nalægum borgum, þar med prestar ok klerkar ok skynsamir leikmenn, allir saman i

1 [ sem honum gegndi *1 Cd.* 2 tied *1 Cd.*

einn stad til opt nefndrar Pateram, þviat hon var mest hattar borg i allri Licia, sem fyrr var skrifvat. Þessir allir i guds nafni samanlesnir eru miok ahyggiusamir, fyrst fyrir þa grein at kirkian hafdi skada fengit i frafalli gods hofdingia, ok þar med hversu giptusamliga þeim mun byskupskosningrinn ut ganga eptir logum heilagrar kirkiu erkistolinum i Mirrea til frægdar ok frama en salunum til nytsemdar ok eilifra nada. Fyrir þeim brædrasamnadi var einn liodbyskup mikillar roksemdar ok heilagleiks sva frægr ok fagrliga kendr i milli annarra manna, at hvat er hann fram ferr, samþyckia allir giarna, ok enn er hann sva harrar raddar i þessum mikla vanda, at þann erkibyskupskosning sem hann gerir, vilia lærdir ok leikir samþyckia. Þvi gengr sia byskup i fotspor sialfra postolanna aeggiandi eda enn helldr biodandi, at allr þessi safnadr fasti ok vaki til guds ok hiartaliga bidi, at sa hinn sami gud, sem Mathiam valdi til fyllingar heilagrar postola tolu, virdiz fyrir sina veniuliga milldi syna, hvern hann vill i þessum stad sva miklum kennimannzdomi neyta lata, þann sem undirgefinn lyd megi sem godr hirdir fagrliga styra til uendiligrar hvilldar andanna. Þetta byskupsins heilrædi tekr allr þar kominn lydr sva fagnandi sem guds aminning af himni hliodandi, snuandi sik til þess fulltings, er allri veralldar bygdinni vinnr þorf, bidiandi tarliga af innztum hiartans mergium, at eilifr gud virdiz at audsyna nytsamligan hirdi sinna sauda. Ok þat gerir drottinn, sem honum er veniuligt, at veita rettar bænir framsteyptar med fullri godfysi, birtandi sogdum byskupi sinn vilia nockura nott sva mælandi med sætu raddar hliodi: «Þat skulut þer vita, sagdi roddin, at drottinn Jesus Kristr virdiz ydrar bænir at heyra, ok þann mun hann til byskups kiosa ok ydr til stiornar veita, sem allan lyd sins valldz mun heilan gera, ok su hiord mun sæl vera, er þvilikan formann odlaz at hafa. Nu til marks greindra guds fyrirheita skalltu ganga ut af mustarinu i mot ottusongs tima, halldandi vord a þeim manni, sem fyrstr kemr til kirkiunnar, þann tima sem hringt er. Sa mun Nicholaus heita, hann skalltu þegar hondum taka ok til lydsins i mustarit leida, truandi allir uefasamliga, at lifandi gud virdiz i sinni nalægd þenna at kiosa hirdi ok forstiora sinna sauda. Þenna skulu þer helga ok til erkibyskups senniliga vigia, þott hann mæli i mot sogdum vanda.»

49. En er byskupinn hefir þvilika vitran þegit af sialfum gudi, verdr hann fullr af andligum fagnadi, vattandi þessa syn fyrir sinum brædrum byskupum sva segiandi: «Þer skulut stadfastliga,

segir hann, a bænum vera, en ek mun utan kirkiu vord hallda, þviat ek trui stadfastliga, at sinu fyrirheiti mun drottinn fylling veita, oss til bradrar hugganar en kristni sinni til eilifrar nytsemdar.» Sva talar byskupinn ok gengr sidan ut af mustarinu, geymandi kirkiudyrr med heilagri slægd. Ok sva sem lysir um morgininn, gengr Nicholaus son Epiphanij ut af sinu herbergi fram til kirkiunnar, sakir godfysi komandi þangat sem af gudi sendr fyrr en nockurr annarr i borginni. Ok þegar sem hann nalægiz kirkiudyrnar, verdr byskup varr vid hafandi sik hliodliga fram fyrir kirkiuna, sem fet mæli, þviat hann hugsar vitrliga, at sva mikil veidr skal eigi undan honum setia. En er Nicholaus uvitandi þvilikar umsatir kemr upp at sialfum kirkiudyrunum, gengr byskup blidliga at honum segiandi til hans þessum ordum: «Minn kæri, segir hann, hvert er nafn þitt?» En blezadr guds vin Nicholaus iafnan verandi med dufuligum einfalldleik svarar lutu hofdi ok litillatu hugskoti sva mælandi: «Nicholaus heiti ek syndugr madr, þræll ydvars heilagleiks.» Ok er byskup heyrir þat sama nafn uppkomit, sem adr var honum fyrir gudliga birting kunnigt vordit, tekr hann heimoliga i hond erkibyskupsefnis sva segiandi med blidu andliti: «Son minn, segir hann, gack med mer, þviat ek hefi leyndan trunad at segia þer.

50. Medr þessum hætti leidir byskup sælan Nicholaum inn i mustarit ok fram fyrir alltarit i midia samkundu vakandi brædra talandi hatt med miklum fagnadi sva til allra þeira: «Skærliga skinn i dag yfir iordina, segir hann, þat er sannleikrinn vattar himneskliga, at hvat sem þer munut fa bedit i nafni minu, munu þer þiggia. Se her, vær badum ok vær þagum; hyggit at allir, her er nu sa, er ydur astsemd girntiz at sia; her er nu sa, er almattigr drottinn virdiz oss at syna.» Ok er lydrinn heyrir þvilik ord byskupsins ok ser nalægt standa erkibyskupsefnit, geriz mikit kall ok hareysti um alla kirkiuna, þviat lydrinn romar bædi med rodd ok likama lofandi himneskan hialpara ok gofugligan grædara, er þeim ollum gaf rettlatan hirdi ok stiornara. En er hliod fekz eptir langa stund lidna, talar Nicholaus af sinni halfu i mot þessum kosningi, vattandi sik vera uheyriligan sva miklu valldi, her med i moti standandi ok stridandi ok sinum ordum fylgiandi medr sonnu litillæti, hvat er hann matti. En þo at hann tali sniallt, fær hann varla i mot stadit eda nockurum flutningi a komit, sakir þess at lydrinn vill med engu moti annat heyra, en þegar i stad se hann gripinn i sveit kennimanna ok vigdr til erkibyskups, sem

fyrst er mattuligt, a heyriligum tima; samþyckia þessu allir fegin-samliga lærdir ok leikir; þviat mikil ok agæt frægd hafdi af honum ut gengit alla stund, sidan hann var fæddr a iordina, sakir hans litillætis ok hreins lifnadar, ok med þvi at borgarmenn eru vattar þvilikra hluta, vinnr Nicholao allz ecki annat at flytia. Her med var hann sva vinsæll, þeckr ok elskanligr, at allir unnu honum hugastum bædi nærr ok fiarri, sva at engan mann fysti at reisa sitt hiarta honum i mot, helldr var þat bædi guds vili ok godra manna, at hann yrdi mikill kennimadr i guds kristni. Hvadan af sva er skrifat, sogdum kosningi til ubrigdiligrar styrkingar, at þann tima sem Nicholaus hafdi talat sitt erendi til nockurrar motmælis greinar, kom guds rodd af himni yfir allan lyd, er var i kirkiunni, vattandi Nicholaum makligan byskupsdominum, þott hann mællti i mot med sinu litillæti.

51. Senniliga var Nicholaus makligr byskupsdominum, þviat hann hafdi med ser allar þær tolf dygdir, er agætr Paulus postoli ok predikari skrifar til sins lærisveins Titum, er byskupsefnit a med ser at hafa, ok suma hluti hafdi sæll Nicholaus framarri. Postolinn segir sva i sinum epistola: Þat byriar, segir hann, at byskup se frægr madr, einkvæntr, hofsamr, vitr, skirlifr, sæmiligr, gestrisinn, predicari, fridsamr, uþrætinn, eigi miok agiarn, vaskr husbondi langan tima undir þionandi retta tru ok heilaga sidsemd.

52. Frægr madr er Nicholaus erkibyskupsefni, sva sem postolig regla bydr, þviat allir þeir glæpir, sem manninum mega fra hrinda kennimannligri tign, voru hans lifi miok fiarlægir: langt var fra honum villa, manndrap eda simonia, fiarri var honum þionostugerd i ohlydni eda hafnan moti kirkiunni; langt var fra honum hvers kyns ufrægd, er af liotu mannzins lifi kann optliga ut beraz, helldr var hann sæmiligr hafdr i milli allra dugandis manna, kennimannligri stett eptir guds vilia tilheyriligr ok miok skapligr, skilgetinn madr af heilogum hiuskap i milli rettkristinna hiona, verandi sialfr ubrigdiligr vin ok fagari heilagrar þrenningar, reis-andi menn til lifs andar ok likama med veralldligum audæfum ok andligum bænum, hreinliga takandi allar vigslur af rettum byskupi fyrir utan medalgongu fiar eda frændastyrks, þviat lif ok lærdomr gerdi hann vigslum makligan; vidrskildr var hann alla ohlydni eda kirkiunnar stormæli, þviat hann elskadi satt litillæti; hlutlaus var hann allrar ofrægdar, þviat sva hagadi hann sinu lifi, at allir menn rikir ok fatækir villdu honum sæmdar leita en engrar mink-anar i neinni grein.

53. Nicholaus erkibyskupsefni sigrar i yztu grein postolans reglu, i hverri hann bydr, at sa sem kiorinn verdr til byskups skal eigi meir att hafa en eina konu, medan hann var leikmadr i verolldinni, þviat fyrir allar rasir sinna lifdaga fordadiz þessi guds madr sem eitrit sialft allar syndblandnar navistir kvennanna, makligr þeirra felagskap, sem meydominn hallda obrugdinn allt til enda, fylgiandi sialfum guds syni til eilifra fagnada. Sva stendr skrifut postolig regla med sinni skyring i lifsbrefi virduligs herra Nicholai erkibyskups fra upphafi til enda, sem enn mun sidarr getit verda med guds vilia.

54. Nu sem nalægiz vigsludagr virduligs herra Nicholai, drifr til Mirream mikill mannfioldi af borgum ok bæium, kastalum ok kauptunum, allir eins ok ens sama erendis at sia med augunum en samfagna i hiartanu vigslugerd ok virdingarhæd sva mikils herra, sem þeim var gefinn af gudi til allra sinna naudsynia; þviat varr herra veitti Nicholao sva mikla giof med byskupstigninni, at allr heimr unni honum, hvat er styrkara verdr gert i framburdinum, ef vær heyrum eitt æfintyr, er gerdiz a sialfan vigsludaginn þar heima at erkistolinum.

55. Þann tima snemma dags sem herra Nicholaus electus er i kirkiu kominn ok byskuparnir eru bunir til þionostugerdar, var ein kona þar innan bæiar, er laugadi barn sitt med þeima hætti, at hon setr eina stora ponnu a elld matuliga fulla med vatni, tendrar hon sidan elldinn med þurrum skidum, er hon hafdi tilborit, ok sva sem flott er vordit i ponnunni, lætr hon barnit þar i koma temprandi sva modurliga elldzneytit, at barninu var matuligt. Ok sem hon hefir skidin at ser lesit fram til elldzins, sitiandi sem adr var greint, heyrir hon klockur vid kveda i stadnum med hatidligri gledi, ok þvi næst kemr madr inn farandi i herbergit, sa er henni bodar fagnat borgarinnar, at nu vigiz volldugr herra Nicholaus Mirrensis erkibyskup. En vid þessa sogu verdr konan sva glod ok fylld af fagnadi, at hon gleymir þvi ollu, er adr gerdi hon, sprettr hon upp fra elldinum þegar i stad at fyrirlatnu barninu, rennandi fram til kirkiunnar sem skiotaz matti hon. Er þa byriud vigsluþionosta virduligs Nicholai; bidr hon stadfastliga allan tima þar til, er embættit lyktaz fagrliga a þeim signada degi. En eptir þat kemr henni til minnis, hversu fliotliga hon hefir skilit vid barnit geymslulaust a elldinum, ok rennr nu þangat til med ollum skunda. Er þar su skipan a vordin, at elldrinn hefir hrunit fram at skidunum ok sidan lesit sik sva, at nu stendr

pannan i einum loga gloandi utan en vellandi innan, sva at kastar i; sitr þar barnit i vellunni glatt ok usakat leikandi ser vid barurnar, er at þvi risu fyrir uppkast vellunnar. Ok er modirin ser þvilik stormerki, gripr hon ponnuskaptit rennandi med flyti fram a strætit med kalli miklu ok hareysti, synandi ponnuna med sinum farmi, biodandi lydnum at sia þar ny stormerki. Giordiz nu þegar nyr fagnadr med guds folki, þviat allir skildu innvirduliga fyrir konunnar framburd, at þessi hlutr var af gudi gefinn fyrir valld ok verdleika ens nyvordna erkibyskups. Glediaz nu byskupar af blezudum fedr ok felaga nyliga gefnum sinni sveit himneskliga, fagna prestar ok klerkar, þviat þeir skilia ser gefit elskuligt faderni, allr lydr samfagnar sem godr smali undir godum hirdi.

56. Sem guds virktavin godr Nicholaus hefir makliga tekit byskupliga virding, geymir hann somu hofsemd ok litillæti, sem adr hafdi hann haft i verolldinni ok agætr postoli kennir i sinni reglu fyrr greindri. Hofsamr var hann i vist ok dryck dagliga, sik vardveitandi af allri ofneyzlu matar ok dryckiar, synandi sinum klerkum þat eptirdæmi at firraz gialifi en elska fostur ok bindendi; þviat hann veit vel, at samvitzka kennimannzins a iafnan hrein ok skir at vera fyrir utan ofdryckiu[1] þunga, þviat af þess hattar lesti mega margir illir hlutir fram ganga, einkanliga reidi ok lostasemi, hvat er klerkunum er bannat hvartveggia. Hvadan af meistarinn segir sva: Þu klerkr, segir hann, neyt litlu vini fyrir heilsu sakir kvidar þins, þviat iduligri ofdryckiu fylgir lostasemi. Þenna lost lamdi Nicholaus erkibyskup med iduligum bænum, fostum ok vokum, flyiandi, sem fyrr var sagt, kvennanna samvistur sem uvininn sialfan, hofsamliga temiandi sitt holld fra rongum girndum til rettrar sidsemdar guds bodorda.

57. Sæll Nicholaus var vitr madr i þrifalldri gipt, vitr til heilagra ritninga, viss til veralldligra boka, skyrr ok smasmugall til heimligra skynsemda. Heilagar ritningar framdi hann til salubotar sinum undirmonnum, en veralldligan bokaskilning til skyrrar greinar milli fals ok rettindis i rettum domum; heimliga skynsemi fagadi hann til þess at bera fodurliga forsio fyrir sinum sonum eigi sidr til likamligra naudsynia en til andligra. Þvi fagnadi allr lydr af sva miklum formanni, glodduz konungar, herramenn ok hofdingiar i sva blezudum byskupi, er sik framdi sva fullan med roksemd ok miskunn, at hann vaktadi naudsyniar allra ser undirgefinna, en firirlet þo i engan stad byskupligan soma. Hreinn ok

[1] *saal. 2 Cdd*; ofdrycknis *2 Cdd.*

skirlifr var hinn sæli Nicholaus bædi med ordum ok sidum birtandi sitt hiartablom i sætum greinum ok mætum skynsemdum, þviat hans signud tunga taladi iafnan af ilmandi gnægd hunangligs hiarta, setiandi frid ok sætt, ast ok elsku i milli allra manna, er hans framburd mattu heyra.

58. Sæmiligr herra var hinn sæli Nicholaus i tvifalldri frægd, þat er at skilia innri ok ytri: hin innri stendr saman i kroptum ok biortum framningum; hin ytri stendr i dryck ok bordhalldi, gongu ok klædabunadi. Sva var hann tempranarfullr til þessarra greina, at hann hellt sanna virding, sem til heyrir agætum hofdingia, en gleymdi þo i engan stad rettu vandlæti guds bodorda. Hugþeck ok sæmilig var hans ganga synandi briostzins stadfesti med radnum roskinleik hræringanna, þviat burdr likamans birtir hugskotzins rad.

59. Gestrisinn var hinn sæli Nicholaus, sva at hans kostr ok herbergi var ollum sameiginligt, sem bydr inn godi Jeronimus prestr, þviat hann skildi ser þann abyrgdarhlut at predica gestrisni fyrir sinum undirmonnum, ef hann byrgdi herbergisdyrr fyrir utlendum eda þurfondum; vissi hann ok einkar vel, at þess hattar kraptr ombunaz bædi stundliga ok eilifliga, sem lesit er af hofutfedr Abraham ok Loth frænda hans, at þeir odluduz badir guds englum bord veita. Gladr var hann i mali, blidr ok litillatr vid gesti sina sediandi þa bædi med likamligri vist ok andligri; þvi var hann elskadr bædi af rikum ok fatækum, at hans frægd ok godmenzka þroadiz hversdagliga i milli guds vina.

60. Predicari var hann sva godr, sem gudi einum var fylliliga kunnigt, þviat hann hafdi med ser allar þær þriar greinir, er heita mega grundvollr makliga guds ord fram at bera, þat er hitnandi ast i hiartanu, skinanda lios i lifinu, nogr klerkdomr i briostinu. Kenning hans stod saman medr tveimr greinum, predicanarordi ok hirtingarframburdi, þviat hann skildi vel sva byria, at vargar[1] væri þrongdir bædi med rodd ok hirdiligum sprota; einardliga ok miok byskupliga hirti hann dramblata, en þoldi miskunnsamliga skridnanir ostyrkra. En þott honum væri naudsyn snarpari hirting fram at hafa fyrir mikilleik lastanna eda stirdleik þriozkra manna, framdi hann engan tima sitt valld med grimd nockurri helldr med grodrsamri ast ok læknanligu hiarta, þviat satt rettlæti hefir sampining, en falsligt vanvirding. Sva tempradi hann stridleik hirtinganna, sem hann skildi stett ok astundan mis-

1 margir *1 Cd.*

giorandi manna. Mest ok einkannligaz pindi hann ofreflismenn, ef þeir syndu[1] lydnum illt eptirdæmi med sinum verkum; miukr var hann i aeggianargreinum en hardr i hirtingarordum, þviat hvart er hann pindi eda liknadi, vissi hann sik þat eina eptir ritninginni vel gera at hirta lif mannanna. Veniuliga glæpi eda verndadar illgerdir hirti hann akafligazt, þviat þess hattar framferd skildi hann morgum manni uþarfa til vandz eptirdæmis, ef eigi yrdi hirting framhofd odrum til vidsionar ok otta sva illa at gera; en eigi at sidr tempradi hann saman miskunn ok rettlæti i hverium domi, sva meistarliga milskandi, at hvarki var hirtingin of hord ne liknin of lin, ok sa einn matti þvilikt mundang a finna, sem helgan anda hafdi stodugan ibyggiara sins hiarta. Allan sinn skorungskap ok byskupligan framburd eignadi hann einni saman guds miskunn en eigi sinum þroska eda þrifnadi. Þvi var oll hans astundan i einum saman gudi, at hann elskadi engan lidanda hlut her a iardriki.

61. Fridsamr madr var hinn sæli Nicholaus, engan mann um alldr liostandi hvarki andliga ne likamliga; engan mann andliga, þviat eigi nockut veykt hugskot skelfdi hann eda piprt gerdi med nyiungarfullum framburdi, fordandiz þat predica, sem nockurum væri flyianda, helldr greindi hann smasmugliga hvern tima, hviliks hugarstyrks eda samvizku þeir voru, er hans ord skylldu heyra, at ollum ok serhverium i sinni stodu mætti hans framburdr gagnaz, en engum mein gera. Her med i næstu grein bardi hann engan mann likamliga, eigi med þust ne hnefa ne einfalldri hendi, þviat hvarki var i hans briosti hatr ne illzka. En ef naudsyn gerdiz nockurn at hirta fyrir astar sakir, feck hann þar til hofsaman mann ok gudhræddan, þviat hann skildi sinni virding þat bodit at hallda badar hendr kyrrar af ollu meinlætiskyni vid hvern mann, helldr nærdi hann ok styrkti andir ok likami sem godr huggari, þann veg hverium veitandi, sem hann sa at bezt gegndi, þvi var hann fadir margra sona i dyrd eilifri.

62. Uþrætinn madr var þræll Jesu Kristz sæll fadir Nicholaus erkibyskup, þviat hann vel undirstod, hversu margir uvinir fylgia þrætum ok þæfum, einkanliga drambsemi, illyrdi ok naungsins astleysi; diarfligt virdiz honum, at sa kendi odrum litillætis dygd vardveita, sem sialfr stædi i þrætum ok askilnadargreinum med drambsemisanda; ok sa sem illa geymir sinnar tungu, talandi hvat er hann ætlar naunginum mest i moti, syndiz honum miok

1 *saal. 3 Cdd*; syndi *3 Cdd.*

fiarlægr fyrir odrum predica munnzins byrging eda vakrliga geymslu; ok sa er samþyckit nidr brytr med framhleypisfullum hita reidinnar, þotti honum omakligr at bera fram nytt bodord astarinnar; þvi hellt hann sitt hugskot obrigdiliga stodugt i [sonnum fridi til[1] guds ok manna, sattr ok kærligr fyrir utan fals ok hegoma.

63. Uagiarn var agætr herra Nicholaus, þviat hann vissi sva skrifat, at rong agirni er rot allra illra hluta, ok fyrir þa grein at hann villdi sin augu iafnan ubrigdilig vardveita til upplitningarlioss himneskra bodorda, fordadiz hann at sliova þeira skærleik i lidanda thesaur fallvalltra gullpenninga; þviat sa sem agirndarlostinn tekr alvarliga inn i hugskotit, litr miklu giarnara gullit en solina, ok þar er iafnan hans hiarta, sem stendr hrokut gullkista. Hvat er gud virdiz verolldinni kunnigt gera eptir andlat eins riks mannz, er miok hafdi gradugr verit i fiar agirni; þviat einum vitrum manni nær stoddum hans andlati var forvitni a fyrir vizku sakir, hvern veg sa madr væri hattadr innan i bukinum, sem þvilikan agirndarloga hafdi iafnan borit i hugskotinu; ok sem hann er krufinn, birtiz undarligr hlutr a þann hatt, at hiartat er i brott or honum. Undra þetta allir menn, er nær voru, en sa enn vitri madr bydr, at þeiri gullkistu se upplokit, sem hann hafdi mesta atta ok framazt elskat; ok þegar sem þat var gert, sia allir nærverandi menn, at efst i kistunni ofan a fenu liggr mannzhiarta, ok rauk af, sem nytekit væri or bukinum. Synir þetta dæmi, hversu þat er satt, er drottinn segir i ewangelio, at þar mun hiartat vera, sem fehirdzlan er. Þvi valdi volldugr herra Nicholaus þann thesaur hiarta sinu til eilifrar elsku, sem eigi nair ransmadr gripa, eigi þiofr stela, ok eigi nockut meinkvikendi spilla. Þessi fehirdzla er med gudi sialfum ok heilogum englum ok himneskum borgarmonnum. Þvi var hiarta Nicholai iafnan med gudi, at þessi fehirdzla leid alldri brott or hans hugskoti.

64. Godr husbondi var blezadr Nicholaus erkibyskup styrandi sitt folk vel ok byskupliga bædi med ordi ok eptirdæmi, dragandi fra lostum til godra verka. Þviat eigi skildi hann ser haskalaust at hirta annarra manna sidu, nema fyrr syndi hann fagra stiorn a sinum klerkum ok heimolligum monnum, vel vitandi at vanræktarlostr formannzins þagnar audlaz mikla pinu, en ef hann hirtir ok umvandar, sem framaz er honum matturligt, lettir hann sinni byrdi; en ohlydnir menn hafnandi hans kenning eiga skynsemd at gera fyrir gudi. Sva vel skipadi sæll Nicholaus þvi valldi, sem gud

1 [ *saal. 2 Cdd;* syn *2 Cdd.*

drottinn hafdi honum i hendr gefit, at fyrir ollum hlutum bar hann hina agætuztu forsio, iduliga hugsandi til klerka sinna ok presta ok annarra kennimanna, at þeir lifdi vel ok fagrliga eptir skipan ok bodordum heilagra fedra; einkannliga var hann ahyggiufullr, at þeir sem fram vigdiz, væri makligir þeiri stett ok tilfærir sakir klerkdoms ok gods lifnadar at gera drottinlig sacramenta heilagri kristni til blomganda soma en salunum til eilifs fagnadar. Enga hluti let hann reikandi fara eda radlausa undir sinu valldi, helldr greindi hann vitrliga, hverir menn kristninni mætti mestan styrk veita. Ollum þessum ok serhverium skipadi hann ymisligar þionostur ok embætti til upphelldis kristnum dominum, hverium eptir þeiri grein sem þa sa hann hellzt tilfæran, at engi væri idiulaus eda ser onytr i guds vingardi. Enga hluti vanrækti hann, helldr let hann ser tilheyriligt allt þat, er logmalit bydr. Engan tima dro hann yfir sik letisvefn, þa er kirkian þurfti hans, helldr var hann æ vakr ok reidubuinn. Eckium þrongdum ok fodurlausum var hann hinn haleitazti huggari, sva hugleidandi þeira þurft sem sialfs sins naudsyniar. Alldri batt hann sik i vinattu vid konunga eda veralldar hofdingia til þess at þegia yfir þeira lostum eda lytum eda halla rettum domum, helldr stod hann a ohollum rettlætispalli alla stund[1] einn veg moti rikum sem fatækum. Ransmenn ok ribballda, ofdryckiumenn ok fullifa hirti hann med logunum helldr hart ok þo heilagliga; en þo sva sem hann var hardr a hegningartima, sva var hann miukr ok linr a miskunnartimanum, spakliga greinandi, hvert endimark hvart atti at hafa eptir ritninginni.

65. Þvilik er sidsemd ens sælazta fodur Nicholai, eigi med honum nyliga fundin, helldr ubrigdiliga med honum verandi allt fra upphafi. Ma fyrir þa grein vitr madr hugleida, hversu astgiafir himnakonungsins mundu honum til reidu vera, eda med hverium hætti heilagr andi sialfr gud mundi sitt herbergi i hans blezada briosti stadfastliga sett hafa. Þvi er oumrædiligt hverium manni, hversu gloandi var innan kirkiu hans hiarta godfysi i þionostugerdinni, einkannliga þat er alltarisembættinu til heyrdi. Hver tunga ma skyra, i hversu mikilli hiartans godfysi, vidrkomning ok taranna uthelling, med hvilikri sæmd ok virding, med hverium likamsins hreinleika ok andar skærleika sia gofugligr guds vin dyrkadi þetta hit himneska stormerki, ollum heimi til hialpar ok miskunnar. Var ok þvilikum kennimanni lifanda guds hardla tilheyrilig sva gofuglig þionosta, þviat hann var alla vega pryddr

1 *saal. 1 Cd*; gotu sins vegar *2 Cdd.*

heilogum framningum sva sem þycksettr geislondum gimsteinum, vitr i hiarta, iafnan geymandi af briosti ok munni sannleik fram bera, hreinn ok hogværr, sætr ok blidr, hofsamr ok milldr, rettr ok undirhyggiulauss, gudhræddr ok gestrisinn, stadfastr ok stilltr vel, godgiarn ok elskuligr, einfalldr ok fullkominn, litillatr ok þolinmodr, syndir fordandiz en guddrottin dyrkandi iafnan i godu verki. En hvat mun oss lengr gera at starfa i þess hattar erfidi, sem vær munim talit fa dygdir ok manndyrdir hins sælazta fodur Nicholai, þviat fyrr mun timinn taka sinn enda ok tungunnar framburdr oss fyrirlata, en vær setim a bokfelli skinandi dygd allra hans verdleika. En sa madr, er med fullum vitnisburd girniz undirstanda, hvilikan eda hversu volldugan sialfr gud hefir giort þenna signada herra Nicholaum, hugleidi vel ok innvirduliga þa hluti, sem sagdir verda, ok mun honum sva virdaz, sem med skyrum greinum se þeir hlutir styrktir, sem nu voru i næsta capitulo frambornir.

66. I þann tima sem sæll Nicholaus var vordinn Mirrensis erkibyskup, rikir Constantinus keisari a Griklandi i Constantinopolis sonarson Eraklij, er fyrr var nefndr i þessu mali. Skipar hann sitt rettindavalld i Mirrea þeim iarli, er Eustakius heitir, þviat þar er mikill lydr ok margar kirkiusoknir. Allra stadarins kirkna var volldugazt sialft mustarit, er kallaz Sancta Syon, þviat su kirkia fagnar margskyns miklum giofum ok agætum metordum. Þar er geymdr innan kirkiu agætr thesaur ok miok heilagr. I fyrstu dyrkaz þar heilagr domr sæls Johannis baptiste; ma þat synaz vel tilheyriligt fyrir þær greinir, sem fyrr voru skrifadar, at þa somu kirkiu, sem Johannes baptista helldr hofdingskap yfir, sæmi virduligr herra Nicholaus med erkibyskupligri tign ok sætri þionostu, þviat ritningin setr Johannem baptistam sva sem meistara en sælan Nicholaum sva sem þionostumann med þeiri grein, at kynferdugr þionostumadr er natturligr godum meistara. Her med dyrkaz Sancta Syon af heilogum domum elskuligs guds vinar Stephani prothomartiris ok virduligs Theodori pislarvatz, þar med sælla piningarvatta Sergij ok Bachi, er pindir voru undir Antiocho hertuga ok fiogurra tigi riddara, er i minni Armenia pinduz undir glæpafullum Licinio keisara i borg Sebastia. Her med prydiz þessi kirkia af þionostugerd sæls Nicholai a sagdan tima skinandi med fegrd frabærligrar hofutgiptu hafandi erkibyskupsgard nalægan sinni stodu. Nærri þvi gofugliga mustari stendr munklifi virduligs fodur Nicholai, var þar mikill munkasafnadr fagrliga þionandi undir reglulogum. Greinduz sva nofn milli fyrr sagdz mustaris

ok munklifis, at kirkian, sem fyrr greinir, var kollut Sancta Sion, en munklifit Sancta Jerusalem. Hierusalem þydiz i latinu visio pacis, þat er at skilia fridar syn, ok miok vidrkvæmiliga i þessum stad, þviat guds astvin Nicholaus lysti allan þenna samnat med biortum geislum sins lifnadar, sva at allir hlutir fognudu standandi med fullum fridi sannrar elsku; prestar, munkar ok klerkar unnu allir sinum erkibyskupi, þar med halldandi sannan frid ok samþycki sin i milli. Þar innan stadar stendr ok mustari sancti Michaelis, var þar vinatta einkar god millum þeira Michaelem ok Nicholaum, sem enn mun sidar getid verda; þviat sæll Nicholaus elskadi hans kirkiu mest i borginni næst sialfri Syon; var hann optaz fundinn i einhverium stad þessarra þriggia: heilagri Syon, Michaelis mustari eda munklifinu. I opt nefndri borg var ok kirkia sælla guds vina Dioscori ok Crescencij, liggr þar frammi fyrir stræti ymisliga kent vidr nofn pislarvattanna, er mustarit eiga, stundum platea Dioskori eda martirium Crescencij.

67. Heilagr guds vin Nicholaus erkibyskup hafdi med ser agæta menn i kennimannligri þionostu, þa sem hann virdi vel makliga sinni nalægd fyrir lifs sakir ok klerkdoms. Voru þessir prestar hans: sira Archiman, Amon ok Hermon, Ermes ok Archemius. Var honum Archiman einkannliga kærr sakir langs heimolleika, gods sidferdis ok hiartaligs dyggleika; veitti gud drottinn þessum kennimanni sva mikla giof her i heimi, at hann odladiz heimolleika ok fullkominn trunad virduligs herra Nicholai, verandi a bænum med honum leyniliga um nætr, sofandi i sama herbergi ok heyrandi optliga af hans munni hunanglig ord eilifrar gledi, sem hvartveggia mun liost verda i fylgianda efni.

68. Fyrir virduligan herra Nicholaum beraz merkiligir draumar, sem hann er erkibyskup gerr, ok adr en heyrir, hvilikir þeir eru, skulum vær greina, med hversu morgum hattum geraz kyn draumanna, at þvi audvelldligar megim vær sidan a finna, hvar draumar erkibyskups eiga heima.

69. Likneskiur draumanna snerta mannzins hug med sex hattum. Nockurn tima fædaz draumar af fylli eda hungri kvidarins, stundum af spottsamligu gabbi diofulsins, nockurn tima bædi samt af hugrenning ok uvinligri sionhverfing, stundum fyrir eina saman birting, nockurn tima bædi samt af birting ok hugrenning. Hin fyrstu tvau kyn draumanna, er vær framsettum af fylli eda hungri kvidarins, eru oss fyrir eiginliga raun ollum kunnig, en fiogur sidan fylgiandi finnum vær i bokum med heilagrar ritningar

vitnisburdi. En ef eigi giordiz draumar optliga fyrir spottsemdar gabb leyniligs ovinar, hefdi vist eigi sva talat einn spakr madr: Draumar letu marga menn villaz, segir hann, ok þeim treystandi menn fyrirforuz; ok enn her med talar hann sva: Eigi munu þer hindrvitni fremia ok eigi medr draumheill fara. Af þessum ordum birtiz opinberliga, hverrar svivirdingar er draumanna atrunadr, er hann hindrvitni samiafnaz. Her næst er alitandi fiorda grein: þviat ef draumar gengi eigi stundum fram af hvarutveggia, þat er at skilia hugrenning ok sviksamligri ovinarins tilteyging, hefdi einn viss madr med engu moti sva sett i sinni ritning: Multas curas secuntur sompnia, þat er sva þydanda: draumar foruneyta[1] miklar ahyggiur. Nu er talanda af fimtu grein draumanna: þviat ef eigi væri þat þeira kyn at geraz med birtingar stormerki, hefdi Joseph eigi fordum sed þat i draumi, at sinum brædrum mundi hann verda ædri; ok annarr Joseph brudgumi sællar Marie guds modur mundi eigi med sveininn Jesum flyt hafa fram i Egiptum, nema engillinn hefdi hann a mint um nott per sompnium. Nu er i settu grein alitanda: nema draumar fram gangi bædi samt af hugrenning ok birting, mundi Daniel spamadr, nattliga syn Nabogodonosor konungs fordum utskyrandi, med engu moti sinn framburd af hugrenningar rot byriat hafa sva segiandi: «Þu tokt at hugsa, konungr, i sæng þinni, hvat ovordit mun vera eptir þessa hluti, ok sa sem birtir stortaknin syndi þer okomna hluti.» Ok litlu sidar taladi Daniel enn til konungsins: «Þu satt, at eins mannz likneskia furduliga þyck ok breid ok storliga long stod fyrir þer», ok þat meira sem þar fylgir i drauminum. En ek mun her at sinni um lida. Nu medr þvi at spamadrinn gerdi hvartveggia, þat er at skilia sagdi drauminn sannan vera til eptirfarandi fyllingar ok audsyndi þar med hans undirstodu fyrir uppras hugrenningar, audsyniz einkar liosliga, at bædi samt af birting ok hugrenning geraz draumar optliga. Sem nu er yfir runnit med skommu mali, hversu draumanna hættir greinaz a marga vega, ok hversu þeir kunnu huginum olikt til renna, skal þvi sidr þeim nockurn trunad veita, sem eigi lysiz audvelldliga, med hvilikum tilblæstri þeir koma. En heilagir guds vinir greina fullvel med nockurs hattar innra gloggleik sialfar raddir ok likneskiur synanna, hvat i milli gengr spottsamligra bleckinga ok sannra birtinga, at þeir greiniliga viti, hvat þeir taka af godum anda, ok af annarri halfu vidr kenniz, hvat þeir þola af umsatum uhreins anda. Fyrir utan efasemd voru

1 *saal. 3 Cdd*; fremia *1 Cd.*

allar falsligar synir fiarri Nicholao, þvi skulum vær boda undir vitranar grein þat, er gud drottinn virdiz honum birta.

70. Nockura nott sem guds madr Nicholaus sefr i sinu herbergi ok Archeman hia honum, birtiz honum i syn einn madr afburdar fridr ok fagr sitiandi a hvitum hesti, hunangligri roddu talandi til hans sva segiandi: «Guds þionostumadr Nicholae, kom þu, ek mun syna þer dasamligt takn, þat er ollum heimi sidan til heyrir, þviat med bodi vars herra Jesu Kristz er kominn kornskurdartimi, ok fyrir þa grein em ek sendr at dubba þik til kornskurdar.» Sem sæll Nicholaus hefir heyrt þvilik ord af munni unga mannz, verdr hann ottasleginn ok svarar med þeima hætti: «Herra minn, hverr ertu talandi þessa hluti?» Hinn ungi madr ser i moti honum blidliga sva segiandi med biortu andliti: «Ek er, segir hann, engill drottins Jesu Kristz halldandi kornskurdar iarn i minni hendi, hann sialfr sendi mik til þin þess erendis at gefa þer eitt af þessum iarnum, þviat sva er, sem ek sagda adr, at avaxtartimi er komandi ollum heimi, ok þvi byriar þer nytsamligum þionostumanni þvilik vapn at bera a sialfum kornskurdartima.» Ok er engillinn hefir sva sagt, girniz sæll Nicholaus at sia þessi vapn, ok þegar birtiz frammi fyrir honum standandi þess hattar tol, sem menn eru vanir til akrverks at hafa, þo miklu hærri ok stærri, en nockurr iardligr madr mætti þau hræra til nockurrar athafnar. Vid greinda syn ottaz sæll Nicholaus ok vaknar skiotliga. Stendr hann þa þegar upp til bænar ok salmasaungs. En eptir þat gert segir hann sinum kærazta vin sira Archiman allan hatt synarinnar, hvat hann hafdi sed ok heyrt. Ok er sa godi prestr synina undirstendr, taraz hann af fagnadi sva segiandi: «Fadir minn kærazti, segir hann, ek kenniz vid, at drottinn virdiz okomna hluti ydr birta.»

71. Eigi miklu sidar birtiz sælum Nicholao annat stormerki medr þeim hætti, at hann þottiz staddr i einu storu herbergi, þar ser hann standa til hægri handar innar i husit virduligt alltari furduliga mikit ok fagrliga buit, syniz honum sem margr lydr se þar samankominn til þess at dyrka þat signada alltari. Þickiz erkibyskup ok ganga til alltaris med odrum monnum, ok er hann gengr fram at alltarinu, ser hann upp i loptit at opnaz himinninn; þvi næst snyr hann til herbergisdyranna ok ser fyrir utan portit eitt mikit stoduvatn hrædiliga svart ok þokufullt. Þessa syn ottaz hann storliga miok ok vaknar bradliga kallandi til sin

sira Archiman sva mælandi: «Ris upp brodir, ok gefum dyrd gudi badir samt, þviat hann virdiz oss syna leynda hluti sina.»

72. Eptir siau daga lidna ser signadr fadir Nicholaus þridiu syn med þeiri grein, sem nu skal segia. Honum birtiz sva sem gofugr madr sitiandi fridan hest allr herklæddr sva sem dubbadr riddari, hafandi blomberandligan sprota i hendi ser grafinn ok fagrt formeradan med heilogu krossmarki. Þessi riddari talar lint ok miukliga til Nicholaum erkibyskups sva mælandi: «Kom þu brodir minn Nicholae, ok mun ek syna þer dasamliga birting guds. Ek er Michael hofutengill, er iafnan stendr i guds augliti, þess er mik sendi at syna þer þa hluti, sem ovordnir eru i verolldinni. Þin trua er vel kunnig himneskri speki, ok þvi byriar, at þer birtiz gudlig stormerki, hvar fyrir þu ert skulldbundinn at læra ok byskupliga boda þa hluti, er framkvæmir eru a sinum tima. Þvi er ek sendr til þin af gudi til þess at rada drauma þina.

73. Sa engill, sem i fyrstu sattu sitianda a hesti ok bitrt akriarn i hendi halldanda, var sendr til þin af sialfum gudi þer at syna ovordna hluti. Þa i fyrstu feck drottinn þer i hond bitrt iarn fyrir engil sinn, er hann sæmdi þik sinum kosningi ok þar med byskupligri tign, gerandi þik skipanarmann ok foringia sinna sauda ok valdra manna, þeira sem koronandi eru fyrir hvasseggiat sverd þinna predicanarorda; þviat sva sem bitrt iarn snidr upp avoxt iardarinnar, sva snidr predican þin hiortu valdra manna i brott af halldsemi ok oleyfdri elsku veralldarinnar, flytiandi fagran avoxt af friosamri iordu til kornhlodu himnakonungs. Hvat er sidarri birting gerdi þer liost, þar sem hin fyrri gaf upp, þa er þu satt mikit alltari fagrliga buit i fridu herbergi ok lyd saman lesinn þat dyrkanda med godfysi, hverium þu samlagadiz i gongunni; þviat gud drottinn veitir ydr formonnum kirkiunnar sva mikla sæmd, at allr sa lydr, sem þer hafit aflat, skal ydr i fyrstu nalægiaz a domsdegi, at þer trulyndir þionostumenn offrit yfir guds alltari þann fiarhlut vel avaxtadan, sem fordum feck hann ydr a hendi felandi, upplokinn himin, birti ydr ollum saman inngongu himinrikis. Stoduvatn fyrir utan portit svart ok illa daunat merkir stodugan helvitis ofagnad fraskilligan guds husi, ok eptir sidaztan dom sva uti byrgdan af syn gledinnar sem ollum fagnadi, syniligan godum monnum eptir dominn til aukningar sinni sælu, at þvi framarr þacki þeir ok glediz i gudi, sem þeim er audsynna, hvat mikit illt þeir forduduz fyrir hans obodanliga milldi. Var þer fyrir þa grein synt hit minnzta kyn oþeckra hluta, at þu ert umakligr

þeirar hræzlu, sem geraz ma af hrædiligri syn helvitzkra pisla. Nu ris þu upp sva sem godr vinnumadr i guds akri offrandi gudi makligan avoxt af þinu erfidi, þviat sumar er komit, ok heimr hvitnar til sannrar friovanar fyrir gudi. Vit þat fyrir vist, at himinrikis herra hefir sva skipat, at otoluligar andir skulu fornfæraz yfir hans alltari fyrir þina byskupliga roksemd ok sanna godfysi.» Eptir þetta vaknar signadr fadir Nicholaus erkibyskup gangandi til bænar, þackandi gudi allan hatt greindrar vitranar, segiandi greiniliga sinum kæra vin sira Archiman, hvat hann hafdi sed ok heyrt i stormerki synarinnar.

74. Blezadr guds vin Nicholaus, sem hann er upptendradr þvilikum aminningum, hugleidir hann innvirduliga ok eptir spyrr þa menn, sem giorla vita, hversu hreinliga kristins doms rettrinn mun halldinn i Licia, ok finnz þvi framar, sem meir er rannsakat, at storliga mikit skortir a vida, þat er fyrri byskupar hofdu eigi getid af snidit sakir langs uvana. Her medr verdr hann fullkomliga viss, at margir bændr i herodum eru med ollu verr en hundheidnir, þviat þeir blota skurdgod med fullkominni villu, einkannliga dyrkandi þann dioful, er þeir kalla Dianam gydiu. I mot sagdri villu ok hverskyns vantru riss upp signadr Nicholaus erkibyskup vel ok vitrliga, hart ok heilagliga, neytandi þess bitra iarns, er engillinn hafdi fært honum, snidandi fyrst alla villuþorna med samvinnandi miskunn heilags anda, en sidan eriandi vidrtækiliga iord hugskotanna med haleitum ristli sinnar predicanar orda, doggvandi med miukum linleik aminninga, þar til er avoxtr birtiz, en villan firriz sva oruggliga, at hon hafdi engan eiginligan stad i allri erkibyskupsins provincia.

75. En er villumeistarinn sialfr fiandinn ser Nicholaum sva stadfastliga moti sinum vilia fram fara, at hann eydir allt ok nidr brytr, þat sem fyrr hafdi kyrt stadit, reidiz hann med loganda galli sinnar illzku, brennandi medr þungazta þott i mot Nicholao erkibyskupi, hugsandi nyiar radagerdir i nybolvudu briosti, hversu hann megi grimligazt hefna þann herskap, sem Nicholaus hefir gert i hans riki, speniandi allan lyd undan hans nidingligu valldi. En er hann fæz i þessarri radagerd, syniz honum fastligt fyrir ok med ollu eigi arenniligt, þviat hann kann med engu moti at gera sik sva hofudæran at dyliaz vid heilagleik Nicholai sva mikinn ok haleitan, ok þat liggr dioflinum eigi bezt i lundinni, at fyrir þat ofrafl, sem erkibyskup giorir i þvilikum framgangi, tekr hann sva mikla þock ok fullkomna vinattu af sialfum gudi, at hann

skinn med allzkyns taknum ok iarteignagerdum, framarr en fyrr se lesit af daudligum monnum, hvar fyrir at honum lytr sva mikil sæmd ok virding, at menn sækia til hans fundar vida um verolldina a sio ok landi hann at sia ok blezan taka til lettis sinna meina. Af þessum hlutum ok morgum odrum skilr ovinrinn, at ecki er til efnis, at sva styrkum kappa guds verdi a kne komit, hverium brogdum eda hlyckiottum utvegum sem at er farit; þvi snyr hann ser þadan i fra ok til þeira utvega at gera erkibyskupi med klokskap sva mikla skapraun ok skada, at hann megi muna nockura daga.

76. Sem gallsurar diofulsins radagiordir eru til fullz eitrliga bruggadar, sækir hann heim eina galldrakerling sina mestu vinkonu, kærandi fyrir henni sin vandrædi sva mælandi: «Allan hoggva mik innan, segir hann, stridir hardydgisbroddar med svortum svidaklungrum þiotandi, þviat sa madr, er Nicholaus heitir, kalladr byskup Mirreorum; hefir gert mer sva mikinn sæmdarskada med sinu ifangi ok umbrotum, at ek bid alldri þess bot. Nu heil sva! tak sem skiotazt til þinnar kunnattu, giorandi mer þat smyrsl, er mediacon heitir, þat skallt þu eitra ok alla vega blanda med þinum golldrum ok fiolkyngi, lykiandi innan i herbergi lokads glerbikars ok fandi mer sva i hendr.» Su bolvud galldraskioda [flytir ser an dvol ginandi vid sva[1] svivirdligu bodi haduligs meistara, samsetiandi þann liotazta likorom[2] med allzskyns flærd ok fordæduskap, er hun til tekr af nedsta grunni sinna gerninga, seliandi sva buit i hendr andskotans, sem henni var bodit. Ok þegar er fiandinn hefir fengit þann bannsettan bikar, dvelr hann ecki sinar framferdir, þviat meistari falsaradomsins er iafnan fliotr til flærdarinnar. Hann bregdr nu a sik sidsamrar konu liki farandi yfir sia sva sem a litlum bati, þar til er hann finnr þa menn i midiu hafi, sem langan veg hafa sott girnandiz at fara til Mirream a fund hins sæla Nicholai. Su hin falsliga likneskia ferr at skipinu sva mælandi til þeira, er innbyrdis voru: «Ek skil, segir hun, at þer dugandis menn ætlit at sækia fund virduligs herra Nicholai erkibyskups. Nu er þvi verr, at ek ma eigi med ydr fara sakir þess, at ek a eigi valld a þessum farkosti lengra fram a leid, en nu er komit; villda ek þo giarna heim sækia signadan Nicholaum, þviat ek hefir heitid minni ferd til Mirream at taka blezan sva mikils fodur. En fyrir þa grein at ek er nu vanfær at sinni, bidr ek, sva framt sem ydr er eigi i moti skapi, at þer flytid mitt litla offr fram til

1 [ *saal. 1 Cd;* hlydir an dvol *4 Cdd.* 2 laug *1 Cd.*

kirkiu Mirreorum, en þat er vidsmior fagrliga temprat. Sva mikit hefir ek til þess gefit ok gera latid at smyria kirkiuveggina, bidr ek ok einkanliga, at þer giorit þat i mina minning, sva sem ek segi fyrir.» En med þvi at skipverium eru miok okunnar flærdir ok fiandans undirhyggiur, taka þeir bikarinn ok med ser flytia. Berr þa batkonuna i brott ok hverfr skiotliga.

*77*. Nu sakir þess at milldr drottinn vill eigi þola, at þeir se spottadir medr falsligum ordum ok fulum sionhverfingum, sem einfalldliga skunda til fundar vid hans goda vin sælan Nicholaum, verda nefndir pilagrimar eigi fyrr varir vid, en eitt fagrt skip brunar fram hia þeim; þat er skipat agætum drengium, milli hverra þeir þickiaz kenna virduligan fodur Nicholaum; ok sa madr sem þeim þickir honum likaztr, kallar þegar a þa med hofdingligri raust sva mælandi: «Segit mer, kumpanar, hver su kona var, er fyrir skommu taladi vid ydr, eda hvat feck hon ydr til medferdar?» Pilagrimar segia þeim frida manni allan hatt þessa hlutar synandi honum offrit konunnar, þat er hun bad þa med ser hafa til kirkiunnar. Hinn virduligi madr talar þa i annan tima: «Vilit þer nu giorr vita, segir hann, hver kona su var, þviat ek kann segia ydr? Þat var fyrir vist hin daligsta vættr Diana, hvat þer megit skiotliga profa, ef þer verpit þat svivirdliga ker ut i bylgiur siofarins, siandi hversu þeim bregdr vid.» Ok an dvol gera skipveriar, sem þeim er bodit. En iafnfram sem þat drepsottliga kyn diofuligrar sviksemdar kemr nidr a sioinn, brestr upp bal mikit i bylgiunum, sva at þid hofudskepnan logar vida umhverfis, sem þurru tundri væri i skotid. Ok er pilagrimar undrandi geysi miok sia langan tima upp a, hversu elldzgangrinn less barurnar, hefir þat skip, er þeim birtiz, sva langt undan borit, at nær felr syn i milli. Mega þeir nu ecki at sinni visir verda, hverr þeim gaf sva mikit heilrædi, en hallda fram sinni ferd sem adr, unz þeir na hofn skamt fra Mirreaborg, bodandi biortum roddum þat er gerzt hafdi, hvar sem þeir koma. Ok sva framt sem þeir finna blezadan guds mann Nicholaum, kalla þeir upp a hann allir i senn sva mælandi: «Senniliga ertu sa guds madr, er oss birtiz i midiu hafi, synandi oss syndugum mikil udæmi, fyrir utan efasemd ertu sannr guds þionn, þviat fyrir þinn lifs verdleik erum vær allir frialsadir af daudligum diofulsins umsatum.» Eptir þessi ord boda þeir erkibyskupi allan hatt, hversu gerzt hefir. En er drottins elskari sæll Nicholaus heyrir þvilikan framburd, giorir hann eptir vana, at hann fellr miukliga fram til bænar, þackandi hæsta fodur

alla framning sinnar miskunnar. En eptir þat tiar hann lifs ord fyrir þeim, er hans fund hofdu sott, serliga aminnandi, at þeir lifdi hofsamliga, rett ok milldliga: hofsamliga upp a sinn likama, rettliga til naunga sinna, ok milldliga til guds bodorda, hlifandi sik[1] a hverium veg med miskunnarvernd eilifs geymara, er engan leyfir framar vera freistadan, en vel ma bera.

78. Milli annarra hluta segir herra Nicholaus fyrr sogdum pilagrimum þessi ord i spadoms anda: «Þat skulut þer vita, segir hann, at þa vandu giorningakonu, sem þetta eitr sambruggadi med falsaradomi, munut þer finna miok ridusiuka, þa er þer heim komit til ydvarra herada, til þess at fylliz heilog ritning sva segiandi: Prettr hans mun uppsnaraz i sialfs hans hofud, ok hans ranglæti mun nidr koma i sialfs hans hvirfli. Sva gædir guds madr greinda pilagrima med hunangligum ordum mætra skynsemda, veitandi þeim elskuliga blezan med blidu orlofi til sinna herada heim at snua. Provadiz þeim, sem erkibyskupinn hafdi fyrir sagt, at su vanda kona fanz illa halldin, gripin af dioflinum med makligri pinu ok harmkvæli. Vidfrægdu þessir menn sælan Nicholaum, hvar sem þeir fram komu, vattandi hversu sæll Nicholaus Mirrensis erkibyskup hafdi þeim verit stiornari, leidtogi ok milldr hialpari, lofandi gud i ollum hlutum, er þeir heyrdu fram fara af munni sæls Nicholai.

79. Nu var greind i næsta capitulo svivirding diofulsins, hversu hædiliga hann var fundinn i sinu falsi, ok allt eins leggz hann eigi [undir hofut[2], helldr dregr hann a nyia leik þa odæmisdirfd ser yfir hofut, at hann muni sialfan Nicholaum fa beitt nockorum brogdum, ef hann tekr i fornu golf eptir slægdunum; þviat alldri væri sva litit kneskot, at honum þætti eigi fullfengr i, þott erkibyskup verdi med engu moti lockadr til þess, at hann falli i nockura glæpi. Þvi bregdr diofullinn a sik þeiri fegrd, sem hann hafdi fordum hædiliga nidr orpit, drambandi i mot gudi, myndandi sig i engil liossins med fridu ok fogru yfirbragdi, komandi at uvoru inn i þat sama herbergi nockurn dag, sem signadr guds vin Nicholaus var a bæn sinni. Hann var med skinandi asionu ok frabærri fegrd klædanna, sva at engi mundi trua diofulsins edli verda mega slikt, utan nockurum væri þat sagt ok synt med giof heilags anda. Nu sem hann er inn kominn ok sæll Nicholaus fær sed hann, giorir sa guds madr miok spakliga profandi kyn andanna medr roksemd ritninganna, spyriandi þegar i fyrstu þenna, er

1 [ *saal. 3 Cdd*; ser *2 Cdd.* 2 [ *saal. 2 Cdd*; fyrir *3 Cdd.*

kominn er, sva mælandi: «Hverr ertu eda fyrir hveria sok komt þu her.» Diofullinn svarar: «Engill er ek komandi hingat þess erendis at sia gerdir þinar.» Af þessum diofulsins ordum skilr sæll Nicholaus þegar, at uvinarins svik eru, ok hlifir sik med sigrmarki heilags kross drottins vars Jesu Kristz sva talandi med fullu trausti: «Þu vandr ovin, segir hann, hafandi þusundrat flærdsamligra svika, gack ut i stad af þessum kofa brott af augliti guds þionostumanna gerandi enga dvol a hedan i fra.» En er fiandinn skilr, at ecki vinnr lengr at dyliaz fyrir Nicholao, giorir hann hliodaskipti talandi ramr ok illa raddadr sva segiandi: «Undra ek vandlæti þitt ok mikit smakvæmi. Ek kom her inn adan þegiandi, sva at engiskyns unadir leiddi þer af minum ferdum, ordum eda giordum, en þu vill angraz vid, at ek dveliumz her nockura litla hrid. Nu ger sva vel, leyf mer at dveliaz her litla stund, at ek læri þik ok kenni þer speki nockura.» En signadr guds madr Nicholaus snubbar þa diofulinn hart i annan tima, at hann skuli i brott fara, ok med þvi at diofullinn þickiz nu eigi lengr mega vid halldaz, kallar hann mikilli roddu ylandi ok illa latandi sva mælandi: «Þvi muntu nu rada Nicholae, at ek fara hedan i brottu, en eigi at helldr skal ek langt nu at sinni undan þer flyia.» Ok eptir þessi ord hverfr uvinrinn.

80. Litlu sidar kemr sami diofull i steikarahus þar a erkibyskups gardi gripandi þegar einn þionostumann virduligs herra Nicholai kveliandi med grimmu kyni. En er guds madr verdr þessa varr, bidr[1] hann fyrst bæn sinni gangandi sidan ut af herberginu þar til, er hinn diofulodi fæz um æpandi ok alla vega gudlastandi, hvat er uvinrinn var hann eggiandi ok fyrir hans munn talandi. Sem herra erkibyskupinn kemr til siandi mannzins eymd ok vesolld, bydr hann honum at leggia af sva illum ordum ok afskapligum; en hinn geysiz þvi meir upp i moti medr æsiligu hareysti, milli annarra hluta sva segiandi: «Medr þvi at ek piniz sva grimmliga, skalltu alldri, Nicholae, fyrir mer nadir hafa.» Guds madr gengr þa nærri takandi med afli hans hægri hond sva mælandi: «Signa[2] þik, brodir.» Ok er hann hefir signt sik med tilstyring virduligs Nicholai, ferr ohreinn andi i brott af honum, sva at allir nærverandi menn sia upp a. Hann er þa allr sem svidinn utan ludrandi[3] ut af herbergi, rennandi[4] fiandligum latum, med gudlastan sva segiandi i milli annarra orda: «Svei mer æ

1 *saal. 2 Cdd*; lykr *3 Cdd.* 2 *saal. 4 Cdd;* sign *1 Cd.* 3 *saal. 4 Cdd;* farandi *1 Cd.* 4 *saal. 4 Cdd*; rymiandi *1 Cd.*

verdi, þviat i ollum hlutum em ek yfirstiginn ok undirlaginn af Nicholao erkibyskupi, sva at hann vill engan tima þola, at minn vili standi, ok riss i mot mer med sva miklu kappi, at allt eydiz her a hans timum, þat er mer var huggan i.: Vidr þessa hluti framda signar guds madr Nicholaus sik sialfan biodandi sva alla gera, er nær voru staddir, styrkiandi brædr ok aeggiandi, at þeir standi karlmannliga i guds bodordum hlydandi hans kenningum, fordandiz med þeima hætti allan daraskap diofuligra svika. Hvar fyrir sagdr þionostumadr, er fyrr hafdi odr verit, fellr til fota sælum Nicholao med heilli samvizku ok litillatu hugskoti gerandi sanna idran þeira hluta, sem guds madr vill hann sekan kalla. Vard hann sva vel lærdr i godum guds vinar skola, at alldri sidan dirfdiz diofull hann at gripa.

81. Enn i fiorda tima vill fiandi til hætta at glettaz vid sælan Nicholaum, ef nockut megi hann i afla; þviat eina nott sem blezadr guds vin vakir a bæn sinni ok sira Archiman i hia honum, sia þeir um midnætti sva sem einn stiga uppreistan i kirkiunni, ok þvilikt sem madr færi upp ok ofan æ sem tidazt eptir stiganum. Verdr sira Archiman miok hræddr vid þessa syn, adr guds madr Nicholaus styrkir hann sva mælandi: «Eigi skallt þu ottaz, minn kæri, þviat eigi er þat madr, er þu ser, helldr diofull ovin varr gerandi sina veniu, þviat alldri leggr hann af at freista, ef hann megi i nockuru guds þionostumenn skelfa eda onada.» Eptir þat hefr guds madr upp sina hægri hond med heilogu krossmarki biodandi dioflinum i brott at flyia, ok i stad hverfr stiginn ok sa, sem fylgt hafdi, brott af augliti þeira.

82. Nu sem guds virktavin gofugligr Nicholaus erkibyskup hefir sva undirlagt heiminn ok sialfan fiandann, sem nu er nockut af greint, hellt hann sik sva lagan ok litinn i hugskotinu, at engiskyns ofran geck inn med honum, helldr var hann æ þvi miukari ok guds bodordum hlydnari, sem hans verdleikr geck hærra med sialfum gudi; veitti ok himinrikis fadir honum sva blezodum þvi frabærligri fegrd heilagleiksins, sem hann geymdi sin stadfastligar i krapti hugskotzins; þviat sva tok hann at skina med iarteignum, sem varla er lesit af nockurum manni odrum. Eigi gerdi hann þau ein stormerki, sem nalæg voru hans personu, helldr frialsuduz af þrongingum hverir, sem i fiarska kolludu a hans nafn i sinum naudsynium, hvat er vær skulum birta i fylgiondum æfintyrum bædi synandi hans valld ok litillæti.

83. A nockurum tima voru margir menn uti a sio a einu

skipi, ok þa er minzt varir, kemr a mikil hrid med frosti ok frabærligum stormi. Þvi tekr hafit at grafaz[1], en bylgiur geysaz. Hvar fyrir skipit skekzt[2], reidinn brestr, en lidsmenn mædaz akafliga bædi af fárkulda vedrsins ok brottu bylgiufalli siofarins. Ok sva sem allir nefndir hlutir ogna þessum monnum bradan dauda, hefia þeir upp sinar raddir allir i senn med hormungargrati sva segiandi: «Heyrdu guds þionostumadr, sæll Nicholae! Ef þeir hlutir eru sannir, er vær heyrdum med frægd af þer ganga, bidium vær i miklum haska hryggiliga staddir, at þat sama latir þu oss med eiginligri raun profandi verda, at frialsadir or bylgium ægiligs siofar megim vær þackir gera himneskum gudi ok þer fyrir alla miskunn varrar frialsanar. Þegar sem skipveriar hafa sva talat, kemr okunnigr madr þrifliga buinn upp a skipit sva talandi til þeira, er fyrir voru: «Se, þer kolludut mik, nu er ek her.» Sidan ferr hann til ok er miok lidvaskr i skipinu bætandi hofutbendur ok allan annan skipreida, hvar sem gengit hafdi. Fellr þa ok skiott ofvidrit, en lægiz bylgiufallit, ok gioraz skiparar gladir, sidan þeir voru or ollum hlutum albættir, ok innan litils tima koma þeir farsælliga til þeirar hafnar, er eigi var langt brott fra Mirrea, giorandi sem skiotaz sinn veg til borgarinnar spyriandi innvirduliga, hvar erkibyskup væri. Ok sem þeim verdr sagt, at guds madr er i kirkiu a bæn sinni, skunda þeir þangat med mikilli godfysi. En þegar i stad er þeir sia erkibyskupinn, kenna þeir hann fullgerla brott fra odrum monnum fyrir utan nockurs mannz tilvisan, ok hofdu hann alldri framar sed a sinum lifdogum, en adr var greint i siafarganginum. An dvol falla þeir til fota virduligs herra Nicholai erkibyskups þackir gerandi ok skyrliga bodandi, hversu þeir hofdu frialsaz af haska daudans med hans arnadarordi. En er vars herra vin hefir heyrt þessa sogu, talar hann sva med lagu hugskoti ok frabæru litillæti: «Eigi skulu þer ætla, brædr minir, segir hann, at þetta hafi giorz af minum styrk eda mætti, helldr af veniuligri guds milldi, er ydr virdiz miskunn veita fyrir styrkleik truar ydvarrar en eigi fyrir mik omakligan sinn þionostumann. Nu fyrir þessa grein nemi þer ok skilit, hversu mikit hrein trua ok hiartalig bæn ma fyrir almatkum gudi. Vær erum hversdagliga bardir fyrir syndir varar, ok allt eins ef vær snuumz til guds med ollu hiarta, hrærir hann skiotliga yfir oss miskunn sina frialsandi oss af haska i nalægium pinum; fyrir þvi, brædr minir, se ydr einkannligt gott at gera fylgiandi litillæti ok fatækum

1 *saal. 3 Cdd*; akafaz *2 Cdd.* 2 *saal. 3 Cdd*; skelfr *2 Cdd.*

hialpandi med sannri godfysi; trui þer minum litilleik, at a þeim tima sem madrinn var kastadr fyrir sinn glæp i saurfullan svelg þessarrar veslu veralldar, er engi hlutr af gudi sva framt lofadr sem olmusugædi, ef þat er eigi gert til hegomligrar dyrdar helldr fyrir eina saman hreina astundan gudligrar astar. Nu sem skiparar eru lærdir med sogdum greinum ok odrum þvilikum, undraz þeir miok sva mikit litillæti ok briostzins hogværi, þar med malsnilld ok kraptzins mikilleik, hvat er þeir allt fundu fagrt rikianda med einum Nicholao fyrir gudligan orleik; ok sva vel af gardi giorvir snua þeir til skips heim ferdandiz til sinna herada, bædi a sio ok landi Nicholaum frægiandi. Þvi vard hans nafn vel kunnigt bædi nær ok fiarri. Fylgir her ok annarr hlutr eigi minna hattar bædi synandi byskupliga roksemd Nicholai ok yfirvættis verdleik fyrir sialfum gudi.

84. A þenna tima sem herra Nicholaus erkibyskup skinn þvilikum kroptum i Mirrea fullr med heilagleik ok miskunn heilags anda, helldr Constantinus sonarson Eraklij keisaradom i Grecia, sem fyrr sagdi, sitiandi i fræguztu borg Constantinopoli a Griklandi, hveria er Constantinus hinn mikli, er kristnadiz fyrir predican virduligs herra Silvestri pafa, hafdi fordum uppreist af fornfagudu hreysi prydandi hana med sinu nafni. Nu berr sva til a nockuru ari, at su þiod er Attaphala heitir ohlydnaz keisarans valldi takandi diorfung þa af illra manna tillogum, þeira er fridinn hotudu. Þessi þiod byggvir Frigia, er fyrr var nefnd i upphafi[, hver er[1] liggr i nyrdra hlut Asie minni. Ok er keisarinn fregn tidendi þessi, stefnir hann til sin hofdingium hafandi vid þa radagerdir, hversu sagda þiod skal undir leggia ok lægia af sinu ofdrambi. En þat verdr stodugt, at hann nefnir þria herramenn, Nepocianum Ursum ok Arpinionem, at vera fyrir þessum hernadi. Þessir þrir voru iafnan hofdingiar fyrir lidi keisarans, ef hann striddi, framir menn ok storliga fræknir ok reyndir i orrostum. Þess hattar formenn kalla Greci stratilates en Latini comites, þat þydaz iarlar i norrænu. Þeim bydr herra keisarinn þrifliga buaz med sva miklum skipakosti ok fridazta herlidi, sem þeir þickiz hafa gnogan styrk i mot fyrr sagdri þiod. Ok sva gioriz an dvol, at riddarar herklædaz ok med miklum heimsins metnadi hvatliga buaz, halldandi brott af Miklagardi med fridum skipakosti[2]. En er þeir sigla i haf, byriar þeim storliga litt, þviat styrk austanvedr bægia þeim i brott af

1 [ sogunnar, hun *1 Cd.* 2 skipastoli *2 Cdd.*

Frigia, en sidan nordanvedr, sva at þa keyrir[1] allt sudr i haf fyrir Liciam.

85. Sem þar er komit, fellr vedrit, ok eru þeir þa nærri landi skamt fra þeiri hofn, er Adriaticus heitir, su hofn liggr þriar milur i brott af Mirrea. Ok med þvi at eigi syniz byrligt, leggia þeir inn til hafnar Adriaticum kastandi þar ackerum. Sidan ganga menn a land af skipum; er þar bygd nærri ok god kaupstefna. Vilia hermenn þo illa gera vid landzfolkit, med þvi at formenn banna eigi, sva at þeir ræna lydinn þvi, sem falt var a torginu, beriaz um, ef nockurr vill sitt goz veria, gerandi margskyns uspektir, sva sem hermonnum er iafnliga titt. Ok er landzfolkit kennir sagdan ofrid, verdr þyss mikill ok samhleypi til hefndar ok bardaga i þeim stad, er Platomens[2] heitir, hafa þeir ok sva mikinn her med aeggianaropi ok vapnabraki, at allt heyrir fram i Mirream.

86. Þessum hlutum leynir eigi heilagr andi sælan Nicholaum Mirrensis erkibyskup, helldr birtir hann honum, at hverium vada komit er med landzfolkinu ok keisarans monnum. Hvar fyrir hann hefir sik i stad ut af borginni stodvandi herhlaupit med styrku bodi, sem honum var audvellt, þviat hverr i sinni stodu villdi sva gera, sem honum matti bezt lika. Sem hann hefir frid formeradan, ferr hann signadr allt fram til hafnarinnar heilsandi blidliga upp a herlidsins hofdingia med fadmanda fridarkossi elskunnar sva mælandi: «Hverrar borgar menn eru þer, godir brædr, eda hvadan komu þer i varn landskap, sva sem nockut efanliga, hvart þer erut fridmenn eda fullkomnir hermenn.» En er þeir sia ok heyra sva blezadan fodur, skilia þeir i stad honum sva mikla heilagleiks dygd fylgiandi vera, at þeir þora eigi ordi at svara til spurdra hluta, utan adr framfallnir a iordina sva segiandi med sonnu litillæti: «Heilagr fadir, segia þeir, vær vilium giarna ydrum spurningum serhverium skynsamlig andsvor veita. Af Griklandi or miklu borg Constantinopoli erum vær tilkomnir ok kyniadir; sendir erum vær af sialfum keisaranum til Frigiam, þviat i þeiri þiod risu nockurir drambsamir menn med ohlydni upp i moti krununni; skulum vær lægia þeira ofstopa med guds vilia ok ydru bænafulltingi. Straumar ok ofvidri baru oss hingat at ydru landi, erum vær her komnir med fullkomnum fridi hiartaliga bidiandi, at med ydru bænafulltingi megim vær sæmiliga giora vars herra keisarans erendi, sva at gudi sialfum vel liki ok oss afli sæmdar

[1] *saal. 2 Cd*; berr *1 Cd*; rekr *1 Cd.* [2] *saal. 2 Cdd;* Platentatus *1 Cd*; Flacontanis *1 Cd.*

i þessum heimi.» Guds madr Nicholaus talar þa til þeira miok kærliga biodandi þeim i bod sitt um daginn heim i borgina, at þeir taki blezan til brottferdar. Þeckiaz þeir iarlarnir giarna þetta bod kennandi virduligan verdleik gofugligs fodur Nicholai, biodandi sinum undirmonnum at fordaz hveria ospekt i þeima by, sem Nicholaus bad fyrir. Fara þeir nu fagnandi heimleidis til borgarinnar glediandiz af nalægd sva mikils fodur. Ok sem eptir er skammr vegr, renna ut nockurir menn af stadnum i mot þeim med harmi miklum ok hugaræsingi sva segiandi: «Godi herra ok heilagr fadir, ef i dag væri þer sialfir heima i Mirrea, myndi eigi þrir saklausir menn vera til dauda dæmdir.» Heilagr guds madr svarar þeim sva: «Fyrir hveria sok eru þeir til dauda dæmdir, eda i hverium stad er þeim daudinn fyrirheitinn?» Þeir svara: «Dacianus domandi, segia þeir, hefir blindat sin skynsemdaraugu med gullpenningum at lata þa menn halshoggva, en borgarlydrinn hitnar med sut ok grati, leitandi ydvart miskunnarfullt faderni medr miklu kalli ok hareysti, en fundu ydr eigi.» Guds madr Nicholaus sem hann heyrir sva hord tidendi, verdr hann storliga hryggr uppkveiktr med elldi astarinnar i sonnum algiorleik miskunnarinnar, bidiandi iarlana ser fylgia med mesta skunda fram i borgina.

87. Nu sem heilagr guds vin Nicholaus kemr med sinni fylgd innan borgar i þann stad er Leonti heitir, spyrr hann sem akafligazt, hvat nu væri titt um þa menn, sem skemztu voru dæmdir. Honum er svarat: «Ef þu, heilagr fadir, vill þeim hialpa, þa skunda sem mest, þviat nu skommu voru þeir leiddir fram a stræti hins heilaga Dioscori.» Ok er guds madr kemr i greindan stad, sem hann matti hvatazt, ok finnr þa enn eigi, spyrr hann nærverandis menn, hvart þessir þrir lifdi eda hvert þeim [hefdi skemstu skotid verit[1]. Honum verdr svarat med þeima hætti: «Heilagr fadir, nu voru þeir skommu leiddir ut af borginni sva heitanda port.» Guds madr kveikiz þa at nyiu til eptirsoknar, rennandi ut af portinu sem hvatast, spyriandi moti ser komandi menn, hvat nu lidi þeim þrimr, er dæmdir voru. «Herra minn, segia þeir, þessir menn, er þer at spyrit, eru nu framkomnir i þann stad er Virra heitir, ok skulu þar vera halshoggnir.» At heyrdri þessi grein rennr guds madr fram i greindan stad sem akafligaz, þo miok mæddr af longum veg, finnandi þar mikinn lyd saman kominn, siandi þessa þria menn standandi i midium mannhring med bundnum hondum a bak aptr, at beygdum kniam, huldum asionum ok framrettum svirum

1 [ *saal. 4 Cdd*; væri þa undan skotit *1 Cd.*

bidandi sins dauda; þviat madr stendr uppi yfir þeim med brugdnu sverdi, ok engi dvol onnur a hans hoggi, en su at borgarlydr nær staddr vill med engu moti þola, at þeir menn se drepnir, fyrr en [Nicholaus erkibyskup kemr til alitandi[1] daudasokina. En er herra erkibyskup kemr inn a þingit, tekr hann rettlatr skiott til rads, ottandiz hvarki heimligt valld ne hvasseggiat sverd manndraparans, rennandi þegar i stad fram at þeim, er [brandinn helldr brugdinn[2], treystandi sem leo fyrir utan mannligan otta, gripandi sverdit brott af þeim styrka manni sva segiandi: «Ek er buinn med guds vilia mitt lif ut gefa fyrir saklausan dreyra þessarra manna.» Ok þegar an dvol kastar hann brandinum langt i brott a vollinn, leysandi bandingiana i fullkomnu frelsi af ollu valldi sinna ovina, sva at engi madr i verolldinni þordi einu ordi i mot mæla eda nockurskyns talman a gera, þviat allir menn kendu osigranliga einord erkibyskups ok þar med yfirvættis valld ok verdleik.

**88.** Nu sem þetta er at gert, bidia þeir borgarmenn, sem gott hofdu til lagit þessa mals, at virduligr herra Nicholaus viki til fundar vid Eustachium iarll, er yfirvalld hafdi borgarinnar, sem fyrr var skrifat, þess erendis at segia honum, hversu uheyriliga hann stiornar þvilikum malum. Ok er sæll Nicholaus kemr inn i iarllsins gard med sinni fylgd fram at hans herbergium, er honum sagt af vardhalldzmonnum, at virduligr herra Nicholaus er frammi i gardinum, ok þo at iarlinum þætti betr, at fundi þeira Nicholai erkibyskups bæri nu eigi saman at sinni, þorir hann eigi annat fyrir augu sin en standa upp ok renna fram i gardinn moti erkibyskupinum heilsandi hans personu, sem til heyrdi. En er þeir finnaz, talar guds madr sva til iarllsins: «Þu vandr ovinr rettlætis ok grimmr nidrbrotzmadr logmalsins, hvi giorir þu þik sva diarfan, at þu gengr mer i augsyn ofdryckiumadr blodsins? Þitt ranglæti er sva fagnadarlaust, at miklu sætari kenniz þer dreyri mannzins en seimr hunangsins. Uminnigr ertu fullr af agirni, hvat drottinn bydr i ritninginni sva segiandi: eigi skulut þer fyrirdæma, segir hann, saklausan mann ok rettvisan. Þessa glæps, sem drottinn fyrirbydr i þessum ordum, matt þu kenna þik samvitugan[3] a nalægum timum.» Iarl svarar þa med litillætis yfirbragdi framfallinn til fota erkibyskupinum: «Godi herra, segir hann, reidiz mer eigi of miok ydrum undirmanni, heyrit helldr sannleik ok hafit frammi þolinmædi. Ek er eigi sekr þessa lytis, sem þer,

1 [ blezadr fadir ser adr yfir *1 Cd.* 2 [ a brandinum helldr brugdnum *1 Cd.* 3 samteingdan *1 Cd.*

herra, berit at mer, helldr Simonides ok Eudoxius tveir borgar hofdingiar, þviat þeir unnu verkit; taki þeir hirtingina, badir miklu fliotari til blodsuthellingar en ek.» Nu med þvi at Nicholaus vissi oll sannyndi þessa hlutar, at iarl hafdi þegit meir en tvau hundrut marka silfrs til þess at drepa saklausa, svarar hann iarlinum miok byskupliga, sem her ma heyra: «Eigi er þat satt, iarll, er þu segir, at Simonides ok Eudoxius se fyrir þenna glæp asakandi, helldr þin fiaragirni, þviat silfrpenningar blindudu þin augu steypandi þik fram i þvilika glæpsku. Nu tru ordum minum, at sva illa sem nu samsetr þu ranglæti ok lygi, skal ek eigi þyrma þer ok med engu moti eptirmæli veita þinum glæpum, helldr skal ek greiniliga segia Constantino keisara, hversu hædiliga þu styrir þvi valldi, sem hans herradomr [hefir þik yfir settan[1], þviat þu giorir herskap af hans godvilia; muntu þa makliga sialfr taka þær pinur, sem nu veitir þu odrum aflagliga.»

89. Nærri þessum hlutum standa fyrr sagdir herramenn heyrandi asakanarord erkibyskups a iarlinn, hvat er þeir harma sakir manndomligrar gæzku, bidiandi litillatliga virduligan herra Nicholaum, at hann miskunni iarlsins mali, sektina fyrirlatandi med hofsemd ok litillæti[2]. Ok gofugligr herra Nicholaus heyrir giarna þeira bænir sektina fyrirlatandi, miukliga talandi, tekna meingiord ok kinnroda skriptandi, fogrum ordum aeggiandi, at sva miok fyrirbodna fiaragirni se hann eigi optar fremiandi. Eptir sva gert gengr herra erkibyskup heim til herbergis ok til borz, halldandi fridan fagnat sva lengi sem fyrr greindir herramenn villdu, gefandi þeim at skilnadi blezan sina ok sanna vinattu. Fa þeir sidan farsælan[3] byr heim i Frigiam med bænafulltingi sæls Nicholai, styriolld an stridi nidr setiandi, frid formerandi, allan lyd þeirar halfu undir keisarans herradom aptr kallandi, sidan med sæmd ok mikilli mekt til Constantipolim heim vendandi. En er keisarinn heyrir sva frægiliga ferd þessarra hofdingia, at þeir hafa sigrat hans uvini an stridi eda mannskada, fylliz hann mikilli gledi, farandi ut i moti þeim med allzkyns skemtan ok agætu foruneyti sinna hirdsveita ok morgum lyd karla ok kvenna, leidandi þessa hofdingia inn i sina holl med fullum heidri sva sem nyia sigrvegara, gerandi veizlu agæta med dyrazta kosti veralldar skemtana.

90. Nu sem greindir iarlar hafa sva frabærliga stett i keisarans vinattu, kveikir sialfr fiandinn sva mikla ofund ok illzku i

1 [ *saal. 1 Cd;* skildi (skipadi) þer til rettinda *2 Cd.* 2 *saal. 1 Cd;* rettlæti *2 Cdd.* 3 hagstædan *1 Cd.*

nockurra manna hiortum þar innan hallar, at þeir etaz ok angraz fyrir annarra farsæld med sva helvizkum broddum eitrligs hatrs, at þessa þria hofdingia saklausa vilia þeir hafa i dauda ok þar sitt goz mikit til gefa, at eigi megi þessir menn lengr niotandi verda þvilikrar sælu, likiandi eptir dioflinum sialfum, er ofundadi sælu Adams i paradiso leitandi i mot honum radagerdir, at fyrir bodorda brot yrdi hann af fagnadinum ut kastadr. Sva giora þessir hans limir, honum i fotspor gangandi, sem allir þeir er elska ofundarsyki, aukandi afskapliga sina pinu med annars mannz sælu; þviat einkannliga er þat vidrkvæmiligt, at sa hafi sialfr illt, sem [eigi þolir opindr, at[1] annarr iafnkristinn hafi gott, ok þvi verr, at hann kaupir med penningum, at naungrinn hafi illt. Hvat er diofuligra verk, en at kaupa annars mannz skada med sialfs sins tvifolldum skada, þat er at skilia bædi andar ok likama. Sva gera þessir, sem fyrr voru nefndir, spillandi keisarans hirdstiora med fegiofum gefandi honum meir en þusundrat punda gullz til þess at rægia þessa þria iarla fyrir keisaranum, sva at þeir allir fai skiotan ofagnat. Urdu þeir fyrir þa grein skylldir rogit at kaupa, at med engu moti funduz sannar sakir fram at hafa. Þvi kyssaz her kærliga sin i milli tvær dætr diofulsins ofund ok agirni; þviat sagdr hirdstiori Ablavius at nafni brennr innan med agirndarloga eigi minnr, en ofundarelldrinn leikr þa uvinarins limu, er feit gafu. Uminnigir eru þessir hvarirtveggiu guds ovinir, hvat ritningin segir, sva mælandi sem her fylgir: Giorit eigi flærd eda prett ydvar i milli, þviat sa madr, er med svikum aflar, glatar rettlætinu. Nu ef þessi Ablavius agirndar fullr væri spurdr, hvat hann hefdi aflat, mundi hann skiott svara, at margra manna sæla væri þat. Þessi andsvor hefir hverr madr, er rangliga aflar fiarins, litandi þat eina, er hann tekr inn, en gefr þvi ecki nafn, er hann lætr ut. Er þo sa munrinn, at hann inn tekr fallvalltan penning med fesinki, en leggr ut tru sina ok hiartaliga dygd; her i mot hefir hann þa rikleik i fehirdzlu en fagnadarlausa fatækt i hiartanu, hugsandi hvat hann aflar, en ecki hvat hann missir, kastandi brott i penninga dratt sin beztu audæfi, þat er elska guds ok manna, er hann skylldi leida eptir himneskri skipan til eilifra fagnada; þviat a domsdegi er betri rikleikr sonn elska en morg femuta, fyrir þa grein at fallvollt audæfi frelsa eigi þa menn af helvitis bruna, sem adr neyta þeira rangliga. Hvat er oflitt verdr hugsat i þessum heimi, þa er madrinn setr sik sva agiarnan, at hann hirdir med

1 [ þat ofundar, ef *1 Cd.*

engu moti, hvar hans manndomr ferr, ef penningar liggia i skauti[1], sva sem þessi vansignadr madr er nu skemztu var nefndr, þviat honum þotti engis vert at drepa .ii. salur ok þria likami, til þess at hann fengi gull meira, en adr hafdi hann; þviat senniliga villdi hann i foradi hafa keisarans sal ok sina, þa er hann rægdi saklausa sva talandi med hegomligri dyrd ok gylldum[2] falsaradomi, sem her ma heyra: «Ydr se kunnigt, minn frægazti herra, undir hvers stiorn ok stilliligu valldi allr heimr hviliz i fridi, at su diofulsins drambsemi, sem ut dreifir alla illzku, hefir upp vakit ydr i moti leyniliga ok miok grimma ovini. Senniliga er þat sart at vita, hversu þrir hofdingiar, er ydvarr herradomr sendi til Frigiam, kunnu afskapliga ser i nyt at færa veitta sæmd; þviat þeir faz i þingan ok stefnum vid lydinn, veitandi nu þegar giafir stinnar ok storar sinum samblastrsmonnum fyrir heitandi ymisligar virdingar med gnogum metordum, til þess sem afskapligt er at heyra ok uhæfufullt fram at bera, þat er, minn herra, at drepa ydr en taka sidan rikit undir sik. Nu medr þvi at ek vard varr þessarra svikræda af sialfum þeira kumpanum ok lagsmonnum, þorda ek eigi annat gera en opinbera ydru valldi sva framdan hatt bolvadra svika, at ek fordadiz hrædiligan guds dom, ok eigi fella ek med ovinum guds i ydra misþykt ok reidi; þviat eigi eru þeir einir sekir, er slikt giora, helldr ok allir, er gerandum samþyckia. Hefir ek ydvarr þionostumadr lagit þetta ranglæti mer af baki, giorit þer nu, sem bezt gegnir ydru riki ok þer skilit, at eigi oflgiz of miok ranglætit[3].

91. Sem Constantinus keisari heyrir þvilik ord Ablavij, truir hann fullkomin sannyndi vera, sem trulyndum undirmanni ok kærum vin heyrdi fram at bera, ok fylliz mikillar reidi til fyrr nefndra hofdingia, sva at fyrir utan allt prof lætr hann gripa þa ok inn kasta i myrkvastofu ok fiotra. Ok sem þeir hafa setid um tima, likar rogsmonnum storilla, er sva lengi dvelz daudi þeira; ganga nu til Ablavium i annan tima med mikilli hurran illgiarnra orda ok segia sva: «Til hvers kemr þat, er þu sysladir, segia þeir, at varir uvinir væri innkastadir, ef nu skulu kumpanar þeira ok fulltingsmenn hialpa þeim ok huggan veita hversdagliga, en at siduztu frialsa giora ok fullkomit liduga, sem þeir ætla, en giallda oss allar pinur þeira þrongvinga. Nu giallt þu oss gull vart, at þessir menn fai bana.» Ablavius hlydir enn giarna fiandans erend-

1 *saal. 3 Cdd*; siod *1 Cd.* 2 *saal. 3 Cdd*; myklum *2 Cdd.* 3 ydru valldi i mot *tilf. 1 Cd.*

rekum gangandi an dvol fyrir keisarann med þvilikum ordum: «Ek vil enn gera ydr kunnigt, minn godi herra, fyrir dygdar sakir, at þeir þrir menn, sem þer letut inn i myrkvastofu setia, letta eigi af uppteknum sinum illrædum, helldr hafa þeir enn vandan ok omilldan samburd med lydnum.» Sem hann fagnadarlauss hefir sva talat ok undirflutt, diktar herra keisarinn dauda sentenciam[1] upp a þessa þria menn, biodandi Ablavio sva rad fyrir gera, at a næstu nott fai þeir allir bana. Verdr Ablavius vid þenna orskurd geysi gladr, utgangandi af keisarans herbergi, myrkvastofuvordinn til sin kallandi, sva segiandi: «Þa þria menn, sem þu hefir i vardhalldi, skalltu i nott af lifi taka eptir keisarans bodi.» En er carcerarius[2] heyrir þvilik ord, verdr hann beiskliga hryggr, gangandi til stofunnar med sarum grati sva mælandi: «Ek vil giarna tala vid ydr, herrar minir, en skialpti ok akefdarotti ydvars dauda ognar mer sva, at ek ma eigi ordi upp koma; sart er þat at vita ok hiartaliga hormuligt, at vær skulum skilia verda hina næstu nott med grimmum dauda, ok sæll væri sa, at vær hefdim alldri sezt eda vidkenzt, er varr skilnadr skal sva beiskliga ut ganga. Nu vitit fyrir vist, at orskurdr er fallinn a ydvart mal, sva at a næstu nott skulu þer allir deyia grimmum dauda.» En er fyrr nefndir menn heyra sinn dauda sva bradan fyrirsagdan, ottaz þeir akafliga slitandi klædi sin eptir þesskyns landskap, leysandi lockana, klædandi[3] asionuna, [dreifandi dupt[4] yfir hofut ser, med grati miklum ok veinan sva kallandi upp i himininn allir i senn: «Hvat gerdum vær veslugir ok syndugir, er vær skulum sva rangliga deyia, hverr er sa hinn mikli glæpr, er oss giorir umakliga ollu lagaprofi, hvi skulum vær sva deyia, at oss skal adr enga sok gefa?» Nu sem þeir salugir hafa langa stund sva romat, kemr Nepociano til minnis fyrir iblastr heilags anda, hversu sælazti fadir Nicholaus erkibyskup hafdi styrkliga frialsat þria menn saklausa undan brugdnu sverdi ranglatra; þvi hefr hann sina bæn til almattigs guds med miuku hiarta ok sannri vidkomning taranna undir formi þvilikra orda: «Heyr þu, eilifr gud, verandi konungr ok uppras[5] allrar birti þessa heims, þu ert skapari hlutanna[6] ok skipari þiodanna. Medr þinu bodi beygiz loptit moti iordunni, ok þu temprar hafit, at eigi drecki þat iordina. Miskunna þu oss, drottinn, þinum þionostumonnum frialsandi oss i stormerkium þinum, sva sem þu

1 urskurd *1 Cd.* 2 myrkvastofuvordrenn *1 Cd.* 3 *saal. 1 Cd;* blodgandi *1 Cd*; blediandi *2 Cdd.* 4 [ ausandi dupti *1 Cd.* 5 uppspretta *1 Cd.* 6 herranna *1 Cd.*

liduga gerdir þria menn fyrir vin þinn sælan Nicholaum.» En er þeir tveir heyra þvilik ord af munni Nepociani, kemr þeim i hug at kalla a signat nafn Nicholai, ok sva segia þeir allir i senn med hareysti: «Heyr þu mikill ok milldr guds iatari, virduligr herra i verdleik ok nafni, þionn eilifs konungs, heyrdu agætr forsiomadr fiarhlutar drottins þins, hinn sælazti Nicholae! vertu nalægr varum bænum, þott þu ser oss fiarlægr at likamanum, frialsandi oss af haska daudans, sva sem þu leystir þria saklausa menn undan sverdi manndraparans, at vær lidugir fyrir þinar gofugligar bænir odlimz at lita þina asionu, þackir gerandi fyrir sva miklum velgerningi, sem nu ter þu oss, virduligr guds iatari.»

92. Nu sem iarlarnir hafa lyktad sina bæn, birtiz sæll Nicholaus Constantino keisara a þeiri somu nott, þegar skiotliga sem hann er sofnadr, ok enn er eigi kominn sa timi, at carcerario syniz vidrkvæmiligt at taka fyrr greinda menn af lifi. Erkibyskupinn gengr diarfliga inn i keisarans holl ok at honum med snorpu andliti[1]: «Þu Constantine, segir hann, ris upp i stad, biodandi at þeir þrir menn riddarahofdingiar, sem þu rangliga inn kastadir, se utleiddir af myrkvastofunni fyrir utan alla hindran, þviat þeir eru med ollu saklausir ok daudans umakligir. En ef þu dirfiz at hafna [þessi min bodord[2], mun ek bidia drottin minn Jesum Krist, at hann reisi upp i moti þer oþolanligan bardaga, skalltu þar deyia, ok ek skal þinn likama skogdyrum gefa.» Vidr þvilika heitan skelfiz keisarinn storliga miok ok svarar sva: «Hverr ertu, segir hann, sva furduliga diarfr ok yfirvættis mattugr, at a nattar tima treystiz at ganga inn i holl vara?» Sæll guds madr svarar: «Ek er, segir hann, Nicholaus Mirrensis erkibyskup», brott hverfandi eptir þat af keisarans augliti. A somu stundu birtiz agætr byskup vandum Ablavio talandi reiduliga til hans þvilikum ordum: «Þu ranglatr domari, fullr med bleckingaranda, hladinn med prettum ok undirhyggiu, falsi ok hegoma, ris upp an dvol ok lat or myrkvastofu leida þa þria hofdingia, er þu hefir umilldliga leikit fyrir solltinn hungr þinna glæpa. Nu ef þu dirfiz odruvis at gera, skal ek bidia drottin minn, at yfir þik komi fyrirlitlig bradasott, sva at þu vellir modkum til bana, ok þitt hyski fyrirfariz hlutlaust allt saman godrar minningar yfir iordina.» Ablavius verdr hræddr vid sva strida asakan ok svarar þo um sidir sva segiandi: «Hverr ertu, er sva stritt talar, eda hvadan komtu?» Guds madr svarar: «Ek

1 *saal. 1 Cd*; vidbragdi *2 Cdd*; ifirbragdi *1 Cd*. 2 [ *saal. 2 Cdd*; þessor min bodord *1 Cd*; þessum minum bodordum *2 Cdd*.

er Nicholaus þionn drottins vars Jesu Kristz Mirrensis erkibyskup», ok hverfr i brott sidan.

93. Nu er þat titt med keisaranum, at hann þorir eigi til svefns at fara, medan sva buit stendr; riss hann upp ok sendir eptir Ablavio. Er þetta miok allt i senn, sem fyrr var greint. Ok er þeir finnaz, segir hvarr odrum, hvat heyrt hefir ok sed. Hvar fyrir keisarinn bydr honum, at hann fari til myrkvastofunnar aptr kallandi orskurdinn, ok geymiz menninir i betra stad bidandi morgins, ok sva geriz. En a næsta dag eptir bydr keisarinn þessa þria menn leida fyrir sik, sva at mikill mannfioldi var saman kominn, litandi til þeira i fyrstu grimmum augum ok ognanda andliti sva segiandi: «Segit veslugir menn, med hvers meistaradomi þer erut lærdir a galldralist at unada oss a nattar tima medr spottsamligum sionhverfingum?» En sva snorpum keisarans ordum þora þeir salugir engu svara sakir hrygdar daligs dauda, helldr standa þeir med lutu hofdi þegiandi ok skialfandi. Ok er keisarinn hefir spurt þrysvar med sama hætti, svarar Nepocianus ok þo miok hræddr sva mælandi: «Sva sem almattigr gud gaf ydr i hendr, godi herra, taumalag þessarrar veralldar i stiorn ok riki giptufullrar sæmdar, sva namum vær alldri ydrir þionar forneskiu svikligrar flærdar.» Keisarinn talar þa: «Segit oss, ef þer kennit þann mann er Nicholaus heitir?» En er þeir heyrdu Nicholaum nefndan, taraz þeir med miklum fagnadi, sva at allir kvomuz vid, þeir er nær voru, sva segiandi sem einum munni: «Heyrdu þionn hins hæsta guds, sælazti fadir Nicholae, hialpa þu ok frammi statt, at þrir menn piniz eigi saklausir.» Ok er hliod fekz, talar enn keisarinn: «Setid nidr hiartaligan otta likamligs dauda bodandi oss, hverr þessi Nicholaus er, sva sæll ok rettlatr, trulyndr, milldr, heilagr ok nalægr eilifum gudi odaudligum, at hann ma gera þvilika hluti.» Þeir byria þa skorugliga sinn framburd segiandi af sælum Nicholao, hvat er þeir hofdu sed ok heyrt. En eptir þat talar keisarinn: «Farit sem hvatazt ok gerit klædaskipti, margfalldar þackir gudi veitandi ok þessum sælazta manni, er ydr frialsadi af lifshaska med sinu bænafulltingi. Her med skulu þer bua ferd ydra til fundar vid þenna agætazta guds mann, takandi ut af varri fehirdzlu sæmiligar giafir, er vær vilium senda honum; her med bidit hann einkannliga af varri halfu, at hann se var minnigr i sinum bænum vid varn herra Jesum Krist, þann er dyrligr er i sinum helgum monnum gerandi stormerki a himni ok iordu.» Þessum keisarans bodordum verda fyrr nefndir hofd-

ingiar fegnari, en fra megi segia, takandi ut af keisarans thesaur dyrar presentur, þat var bordfara [skal mikil[1] med raudu gulli, sett dyrum steinum, ok onnur ker minni grafin med undarligum hagleik i meistaradomi agætum; her med eina bok alla buna med skæru gulli, ok tvær kertistikur med sama kosti hreinazta gullz ok agætliga gervar med frabærligu formi. Þessar giafir bera þeir fram signadum Nicholao erkibyskupi, berandi honum vinsamliga kvediu keisarans med þeim bænarordum, sem fyrr voru skrifut, segiandi honum allan hatt hins fyrra efnis, margfalldar þackir gerandi greindrar miskunnar. Ok er vars herra vinr heyrir þeira ord, hefr hann augu sin til himins lofandi himneskan fodur fyrir alla sina miskunnsemd stormerkiliga synda i þessu mali, sem hann ubrigdiliga fremr yfir himin ok iord allt fra upphafi, gefandi greindum hofdingium blezan sina at skilnadi, snuandi sidan aptr til sinna eiginligra hluta med gledi ok andligum fagnadi i varum herra Jesu Kristo. Heyrdi milldr drottinn ok miskunnsamr af sinu hasæti bænir virduligs herra Nicholai framsteyptar fyrir riki ok radi herra Constantini, þviat nefndum keisara gafz fyrir gudliga milldi veralldligt afspringi, makligr erfingi yfir hans hasætisstol uppsitiandi Constantinus hinn þridi, sva lengi rikiandi, næstr fyrir Justinianum keisara, sem i upphafi sogunnar matti undirstanda.

94. A nockurum tima kemr fyrir syndagialld mannanna sva oflugt hungr ok hallæri inn i Liciam, at menn hafa [vist eigi likams[2] naudsyniar, þviat sædin friovaz eigi, neitandi sinum faganarmonnum veniuligt vidværi. Af þeima hlut angraz guds madr sæll Nicholaus storliga miok, er hann ser eymd ok vesaldarpinu lydsins, en fær eigi at gert sakir hallæris. Ok er þessi hegndartimi stendr yfir, koma storskip morg saman or Egiptalandz hafi leggiandi inn til hafnar Adriaticum, er fyrr var nefnd. Þessi skip eru keisarans eign af Miklagardi nykomin af Alexandria or Egiptalandi hladin med hveiti ok dyrazta kosti. Ok þegar i stad sem landzfolkit hefir vissu af, drifa þeir til skipanna falandi hveitid fyrir fulla penninga; en skipamenn neita þeim [alla solu[3], segiandi gozit keisarans eign en eigi sina. Hverfa þa landzmenn hryggir fra, takandi þat rad er þeim hafdi alldri brostid, þat er at renna til Nicholaum erkibyskups bodandi honum nalægd skipanna ok andsvor formannanna. Ok þegar i stad fyrir þeira bæn hefir blezadr Nicholaus sik fram

1 [ *saal. 1 Cd;* ker skal storliga mikil *1 Cd*; st(!) storliga mikil *1 Cd*; stettarker storliga mikit *1 Cd.* 2 [ *saal. 2 Cdd*; eigi likams vist ser til (vist i) *2 Cdd.* 3 [ allri solu *1 Cd.*

i veg til hafnarinnar. Nu sem hann kemr þar, heilsar hann astsamliga keisarans monnum talandi sidan med þeima hætti: «Þat er mitt erendi med bænarordum hingat til ydvar, dugandis menn, at þer litid godmannliga fyrir guds skylld yfir hungr ok vesold þessa folks, er naliga hnigr af matleysi[1], veitandi nockut af þvi mikla hveiti, sem þer hafit medferdar, at þar fyrir næriz lydrinn ok lifi.» Þessum erkibyskupsins ordum svara formenn skipanna: «Fadir, segia þeir, eigi þorum vær hlydni veita þvilikum bænarordum, þviat vær hofum eigi traust af keisarans[2] vinattu yfir þess hattar gerdum, helldr varum vær þvingadir[3] til eigi fyrir miklar sakir at fara til Alexandriam eptir sva miklu hveiti, sem allt er mællt ok reiknat upp i herra keisarans varnad.» Sæll Nicholaus talar þa: «Giorit brædr minir, sem ek bidr, at sagdr lydr fordiz sva mikla pinu, reiknit ut hundrat mæla hveitis af hveriu skipi kauplaust, en ek geng i borgan, fyrirheit ok framiattan i nafni drottins mins, er ek þionar, at þer skulut engan þurd a finna þann tima, sem þer hveitid ut reiknit umbodsmanni Constantini keisara.» Sva mikill kraptr fylgir þessa mannz ordum erkibyskupsins, at skiparar þora med guds vilia þessu iata, veitandi af hveriu skipi hundrat mæla. Ok þegar sem þat er gert, eru lyktud erendi þeira i nefndan stad, ok fa blidan byr ut af hofninni siglandi farsælliga, sem æskiligaz matti, þar til er þeir taka Miklagard; reikna keisarans monnum sva mikit hveiti upp ok nidr i alla stadi, sem þeir ut toku af Alexandria i fyrstu. Ok er þeir hugleida med ser, hversu fagrliga fullgert er fyrirheit Nicholai erkibyskups, þora þeir eigi [fyrir gudi at hallda nidri[4] þviliku stormerki, helldr boda þeir sannliga keisarans monnum allan hatt þessa verks fra upphafi til enda; lofa þa hvarirtveggiu guds nafn, er þvilik stormerki vinnr fyrir ast ok elsku sinna þionostumanna.

95. Af guds manni Nicholao er þat greinanda, at hann parterar lyd sinum i Licia þat hveiti, sem fyrr var skrifat, skipandi hverium til handa sva mikit, sem honum syndiz þorf til vera. Fylgdu þessu hveiti onnur stormerki eigi minni, þviat fyrir orleik almattigs guds veittiz þvi sva mikil aukning med guds vinar sundrskipting, at ollum ok serhverium vann vel þorf þat ar ok annat til. Her med sadu margir þessu hveitikorni til avaxtar, ok blektiz engi madr i tomum ristli, helldr tok hverr ok einn god starfalaun

1 hardretti *1 Cd.* 2 alfu eda *tilf. 1 Cd.* 3 *saal. 2 Cdd*; þungadir *1 Cd*; þyngadir *1 Cd*; þyngdir *1 Cd.* 4 [ annat en hallda upp *1 Cd.*

sins erfidis med gnogum avexti, hvat er engum manni mun þickia utruanligt, þviat þetta sialft er fyrirheit vars herra Jesu Kristi sva segianda: «Ef þer hafit tru sva sem mustardzkorn, munu þer segia þessu fialli: far hedan i brott, ok þat mun i stad fara.» Þat annat er varr herra segir sva: «Sa er a mik truir, segir hann, mun gera þvilik verk sem [1] ek giorir, ok hann mun giora meiri hluti.» Senniliga trudi Nicholaus a þenna sama drottin, i hvers fulltingi hann matti vinna þvilikt ok sva mikit stormerki.

96. I þessum tveim iarteignum næstum er audsyniliga birt, sem vær fyrr sogdum, byskuplig roksemd, einord ok forstada, er guds madr Nicholaus veitti kristiligri hiord ser undirgefinni. Her skinn liosi biartara, hverir heilagleiks gimsteinar riktu med frabærri fegrd i gofugligum anda Nicholai erkibyskups, at hann daudligr madr i brigdiligum likama var sva nalægr bænum til sin kriupandi manna, sem þeir er sigrat hafa heiminn ok eru uppteknir af hollzins logmali til eilifra fagnada. Her med var hans truar styrkr sva mikill i gudi, sem nu matti heyraz i næsta capitulo, at eptir þvi sem sannleikrinn vattar in ewangelio, matti hann fiollin or stad hræra, þviat ufalsadri tru i sonnum gudi er ecki umattuligt at gera. Var ok eigi undarligt, þott Nicholao erkibyskupi gengi greitt at þiggia kraptalanin af gudi, þviat sa var honum storliga nærri, er veitir þvilika hluti; sva nalægr, sem i ordum drottins vars Jesu Kristz verdr liost, er hann segir: «Ef nockurr elskar mik, segir hann, sa mun vardveita mitt bodord, ok fadir minn mun elska hann, ok vit munum koma til hans ok gera vist med honum.» Nu þa senniliga elskadi Nicholaus þenna sama Jesum, er sva taladi, þviat i ollum hlutum af hans lifi frambornum verdr skilianligt, at hann vardveitti bodord lifanda guds sonar. Hvar fyrir gud fadir ok hans eingetinn sonr skipadi sitt sæti medr honum, ok sidan gud var i sæti kominn medr hans salu, var hann senniliga sialft himinriki vordinn, þviat almattigum einvalldzkonungi heyrir eigi annat sæti at hafa en himininn, hvat er drottinn skyrt vattar sva talandi fyrir spamanninn: «Himinn er sæti mitt.» Ok hinn visi Salomon giorir enn liosara: «Rettlatz mannz ond er sæti spekinnar,» segir hann. En Paulus vattar, at Jesus Kristr er guds kraptr ok speki guds. Nu er med vitnisburd ritninganna liost ordit, at ond rettlatz mannz er himinn, þa er sæti guds er kalladr himinn. Hedan segiz af heilogum predicorum fyrir salmaskalldit: [Celi enarrant gloriam dei [2]. Vidrkvæmiliga segium

1 ok *1 Cd.* 2 [ himnarnir boda dyrd guds *1 Cd.*

vær signada ond Nicholai erkibyskups himinriki eptir orskurd hins mikla Gregorij, fyrir þa grein at hann girntiz ecki stundligt her a iardriki, helldr fystiz hann uaflatliga til himneskra fagnada. Þvi bygdi drottinn med honum sva sem i himneskum hlutum, hvat er enn mun [eigi leynaz[1] fyrir byrianligan æfintyr, hversu spadoms andi geislar hann i gegnum ok gæddi med vitzku ok valldi, framarr en fyrr se lesit i frasognum.

97. Einn storliga rikr madr var i þeiri halfu Licie, sem hnigr undir erkistolinn i Mirrea, var þessi madr kvæntr, ok miog eptir þvi sem honum þotti bezt, þviat husfru hans var honum miok skaplik, eigi til godra verka helldr til undirhyggiu ok flærdsamligra svika medr allzkyns agirni ok fiandligri fesnikni. Fylldu þessi hion þat, er fyrr var skrifat i capitulo agirndarinnar, at þau gafu engan gaum at, hvar manndomrinn for, þegar fefongin lagu vid. Var þat fyrsta kyn illz tilbunadar, at þau letu miok mannfatt vera i sinum herbergium hafandi sialfra sinna[2] vardveizlu yfir ollum hlutum, þviat þau trudu engum, ok i odru lagi sva timulaus[3], at þau mattu alldregi verdskyllda goda þionostu af nockurum. Var þeira gardr i kaupstad einum, ok mattu þau fyrir þa grein marga vega komaz at penningum. Nu berr sva til einn dag a þeira gardi, at þangat koma þrir okunnir menn med godan kaupeyri; beida þeir bonda veita ser herbergi um nottina, þviat þeim monnum var okunnigt fyrir. Fylldiz þat med þessum monnum, sem ordzkvidrinn[4] segir, at okunnr kaupstadr stelr margan mann fe. Lætr bondi sem hann se hinn beinazti vid gesti skipandi þeim ok gozi þeira utiskemmu nockura, litr a fiarhlut þeira, ok syniz miok fagr ok eiguligr. Lidr sidan dagrinn ok kemr nottin; segir þa husbondi fru sinni, sem adrir menn eru i svefni, at þau skulu upp standa ok rada at kaupmonnum, þviat þeir hafa sva mikit goz, segir bondi, at þat er fullfengi. Þesskyns radagerdar var husfreyia allz ecki letiandi; þvi standa þau upp hliodliga bædi samt, tekr bondi breidoxi sina harhvassa ok gengr med hana til skemmunnar, luka þau upp hurdu ok stilla hliott þar til, er gestir sofa. Hafdi bondi veitt þeim um kvelldit flatsæng eina at sofa i ollum saman, var fyrir þa radagerd storliga hægt at vinna at þeim skiott. Ok þegar i stad gengr bondi upp at sænginni hoggvandi um sinn til hvers þeira sva hart ok titt i hofudit, at stendr i heila. Sem þeir

1 [ reynaz *1 Cd.* 2 *saal 2 Cdd*; sin *3 Cdd.* 3 *saal. 3 Cdd;* trulaus *2 Cdd.* 4 malshattrinn *1 Cd.*

eru allir erendir[1], bera hion saman rad sin i annan tima, hversu nu skal med likamina fara, at engi madr a iardriki megi þessa viss verda. Þvi skytr þeim i hug, sem undarligt er frasagnar, at þau skuli kryfia bukana ok taka i brott or innsterin sockvandi þeim med grioti nidr undir einn fors, er nærri fell stadnum, en bukana sialfa syniz þeim at sallta nidr i eina grof nedst undir þar, sem vidværiskostr þeira liggr uppi yfir. Þetta sem nu var skrifat, fylla þau allt ok fullgera, adr lysir af degi. Giorir bondi um morgininn snemmindis ord a fyrir heimamonnum, at furdu tidlatir væri kaupmenn þessir til brottfarar med allt sitt, ok þat annat segir hann, at þeir vilia eigi seinaztir verda fram a torgit til kaupstefnunnar.

98. Eigi miklum tima sidar en bondi hefir sva umannliga aflat fiarins, visiterar gofugligr guds vin Nicholaus erkibyskup syslu sina, ok kemr hann med sinu agætu foruneyti i þenna sama stad, gerandi menn fram fyrir til þessa rika mannz, at hann vill þar kost hafa med sinni fylgd. Verdr bondi storliga feginn sem adrir at herbergia þvilikan gest. Byr bondi sin herbergi med bezta kosti ok gnogum fagnadi gangandi ut i moti erkibyskupi med blidu andliti. En er virduligr herra Nicholaus hefir til bordz gengit, ok vistin er framborin, sitr hann þegiandi ok blezar eigi. Ok er stund hefir sva lidit, yrkir bondi a þegianda erkibyskup sva segiandi: «Herra, segir hann, hvat berr til, at þer sitit sva, ok blezit eigi ne snæding takit?» Sæll Nicholaus svarar: «Þat berr til þess, husbondi, at þu hefir enn eigi framborit fyrir oss þa retti, sem vær vilium fyrsta taka.» «Minn herra, segir hann bondinn, ek villdi enga mina eign undandraga, at þer ok allir ydrir menn mættit sem beztan fagnad hafa.» Nicholaus erkibyskup svarar þa: «Þessi þin ord munum vær profat fa, bondi, hvilika alvoru þau hafa. Statt nu upp i stad ok syn mer kostinn; vilium vær yfir lita ok segia þer sidan, hvat oss fysir at hafa.» Sva gioriz i stad med guds vilia, at bondi riss upp, ok erkibyskup gengr undan bordinu, biodandi at allir hans menn siti kyrrir ok bidi þar til, er hann kemr aptr. Sva ganga þeir bondi ok erkibyskup badir samt at þvi husi, sem bondi lykr upp med bodi virduligs herra Nicholai. Ok þegar sem lassinn er fra, gengr erkibyskup snudigt at grofinni ok bydr bonda þar upp taka kostinn, ok segiz sia vilia. En er bondi hefir upp tekit marga hluti, en erkibyskup segiz iafnan vilia sia þat, sem nedar er, skilr bondi, at fyrir spaleiks andagipt er

1 *saal.* 2 *Cdd*; eyrendir 2 *Cdd*; daudir 1 *Cd.*

hann hondladr i sinum glæpum, ok nu giorir ecki undan at fara. Veitir þat ok lifanda guds miskunn, at nu rennr til med honum hiartalig idran med geysiligum grati, sva at [fliotandi tar ok hugaræsingr audsynir hann idranda fyrir sinn glæp,[1] tekr hann upp bukana ok synir erkibyskupi. Ok er sæll Nicholaus hefir at hugat, spyrr hann, hvar idrin væri komin. En bondi segir, at þeim hefir hann sokt medr þungu grioti nidr undir sva diupan arfors, at engi er van i, at þau megi finnaz. Sæll Nicholaus vel treystandi i gudi bydr bondanum at fara til forsins, ok segiz sia vilia, hversu þar er fallit. Nu sem þeir koma til arinnar, bidr signadr Nicholaus bæn sinni litla stund ok blezar sidan fram yfir flugastrauminn[2]. Ok an dvol skytr upp idrunum med ollu þvi grioti, er fylgt hafdi, sva at i stad ma nalægiaz ok til landz færa. Ok sem þetta er gert, ganga þeir heim aptr til bæiarins. Bydr erkibyskup þa bondanum þva bukana sem vandvirkligazt, ok eptir þat gert lætr sæll Nicholaus aptr insterin i serhveria bukana, sva sem hann hugdi at legit mundi hafa, ok þrystir sidan saman ok bidr yfir bæn sinni til almattigs guds i himinriki, hverium gladliga þionar lif ok daudi. Ok skiotliga heyriz þessi mikla bæn af himnesku sæti sva framt, at sialfr gud er þa miskunn veitandi bænarordum sæls Nicholai, at hann sendir aptr lifsanda i sva forna likami ok reisir til lifs þessa þria menn i sinum almætti. Bydr guds madr þessum ollum at lifa vel. Bonda segir hann þat eina fyrir liggia at fyrirlata eigu sina ok gera penitenciam æfinliga fyrir morg ranglæti sinna illra framferda. En þeim sem upp voru reistir, tiar hann einkanliga naudsynligt at fyrirlata þeim, er vid þa hefir misgert, ok geyma sin i godu lifi, at su amban, sem fyrr veittiz þeim fyrir saklausan dauda, mætti alldri endaz, helldr ubrigdiliga standa. Ok sva mikit veitir gud drottinn sinum iatara, at allir þessir vilia hans aminningum hlyda ok vel fylgia, leidandi fagra lifdaga allt til enda. En sæll Nicholaus ferr sidan brott af þeima stad i syslu sina. Gefr i þessum hlut vel skilia, hversu heilagr andi guds hefir rikt[3] med blezudum Nicholao erkibyskupi, er bædi var audgadr i spadoms gipt ok yfirvættis verdleikum fyrir gudi. Senniliga var þat mikit verk at reisa þria menn af likams dauda, en þo var enn meira at reisa einn mann af tvennum dauda bædi andar ok likama, sem skrifat finnz i framburdi herra Gregorij hins mikla. Fyrir utan ef var greindr bondi daudr i sinum glæpum, adr

1 [ *saal. 1 Cd*; i fliotandum (fliotandi i) tarum ok hugaræsingi *3 Cdd.*
2 *saal. 2 Cdd;* flugaforsinn *1 Cd*; arforsinn *1 Cd.* 3 verit *tilf. 1 Cd.*

lækniriun hialpadi honum leidandi hann til lifs fyrir idran ok yfirbot. Þvilik eru storf ok erfidi heilagra manna at stunda þat nott med degi at draga andirnar fra tion ok tapan til yfirbotar ok uendiligrar gledi. Þessi var ahyggia guds vinar Nicholai at afla sem flestar salur sialfum gudi, hvar fyrir hann var miok gagnstadligr þvi valldinu, sem alla vega stridir þvers i moti, þat er diofulsins herskapr, er þat æ stundar at draga sem flesta fra gudi. Þvi var diofullinn einkar hræddr vid sælan Nicholaum, at kraptr astarinnar striddi i mot honum, hvat er enn mun betr liost verda med næstum æventyrum.

99. A nockurum tima, sem guds vin Nicholaus er heima staddr i Mirrea, koma til hans menn af þeim kastala, er heitir Pluvit. Þessir heilsa virduligan fodur, þar med bidiandi miuklatliga sva segiandi: «Vær bidium allir saman ydra helguztu godgirnd, elskuligr fadir, at þer virdiz oss fullting veita i þeima hlut, sem oss er miok naudsynligt, en vær megum eigi orka. Cipressus storliga mikit tre stendr nærri varum kastala, er vær villdum fyrir naudsyn upphoggva; en ohreinn andi byggir i trenu, sva at vær megum engan hlut at gera, þviat hann bannar oss nærri koma. Nu truum vær stadfastliga, ef þer komit til ok veitid trenu [hinn fyrsta slag[1], at vær munum þegar vinna mega þat, sem naudsynligt er varum kastala.» En sæll guds madr gloandi med sannri elsku guds ok manna, sem hann undirstendr ord ok erendi Pluvitanorum, svarar hann þeira bæn sva segiandi: «Ek vil giarna, brædr minir, þetta veita ydr at fara med ydr, verdi vili drottins vars.» Nu sem guds madr kemr med sinu foruneyti þar til, er cipressus stendr, þora kastalamenn med engu moti nærri koma eda nockut at gera. En sæll Nicholaus gengr til uskelfdr med miklu trausti, gerandi heilagt krossmark yfir trenu, en hoggr siau[2] sinnum med bolauxi, ok bidr sidan kastalamenn til ganga i guds nafni ok vinna diarfliga. Ok er margir menn ok sterkir hafa þat mikla tre hoggit undir trausti sæls Nicholai, sva at bifaz ok byz at falla, ætlar diofullinn enn til hefnda fyrir[3] þvilikar meingiordir, ok lætr treit rida med miklum gny ok vaveifligum þvers af ut a þann veg, sem lydrinn stendr flestr undir. En er Nicholaus ser þat, rennr hann sem hvatligaz upp undir treit ok stingr vid badum hondum sva sterkliga ok stormerkiliga, at hann fleygir þvi brott annan veg a vollinn, þar sem engi matti fyrir verda. Ok er fiand-

1 [ *saal. 2 Cdd*; hit fyrsta slag *2 Cdd*; atak med hinum fyrsta slag *1 Cd.* 2 þrim *1 Cd.* 3 eptir *1 Cd.*

inn ser sva mikinn sigr Nicholai, flyr hann brott æpandi med miklu hareysti ok illum latum sva segiandi: «Nu for enn eigi vel, þviat fyrst glatada ek bygd mina, en er ek ætlada til hefnda at leita þar fyrir, matta ek engu a leid koma, ok hvat er vandara en þat, Nicholaus, at þer ofsækit mik, hvar sem ek em. Verdr ek nu enn vesall þessa mina bygd fyrirlata ok brott at flyia.» Var þat undir med annarri meingirni diofulsins, at sagdr cipressus var sva mikill frægdargripr sakir lengdar ok digrleika, at þar mattu hofudsmidir marga nytsemd or gera; geck þat allt eptir radi ok tillogu sæls Nicholai, hvat helldz skylldi smida or þessarri gersimi.

100. A odrum tima koma margir menn til sæls Nicholaum af þeim kastala sem Arnaven[1] heitir, bidiandi miuklatliga allir i senn sva mælandi: «Godi herra, segia þeir, bidium vær, at þer litit a vara naudsyn; brunnr hardla fridr var fordum nærri varum kastala, en hann er nu onytr ordinn sakir þeirar ogiptu, at þar fell i nidr kona vitlaus ok druknadi, en sidan er brunnrinn onytr[2] med ollu, sva at hvarki madr ne kvikvendi þorir af honum drecka, þviat ohreinn andi byggir i honum ok æpir[3] allar nætr. Nu i annarri grein vitum vær, at nærri kastala varum hefir fordum brunnr verit a halsi einum, en nu er hann horfinn ok huldr, sva at hvergi finnz. Fyrir þvi truum vær, heilagr fadir, at gudlig milldi mun oss huggan veita fyrir þinar bænir, þviat vær þolum [dagliga þvingan[4] sakir langs vatzburdar.» Signadr Nicholaus svarar þeira mali: «Se, brædr minir, vær skulum taka med hæstu virding gudspiallabok lausnara vars ok fara allir saman þann veg, er þer visit.» Verda kastalamenn þessu miok fegnir ok segia leid upp a halsinn. Ok er sælazti guds vin Nicholaus kemr þar, fellr hann fyrst a bædi kne til bænar bidiandi drottin miskunnar sva hatt, at þeim vard ollum skilianligt, er hia voru staddir. Sidan tekr hann sialfr sinum hondum eitt graftol ok grefr sva langt nidr i iord sem helming annarrar alnar, ok þegar i stad sprettr þar upp vatn sætt smatt ok lystiligt af hreinni ædi. Lofudu allir nærverandis menn drottin varn herra Jesum Krist, er veitti sinum þionostumanni fagran brunn lifanda vatz. En sæll Nicholaus vill med litillætis hamri nidr briota lydsins akefd ok undran sva segiandi: «Eigi skulu þer mer þat kenna, sem gud hefir veitt i þessum stad, helldr miskunn hans ok tru ydvarri.» Þvi næst ganga

1 *saal. 1 Cd*; Aftiaven *2 Cdd*; Afnanen *1 Cd*; Karnaven *1 Cd.* 2 *saal. 2 Cdd*; ohæfr *3 Cdd.* 3 gaular *1 Cd.* 4 [ *saal. 1 Cd*; dagliga þungan *1 Cd*; dagligan þunga *2 Cdd.*

kastalamenn til þess sama brunnz, er lengi hafdi bannsettr verit, sem fyrr var greint, heyraz þadan um langan veg ramar raddir ok diofulig oskran[1] med oþekt ok ottabodi. En iafnskiott sem guds vin Nicholaus hefir gert sina bæn til guds nær brunninum ok sagt er Amen af ollum nær stondondum, sez diofullinn upp skrida or brunninum blistrandi eda gneggiandi med hrædiligum latum. En er þat hefir gengit um stund, þagnar hann ok lætr, sem honum se sva erfitt ok mædit, at varla gæti hann ordi uppkomit, ok þo talar hann lagt ok vesalliga med þungum hvæsingi sva segiandi: «I morgum stodum er þat reynt, at ek verd lagt at skrida undan augliti Nicholai, þviat þungr madr verdr mer hann i afalli[2].

**101.** A nockurum tima komu þrir menn fyrir Nicholaum med odan mann ok mælltu vid hann: «Margar þrautir gerdi oss sia hinn odi madr, at eigi birtiz hann ydvarri asionu.» En heilagr fadir Nicholaus svaradi: «Leysit þer skepnu guds, þviat drottinn Jesus Kristr mun biarga honum.» En þeir svorudu: «Eigi treystumz vær, herra, at leysa hann, þviat brott flyiandi mun hann sidan alldregi finnaz.» Nicholaus mællti þa: «Engum manni er þat mattuligt at flyia or augliti almattigs guds, þviat hans nalægd er hvervetna.» Sidan gengr hann til kirkiu ok tekr vidsmior or einu glerkeri, þat sama vidsmior var hann fyrst vigiandi ok þvi sama sidan smyriandi hinn oda mann i nafni fodur ok sonar ok anda heilags, ok leysti hann eptir þat. En af guds miskunn ok bænakrapti ens virduliga fodur Nicholai flydi þegar fiandinn, en hinn odi madr vard alheill at hugskoti ok likam, ok for sidan leidar sinnar lofandi gud allzvalldanda ok hans hinn helgazta astvin. Sva ok þeir, er hann leiddu þangat bundinn en sá hann nu frialsadan, þockudu gudi hans heilsu ok hinum blezada Nicholao. Voru þessir menn tilkomnir af þeim kastala ok heradi, er Androma heitir, vendandi aptr med hiartaligum fagnadi til sinna eiginligra hluta lofandi sannan gud ok dyrligan.

**102.** Nockurr blindr madr Antonius at nafni sat hversdagliga frammi fyrir kirkiu fyrr greindra guds piningarvatta Dioscori ok Crescencij, hann hafdi þriu ar sionlauss verit, veitandi læknum marga penninga ser til heilsubotar ok at þarflausu, þviat engi þeira matti honum bot vinna. Nu sem þat var allt fyrirdrifit, er mannligu trausti til heyrir, hefir hann sik allan fram undir guds fullting ok heilagra manna, sitiandi ok hialpar væntandi fyrir guds husi, sem fyrr matti heyra, þar til er herra Nicholaus erkibyskup

1 eiskran *1 Cd.* 2 *saal. 1 Cd*; atfalli *2 Cdd*; falldi *1 Cd.*

vitiar einn dag med sannri godfysi heilagrar kirkiu þar innan stadar, ok er hann nalgaz fyrr sagt mustari siandi greindan Antonium sionlausan standa, talar hann miukliga tilvikiandi sampiniliga sva segiandi: «Hversu langan tima hefir þu blindr verit?» En Antonius kennir þegar fyrir frabæriligan sætleik ordanna, hverr vid hann talar, svarandi sva til spurdra hluta: «Herra minn sæti, segir hann, þriu ar hafa sidan runnit, er ek sa lios himinsins, veitandi læknum alla mina eign til engis.» Sæll Nicholaus svarar þa med miuku hiarta: «Ok hvi, sonr minn, treystir þu eigi framarr helgum monnum guds, at þeir gerdi þik heilan kauplaust?» Antonius svarar: «Fadir minn sæli, hvat skal ek gera; ek truir ok traustliga væntir i gudi ok hans helgum monnum.» Sæll Nicholaus segir þa ok enn framleidis: «Truir þu, at heilagir menn megi þik græda i krapti guds?» Antonius svarar: «Truir ek lifanda gudi ok þinum bænum, heilagr fadir, truliga væntandi, at gudlig milldi reki i brott blindleiks myrkr augna minna fyrir þina verdleika.» Ok eptir þessi ord miskunnar Nicholaus þegar siuka manni, bidiandi fyrst bæn sinni ok sidan vidsmior takandi af lampa sæls Theodori, ok bra þvi yfir augu Antonij med heilogu krossmarki sva segiandi: «I krapti mins herra Jesu Kristi væntir ek, at i morgin munir þu sia lios himinsins eiginligum augum.» Sva er vordit, sem guds madr sagdi fyrir, at blind augu Antonij lukuz upp til skærrar synar a næsta degi gudi sialfum ok hans kæra vin til heidrs ok æru.

103. Litlum tima sidarr en þessi iarteign gerdiz, kemr einn siukr madr til virduligs herra Nicholaum erkibyskups framfallandi ok miukliga bidiandi sva segiandi: «Heyrdu, heilagr fadir. Su mikla frægd, er ut gengr af heilsugiof Antonij, skylldar mik til at bidia ydr miskunnar i guds nafni, þviat minn krankdomr er sva þungr, at innan næstu fiogurra manada matta ek alldri nadir hafa, helldr skrid ek lagt eptir iordunni fyrir mins kvidar sarleik, þviat oll min innsteri eru hormuliga pinud i þeiri kuldasott[1], at su fæda sem ek bergi [moaz ecki[2] likamanum til styrkingar, helldr hardnar hun ok þyngir fyrra vanmegn minnar vesaldar. Her med veitta ek læknum þat litla goz sem ek atta, ok stodadi mer med ollu allz ecki.» Guds þionostumadr sæll Nicholaus svarar þa siuka manni sva segiandi: «Ek mun selia þik lækni þeim, er fyrir utan fegiafir ma þik i stad heilan giora.» Siuki madr svarar þa: «Eigi

1 *saal. 4 Cdd*; kvidasott *1 Cd.* 2 [ *saal. 1 Cd*; ma ecki moaz *1 Cd*; ma ecki niotaz *1 Cd*; gagnaz ecki *2 Cdd.*

fær ek skilit, at nockurr læknir muni sva vaskr til koma, at mik fai i stad heilan gert af sva miklum krankdomi, sem ek skil med mer vera.» Guds madr segir þa: «Þat syniz mer undarligt, at þu fær eigi skilit, med þvi at læknirinn er her i hia ockr.» Siuki madr svarar heyrandi vel ord erkibyskups, litaz hann um a alla vega innan herbergis, ef hann mætti sia þann goda lækni. Sæll Nicholaus mællti þa: «Ætlar þu at sia þann lækni likams augum, er þik ma heilan gera? Heyrdu helldr, hvat ek segi þer; ef þu truir lækni minum af ollu hiarta, mun ek bidia hann, at þer veitiz heilsubot bædi andar ok likama.» Siuki madr undirstendr nu, hvar til erkibyskup talar, ok svarar hans ordum med miklum fagnadi sva segiandi: «Truir ek lifanda gudi ok þinum heilagleik, blezadr fadir.» Guds þionn sæll Nicholaus giorir þa enga dvol bidiandiz fyrir i fyrstu; en þvi næst signandi siuka mann sva segiandi: «Ver heill þegar i stad.» Ok sa er siukr hafdi verit, tekr an dvol fagnadarfulla gledi fyrir styrking ok heilsubot hugskotz ok likama, lofandi gud drottin ok margfalldliga dyrkandi i sælum Nicholao erkibyskupi, aptr hverfandi til sins herbergis, hvervetna frægiandi ser veitta miskunn fyrir valld ok verdleik gofugligs guds iatara.

104. Med þvi at vær til tokum þoat omakligir at segia nockut af lifi ok iarteignagerd volldugs herra Nicholai, skulum vær enn heyra framleidiss, hveria hluti hann virdiz at vinna her a iardriki fyrir sinn kærazta vin. A nockurum tima koma tveir menn til virduligs herra Nicholaum erkibyskups af þeim stad er Evandis heitir, þeir bera frændmey sina i fiorum skautum sva visna ok vanmattuga, at hun matti sik hvergi hræra, þviat allir hennar limir voru [þionostulausir fyrir sakir aflleysis[1], hvar fyrir þessi mær var likari daudum en lifanda manni; hveria fyrr greindir menn leggia fram fyrir fætr sælum Nicholao, miuklatliga bidiandi sva segiandi: «Heilagr fadir, se her dottur vara, er siau[2] ar i samt hefir pinuliga halldin verit ok kvaliz i ollum limum, þvi miskunna þu, guds madr, ok fullting veit þessarri olmosu.» Guds madr andsvarar þeim: «Ef þer truit ifalaust af ollu hiarta, at drottinn Jesus Kristr ma audvelldliga græda ond ok likama, munum vær fylla med hans vilia ok fulltingi ydra bæn.» Fyrr sagdir menn svara þa med tarum af innztum hiartans rotum: «Truum vær gudi almatkum hlydandi þinum bodordum, hinn helgazti fadir, i ollum hlutum.» Drottins þionostumadr sæll Nicholaus miskunnar þa þeira

1 [ stirdir sakir þionostuleysis *1 Cd.* 2 fiogur *1 Cd.*

mali, bidiandi godfusliga bæn sinni, ok at henni fylldri veitir gud drottinn skiota framkvæmd verdleikum sins vinar, sva at mærin er styrk i stad ok fullkomliga alheil fyrir allar greinir, gangandi eiginligum fotum til sins herbergis lofandi gud med sinum fylgiorum i ollum hlutum senum ok heyrdum fyrir sælan Nicholaum.

105. A nockurum tima sem virduligr herra Nicholaus erkibyskup ferr i syslu sina, kemr hann i fyrr sagdan kastala Arniven predikandi frammi fyrir kirkiu nockurri lærandi fagrliga stadarlydinn. Ok sem minzt varir, kemr einn ridusiukr madr fram fyrir erkibyskupinn litillatliga kriupandi ok sina sekt iatandi sva segiandi: «Miskunna þu, heilagr fadir, minni vesold, ok frem eigi makliga hefnd a minum otruleik, þviat sakir mins ofbelldiss þolda ek þungar pinur miok at verdugu, sidan ek reistumz i moti med drambsemis anda þeiri iarteignafrægd, er af ydr hliodadi hvervetna, segiandi at alldri skyllda ek þvi trua, at þer skinit iarteignum yfir iordina; hellt ek aumr madr þessu forzi fram, þar til er mik dreymdi eina nott, at ek sæi svart deynanda vatnfall rennanda med fulum fnyk ok [hardla mikilli uþekt[1]; i hvert er ek fell vesall madr medr hafum dett ok þungri nidrkvomu, orvæntandi frelsis a minu mali, þar til er ek sa, upp yfir mik, at þer, herra minn, stodut nalægir þeim haska; hvar fyrir ek kalladi harri roddu, at þer mundit hialpa mer, ok þer rettut i moti mer ydra hond frialsandi mik af þeiri pinu, sem ek var i staddr. Nu bid ek i guds nafni, at sva sem þer frialsudut mik af saurfullu vatni sofanda, sva veitit þer mer miskunn vakanda i minu vanmegni, er ek þoldi allan tima sidan med þungum krankdomi, er mer birtiz su syn, sem adr sagda ek ydru faderni.» Sæll Nicholaus svaradi þa hinum siuka manni: «Son minn, segir hann, venzt þvi iafnan at vera trulyndr, þviat otruum manni verda godir hlutir at afallzdomi. En nu far i guds nafni heill, ok hraustr af þessum ockrum fundi, ok sva sem drottinn Jesus Kristr frialsadi þik fyrir miskunn sina af pinuligum fyrirburdi, grædi hann þik nu i sinum krapti af ollum krankdomi.» Ok an dvol fagnadi þessi madr fullri heilsu lofandi gud fodur himneskan, er fyrir son sinn giorir oll stormerki i heilogum anda a himni ok iordu.

106. Einn tima i heilagri langafostu kom madr af fiarlægum stad til heilagrar Sion a fund virduligs herra Nicholai erkibyskups. Þessi madr het Nicholaus af þeim bæ er Sivin heitir, flytiandi a sinum eyk siukan mann med þeim krankdomi, er Greci kalla

1 [ oþef *1 Cd.*

paralisim, þat kalla Nordmenn limafall. Þenna auma mann lætr hann nidr koma af greindum fararskiota fyrir fætr sælum guds manni bidiandi miukliga sva segiandi: «Guds madr Nicholae, lit a vesold þessa mannz, þiggiandi med þinum bænum, at almattigr gud drottinn veiti miskunn sva aumum limum.» Ok fyrir hiartaligan godleika sampiniz þegar sæll Nicholaus þessum aumingia, takandi vidsmior af drottinligum lampa, smyriandi saran likama eptir bæn algerva sva stormerkiliga, at sa sem siukr hafdi verit feck an dvol fullkomna bot allra sinna meina, dyrkandi fodur ok son ok helgan anda, aptr snuandi med guds vinar blezan til sinna heimkynna.

107. A odrum tima kom kona nockur til kirkiu heilags Michaelis, hon var af þeim bæ sem Ciparicus heitir. Þessi kona flytr med ser son sinn diofulodan, þann er rifr ok slitr, hvat er hann nair, eigi sidr en klædit, er hann var huldr med. Þenna kastar veslug modir fram fyrir fætr Nicholao gratandi ok sva segiandi: «Þu þionostumadr hins hæsta guds, miskunna þu þessum veslugum syni minum, er styrkliga piniz af uhreinum anda.» Ok milldifullr guds madr hneigir þegar i stad sitt eyra konunnar bænum, takandi sveinsins hond blasandi i hans asianu sva stormerkiliga, at madrinn er hreinsadr i stad ok fullkomliga frialsadr af diofulsins valldi, sva fagnandi aptr vendandi til sins herbergis med modur sinni, dyrkandi gudligan krapt ok yfirvættis verdleika sæls Nicholai.

108. I annan tima flytr einn bondi af þeim bæ er Nectapoleus heitir husfreyiu sina diofuloda fram til munklifis virduligs herra Nicholai, fallandi til fota sælum guds manni sva segiandi: «Heilagr fadir Nicholae, hialpadu aumri husfreyiu minni, þviat hun kvelst grimmliga af uhreinum anda.» Ok þegar sem guds madr giorir sina bæn fyrr henni, leggr diofullinn a flotta, en konan tekr fulla heilsu sina lofandi gud drottin fyrir miskunn veitta, heim ferdandiz til sinna eiginligra hluta.

109. Eigi miklum tima sidarr koma þrir menn af þeim bæ er Cendimus heitir fram til munklifis heilagrar Hierusalan leidandi milli sin diofulodan mann Timotheum at nafni. Þessi aumi madr var allr or lagi færdr fyrir hinn versta anda, slandi sinu hofdi vid griot ok steina eda adra skepnu meinsamliga, sva at af fellu stor sar i hofdinu fulnandi med vagi, þviat engi matti neinum læknisdomi at koma. Fyrr greindir þrir menn hans leidtogar bidia hinn helgazta Nicholaum, at hann virdiz þenna mann heilan at gera med sinum bænum. Sva segia þeir framfallnir: «Þu þionn lifanda

guds virduligr Nicholae, lit þu a vesold þessa mannz bidiandi drottin fyrir honum, at hann megi fordaz sarleik þessarrar pinu ok fa miskunn at eilifu.» Þessar bænir heyrir guds madr blezandi siuka mann sva heilagliga ok stormerkiliga, at hann er albættr i ollum hlutum fullrar heilsu ok skærrar samvizku. Gaf hann margfolld lof himnakonunginum, er sva dasamliga hluti vinnr fyrir sinn haleitazta vin volldugan Nicholaum.

110. A degi nockurum komu hion tvau til heilags Nicholaum fallandi med ollu litillæti honum til fota sva segiandi: «Godi herra heilagr fadir, miskunna þu ockr veslugum hionum, þviat vit hofum samt verit þriatigi ara ok mattum alldri barn geta. Nu truum vit þvi stadfastliga, at drottinn milldr ok miskunnsamr mun ockr huggan veita ok afspringi gefa, ef þu hinn blezadi fadir vill þess bidia.» Sæll Nicholaus sampiniz þeira roddum lyptandi badar hendr til bænar, standandi sva bidiandi eigi skemr en halfa stund dags, smyriandi sidan þessi bædi hion af kirkiunnar heilogum lompum, at skilnadi sina blezan þar til gefandi sva friosama ok til avaxtar orugga, at innan næstu tolf manada komu þessi hion aptr til erkibyskups med son sinn ungan ser af gudi gefinn, hvern virduligr herra Nicholaus skirir sialfr veitandi greindum hionum virduliga huggan i ollum hlutum til sinna herbergia aptr vendandum.

111. A nockurn dag sem guds madr herra Nicholaus helldr mikit festum, koma saman klerkar margir til Mirream af ymisligum stodum, allir girnandiz at sækia blezan sva mikils fodur, hveria guds elskari tekr med miklum fagnadi, kallandi þa til bordz med ser eptir þionostugerd fagrliga fyllda. Ok sem þeir eru undir bord skipadir, er þeim engi vist i fyrstu framsett, þar til er herra erkibyskup sendir sinn þionostumann til þeira med þria braudhleifa, er hann sialfr blezat hafdi, ok eitt ker med vini, sva þionostumanninum segiandi: «Ber þetta ker klerkum tilkomnum ok varrar kirkiu þionostumonnum, at þeir allir saman glediz i dag af guds giofum.» Sva gerir þionostumadrinn, sem honum er bodit. Ok er klerkar sia fram koma hardla litit braud ok vin ser upprettat, styggiaz þeir fyrirlitandi sendingina sva sem engis verda. Nu sem heilagr fadir undirstendr klerkanna gerd, kann hann bædi ok vill betr hafa, nidr setiandi mottulinn, til þeira gangandi sem einn þionostumadr sva segiandi: «Mer byriar, segir hann, at þiona ydr i dag, brædr, at vær gledimz allir saman.» Ok þoat nockurir menn meir i litillætinu grundvalladir dæmdi sik umakliga sva harri þionostu, geriz sva sem guds madr hefir skipat. Hann brytr

braudit en skenkir vinit, parterandi þria hleifa ok vin af litlu keri tva vega ut i fra sva husbondliga sem stormerkiliga, at bædi er i nog at eta ok drecka, þar til er klerkar gioraz vel katir sva talandi sin i milli: «Lof ok dyrd se uendiliga þeim hæsta gudi, er þvilika giof veitti i dag fyrir sinn þionostumann sælan Nicholaum.» Sva voru þessir allir af gardi giorvir, at þeir hofdu stadfasta tru yfir allri þeiri iarteignafrægd, sem þeir heyrdu ok allan tima heyrt hofdu, af sælum Nicholao framborinni.

112. Einn dag kallar heilagr Nicholaus til sin marga smidu, at þeir skulu endrbæta eda eitthvat smida til uppreistar heilagri kirkiu. Ok sva sem þeir eru i miklu starfi ok erfidi, vikr sæll Nicholaus at rædismanni sinum sva segiandi: «Gior, minn kæri, gudi þackir, þviat vær hofum tekit marga smidu i dag; þvi skalltu bua þeim blidan fagnad i kvelld, at þeir hafi gott vidværi eptir mikit erfidi.» Rædismadrinn verdr miok hryggr vid þessi ord heilags fodur sva segiandi: «Undra ek, godi fadir, at þer sogdut mer þetta sva sidla, þviat ek hefir verit miok onnugr i annarri syslu, sva at ek hefir ecki vid þessu buiz, ok nu er eigi meira hia mer en einn braudhleifr.» Sæll Nicholaus svarar þa: «Brodir minn, ver eigi hryggr, tak helldr ok fær mer þann eina braudhleif, at þadan af sediz gestir ockrir i nafni drottins.» Sva gioriz, sem hann bydr. Nu sem hann hefir vid tekit hleifinum, giorir hann fyrst bæn sina til guds, en brytr sidan hleifinn ok sundr skiptir uppsitiondum med sva mikilli blezan af sialfum gudi tilgefinni, at atta tigir manna fædaz þar med einkar vel ok gnogliga, allir samt lofandi lifanda gud, er sva skinanliga geislar gofugligan herra Nicholaum med frabærri frægd yfirvættis iarteigna.

113. Godfysisandi guds i himinriki tiar þat hugskoti virduligs herra Nicholai, at hann skuli heim sækia heilaga stadi, einkannliga Jorsalaborg ok þau stormerki, er henni til heyra. Þvi tekr hann med ser sæmiligt foruneyti, presta sina Archiman Amon ok Hermon ok marga adra ymisligrar stettar lærda ok leikmenn. Sidan stigr hann a eitt skip, er ut af Adriatico gengr i Egiptalandz haf, sem fyrr var nefnt i upphafi sogunnar, siglandi skamman tima, adr vindr grær en bylgiur vaxa, sva at skiotliga verdr hin snarpazta hrid bædi siofar ok ofvidris, fyrir þa sok at meistari kvalanna sialfr fiandinn minniz fornra saka, er hann þickiz luka eiga sælum Nicholao fyrir margan undandratt ok hardfengi; þviat ovininum þickir þess van, at audfengnari muni sigr yfir slikum a sio en landi, ok Nicholaus erkibyskup muni mædaz vid ellina ok þola minna,

en þa er hann var i æskublomi. Þvi stundar diofullinn a med allri sinni list at talma ferd erkibyskups farandi logandi umhverfis skipit, a treystandi at hvelfa med ollum styrk ok klokskap ok miok uvitrliga hugsandi, at skip þat mundi vellta, sem þvilikan stodamann hafdi innbyrdis, er adr hafdi margan frialsat af siofarganginum, sem enn birtiz i greindum naudsynium. Þviat sva framt sem skiparar eru miok at þrotum komnir sakir strangs erfidis, gengr guds madr um skipit blezandi ut yfir ollum megin, hvar fyrir diofullinn ma eigi vid halldaz ok verdr at bera lægra hlut, þott vid alldradan erkibyskupinn se at eiga. Fellr nu þegar vedrit ok gioriz kyrrleikr mikill, eru margir lidsmenn storliga mæddir, einkanliga sira Amon prestr nidrfallandi med bleiku andliti, adr guds madr signar hann heilan uppreisandi. Sigla þeir sidan farsælligan byr fimm daga takandi sialfa Jordan, sem þeir mundu kiosa, ok a land gangandi. Luta skiparar sælum Nicholao sva segiandi: «Nu kendumz vær vid i siofarganginum, at fadir himneskr er nalægr þinum bænum, þviat hann leiddi oss or haska med þinum verdleikum.» Hverr megi ordum skyra þann krapt ok iarteignagerd, er drottinn vann fyrir sælan Nicholaum i þessarri ferd med allzkyns heilsugiofum, hreinsandi likþra, lysandi blinda, grædandi siuka, frialsandi diofuloda, sva at allir nærverandis menn dyrkudu sannan gud i fogru blomi frabærra stormerkia. Nu sem blezadr Nicholaus er heim a veg af Jorsolum, giorir hann fyrir ser sira Archiman til Mirream, biodandi at hann saman lesi marga steinmeistara, þviat herra erkibyskup vill lata mustari gera. Ok sem Archiman hefir fyllt bodna hluti [marga menn vel menta[1] til Mirream framleidandi, berr sva til a sama degi, sem erkibyskupinn er heim komandi til stols sins, at smidir hafa bodit at vellta einum steini, er þeim syndiz hentiligr smidinni[2]. En þat fa þeir med engu moti gert, sem til eru fengnir, ok þar kemr um sidir, at siautigir manna skiptaz vid steininum at vellta ok atak veita, ok sitr hann æ þvi fastara. Ok i þenna pungt sem allir eru modir ok at þrotum komnir i tomum sveita sva mikils erfidis, kemr til sæll guds iatari Nicholaus litandi framkvæmdarlausa mædi smidanna ok annarra manna. Þvi leggr hann af ser yfirhofnina gerandi krossmark yfir steininum velltandi vid þridia mann, hvert er honum likadi, sva at i halfri stund dags var hann i smidi samdr ok nidrsettr, þar sem bezt gegndi.

114. Þa er gofugligr guds vin sæll Nicholaus erkibyskup

1 [ *saal. 1 Cd*; marga menn *1 Cd;* margan meistara *1 Cd.* 2 *saal. 1 Cd*; smidinu *1 Cd*; smidunum *1 Cd*; *mgl. 1 Cd.*

mundi skinanliga blomgaz þvilikum kroptum ok stortaknum, veitandi verolldinni otoluliga velgerninga med frabærri frægd lysandi lifdaga, heimtiz at honum su skulld, sem hverr ok einn daudligr madr verdr at luka, þat er fram at ganga um þinu holldzins i fraskilning andar ok likama. Þvi tekr sæll guds iatari likamligan siukdom i godri elli. Er sa krånkdomr fyrirrennari daudans ok þess sarligzta skada i ovirdanligri missu, sem oll Licia feck a þann dag, er þvilikr fadir ok forstiori var uthafinn. Þessi vanmattr, sem til er kominn, bodar sælum Nicholao erkibyskupi lifs inngongu, en ollum hans saudum hiartaligan harm ok sut med sarum grati i tregasamligum hugaræsingi. Nu sem gud drottins iatari hefir sott tekit, leggz hann i reckiu med þungum vanmætti. Koma þegar til Mirream, er þessi tidendi spyriaz, margir agætir menn af ymissum stodum, allir med einu hugarangri ok ottabodi, at hinn godgiarnazti þeira fadir muni [i brott takaz[1] af þessu stundliga liosi. En er sæll guds madr liggr i sogdum vanmætti, kemr til hans einn dag su kona, er Eugenia heitir, af þeim bæ er kallaz Alkon. Hon hafdi þungan vanmatt upp a þann hatt, at i hverri tunglkvamu stack hana sva hart i hofudit, at þar fyrir tyndi hon vitid. En i þenna punct er hon sva skærrar samvizku ok godrar greinar yfir verdleikum volldugs herra Nicholai erkibyskups, at hon bidr hann litillatliga ser heilsubot vinna, ok gofugr guds iatari veitir milldifullr bedna hluti, bidiandi fyrst til guds i himinriki en sidan blezandi konuna, aptr gialldandi fullri heilsu i alla stadi, af miklu lofi fyllda heim hverfandi til sinna herbergia, lofandi dasamligan gud i sinum helgum monnum fyrir alla tima.

115[2]. Nu sem þar kemr, at guds madr sæll Nicholaus undirstendr bædi fyrir andliga gipt ok hversdagliga likamsins þverring, at su skulld [heimtiz honum af hendi[3], sem engi ma undan komaz at luka her a iardriki, þvi kallar hann saman klerka sina ok kennimenn, einkannliga fyrr nefnda presta sira Archiman, Amon ok Ermon ok Artemium ok virduligan mann Nicholaum archidiaconum med odrum mikils hattar personum til sækiandum af ymissum stodum. Þessum ollum veitir signadr fadir fagran sermonem fram a lifsgotu i fridar geymslu ok hverskyns vardveizlu godra guds bodorda, veitandi þeim ollum ok serhverium gofugliga erfd af hunangligum sætleik eilifra unadsemda fyrir fliotandi ras ilmandi predicanarorda. Sidan skipar hann kirkiunnar erendum sem bezt

1 [ fram stiga *1 Cd.* 2 Nicolaus liggr i siukdomi *Overskr. Cd. Holm.*
3 [ heimtiz af honum *1 Cd*; kemr honum at hendi *2 Cdd.*

samdi fyrir gudi ok monnum, alla þa hluti liosliga birtandi kirkiunni ok eptirkomanda erkibyskupi til rettligrar framferdar, sem stodu undir hans tungurotum med vilianligum atkvædum, at ecki þat efni, sem hann hafdi hrært, heyrt eda frammi haft i kirkiunnar stiorn, mætti eptir hans dag urettan veg i ovisum enda bleckiligt fram ganga. Eptir alla hluti sva vel skipada, sem einn gud a himni ma fylliliga vitni um bera, segir hann fyrir legstad sinum, at hann vill liggia a hægra veg alltaris i heilagri kirkiu opt nefndri Sion, biodandi þvi næst, at honum veitiz su þionosta, sem kristnum monnum er skipud til hialpar ok miskunnar a framferdartima. En er sva kemr fram þionostugerdinni, at buit er til smurningar, ok menn skulu til ganga eptir bodi erkibyskups at gefa honum sidarsta fridarkoss, ma þat engi tunga telia, hversu mikill stynr eda tregafullr þytr þar var inni med grati ok geysiligum harmi. Allir syta med sarum andvorpum innan rifia, einkanliga þeir mest ok uvirdanligazt, sem dagliga hofdu næst verit þessum haleitazta huggara, þviat prestar, munkar ok klerkar unnu honum allir hugastum, sem fyrr var skrifat.

116[1]. Sem gud drottins elskari hefir veitt fridarkoss ok blezan sina ollum prestum ok alltaris þionostumonnum, tekr hann sætt farnesti eilifs fagnadar likama drottins vars i himinriki med allri þionostu fagrliga fylldri. Bidr hann sidan buinn ok blezadr sinnar framferdar, fordandiz at tala utan hæstu naudsyniar, lesandi uaflatliga heilaga salma, bidiandi fodur himinrikis senda sina engla moti hans utgengnum anda, framflytiandi til eilifra fagnada, hvat er hann þiggr þegar af sinum skapara fyrir fliotandi nægd yfirvættis verdleika, siandi glada guds engla til sin komna sva sem reidubuna ok frammi standandi ser þionostu veita. En er sæll Nicholaus kennir biarta borgarmenn himneskrar Jerusalem, hneigir hann sitt hofud þeim til virdingar sva sem eptir longum vana framfallinn til bænar, byriandi salm hinn þrituganda i salltara, in te domine speravi, lesandi fyrstu sex vers af þeim haleita lofsongi ok þetta sidarst, in manus tuas domine commendo spiritum meum, redemisti me, domine deus veritatis; þat þydiz sva: þu drottinn gud sannleiks leystir mik, i þinar hendr fel ek anda minn. Ok med sva heilogum ordum gengr su blezada sala ut af likamanum fram i

1 Andlat sæls Nichulae erkibyskups *Overskr. Cd. Resen.*; Her stigr virdoligr herra Nicholaus Mirrensis erchibyskup fram or stundligo lifi i andligt lios eilifrar dyrdar *Overskr. Cd. Holm.*

felagskap sinna brædra, þat er at skilia fyrr greindra guds engla, koronandi þvisa næst i himinrikis curia milli villdoztu guds vina, þiggiandi stinnar malagiafir rikdoms æveranda fyrir margan sveita utsteyptan i vardveizlu guds bodorda. Hverr ma tina sæmd ok sælu [þessa hins blezada himnakonungsins vinar, er a sinni daudastundu liktiz sva miok sialfum grædara heimsins, at med hneigdu hofdi las hann næst andlatinu þat sama lof or salmabokinni, sem drottinn varr ok lausnari herra Jesus Kristr song a krossinum helga, adr hann gæfi sinn anda.[1]

117. Nu sem verolldin hefir latid þvilikan erkibyskup, ma engi tunga skyra, hverir sarleiks broddar stanga innan þeira manna hiortu, sem adr hofdu verit undir hans hendi ok miuku faderni, sem raun er sogu rikri, þviat engi madr er nu sva hardr, at eigi grati fliotondum tarum sem barn. Sumir kasta ser upp a likamann eyrendan kyssandi ok i taralækium doggvandi þann blezada munn, sem uvirdanliga huggan hafdi sva hvervetna tært ok fram latid, sem astin vard mest ok ollum gegndi bezt. Einkanliga piprar[2] æsiligr harmr med sira Archiman ok Nicholao erkidiakn, er heimolligazt hofdu bergt astardryckinum i nalægd sva mikils hofdingia. Hvar fyrir þeira augu hvilaz eigi af tarum ok trega, helldr væta þeir kinnr ok varrir þess hins liufa likama. Sva mikill stynr ok gratr ok þytr var þar inni, at rettliga ma þat heita hrygdarherbergi. Ok sem lydrinn fær enga tempran a gert sinum hugaræsingi, talar einn vitr madr Paulus at nafni sva segiandi: «Brædr minir ok systr, segir hann, ef vær stondum i rettum skynsemdarveg ok þadan alitum gofugligt andlat þessa guds vinar fodur vars ok forstiora herra erkibyskups, finnum vær eigi hrygdarefni, angrs ok erfidis, þviat hvar sem vær rannsokum hans tima sid eda snemma, finnz hann alla gotu verit hafa skinandi lampi vel lysandi med godri birti gofugligra verka i guds kristni, hvat er var augu siandi hafa mikit ok hiartaligt fagnadarefni, þviat yfirvalldzdrottinn allrar gæzku tok þenna sinn goda vin i brott af lidanda liosi veralldarinnar, biodandi honum heim til himinrikis hallar i þa samkundu, sem hann sialfr gledr sannr gud fyrir sina nalægd um uendaligar veralldir.» Sva talar þessi godi madr, ok allt eins fær lydrinn eigi tempran inn leitt fyrir hugaræsingi, helldr gioriz i þenna punct sva mikit kall, sut ok sorg a erkibyskupsins gardi, at naliga heyrir um alla borgina. Hvar fyrir konur ok kallar, ungir menn

1 [ er þessi guds vin þa, þa er hann song þat vers, er Jesus Kristr song, adr hann giæfi sinn anda *1 Cd.* 2 pinar *1 Cd.*

ok gamlir renna ut af sinum herbergium, allir eins ok hins sama eyrendis at grata þann andadan, sem þeir elskudu lifanda.

**118.** Margir menn agætir ok mikils virdir komu til Mirream, sidan er spurdiz krankdomr sæls Nicholai erkibyskups; komu sumir fyrr, en sumir sidarr, adrir fyrir andlat guds vinar, en adrir eigi fyrr en eptir; i milli hverra er voru agætir byskupar med odrum kristninnar personum, einkanliga vilium vær nefna sannheilagan mann Philippum Felletonensem byskup af agætum lifnadi storliga frægan, er a framferdartima sæls Nicholai var miog nalægr borginni; hverium til sæmdar er fyrr nefndr Paulus vitr madr ok vel reyndr er utgiorr med sæmiligri fylgd a veginn i moti honum. En er sa guds madr kemr til, er hann fremstr i allri þionostugerd vid þann blezada likama, ok honum næst standa þeir Nicholaus erkidiakn ok sira Archemius þionandi, sem byskupinn bydr ok fyrir segir. Þessir þva þat signada holld, semiandi asionuna ok serhveria limu sem fagrligazt, sveipandi hofudit ok allan likamann sem hreinligazt, veitandi vegsemdarheidr þeim guds virktavin, sem þeir kunnu framazt. Sagdr Philippus Fellitonensis byskup skrydir likamann ok byr til graptar, sem hann vissi login ok heilagra fedra setning bioda.

**119.** En hvat ma segiaz af þessarri likfylgiu utan þat, at halfum Licie var gefinn annarr dagr þeim ulikr, er Nicholaus vigdiz til erkibyskups, þviat þa fognudu allir, en nu grata serhverir. Eigi at eins sitr Mirrea i þessarri hrygd, helldr allir stadir henni nalægir, ok enn framarr, þviat oll Licia er harmþrungin af þeim sva miklum hormungarskada, sem i þvi ma marka, at mannfioldi kom sva mikill til Mirream, sidan tidendin spurduz fyrir alla Liciam, at engi matti tolu a koma. Berr þessi dagr vitni þvi, sem fyrr var skrifat af lifi virduligs herra Nicholai, hversu þeckan ok astudigan, hversu þydan ok fagnadarsælan hann tiadi sik allri alþydu. Þat vattar hans likfylgia, at allt kyn, ungt ok gamalt, karla ok kvenna, syrgir framarr en fra megi segia: konur renna med leystu hari flockum umhverfis, blediandi sinar asionur, rifandi af ser klædin, reytandi harit, ausandi molldu i hofud ser. Sva geriz utferd þessa guds vinar, at audsyniliga birtiz stynr ok kveinan veralldarinnar, at sva sem hans innleidzla var ollum hiartalig gledi, sva vard hans utferd allri Licie sutfenginn harmr ok tregi.

**120.** Sæll Nicholaus frægazti fadir Mirreorum var greptadr[1] a

1 *saal. 3 Cdd.*; greptradr *1 Cd*; graptadr *1 Cd.*

hægra veg alltaris i heilagri Sion, laginn i sniohvita steinþro fiarri iordu sva fagrliga ok einkar sæmiliga, sem þvilikum kennimanni til heyrdi. Prydir hann signadr greinda guds holl milli þeira gimsteina, sem fyrr voru nefndir, hveria hann sæmdi adr med sinni þionostu ok erkibyskupligri tign skinandi med kroptum ok iarteignum. Þvi þogdum vær yfir liksongs þionostugerd virduligs herra Nicholai, at af godfysisanda ok miklum klerkafiolda ma þat lesandi madr undirstanda, hversu einkanlig þessi þionostugerd mundi vera fyrir allar greinir fra upphafi til enda, þviat byskupar ok abotar, klerkar ok klaustramenn settu fram hæstu godfysi med sonnu astriki upp i lof ok dyrd guds i himinriki fyrir allan utferdartima volldugs herra Nicholai.

**121.** Astvin himnakonungsins heilagr Nicholaus Mirrensis erkibyskup hvildiz i godri elli brott af stundligu erfidi, þa er lidit var fra higatburd vars herra Jesu Kristi sex hundrat ok attatigir ara ok atta vetr, a fyrsta ari Justiniani keisara ok a timum gofugligs mannz Macharij patriarche. Hann sofnadi sælliga til himinrikis eptir skipan drottins i þrettandu indictione octavo idus Decembris, a setta dag viku, settr hia sinum fedrum fullr med godum verkum gudi þægiligum. A hvern idusdag eilifliga sidan hatidliga dyrkaz hans sigrsamlig heimferd til himinrikis hallar eigi at eins innan Mirree borgarveggia helldr um alla kristnina, hvat er gioriz einkar vidrkvæmiliga, þviat hans heilagleiks mork eptir andlat sem fyrir eru sva mikil i yfirvættis giofum almattigs guds, at hliodar i allar [ættir um heimskringluna[1]. Heyrinkunnigt er ordit a hvert nes ok utskaga, sva vitt sem verolldin er, hversu drottinn domari lifandi ok daudra sæmir nu þegar erkibyskupsins likama signadan, framar en fyrr se lesit af frumtignum heilagra, med þeim hætti gudligs stormerkis, at ut af hans steinþro renna tveir heilsubrunnar, sem vær sialfir sam varum augum, segir meistari Johannes. Rennr af sinum þroarenda hvarr, skært vidsmior af hofdahlutinum, en lystiligt ok smatt vatn af fotahlutinum, oaflatliga, nema med þeim ymisleik at enn se meira guds lof ok margfalldari sæmd Nicholai erkibyskups, sem lesit er, at einn tima, sem Mirrensis erkibyskup nockurr var rangliga utflæmdr af sinu sæti fyrir borgarmanna hatr, ofund ok ranglæti, byrgdiz[2] framrasir af steinþro virduligs herra Nicholai, þar til er borgarmenn makliga idroduz, leidandi byskup sinn aptr i borgina med fridi ok fagnadi. Hver er su sott, eymd eda vesolld, er eigi grædiz fyrir þessa heilags mannz liquores,

1 [ halfur heimsins *1 Cd.* 2 *saal. 3 Cdd*; byrgduz *2 Cdd.*

likamlig ytri sar fyrir vidsmior, en sullir ok hverskyns innanmein fyrir vatn, sva at andadr Nicholaus veitti tvennan læknisdom ollum þurfondum sik truliga heimsækiondum, at alldri megi endir verda þeira velgerninga, sem hann vandiz ollum veita innan sinna lifdaga. Nu er hann undir lok lidinn, en hvat gera siukir ok sarir, dumbir ok daufir, diofulodir eda kararmenn, krankir eda kreptir, blindir eda brotfallnir[1], veykir, veslir eda vanmattugir, hrumir eda halltir, utan kriupandi skrida fram at þessum andlausa likama, bergiandi eda smurning takandi af þeim haleitazta sveita, er signud steinþro virduligs herra Nicholai gefr ut af sinni fehirdzlu i krapti otoluligra iarteigna. Hvar ek syndugr madr ok omakligr, segir meistari Johannes, ma vitni um bera, þviat þria tima, sem ek kom at bidia fyrir syndum minum vid grof herra Nicholai, bergda ek þvi blezada vatni, er fleiri velgerninga veitir þurfandum, en nockurr megi telia. Sva stendr þessi andadr erkibyskup i heilsugiofum til beggia handa sem adr lifandi i likamanum, eigi at eins þar sem hann hvilir fyrir sina limu, helldr um alla heimsbygdina, hvar sem hans signat nafn er kallat med rettri tru; hann frialsar naudstadda i skipbrotum ok i midium siofargangi ok leidir til blidrar hafnar sik kallandi, leysandi serhveria i brott af haska bædi a sio ok a landi; hann grædir allzkyns sottir, gofgandi allri verolld sem guds postoli, godr bæna ok miukr i aheitum, sem verolldin vattar; þviat þessum vars herra vin eru kirkiur smidadar, vigdar ok at verdugu helgadar ok tidir sungnar med hatidligri gledi a degi hans heimferdar. Idulig minning er hans ger med bænum ok godum verkum, þviat hans nafn er sætt ok hugþekt ollum kristninnar sonum; adrir lata fyrir astar sakir likneskiur grafa eda penta undir hans nafni, at þvi iduligri se hans minning i sannri godfysi. Senniliga fylliz þat i þessum guds vin, er salmaskalldit syngr til lofs varum herra sva segiandi: Mirabilis deus in sanctis suis, þat norrænaz sva: dasamligr er gud i sinum helgum monnum. Uefasamliga er gud dasamligr i sinum vinum, þviat hann veitir i sinum almætti upp i þeira dyrd þat, er enn segir salmaskalldit medr þeima hætti: In omnem terram exivit sonus eorum, þat segir sva: hliomr þeira geck ut a hveria iord. Senniliga fyllir drottinn spamannzins rodd i sælum fedr varum Nicholao erkibyskupi Mirreorum, þviat hans hliomr er yfir hveria iord dreifdr[2] ok utrunninn, hliomr heilagleiks ok sælu eilifrar, hliomr himnarikis skiært birtandi med harri raust haleitra stormerkia, at Nicholaus lifir i gudi sæmd allra kennimanna. Nu

[1] *saal. 4 Cdd*; brotfelldir *1 Cd.* [2] dreifr *1 Cd.*

þa, brædr minir kiæruztu, glediumz vær allir samt i gudi varum, er sva mikinn ok frægan hefir gert sælan Nicholaum, sva heilagan ok haleitan med allzkyns kroptum ok iarteignum, at hans hliomr er floginn ok fluttr ok fagrliga borinn yfir hvert iardarskaut i heiminum. Þvi dyrkum vær allir med andligri gledi þessa guds vinar hatid arliga, sem hun kemr at hendi, at hann minniz varra naudsynia fyrir þeim sama drotni, er hann skipadi yfir alla sina goda hluti, bidiandi at vær samlagimz eptir heiminn sigradan eilifu hatidarhalldi syngiandi med helgum monnum i himinriki. Einkannlig vinatta er oss gerandi med þvilikum guds kappa med optligri minning i varum bænum ok olmusugiordum, at hann fremi sitt nafn a varum ovinum, styrkliga sigrandi ok at velli leggiandi þa fiandr ok uvini, sem um sitia oss at svikia med ymisligum hætti flærdsamligra bleckinga, leidandi oss med sinu arnadarordi til eilifra fagnada brott af ollu yfirbodi varra motstodumanna. En medr þvi at satt er þat, er vær skrifudum i fyrsta prologo þessarrar sogu, at engi tunga yfir iardriki fær þat fylliliga utskyrt, hversu mikils valldz ok verdleiks, lofs ok lysandi birti sæll Nicholaus er fyrir almatkum gudi, munum vær aptr venda til frasagnar iarteigna þeira, er himneskr fadir vann fyrir hans verdleika, sidan hann fyrirlet verolldina. Þviat helldr synumz vær i þessum framburdi nockut vinna fyrir þa grein, at heidr ok æra virduligs Nicholai reisiz sva hatt i loptid upp fyrir hugskotzaugunum, at tungunnar hræring kemr hvar fiarri nidr; hun kann eigi meira at tala i sæmd ok virding hans verdleika, en gud almattigr veitir honum, hvat er hann vill bidia, sem vel mun birtaz i þeim hlutum, er fylgiandi fara til styrkingar varra framsettra greina ok skynsemda.

122. Vidrkvæmiligt er, segir meistari Johannes, at til dyrdar virduligum fedr sælum Nicholao skrifim vær þa hluti med skommu mali, er drottinn vann a varum timum fyrir hans haleita verdleika, a þann hatt sem her ma heyra. Þa er iarteigna hliomr guds vinar Nicholai mundi, sem fyrr var greint, langt ok vida, hvellt ok hardla sætt hvervetna ut renna, sottu til Mirream otoluligir flockar af fiarlægum heimsins halfum, rikir ok fatækir, gofgir ok kynstorir, otignir ok ættsmair, allir þess erendis at profa eiginligri raun sagda hluti, þiggiandi heilsubot af sialfum gudi fyrir helgan dom ok drengiliga medalgongu sæls Nicholai. I milli hverra er var einn burgeis omatans rikr ok kynferdugr, er arliga sotti mikinn sĩo til fundar vid sælan Nicholaum, þviat hans eiginligr rikdomr var langt i sudrhalfuna stora sigling i brott af Mirrea. Hann var

kvæntr madr ok atti einn son vid husfru sinni, er hann unni storliga mikit, hann var veralldar rikr med hverskyns audæfum, gulli ok gimsteinum, silfri ok klædum dyrum. Fyrir þa sok offradi hann hvern tima vel ok sæmiliga til alltaris ok grafar guds vinar Nicholai medr miukum bænum ok godfusu hugskoti. Nu berr sva til einn tima, sem hinn riki madr er kominn til Mirream a hatidardegi guds iatara, at eptir dyrkan grafarinnar heitr hann gudi ok sælum Nicholao at lata gera fritt ok furduliga mikit upphalldzker [til upphelldis ok prydi[1] hans kirkiu, at þat hafiz i guds þionostu. Ok eptir sva gert undir guds vitni ok virduligs Nicholai snyr hann heimleidis ferdinni. En sidan hann er heim kominn a sinn eiginligan gard, kallar hann til sin einn gullsmid birtandi sitt heit fyrir honum, segiandi at fyrir fulla amban skal hann smida sva þungt ker af skæru gulli til kirkiu sæls Nicholai. At fengnu samþycki smidarins, vegr riki madr honum i hendr sva mikit gull, leggiandi þar med gimsteina agæta, er kerit skal med pryda. Eptir sva gert tekr smidrinn vid gullinu ok berr til smidiu[2]. Er af þessi smid miok skamt at tala, þviat allr meistaradomr enn agætazti er þeim smid innan handar, sva at hann furduliga undrar sialfan sik, hvi hann matti ser sva olikr vera allan hagleik frammi at hafa, grafa ok gimsteinum setia, lika ok samkvamur sundrteknar undarliga vel formera, sva at þessi gersimi var hinn mesti hnossagripr fyrir allar greinir.

**123.** [3]Nu sem kerit er algert, kemr gullsmidr a fund rika mannz, synandi honum sagda gersimi ok af hondum reidandi sva mikinn þunga smidissins, sem þeim badum vel samþyckir. Þvi tekr hann makliga amban fyrir sitt erfidi med vinattu rika mannz ok morgum sæmdarordum, at hann se frabærr odrum smidum. Tekr nu riki madr kerit i sitt valld ok hefir skamma stund geymt, adr en uleyfdr agirndarbroddr smygr[4] hans hiarta sva hart ok hormuliga, at þenna godgrip, sem Nicholaus atti, dregr hann undir sina drotnan blecktr ok brogduliga svikinn fyrir fegrd kersins ok ofmikla fiarins agirni, sva at hann er einradinn i þeima hlut, at þetta ker skal Nicholaus hafa med engu moti, ok skal honum gera ker annat med iofnum kosti, en þetta, sem adr var forkunnar vel smidat, kallar riki madr sitt bordker dreckandi af þvi, þa er hann hellt mest hof inni. Sva lagdi hann mikla virkt ok metord a þetta ker, at engi þionostumadr skylldi þvi upp skenkia, utan son hans

1 [ *saal. 1 Cd*; þangat til *3 Cdd.* 2 smijdar *1 Cd.* 3 Gullsmidr berr fram ker Nichol. byskups *Overskr. Cd. Holm.* 4 stingr *1 Cd.*

ok husfru skylldi þat hafa [med hondum[1], en engir fleiri. Ok sem þat er sva kærliga fadmat, er greindr gullsmidr kalladr i annan tima a gard rika mannz þess erendis at taka ut gull ok gimsteina sva mikit sem fyrr, smidandi þar af annat ker sælum Nicholao. Hvat er hann iatar sik giarna giora munu, ok þo at þarflausu, þviat su gipt hefir nu fyrirlatid hann, er þann tima var med honum, sem hann smidadi guds iatara sælum Nicholao.

124. [2] Hvat þarf her langt um at gera, greindr smidr berr þetta gull til stedia nidr steypandi ok alla vega med sinni kunnattu eptirleitandi at gera sva fritt ker ok vel formerat sem i fyrstunni. En þat verdr þvi sidr, sem hann freistar framar til, þviat þetta staup er med guds vilia ok hins heilaga Nicholai sva stint ok ovikianligt, at engiskyns list verdr sva vidr komit at dugi, er sa hinn bezti at gefaz upp ok leggia af þarfleysu erfidi, medr þvi at ecki gott tekr i adra hond. Sva giorir smidrinn, less saman gullit ok færir rika manni, segiandi allt sem [gerdz hefir i þessu efni[3]. Tekr nu burgeis vid fenu ok vardveitir, eigi enn vendandi til yfirbotar sinnar agirni fyrir þvilikar iarteignir, helldr halldandi sem adr sagdan grip sæls Nicholai med þeim hugrenningum, at þetta gull, sem eigi vard smidat, ætlar hann at offra yfir alltari guds vinar, þvilikt sem þat skuli vera skadi kirkiunnar i Mirrea, er kerit vard eigi gert i sidarra tima.

125. [4] Nu lida dagar þar til, er nalgaz hatid sæls Nicholai. Lætr nu riki madr skip bua med fridazta kosti hladit ollum þeim gognum, er honum voru naudsynlig i þessa ferd. Husfru sina ok einga son þeira lætr hann med ser fara, hefir hann ok med ser kerit goda i sva einkanligri virkt, sem fyrr matti heyra. Nu sem hann er buinn med agætu foruneyti, sem veralldar mektin hefir i gnogum rikdomi, lætr hann i haf ok fær blidan sunnanvind med fogru byrleidi, sva at skiott stikar hafit. Ok er sior var nærri halfsottr[5] til Mirream, er byrr hardla skemtiligr einn dag; þickir rika manni þa vel at fara ok farsælliga gefa, ok giorir sik gladan ok katan i skipinu talandi sva til sonar sins: «Son minn, segir hann, nu er godr byrr ok gott i flocki; taktu ker ockart hit goda ok ber mer med vini.» Ungi madr hyggz at gera, sem honum er bodit. En þann tima sem hann hefir kerit upp tekit af sinni

1 [ i hondum med orlofi *1 Cd.* 2 Onytiz gull rika mannz *Overskr. Cd. Holm.* 3 [ greiniligaz, svo ath eingis er hann um kunnandi *1 Cd.* 4 Sonr burgeiss fellr utan bordz i mid(!) *Overskr. Cd. Holm.* 5 halfnadr *1 Cd.*

hreinuztu hirdzlu, þar sem hvergi matti duft a falla, syniz honum þo sem renna þurfi innan, adr hann skenki, ok berr undarliga fliott ut af saxinu til siofarins med þeiri ætlan at hreinsa kerit[1]. En þegar i stad sem kerit nalægiz sioinn, er þvi likazt sem ein bara risi i opit kerit sva hart, at þegar verdr unga manni laust med sva miklum felmt, at þar steypiz hann sialfr utbyrdiss eptir. Er nu skipit fullskrida ok snarar hart, sva at engi er van i, at unga manni verdi borgit. Skilr sva skiotliga med þeim fedginum, sem sutfenginn harmr ok kveinkan berr vitni um, at allan eptirstandanda veg til Mirream giorir riki madr med sutligu angri hiartaligs trega, þviat gagnstadligir hlutir makliga tilkomnir pina þat agiarna hugskot til sættar vid gud ok sælan Nicholaum erkibyskup fyrir greind afbrot.

126. [2]Nu sem riki madr kemr til Mirream, gengr hann inn i heilaga Syon framfallinn fyrst til grafar virduligs Nicholai, en sidan upplukandi sinn thesaur offrar hann yfir alltari guds vinar þat sama gull ok gimsteina, sem fyrr greindum vær. Ok eigi seinna en hann vikr i brott fra alltarinu, er gullit osyniliga upptekit ok fleygt langt i brott a kirkiugolfit sva sem i hermd ok mikilli reidi. En er opt nefndr burgeiss ser þvilikt þottabragd volldugs herra Nicholai, idraz hann geysi miok sinnar agirni, iatandi opinberliga med tarum fyrir ollum nærverandis[3] monnum, hversu hann hefir blektr vordit i sogdu efni ok heitrofi i moti gudi ok hans bezta vin Nicholao erkibyskupi. Kunnigt giorir hann her med, hversu hann tyndi fyrir syndagialld einga syni sinum i midiu hafi, hvat er allt saman godfusir menn harma miok, þviat þeir skilia sælan Nicholaum stygdan i þessu mali. Sem her er komit, semr riki madr heit annat til almattigs guds ok virduligs Nicholaum erkibyskups, at hann skal gefa mikinn part allra sinna audæfa til heilagrar Sion med þeiri bæn, at sæll Nicholaus arni þess vid almatkan gud, at son hans komi aptr med einhverium hætti. Sem hann hefir fest heitit, gengr einn ungr madr inn i kirkiuna berandi hardla fritt gullker ser i hendi, hverr er skiotliga kenniz af fedr ok foruneyti, at þar er kominn ungi madr, er utbyrdis steyptiz i midiu hafi. Vid þessa syn verda menn bædi gladir ok ottaslegnir spyriandi innvirduliga, hversu gud hefdi hans lif vardveitt i siofar haska, eda med hverium hætti nu væri hans þarkvama. Hann svarar þeim roskinmannliga sva segiandi:

1 innan *1 Cd.* 2 Her kemr ungi madr aptr *Overskr. Cd. Holm.*
3 nærverandum *1 Cd.*

«Undriz þer matuliga miok mina ferd, þviat hun er eigi ordin eptir mannligum hætti, helldr sva stormerkiliga, sem [er i guds vitordi[1]. En þat kann ek at segia her af, at þegar sem ek steyptiz i kaf ut af bordinu, var tekit i mot mer sva godmannliga i sionum nidri, at engis kyns atfall matti granda minu lifi; þviat þar var fyrir einn gamall madr ok gofugligr skylandi mer fra siofarganginum ok allan tima fylgd veitandi, þar til er hann leiddi mik a græna iord her nærri stadnum, hverfandi þa skiotliga brott af minum augum. Geck ek sidan þessa skommu leid til kirkiunnar halldandi, sem þer siait, þetta ker minni hendi, er allan tima bar ek, sidan ek fell i forad bylgiunnar.»

127. At heyrdum sva miklum ok stormerkisfullum tidendum lofa allir nærverandis menn ok aheyrandi sannan gud ok sælan hans elskuga virduligan herra Nicholaum, hverium riki madr offrar nu þat sama ker med fagnadi, sem fyrr sigradi hann med agirni. Hellt hann sidan vel ok fagrliga oll sin heit, verdskylldandi at nyiu sæla vinattu guds elskara Nicholai, hveria hann hafdi hrært[2] i moti ser med optnefndu heitrofi. Er her endir sagdrar iarteignar medr þeiri grein, at vær, er þvilika hluti heyrum lesna gudi til tignar ok hans iatara, skulum eigi þegia i moti sem daufir menn eda skynlausir, helldr eru hiortun uppreisandi ok tungunnar framburdr til greidandi at lofa, dyrka ok vegsama allzvalldanda gud, er sva fremr sik dasamligan i sinum helgum monnum blezadr einvalldzkonungr per omnia secula seculorum. Amen.

128. Kaupmadr einn var i Licia nalægr Mirree siglandi i milli landa, furduliga rikr um tima med hverskyns audæfum, er plagazt i þeim halfum, klokr madr ok kænn i þess hattar afla, sem verolldin vill hafa. En medr þvi at heimr sia er miok brogdottr ok valltr, leidandi nockura [til fullsælu fra skemd ok oreign, en flettandi suma fiarhlutum skrydandi fatæktar brigzli[3], geymir nefndr kaupmadr, sem stundir lida fram, uvitrliga sinu gozi, halldandi sik dagliga miok metnadarsamliga medr dryck ok krasum, gerandi veizlur stinnar veralldarhofdingium med fegiofum sæmiligum glutranliga, veitandi vin ok vist leikorum ok fontum sik lofondum sva oforsialiga, at eigi litaz hann fyrri um, en uti er enn sidazti penningr, ok hann er volltinn af sæti virdingarinnar nidr i brigdzli ok kinnroda fyrirlitningar, þviat engi vill honum luta, sidan penningrinn ma eigi ambana. Nu sva rikr sem hann

1 [ gud veit *1 Cd.* 2 adr hert *1 Cd.* 3 [ fra fullsælu til fatæktarbælis, en suma fra oreign til mektugra metorda *1 Cd.*

hafdi adr verit, er honum þvi ollu þungbærri ugipta sin, ef þar sem hann var barnfæddr skal hann opinberliga stafkarl verda. Þvi hugleidir hann sinar radagiordir profandi, ef nockurr kristinn madr vill selia honum fe at lani, en hann finnr þann engan, at sitt goz vili lana eda ut lata nema fyrir fulla borgan. En er þessi van er giorsamliga fokin, sækir hann heim gyding nockurn storliga rikan at gulli ok silfri, sem þess hattar kyni er veniuligt, bidiandi, at hann seli honum sva mikit gull at lani. Gydingrinn svarar hans mali: «Hvar er borgan su er þu bydr mer, segir hann, at ek mega hafa mitt godz en bleckiaz eigi.» Hinn kristni madr svarar: «Eigi hefir ek, segir hann, goz til i pant at setia vid þik, ok eigi veit ek þess mannz van her i stadnum, at mer vili sva mikinn fagnat gera at borga penningana.» Gydingrinn svarar: «Þa þicki mer engi van, at ek kasta gozi minu i hendr þer, ef þu hefir ecki annat mer at bioda en eina saman lokleysu, þviat optliga erut þer kristnir menn med engu moti skilrikari en onnur þiod eda fastordari; þvi anza ek litt, þott þu iatir at luka, ef engi borgar fyrir þik.» Kristni madr svarar þa: «Villtu lia mer þessa penninga, ef ek set i pant virduligt alltari heilagrar Syon, ok ek giori blezadan Nicholaum trulofanarmann fyrir mik, at i nefndan dag skal ek þer luka hvern halfan penning ok heilan, sem nu lanar þu mer i mina naudsyn.» Gydingrinn svarar: «Nicholaum, þann er þu nefndir, truir ek senniliga vera godan mann fyrir hæsta gudi, þviat margir vatta hans kraptaverk ok iarteignir fagrliga skina, ok med þvi at ek truir hann fyrir sagdar greinir bædi mikinn ok mattugan, vil ek senniliga lana þer penninga mina undir hans nafni ok trulofan, þviat ek veit fyrir vist, at flærd ok prettr oflgaz eigi mer til fiarskada, ef þessi madr Nicholaus vill minum hlut framhallda. Nu ef þer er samt i hug, þa forum til kirkiu þeirar, er þu nefndir, [sva at þetta gioriz endiliga[1].

129. Eptir sva talat fara þeir badir saman til heilagrar Syon, ok inngangandi fellr kristni madr a kne fyrir alltari virduligs herra Nicholai halldandi[2] alltarishornit sva segiandi: «Þetta hit heilaga alltari set ek hia þer, ebreski madr, i vordzlu, ok her med giori ek sælan Nicholaum trulofanarmann fyrir mik, i hvers augliti ek iatar heitandi stadfastliga at luka þer aptr hvern þann eyri i nefndan eindaga, sem þu lanar i mina þronging med sonnum godvilia.» Þessi gerd oll saman likar ebreska manni hit bezta. Fara þeir til herbergis eptir greindan skilmala, greidir þa ebreski madr gullit

1 [ at þar geriz endir a *1 Cd.* 2 hondlandi *1 Cd.*

af hendi sva mikit, sem adr hafdi hann iatad, ok sva gladliga, sem hann hefdi fengit friduztu borgan allra sinna penninga. Tekr hinn kristni madr nu fyrra hatt, fæz i kaupferdum til ymissa stada, veriandi þessu gozi sem bezt kunni hann til avaxtar, hvat er innan litils tima gudlig blezan ok arnadarord sæls fodur Nicholai margfalldar sva miok til aukningar, at sagdr kaupmadr gioriz fullrikr i annan tima. Kemr hann sva til Mirream at lyktingardegi fiarins, er þa nalægr ok gnogr rikdomr at luka bædi skiott ok vel hvern þann penning, sem honum var lanadr. Þvi kemr ebreus i logligan tima heimtandi sitt goz. Kaupmadr svarar þessi skulld hardla vel i fyrstu, bidiandi ebreska mann litillatliga, at hann bidi um nockura daga, þviat i þenna punct lezt hann eigi lidugr at luka. En gydingrinn vill þat giarna. Lidr nu bidstund, ok heimtir hann feit i annan tima. Kaupmadr bidr enn fresta, ok sva ferr þrim sinnum i millum þeira, at ebreus vill hafa, en kaupmadr færir iafnan fram timann, sva at seinkaz utlyktin.

**130.** Her kemr sem ebreski madr heimtir sitt goz hit fiorda sinn, at diofullinn svikr med sinni flærdaror ok agirndargalli kaupmannzins hiarta sva hart ok umannliga, at hann ottaz eigi fyrir sialfum gudi at vera ominnigr þeira allra hluta, sem inn voru leiddir i þenna skilmala. Eigi anzar hann sinum gudi, baksetiandi blezadan Nicholaum ok hans signat alltari, liugandi upp i loptid fyrir gud drottins augliti, at hvern penning hafi hann honum vel lukt a nefndum degi. En er hinn ebreski madr heyrir upp spretta sva mikil osannyndi, verdr hann akafliga ottasleginn sva segiandi: «Fyrir hveria sok þorir þu til fiar at vinna sva liotan hlut, þar er þu veitzt i hiarta þinu, at ek leda þer fe mitt i þina naudsyn, ok ek heimti optliga, en feck engan tima. Nu gior sva mikinn fagnad, at ek þurfa eigi at kæra eptir fe minu i hendr þer, þviat kunnigt er þer, undir hvers nafni ek leda fatækt þinni penninga mina.» Kaupmadrinn leidrettiz med engu moti fyrir þvilik ord ok aminningar, helldr stendr hann hardr i mot sannyndum ok segir hvern penning luktan, vattandi ebreska mann heimta tysvar med agirni hina somu skulld.

**131.** Opt ok morgu sinni fara þvilikar greinir milli þeira, adr ebreski madr berr upp þetta mal kærandi fyrir valldzmonnum ok domorum stadarins, liosliga birtandi allan hatt framfarinn i þessu efni, hversu hann lanadi ok undir hvers trunadi, sva ok hversu optliga hann heimti ok sidan misti. Kaupmadrinn berr hit sama fram segiandi sik med rettri vag þetta goz i nefndan dag

lukt hafa vel ok skilrikliga. Nu sem vidrganga heyriz, at hann tok i fyrstu af gydinginum fe at lani, þott vitnalaust segi hann lukt vera, fellr orskurdr a þetta mal, at kaupmadr skal luka skulldina, ella sveria eid at alltari sæls Nicholai, at ebreski madr hafi sitt goz brott tekit fylliliga af hans hendi, sva mikit sem hann atti. Nu sem sia orskurdr er opinberadr, svarar ebreski madr sva til: «Þau min ord vil ek gud ok goda menn heyra lata, at a hvern hatt sem lygd eda meinsæri, slægd eda brogdottr falsaradomr fær um sidir rangturnat þessu mali, trui ek efalaust, at sa Nicholaus er hlutlauss þvilikra gerda, sem mer trulofadi mina penninga, þviat hann veit ek vera godan mann, rettvisan ok sannordan, ok vis van þicki mer, at honum er i moti skapi, ef uskil eru gior a þvi gozi, sem eigi nadiz odruvis en undir hans nafni ok trunadi. En hvat sem þar er um at tala, þa virdi ek litils þenna fiarskada, ef kaupmadr þessi sverr opinberan fortakseid yfir sama alltari, sem hann i fyrstu vedsetti, at hann hafi lukt mer þessa skulld, sem nu segir hann, ok þott hann vinni þenna eid, veit ek rett iafnvist sem adr, hverium ek lanadi[1] mina penninga, hverr fyrir vist eigi verdr svikinn fyrir rangan svardaga.» Ek undra miok, segir meistari Johannes, gofugliga tru gydings þessa, er enn var eigi endrgetinn fyrir vatn ok helgan anda til kristiligrar truar, ok truir þo oifasamliga, at gud drottinn i himinriki ok hans virktavin Nicholaus mega eigi sviknir verda eda nockurskyns blektir fyrir prett eda undirhyggiu. Sa verdr endir þessa fundar, at dagr er akvedinn, nær þessi eidr skal fram koma i heilagri Syon yfir alltari virduligs Nicholai. Snua hvarirtveggiu heim til sinna herbergia at sva gervo.

132. Nu i bidstundartima greindra særa vikr kaupmadr eigi sinu mali til hægri handar at fordaz framsettan vada, helldr giorir hann nyfundin rad i mot gudi sinum ok hans signada iatara, smidandi diupar flærdir ser til andar skada en naunginum til meingerda, eigi geymandi, hversu [ritningarinnar atkvædi pinir[2] flærdsama, sem guds madr Nicholaus sagdi, þann tima sem hann lifdi her i likama, ok enn fylliz i þessum stad sem hinum fyrra: Convertetur dolor eius in caput eius et cet. Þyding þessarra orda er þvilik sem fyrr i bokinni matti undirstanda.

133. Þessi aumr madr smidar einn digran staf med storum knappi holandi innan med sva miklum klokskap, at þar i matti geymaz allt þat gull, er hann atti gydinginum at giallda. Her vegr

1 *saal. 1 Cd*; trulofadi *2 Cdd.* 2 [ ritningarnar segia at kvolin pinir *1 Cd.*

hann inn i sva mikit gull, ok lykr aptr sidan miok vandliga stafinn, sva at hvergi ser nyvirki[1] a, ok a þeim degi, sem nefndr var af domaranum, fiolmenna nu hvarirtveggiu, kaupmadr med kristnum monnum, en gydingrinn med sinum brædrum. Hefir kristni madr þenna staf i hendi sva sem [med naudsyniar yfirbragdi fyrir alþydu.[2]

134. Sem kaupmadr medr sinum kumpanum er utgenginn af sinu herbergi, kemr hann fram snemma dags til klaustrs guds vinar Nicholai, er stendr a veginum, fram at fara til heilagrar Sion. Kemr þar ebreski madr af annarri halfu sva sem i foruneyti, hvers undirhyggiuleysi kaupmadrinn hefir at spotti sva segiandi med flærdsomu hugskoti: «Þo at ockr greini a um nockura penninga, segir hann, muntu ecki sva þrongbriostadr, at þu vilir eigi bera handhofn mina fram til kirkiunnar, er mer verdr miok þung sakir sins vaxtar.» Ebreski madr segir sik þat mega vel giora, engan grun hafandi sva bolvadra flærda. Hugsar kaupmadr nu, at undir eidinn se sva buit oruggliga, at hann megi [fram ganga i nefndan tima[3], þickiz hann nu rettliga sveria mega, at ebreski madr tok af hans hendi sva mikla penninga, sem honum var at luka. En medr þvi at engi ofdirfdarfullr klokskapr, slægd eda diuphugut speki ma oflgaz i mot gudi, birtaz sagdar flærdir fyrir verdleika dyrdligs guds vinar Nicholai med þeim hætti, sem sidar ma heyra.

135. Framkomandi til heilagrar Syon ganga þeir badir samt inn i mustarit. Leggr kaupmadr þa sina hond yfir alltarit sveriandi diarfliga vidr guds nafn ok sæls Nicholai erkibyskups, at sva mikla penninga, sem hann atti gydinginum luka, hafdi hann skilrikliga reitt ok honum sialfum i hendr greitt. Sva gladr gengr hann i brott fra alltarinu, sem hann hafi unnit hinn bezta eid. En er ebreski madr ser ok heyrir þvilika hluti fram fara, talar hann sva: «Vel ok gladliga skal ek bida þess tima, er Nicholao syniz hefndir fram at hafa fyrir þenna prett, þviat honum er kunnigt, hvar sannyndin fara.» Snua nu hvarirtveggiu heim til sinna husa, ok tekr kaupmadr aptr staf sinn ok berr feginsamliga. Ok sem hann er nærri kominn herbergi sinu ok einn samt ordinn a veginum, fellr a hans briost sva mikill þungi, at honum þickir bradr bani sinn nalægr, nema hann kasti ser nidr þar i stad a iordina ok sofni. Ok sva giorir hann i þessum hlut, sem drottinn skipar, at hann legz nidr ok skiotliga sofnar. En litlu sidar er

1 nyverkan *2 Cdd.* 2 [ til studningar *1 Cd.* 3 [ vel fyrir þvi framkvæmd fa ok *1 Cd.*

þann sama veg fram ekit morgum yxnum fyrir storum vognum; en er fylgiandi menn sia þenna sofanda rett liggia þar a gotunni, sem yxnin skylldu ganga, renna þeir fyrir fram ok knyia a allar lundir þann er svaf, en fa med engu moti vakt hann. Ganga nu yxnin sinn veg ok vilia vist eigi stadar nema, hvat sem fyrir verdr; þvi hleypr einn vagninn upp a manninn sva akafliga, at i stad hefir hann bana. I þeiri hrid brotnar ok sa brogdotti stafr, sem kaupmadrinn hafdi mestar flærdir undir framdar, birtiz nu yfir hveriu hann bio; skilia nu nærverandis menn ok tilspyriandi oll þessi svik ut i gegnum. En er ebreski madr spyrr þessi tidendi, rennr hann med ollum skunda fram til mustaris guds astvinar gofugligs Nicholai med skirri roddu þackir gerandi, i milli annarra orda sva segiandi: «Mikla sæmd hefir þu odlaz i dag, sæll Nicholae, ok at verdugu, þviat bædi ertu, sem fyrr sagdi ek, rettviss ok sannordr. Nu hefir þat gerzt i dag, at þeir somu domarar ok meistaramenn borgarinnar, sem heyrdu minn ok kaupmannzins askilnad, hafa nu saman komit i þann stad siandi sinum augum þat mikla fals, er moti þer var fram haft, skipandi mer penninga mina eptir logum, hvar fyrir ek giori þer þackir, godr madr Nicholae, þviat styrkliga veikt þu vagninum, at ranglætishirdzlan ok svikaforkrinn skylldi sundr brotna ok flærd upp flotna, en ek fa penninga mina. Senniliga ætludu vinnumenn ser ofdul at vekia sofanda eda vognum vikia moti þinum vilia. En eitt stendr enn eptir, at eigi hafir þu giort þat er beidir mitt hiarta; villdir þu veita fyrir bæn mina syndugs ok omakligs, at þessi prettvisi madr risi upp til lifs fra dauda, skyllda ek gydinga tru med ollu afneita, gofgandi Jesum hinn krossfesta alla mina lifsdaga dyrkandi þik sem guds iatara, her med skal ek draga til þessa sidar fyrst mina undirmenn ok alla þa sidan, sem min ord vilia nockurs virda, ef þu villdir mer þetta veita.»

136. Litlu sidar en ebreski madr hefir sva talat, kemr kaupmadr af dauda risinn fram til kirkiunnar med lutu hofdi ok audsynu litillæti inngangandi, framfallandi med tarum ok idranarfullri andvarpan fyrir alltari virduligs fodur sæls Nicholai, iatandi sina sekt ok meinsæri i guds augliti, miskunn finnandi, sem allir adrir þagat med idran sækiandi; hvat er gydingrinn siandi undrar geysi miok i sinu hugskoti, vikiandi þegar i stad brott af fyrra atrunadi, heilaga skirn drottins vars Jesu Kristz med ollum sinum hionum ok herbergismonnum feginsamliga takandi, ladandi alla til rettrar truar, er hann matti, eptir sinu fyrirheiti, halldandi sagda sidsemd

med godum fridi allan þann tima, er gud drottinn veitti honum her i heimi, at hann sitt fyrra lif endrbætti. Hvar fyrir þer se lof ok dyrd, ynniligr fadir Nicholae, er opit settir þitt eyra i mot bænarordum Judæi, fyrr en hann væri hreinsadr af gydinga villu fyrir skirnar stormerki vars lausnara Jesu Kristz. Þar fyrir afladir þu enn framlidinn himnakonunginum margan þionostumann, sæll Nicholae, er þu reistir einn af dauda bædi andar ok likama fyrir þina lofliga verdleika, hverir oss verndi ok styrkliga hlifi moti flærd ok svikum varra uvina, at med þinu bænafulltingi audlimz vær at koma til þeira fagnada, er þu tokt i ombun þinna gofugligra verka, i hverium þu fagnar siandi drottin himinrikis allrar skepnu skapara, lifandi med frabæru blomi hunangligra verdleika, þiggiandi hvat af hæsta einvalldi er þu villt bidia, veitandi verolldinni, sem vær truum stadfastliga, otoluliga velgiorninga med arnadarordi þinna bæna, hvar fyrir þitt nafn se blezat fyrir utan enda.

137. Hverr megi ordum skyra þa sæmd ok virding, þionkan ok lotning, er Mirrea, þar med Licia ok enn helldr Asia eda oll austrhalfan, veitir þvi mæta mustari heilags fodur Nicholai, er alla vega skinn med forpris i þviliku stortaknablomi, sem greint hefir verit ok enn mun tiaz i fylgianda mali, þviat nu er fyllt ok framkomit, þat sem vær fyrr hetum i upphafi þessarr arbækr, at iarteignabord er uppreist ok samkunda fagrliga sett. Þetta it blezada bord stendr i heilagri Syon hladit med fridum rettum skemtiligs fagnadar, rettum lifs ok eptirdæmis hunangliga ilmandum ok meistarliga piprandum yfir elld heilags anda i manndyrdum astar ok meinlætis; yfir þetta bord er uppskenktr fysiligr dryckr dyggiliga milskadr med fremsta lystugleik tveimr liquoribus framras gefandi ut af steinþro virduligs guds vinar Nicholai. Breid er su samkunda, er sæmir þetta bord, þviat af ollum ættum koma lydir heim sækiandi greinda guds holl bergiandi af þeim rikdomi framsettum, sem hverir skilia hentiligaz sinum naudsynium. Til at geyma þetta blezada bord ok dyrazta dryck eru skipadir margir dyggir þionostumenn ymisligrar stettar, prestar ok klerkar, munkar ok leikmenn, sumir til songs ok sæmiligrar þionostugerdar, adrir til voku ok nattligrar vaktanar, þridiu til vardhallz ok geymslu dagligrar, at allir hlutir ok serhverir sva gofugligs stadar væri iafnan undir umhyggiu godmannligrar astsemdar. Þvi gafu godir menn ok gudhræddir sina sonu i greinda guds vinar þionostu, þottiz sa hverr storliga vel fyrir sia sinu barni, sem hann let inn ganga i signadan skola Nicholai fullan med gudligu astriki, þviat allir i

þessi þionostu lifandi unnu hugastum þessum andada erkibyskupi. Hvar fyrir sa madr er miok hatrsamligr heilagri guds kristni, sem eigi hlifir sva dyrdarfullum stad, helldr rænir ok ruplar, sem lesit er af einum hundheidnum ranglætis konungi, hverr upp fylliz sva mikillar guds reidi, at hann stridir upp a Liciam marga drepandi, suma meidandi ok nockura þrælkandi med ser flytiandi. I þessi bolvadri herfor sturlar sa daudasonrinn sialfa Mirream med grimdarfullu ofbelldi rænandi mustari sæls Nicholai, gripandi þionostumenn brott af hans fadmi, dragandi undir sitt otrutt valld sem grimmr kvalari. Einkannliga vikr þessi ræda til eins þionostumannz, er hann brott tekr af heilagri Syon Cedron at nafni. Þessi madr er vel mentr, kurteiss ok hofdingium tilheyriligr, hiartaliga astrikr til sins lavardz[1] ok lausnara ok hans virduligs iatara. Hvar fyrir varr herra veitir med arnadarordi sins vinar Nicholai, at Cedron finnr miskunn i konungs augliti frials af þvingan[2] ok þrældomi, þviat konungrinn finnr, hveria slekt ok hæversku hann fagar i sinu medferdi. Þvi gioriz hann hinn fremzti konungsins skenkiari, sialfs hans ker berandi ok fyrir hans bordi dagliga standandi yfrit vel halldinn bædi med klædum ok skotsilfri. En þott honum falli sva giptusamliga sin utlægd, fær hann alldri gladan dag, þviat eigi ma honum or hug ganga, hvat mikit ok ynniligt hann fyrirlet heima i Mirrea; þvi stendr hans asiana æ med hrygdar yfirbragdi hiartaligs trega, hvat er konunginum ok allri nærverandis hird gefr vel skilia.

138. Nu sem arsins kringla leidir nalægan hatidisdag volldugs herra Nicholai erkibyskups, angraz sveinninn sarligar en adra tima, þviat hann berr i sinu briosti, hversu Mirrea gledz ok fagnar a þeim degi. Ok snemma dags sem hann stendr med ker fyrir konungs bordi, fær hann eigi temprat sik af hrygdar yfirbragdi, hvat er konungrinn hugleidir sva segiandi: «Hvat ogledr þik, ungi madr, segir hann, med þvi at vær tiam þer dagliga vara blidu veitandi þer hina sæmiligstu þionostu, þar med gnoga penninga ok vinattu allra manna.» Cedron svarar mali konungs: «Satt er þat at segia, herra, at þer gerit vel til min upp a ydvarn hatt, en eigi er þat undranar vert, þoat mer þiki munr þionostunnar þeirar, sem ek var i fyrstu til skipadr, ok þeirar, sem nu er ek i staddr, miok er sundrlikt at standa þionandi fyrir bordi virduligs Nicholai Mirrensis erkibyskups eda vera ydarr skenkiari heidins konungs milli heidinnar þiodar.» Konungrinn talar þa: «Hvat mun þvi

1 lavardar *1 Cd.* 2 *saal. 2 Cdd*; þungan *1 Cd*; þyngan *1 Cd.*

vallda, at engi stod moti þvi, at ek tæki þik brott af Mirrea ok helldi sidan eptir minum vilia, utan annattveggia at kumpan þinn Nicholaus ann þer miklu minna en þu ætlar, eda er hann eigi sva sterkr ok mattugr, sem þu hugsar, þviat vær tokum þik brott af Mirrea med varum afla; en Nicholaus mun hvarki hafa styrk til ne vilia þik aptr skipa.» Eptir sva talat rettir konungrinn hond sina moti kerinu; en þa er þess eigi kostr, at Cedron skenki honum lengr, þviat i þann sama punkt er hann undarliga brott tekinn af konungsins augum ok settr a sama augabragdi fyrir kirkiudyrum heilagrar Syon heima i Mirrea, rett i þann tima sem kennimenn giora hatidliga processionem umhverfis kirkiuna. Ok er þeir vikia syngiandi fra [sudri til nordrættar[1] aptr fyrir kirkiudyrnar, sia þeir einkanligan hlut, þat er þionostumann ker halldanda hatt ok kurteisliga, sva sem fyrir hofdingia er vani til. Bera menn i stad kenzl a þenna mann, at þar er Cedron kominn þionostumadr Nicholai erkibyskups, er fyrir tima var utflæmdr i fiarlægt riki. Hvar fyrir dasamlig undran riss upp med lydnum eptir spyriandi, hversu hann væri þar kominn. En hann svarar þeim litillatliga vattandi ser eigi kunnigt vera, hvilikan almatt himneskr fadir hefir a honum framit fyrir arnadarord ok verdleika sins iatara. Segir hann þeim greiniliga, hvat þeir heidni konungr hofdu talat i hans holl rett a þann sama tima, iatandi sik enga grein þess i milli hafa, er hann stod fyrir konungi ætlandi honum kerit bera, ok hann var staddr fyrir kirkiudyrum i Mirrea. Hvar fyrir þat birtiz, at i einu augabragdi hefir hann borinn verit med guds krapti sva stormerkiliga, at yfir kerit, er hann hellt a, hafdi hvergi[2] stoplaz. Hvat megum vær tala til þvilikra hluta utan samlagaz Mirree borgarmonnum i lofi guds almattigs, er vinnr dasamlig takn ok stormerki fyrir sinn kiæra vin Nicholaum nærri ok fiarri. Þvi kriupa honum ok hans likneskiu gratandi kristnir menn um heimsbygdina, sem enn mun greint verda i næsta kapitulo med guds vilia.

139. Su þiod vestan af Affrika, er heitir Gens Vandalica, stridir nockurn tima i austrveg a þa kristna þiod, er Greci kalla Kalabritidem. Þeirar þiodar getr Gregorius mikli opt i bokum Dialogorum iafnan i þeiri grein, at hon var grimmuz a kristni guds med ranum ok illzkuverkum. Þar setr hann ok optliga þa þiod, er Goti heita, grimman lyd ok illan vidreignar. Eru nefndar þiodir, Goti ok Vandali, nalægar med landastodu sin i milli til vestrs af

1 [ nordri til utsudrsættar *1 Cd.* 2 hvarki steypz ne *1 Cd.*

Gricklandi. Nu gera Vandali sva i þessum stad, sem Gregorius berr þeim vitni, at þeir heria upp a erfd hins krossfesta med elldi ok iarni, rænandi kristna menn sinu gozi, leidandi þa suma undir sverd ok oxi, en suma þrælkandi svivírdliga leikna med bondum eda bardaga. Nu berr sva til i einum stad, sem þeir gomlu guds ovinir upp hlaupa bolvandi[1] ok brennandi, hvat er fyrir verdr til beggia handa vida um landit, eydandi med fiandligum grimdarloga, kemr einn son ranglætisins inn i nockurs kristins mannz herbergi milli annarra sinna kumpana, rænandi ok ruplandi hvat er femætt ma finnaz, sem sidr er til þess hattar hermanna. Ok sem þeir hafa svipt[2] i brott þat er þeir finna, dvelz þessi heidinginn, sem vær gatum fyrr, lengzt i herberginu sem nockurs leitandi; hvar fyrir hann fær litid eina mannzlikneskiu setta i leyniligum stad fagrliga skrifada yfir sletta tabulam eptir hætti Grickia. Hann þikiz vita fyrir einkannligt form likneskiunnar bædi hagleiks ok harskurdar ok klædabunadar, at þetta mun pentad vera eptir nockurum mikils hattar manni. Þvi tekr hann þessa tabulam berandi med ser leyniliga, gefandi kumpanum sinum enga vissu þessa fundar, þar til er hann finnr kristna menn i hoptum halldna, synandi þeim likneskiuna spyriandi innvirduliga, hvar eptir hon væri formerud, eda hvat hon hefir þyda. Hvat er kristnir menn siandi fella tar i hiartaligum elskugrati vattandi med rettu sannindi, at þetta er likneskia virduligs herra Nicholai, hverr sik birtir i kroptum ok iarteignum lifa odaudliga med sialfum gudi. En er heidni madr heyrir þvilika utskyring skriptarinnar, geymir hann vanvirkliga þa somu pikturam fyrir utan vissu sinna lagsmanna, flytiandi heim med ser til Vandaliam eptir fullgior illvirki ok herleiding kristinna manna.

140. Þessi madr var storliga rikr sva sem kaupmadr, undir þvi nafni er Greci kalla thelonearío, þeir eru vid kendir þat hus, er þeir faga ser til fiarafla, med þeiri uppras at thelon i girzku þydiz longus i latinu, þat er langr i norrænu, þviat nefndir kaupmenn reisa long herbergi med fridum kosti fyrir þeim markad, er ferikaztr er innan stadar, hvadan af þetta hus kallaz theloneum, en kaupmadr kallaz thelonearius, sitiandi æ dagliga uti eda inni fyrir þessu husi, halldandi til avaxtar med ymisligri kaupstefnu sinu gozi. Fra þvilikri idiu eda kaupstefnu kalladi varr herra Jesus Kristr Matheum i sitt foruneyti, er sidan vard, sem kristni veit, bædi gudspiallamadr ok postoli, hvat er skyrt vattar heilagr

1 brælandi *1 Cd.* 2 skyft *1 Cd.*

Gregorius fyrr nefndr, þa er hann skyrir evangelium Manifestavit se Jesus.

141. Greinda framferd hefir sagdr Vandalus eigandi mikit hus gnogliga giætt gulli ok silfri, dyrum steinum, klædum agiætum ok allra handa þingum. Hann var kvæntr madr ok atti son med husfru sinni; fyrir þa grein var hann herra yfir hyski morgu ok miklum rikdomi. Nu med þvi at hann elskadi theloneum meir en nockut annat, þviat þar voru hirdir, sem fyrr segir, allir hans gripir ok gersimar, berr hann likneskiu sæls Nicholai inn i þetta herbergi. Ok sem hedan lidr skammr timi, kemr hann einn dag til hussins, lykr upp ok gengr inn vikiandi þar til, sem hann hefir sett likneskiu virduligs Nicholai, sva segiandi: «Þat er undarligt, Nicholae, segir hann, at þu stendr her inni sva sem undir geymslu minni ok hefz ecki at; nu gack ut ok statt frammi i dag ok ver geymslumadr fyrir husi þessu, ok eigi sidr i nott, þviat ek a i brott skylldugt erendi, sva at ek fær eigi fyrr heim komit en i morgin.» Eptir sva talat tekr hann likneskiuna berandi ut af husinu setiandi upp yfir dyrnar[1] sva sem til vardveizlu, gangandi brott sidan fra opnu herberginu, sva gladr fyrirlatandi sina fullsælu undir fyrr sagdri geymslu, sem marga vardhalldzmenn ok trulynda hefdi hann skipat til vakrligrar umhyggiu.

142. Hvat eru þvilikir hlutir nema undranar verdir, at heidinn madr ok agiarn giorir sialfr rad til eptir natturligum hætti, at hverr hans penningr se brott stolinn; hvat hefir þyda sva undarlig trua i heidnu briosti, utan guds forsia vill ok skipar i þionandum greinum, at nafn ok virding hans vinar Nicholai kynniz i Affrika heidnum þiodum. Senniliga styrkir þessi hlutr þat, er segir hinn mikli Gregorius, at heidnir menn eru eigi trulausir, [þott þeir se eigi fyrir vatn hreinsadir.[2]

143. Þessu næst er þat segianda, hversu Nicholaus vaktar geymsluna, þviat hann er skipadr yfirskygnari mikils fiar at opnu herbergi, en [eignarmadr hvar fiarri[3]. Hvat ma rettara synaz en agiætr fehirzlumadr leitar ser nyrra utvega, geymandi gozit, fra þvi sem flestir adrir. Sa er alþydligr hattr at strengia aptr dyr ok lata lasinn geyma, en Nicholaus gerir eigi sva, hann vikr fra vardhalldinu um tima leyfandi ranglatum valld yfir hafa, at þvi sterkligar ok stormerkiligar megi hann sidan alla hluti aptr vinna; þviat sama dag sem þiofar ok ransmenn renna fyrir þat herbergi, siandi olæst vera en hyggiandi engan vardhalldzmann giæta, gera

1 ofdyret *1 Cd.* 2 [ *tilf. 1 Cd.* 3 [ eigandi hvergi i nandir *1 Cd.*

þeir rad sin i millum, at a næstu nott, sem myrkt er vordit, skulu þeir þar koma ok stela, sem mest mega þeir orka. Sva giora þessir myrkranna synir saman komandi, sterkir menn ok storir, lærdir i lymsku ok miok slægir i stuldum, sva mikilvirkir, at a þeiri somu nott rydia þeir þat hus ok rupla sva giorsamliga, at ecki er femætt eptir. Stendr sva husit tomt um morgininn, er thelonearius kemr heim. En er hann ser allt autt ok þar svartazt, er gullit hafdi legit, skerz[1] hann innan med hvossum skadabroddum sinnar missu, tonnum gnistandi ok hatt æpandi, sem titt er þeiri þiod, ef hon verdr fyrir harmi. Eptir langa veinan ok grat ok morg onnur ill læti snyr hann fyrir likneskiu sæls Nicholai siandi grimmum augum ok ygri asionu moti henni, talandi sem til skynsemdarfullz lifanda mannz sva segiandi: «Hvat gerdir þu, Nicholae, er þu geymdir eigi fiar mins, sem ek baud þer. Ek setti þik godan mann sva sem forstiora þessa hus; en nu fær ek eigi skilit, hvat þu lezt þer skylldra synaz en vernda þat fyrir þiofum ok ransmonnum. Nu fyrir þa sok at ek setti mina fiarhluti upp a þina dygd, heimti ek þa alla ut af þinni hendi; þvi kios um tva kosti, giallt mer aptr penninga mina heila ok uskadda, ella stendr þu i stad undir þeiri hudstroku, sem mesta ma ek þer gefa.» Nu sem hann ser likneskiuna ecki linaz vid þessi hotanarord, gripr hann mikinn þust beriandi likneskiuna bædi hart ok titt, þar til at hann er miok modr. Þa talar hann: «Nu hefir ek golldit þer nockut fyrir vangeymslu þina, en þo er eptir meira, þviat i elldinn brennanda skal ek þer kasta, ef þu daufheyriz vid at skipa mer aptr penninga mina. Nu mun ek bida til morgins, at þu megir fordaz þat er ek ogna þer.»

144. Milldr ok blezadr iatari guds sæll Nicholaus sampiniz sinni likneskiu, sem hann sialfr þyldi greinda vanvirdu, takandi a sik syniligt yfirbragd a þeim sama degi, gangandi at ovoru þar nærri, sem vandir þiofar skipta sinu ranfengi. Hann talar sva til þeira, sem her ma heyra: «Hvat giori þer, vandir menn ok veslugir, saman sitiandi sem hluti gerandi yfir þvi gozi, sem þer eigit engan hlut i, helldr stalu þer i nott fra þeim rika manni hvern eyri þann, sem her er saman kominn. Hvi voru þer sva heimskir ok vitstolnir, at þer ottuduz mik eigi, þar sem ek var skipadr geymslumadr allz fiarins, ok ek sa upp a, þa er þer stalut hvivetna, þat til marks, at ek kann greina nafn ok kyn serhverra hluta, gull ok silfr hafi þer sva mikit, dyra steina sva marga undir þvi nafni,

1 skekz *1 Cd.*

klædi agæt sva morg med þvi kyni, sva adra hluti ok serhveria, sem ek merki med þvi nafni. Nu fyrir þa sok er þer giordut sva illa ok umannliga, at þer drogut undan minni vernd þat, er mer var a hendi folgit, var ek barinn saklauss fyrir ydra skylld bædi med þust ok þungum ordum. En nu vil ek segia ydr fyrir vist, at ef þer berit eigi aptr hvern penning heilan ok halfan i kaupmannzins theloneum, skal ek sva um ganga, at ydr se skamt til þess mesta ofagnadar, sem þer þurfit hafa, þviat eigi seinna en i morgin skal ek kunnigt gera stadarins rettara, hversu þer hafit liotliga giort ok illmannliga, kastandi ydr alla samt i daligstan dauda, ef þer dirfiz min ord bakverpa ok eigi fullgiora.»

**145.** Sva segir hann i mikilli roksemd. En þiofar verda hræddari en fra megi segia, þviat þeir ætla nockurn borgarmann sed hafa sina giord ok fyrir þa grein sva kunnliga fra segia. Þvi sucka þeir engum hlut af þvi gozi, berandi aptr næstu nott hvern penning i þann stad, sem adr hafdi verit. Sva kemr husherrann til um morgininn, siandi a badar hendr sina eign aptr skipada, fellandi tar fyrir fagnadi þvilikra iarteigna, gangandi litillatliga med blidu andliti fyrir likneskiu sæls Nicholai kyssandi hana kærliga fadmandi, fogrum ordum sva talandi: «Heyrdu, heilagr fadir Nicholae, rettvis ok trulyndr, milldr ok miskunnsamr, þionn hæsta guds! há há herra minn, hversu mikill ok mattugr, hversu haleitr ok heilagr, nalægr ok heimoligr þu ert vordinn odaudligum konungi almattigum gudi, hverium þu dyggiliga þionadir sem godr riddari, þa er þu lifdir a iardriki, af hverium þu tokt sva mikit valld, sem nu provaz, at þu matt gera þvilika hluti, sem nu eru syndir mer heidnum manni fyrir þina milldi. Þvi skal ek fra þessi stundu trua a Krist ok a þik.» Tok þessi madr sidan tru vars herra Jesu Kristz, takandi heilaga skirn med ollu sinu hyski, giorandi kirkiu til sæmdar sælum Nicholao, i hverri er hann þionadi med sinni husfru ok sonum, dyrkandi gud drottin ok hans elskara sælan Nicholaum. Fyrir þvilika atburdi þroadiz hogliga virduligt nafn Nicholai erkibyskups milli heidinna þioda sva framt, at þeir þionudu honum margir, sem eigi hofdu kristnina tekit, sækiandi heim hans signada likama med fremstu þionostu, er þeir kunnu gera.

**146.** Eigi ætla ek, segir meistari Johannes, at finniz sva fiarlægr stadr eyddr eda leyniligr i allri heimsins kringlu, sva vitt sem verolldin byggiz, at eigi hafi heyrt ok feginsamliga fregit lof ok iarteignagerd gofugligs herra Nicholai. Eigi at eins bera hans

verdleik vitni oll herod ok breidar halfur Grecorum, er næst standa hans lifi ok iarteignagiord sakir veralldligs ættboga her i heiminum, helldr allt austrriki med ymisligum ættum; heidnar þiodir lofa hann, dyrka ok vegsama vida um verolldina a greindum iordum med ymisligum tungum, heidrandi hans grof ok heyrandi hans lof i kroptum ok iarteignum. Heyrt hefir Italia ok oll Romania hina somu frægd a nyium tima, syngiandi sælum Nicholao arligt festum i sonnum fagnadi vel ok gladliga, sæmiligar kirkiur reisandi, eflandi ok helgandi honum til lofs ok dyrdar fyrir viderni margra storlanda ok konungsrikia, sva framt at hans hunangligt nafn er flogit allt i nordanverda kristnina; þviat engi fagnadarstadr guds i himinriki ma sik byrgia brott af hans lofi. En þat er vær sogdum, at Italia tæki virdingarlof Nicholai a nyium tima, leidir af þeiri hofutgiptu, er hon odladiz at taka i sinar halfur hans blezadan likama, hvar fyrir þat birtiz satt vera, er vær hofum skrifat af skinandi frægd hans ynniligztu atferdar. Ok i tilbunadi þeirar prydi, er Italia odlaz i sva miklum fagnadi, skulum vær enn þann hlut birta, er Nicholaus vinnr i Mirrea, adr hann fari brott til vestrlanda, at þvi sidr se undranarvert, hver stormerki elskunnar heitleiki þorir frammi hafa.

147. Sva berr til einn tima, at herra keisarinn sendir einn mikils hattar mann i pilagrimsferd af sinni halfu fram til Mirream med fridu foruneyti at vegsama sælan Nicholaum bædi med tilsokn ok sæmiligu offri. Nu sem hann kemr til Mirream, gengr hann inn litillatliga i heilaga Syon, kriupandi miukliga til legstadar sæls Nicholai bidiandi hiartaliga, at sa gud drottins vin veiti honum nockut af sinum limum, at hann megi sia ok kyssa. Þess bidr hann fyrir þvi, at heilagr domrinn er sva sterkliga luktr i sinum umbunadi, at engis mannz hond ma honum nærri koma. Hvar fyrir þionostumenn grafarinnar hafa ser til samit sva digra penna, sem þeim borum til heyra, er a þroarendunum hafa vordit med guds vilia, at þa ut leidiz fyrr sagdir liquores a skipudum tima fyrir framdratt pennanna. Sem herrann hefir bediz fyrir um stund, ok miok er sidla vordit, heimtir hann til sin einn kirkiunnar þion, segiandi honum sina astundan bidiandi hann profa, at sæll Nicholaus veiti þessa bæn. Giora þeir sva rad sin i milli, at klerkrinn skal profa utrasarveginn til hofdahlutarins, þar sem oleum gafz ut af helgum dominum, þviat riki madr hefir traust a, at guds iatari muni honum huggan veita. Ok sva ferr, þviat eigi seinna en klerkrinn til profar, skytr ut at endanum einni tonn i boruna,

sem straumr bæri, med beinazta framhalldi sva vel ok vidrkvæmiliga, at hon nemr stadar i þeim gulliga kistli, sem riki madr hellt frammi fyrir. Er honum nu veitt at sia ok kyssa þann heilagan dom guds iatara, hvat er honum þickir ser nu eigi þorf vinna, helldr ætlar hann med klerksins felagskap at taka tonnina a brott flytiandi leyniliga heim til sinna herada. Hvar fyrir hann lykr aptr kistilinn vandliga setiandi yfir eitt alltari þar i kirkiunni. Ok litlu sidar ser hann, at kistillinn sveitiz med vidsmiori sva gnogliga, at stod ollum megin. Hann rennr til med ollum skunda, sveipandi kistilinn einum duki sva sem hugsandi at stemma rasina vidsmiorsins, þviat hann villdi lifsgiarna, at engi madr mætti viss verda hans gerdar. En fyrr sagdr dukr ma eigi leyna sva miklum heilagleik sæls Nicholai, þviat vidsmiorit rennr þvi hardara. Tekr nu riki madr at ottaz ok fyrirdiarfaz i sinu hugskoti, at hann megi helgum dominum leyna eda med ser i brott hafa, ok allt eins berr hann yfir fleiri hulningar ok margfalldari, adr hann ferr sofa. I þeim sama svefni birtiz honum sæll Nicholaus sva segiandi: «Ek veitti, segir hann, bæn þina, at þu sæir kyn lima minna, en þat er ecki til efnis, at þu berir brott med þer, þviat þat leyfi ek med engum hætti, at gripiz eda sundr dreifiz i þessum stad nockurr minzti partr mins likama.» Sva segir hann blezadr fylgiandi sinum ordum sva merkiliga, at um morgininn sem riki madr til kemr ok rannsakar kistilinn, er tonnin brott horfin. Berr þessi hlutr vitni med odrum vattum otoluligum, hversu Nicholaus erkibyskup er mikill hofdingi i heilagleiks stettinni, þvilikt sem allt flioti i nand med iarteignum. Her skilz þat ok annat, at herra Nicholaus vill lata sinn oskaddan likama ok heilagan dom flytiaz brott af Mirrea til vestrlanda, þa er timi kom ok drottinlig forsio villdi sva gioraz lata, hvat er vær skulum birta þessu næst med guds vilia.

148. Einvalldzherra himinrikis sem hann hefir dæmt i sinu leyndu ok obrigdiligu radi at vitia eda enn helldr birta medr eilifri ok skærri prydi þa borg er Barim heitir, byriar hann þessa gerd, þa er lidit var fra hans holldgan þusundrat ara atta tigir ok þriu ar, en af sigrsamligri heimferd sæls Nicholai erkibyskups til himinrikis þriu hundrat ara ok niutigir ok fimm ar. Su borg er vær nefndum stendr i Italia ut a Pul eigi miok langt fra fialli heilags Benedicti, þvi er honum þar helgat innan[1] borgar eitt vegligt mustari. Þessi borg stendr austr vid sioinn, er þar rikdomr mikill ok margr fiarafli. Þadan er sigling stor til austrlanda medr hveiti

1 utan *1 Cd.*

ok odrum kaupskap; hvar fyrir sva gioriz med guds vilia, at Barensis bua sina ferd a þrim skipum hlodnum med hveiti ok hinum bezta kosti ok ætla at sigla kaupferd til Antiochiam. Su sigling gengr miok nærri opt nefndri Licia, er a þessum tima er vordin med guds domi fyrir miklum bardaga, þviat Tyrkia herr er kominn i rikit med allzkyns onadum fiandligra illvirkia sva umannliga, at Mirreaborg er vida eydd fyrir agangi sagdra ovina. Er nu endir kominn þeirar hofutgiptu, sem hon hefir lengi neytt, hvat vær truum henni til beraz fyrir ofmikit syndagialld.

149. Nu er segianda nockut af ferdum fyrr nefndra Barensium, at sva sem þeir hallda i haf samflota, eru þeir allir eins lids berandi saman sin rad med gudligum iblæstri, at þeir skulu taka helgan dom virduligs guds iatara Nicholai brott af Mirrea, annattveggia þa er þeir sigla fram til Antiochiam eda heimleidis. Eptir stadda radagerd fa þeir god vedrfoll ok blida byri, sva at þeir taka farsælliga Antiochiam gangandi af skipum til kaupstefnu; ok fa daga hafa þeir dvaliz i Antiochia, adr þeir verda visir med guds vilia, at þeir kaupmenn eru þar komnir af Italia, er Veneciani heita, þeir eru kendir vid þa iord, er þeir byggia. Barensibus er sagt i hliodi, at Veneciani hafi i milli sin sva mikil storrædi at stela i brott af Mirrea helgan dom sæls Nicholai. Fyrir[1] þenna kvitt ottaz Barensis nockut litt, rannsakandi vitrliga sva sem undir kærleik ok vinattu milli kaupmanna, hvat Veneciani muni ætla fram at fara, ok skiotliga sem þeir hafa med klokskap eptir leitad, finna þeir satt vera, at Veneciani hafa morg tol stinn ok stor med iarni gior til þess samin at briota kirkiugolfit i heilagri Syon ok bera brott likama heilags Nicholai af Mirrea borg. Eptir fengna vissu sagdra greina venda Barensis ut i kaupstefnu sem akafazt veriandi sinu gozi nott ok dag, sva at innan litils tima eru þeir albunir siglandi brott af Antiochia, sva at Veneciani liggia þar eptir.

150. Sva sem Barensis taka til segls, gefr þeim byrleidi hardla fritt; eru þeir þa katir ok af annarri halfu ihugafullir, hversu giptuliga þeim gangi þessi ferd, eptir þvi sem þeir mundu kiosa. Taka þeir fyrr greinda hofn Adriaticum medr þeiri tilskipan ok radagerd, at siau menn hins fimta tigar herklæddir til handa ok fota skulu ganga upp til borgarinnar, en allir adrir skulu skipa geyma herklæddir fyrir ogn ok aga tyrkneskra manna. Nu sem Barensis koma til heilagrar Syon, ganga þeir inn godfusliga, stilliliga ok obreytiliga, a þann hatt sem pilagrimar eru vanir at sækia

1 Eptir *1 Cd.*

til heilagra stada. Eptir godfusa bæn ok miok skamma litaz þeir um ok sia eigi meir en fiora vardhalldzmenn i kirkiunni, til hverra þeir ganga litillatliga sva segiandi: «Þer godir brædr, synit oss, i hverium stad leiddr er likami sæls Nicholai.» Þessir, sem fyrir eru, syna þeim þegar þann blezada stad, hugsandi at pilagrimar muni offra vilia eda bidiaz fyrir heimolliga hia þeim guds iatara, þvi greina þeir gladliga alla stodu steinþroarinnar tiandi þær utrasir, sem fyrr voru sagdar. Ok er Barensis undirstanda, hvar liggr su agæta fehirdzla, er einn sva snarr milli þeira, at hann setr digrt hogg med storum hamri a þa hellu, sem efzt er a umbunadinum sva hart, at marmarinn brestr þegar allr i sundr i sma stycki. Leita þeir nu nidr lengra ok finna skiotliga sialft leidit sniofi hvitara forkunnliga prutt fyrir allar halfur, hvat er þeir siandi ottaz nockut sva mikit storrædi at briota sialfa þrona medr afli, þviat þeim syniz hættumikit, at sa madr fai guds reidi, sem þat dirfiz fyrstr giora. En er sa madr, sem fyrr hafdi lostit hinn efra steininn, ser þat, at fyrirdiarfaz mun þeira erendi, ef eigi gioriz at meira, þvi tekr hann sva mikit traust med astarhita i hugskotit, til þess at Nicholaus flytiz i brott af Mirrea, at hann virdir engis i hiartanu, hvat honum kann til beraz, oruggandi sik sva, at hann setr hogg annat eigi minna nidr i sialfa grofina, sva at yfirtabulan springr i stad. Birtiz fyrir þetta hogg mikill fagnadr ok guds miskunn, þviat berudum helgum dominum dreifiz sva mikill ilmr ok sætleikr um alla kirkiuna, at þeir hyggia sik i paradiso vera, sem nærri standa. Hver megi tunga skyra þvilika dyrd, at daudir limir skulu framar ilma en dyruztu smyrsl eda iurtir, med þeiri grein at grofin er full af oleo, sva at beinin svimma i nidri, þau bein er dyrri eru, mætari ok agætari en nockut gull a iardriki. Þvi se þer lof ok dyrd, odaudligr gud i himinriki, er sva dasamligan fremr þik margfalldri dyrkan þinna vina, skipandi þeira salir i haleitri nalægd þinnar asyndar i sialfu himinriki, veitandi þeira likomum, sem þer likar, ymisliga sæmd ok æru i moti holldzins natturu her i verolldinni; suma lætr þu liggia medr obrugdnum likama at vaxanda hari ok noglum, sem þeir lifi, suma lætr þu snuaz til minkanar, sva at holldit gengr sina natturu, veitandi þar i mot sva miklar yfirvættis giafir, sem nu voru skommu lesnar af þinum kiærazta vin Nicholao, med ilm ok oleo. Þessu næst lesa Barensis saman helgan dominn sveipandi med hinum hreinazta duki, er sa kennimadr atti, er var i þeira fylgd ok foruneyti, ok eptir sva gert taka þeir vapn sin ok snua til skipa medr ollum

skunda, setiandi helgan dominn i eitt ker hardla sæmiligt ok fagrt, latandi þegar i haf, er byrr fellr til, lofandi gud i ollum hlutum ok virduligan Nicholaum.

151. Heilagr domr sæls Nicholai fluttiz brott af Mirrea ellefta dag Aprilis manadar, en tok Barim farsælliga a drottinsdag eptir .xx.[1] daga lidna. Ma þat vitr madr at likendum rada, hverr fagnadr fylla mundi alla goda menn i frabærri gledi þvilikra tidenda, hvat er lydr Barensis vel birti medr fagrligri motgongu ok hiartaligri godfysi. Er sunnudagskvelldit af skipi borinn heilagr domrinn ok settr med harri processione i kirkiu guds vinar Benedicti, er fyrr var nefndr, a sama ari drottins vars Jesu Kristi sem i upphafi greindiz undir tiundu indictione, med allra manna gledi ok hiartaligum fagnadi. Sva mikill guds kraptr var i nefndri kirkiu til iarteigna ok heilsubotar siukra manna fyrir lof ok arnadarord virduligs herra Nicholai, at drottinsnottina ok annan dag vikunnar urdu heilir af ymisligum sottum fiorirtigir ok siau menn, allir þar innan borgar. A þridiadaginn næsta eptir er heilagr domrinn brott fluttr af Benedictus kirkiu, fylgir virduligr herra Elias aboti honum sæmiliga fram af sinni geymslu i þann stad, er borgarmenn kalla Kurtein. Er þar skiotliga kirkia reist gudi til sæmdar ok sælum Nicholao, prydd ok skipud med allzkyns iarteignum. Sva haleitliga blomgadiz þessi borg i tilkvomu sæls Nicholai erkibyskups, at a næstum .vii. nottum, sidan hann kom i Kurtein, urdu heilir fimtan menn ok hundrat med ymisligum hætti ok atburdum. Hvar af vær kunnum fatt at greina sakir fafrædi, en þat sem til er birtir fylgianda efni.

152. Nu sem til sækia greindrar borgar siukir menn ok veslugir af ollum attum, sakir þeirar frægdar sem nykominn Nicholaus giorir þar innan stadar, kemr einn salugr madr i milli annarra af þeim halfum, er undir liggia fræga borg Anchonitanam. Þessi madr var kreptr i likamanum, sva þurr ok visinn i hondum ok fotum, at hann matti hvergi hræra sik, eigi hendrnar til þionostu likamans eda nockurrar gerdar, eigi helldr fætrna til gongu eda nockurar hugganar. Sva veslugr er hann færdr fyrir sælan Nicholaum, ok iafnfram sem hann er tilfluttr af sinum fylgiorum at kyssa umbunadinn yfir settan helgum dominum, verdr hann i stad heill, rettr ok styrkr i ollum limum lofandi gud drottin himneskan fodur ok hans virktavin sælan Nicholaum.

153. Prestr nockurr sarliga vanmattugr kom til Barim a þessum

1 *saal. 2 Cdd*; .x. *1 Cd.*

timum, hann var kyniadr af þvi kauptuni er Kanumerum[1] heitir. Hann hafdi þat vanheilendi, at hann virkti i hrygginn sva hart, at hann matti þar fyrir ecki upprettaz, ok gerdiz hann sva biugr, at helldr matti synaz, at hann skridi fram en gengi. En sva sem hann sækir heim sælan Nicholaum, minkar verkinn hogliga, ok madrinn rettiz æ iafnfram sem verkinn dregr brott, sva at hrygg-sterkr ok alheill ferr hann þadan veg sinn syngiandi lof gudi i sæmd ok virding sæls Nicholai.

154. Tvau hion koma med son sinn diofulodan af þeim stad er heitir Amalphim. Þau eru sarliga hrygg af sva þungum vanmætti sins sonar, bidiandi med tarum sælan Nicholaum, at hann ogni ovininum med ser gefnu valldi ok verdleikum miskunn veitandi sveininum. Ok þat veitir gud fyrir sinn elskara Nicholaum, at sa ferr heill ok frials þadan i brott, sem þangat kom odr ok illa halldinn. Lofudu hans fedgin varn herra Jesum Krist, er utolulig takn vinnr fyrir sinn vin sælan Nicholaum.

155. Enn i milli annarra salugra manna eru borin til Barim tvau born af einum kastala, sveinn ok mær. Hafdi sveinninn sva þungan krankdom i kvidinum, at [honum matti engi fæda setna[2] eda nockura dygd gera[3], en mærin var afllaus ok vanmattug i ollum likama, adr Nicholaus erkibyskup grædir þau bædi sva vel, sem bezt þurfti, veitandi hvarum likamanum þat er adr vantadi. Hvar fyrir þeim se lof i verkum sæls Nicholai, er lifir an enda um allar veralldir verallda.

156. Nockurr fatækr madr kom af þvi þorpi er Barrochia heitir, hann flytr til Barim eiginkonu sina kararmann, sva aumliga ok afllausa, at hon matti engan lim hræra utan tunguna. Þessa eflir mattugr Nicholaus gefandi godan styrk hverium sem einum hennar lim til sinnar þionostu, sva at þadan gengr hon alheil lofandi gud ok sælan Nicholaum.

157. Ambatt eins riks mannz Sepontini er flutt til Barim af þeim stad er Dalmatica heitir, hon er bædi likþra ok kryplingr, adr gud drottins elskari litr hana med sinu miskunnarauga, rettandi beygt en hreinsandi saurugt sva vel ok stormerkiliga, at konan nadi fullri heilsu at fagna i alla stadi med hreinni hud ok hægum lidum, hvar fyrir hon lofar sannan gud ok sælan Nicholaum erkibyskup.

1 *saal. 2 Cdd*; Canvinerum *1 Cd*; Rannumerum *1 Cd*; Canniterum *1 Cd.*
2 *saal. 2 Cdd*; siatna *1 Cd;* liggia *1 Cd.* 3 [ hann matti enga fædu eta eda mellta *1 Cd.*

158. Aunnur kona nefndan stad heim sækir med sva undarligum vanmætti, at hun hafdi born getit ok fætt sem adrar konur, en briost hennar voru þurr hafandi enga natturu eptir kvenligu edli at gefa miolk barninu. Af þessum bardaga frelsar sæll Nicholaus þessa konu steypandi godum kosti i hennar likama, sem nattura bydr annarra kvenna, hvar fyrir hun lofar sinn grædara dyrligan i valldi ok verdleikum sæls Nicholai.

159. Sveinn nockurs riks mannz er borinn til Barim a greindum miskunnartima, hann var sva veykr i nedra hlut likamans, at hann matti alldri ganga a sinum dogum, fyrr en Nicholaus erkibyskup blezar hann veitandi styrka fætr til allra þionostu vid bukinn eptir gudligri skipan; hvar fyrir þeim se lof ok dyrd, sem eiginliga kallaz hofut ok prydi valdra manna.

160. Fatækr madr var i einhverium stad miok vanheill bædi hondum ok fotum, sva at hann matti hvergi ganga ok enga atvinnu ser afla. Þenna mann dreymir eina nott, at biartr madr stædi hia honum sva segiandi: «Fyrir hvi liggr þu her ok sækir eigi til Barim sem adrir siukir menn?» Siuki madr svarar: «Herra minn, ek ma hvergi fara sakir krankra fota.» Draummadrinn segir: «Þu matt senniliga fara, ef þu villt.» Eptir sva talat vaknar fatæki madr styrkr ok alheill i ollum likama. Er nu kostr at sækia heim i Barim þann, er vær truum honum birtz hafa, þat er at skilia sælan Nicholaum guds iatara.

161. Riddara nockurum var gerr leyniligr fiarskadi. En þa sok berr hann upp a einn mann med getu einni saman; ok er sa gengr eigi i moti gerdinni, hoggr riddarinn til hans med sverdi veitandi honum mikit sar i hofudit. Hvat er illa hafdiz ok miok spilltiz, sva at vall modkum ok holldfua. Þa sækir sia madr til Barim bidiandi ser miskunnar, hvat er honum veitiz med agætri giof bradrar heilsubotar gudi til lofs ok dyrdar ok sælum Nicholao til sæmdar ok virdingar.

162. Af Gallis koma tvær konur, onnur blind en onnur diofulod, fa þær þat erendi, at Nicholaus gerir þær badar heilar, adra frialsandi af diofli en annarri gefandi syn med skiærri birti. Offradi su er synina feck tva silfrbolla, setta med agætum steinum, sva formerada sem mannz augu, til vitnisburdar stortakninu. Þvilik eru verk sæls Nicholai, ok þau onnur fleiri, sem engi tunga fær talit i verolldinni, þviat allr heimr er fullr med hans frægd ok birti; hvar fyrir þessi bæklingr ma kallaz hinn minzti smakvistr af þeim blomganda vidi, er upp rann i guds vingardi, þa er sæll Nicho-

laus fæddiz i guds kristni. Senniliga er þessi saga litill dropi af þvi stora iarteignavini, er gnogliga gek ut af fyrr greindum avexti, ollum tilsækiandum gnogan heilsudryck skenkiandi, hverium eptir sinum naudsynium. Hvat er þetta, er vær hofum lesit, nema litil afbladning sogu sæls Nicholai, til þess saman tekin at vær lesim a hans hatidardegi, einkannliga minning giorandi hans virduligs nafns i þessum framburdi. Þviat sa dagr er makligr godu lofi, sem sialf hatidin [berr vitni um med sinu hliodi [1]. Sa madr, er skilia kann ord ok hliod med prosa ok historia virduligs herra Nicholai, ma senniliga þackir giora sonnum gudi, er fyrir sinn helgan anda veitti þvilikan iblastr mannligu hugskoti, sem her ma heyra af hans gofugligum verdleikum.

163. Af historia virduligs fodur Nicholai erkibyskups segia nockurir þvilikt efni, at einn agætr meistari vard fyrir konungs reidi fyrir þann skylld, at hann hafdi profaz ofblidr dottur konungsins, ok sem konungrinn verdr akafliga reidr, bydr hann þenna mann inn kasta i bidstund haduligs dauda. Ganga þa fram godir menn bidiandi meistara liknar, þott hann hefdi illa gert, tiandi konunginum þann mannskada, er gerdiz fyrir hans dauda. Ok sva kemr med godum flutningi, at konungrinn gerir lidugan [2] hals meistarans, ef næsta morgin færir hann honum nytt historia sæls Nicholai vel diktad ok sæmiliga. Nu sem greindr meistari heyrir þenna þunga skilmala, ser hann talat moti natturu manna. Þvi heitr hann a sælan Nicholaum til fulltings, at hann leysi sitt lif, hvat er honum veitiz med guds vilia undir arnadarordi hans ynniligs iatara, at næsta morgin ferr hann lidugr [3] af bondum ok myrkvastofu, berandi adr fram fridan song fyrir konungs hasæti, er sidan syngz allan tima i guds kristni a virduligri hatid sæls Nicholai. Segiz sva her med, at engis heilags mannz historia muni nygert skiotara runnit hafa innan um kristnina, þviat þat fluttiz nær um alla kristnina i hvern stad ena næstu tolfmanadi sakir vinsældar gofugligs herra Nicholai; hvar fyrir sa madr er miok undrandi, er greint guds vinar historia eigi at eins lastadi eda fyrirleit, helldr smadi ok af sinni kirkiu utkastadi, takandi þar fyrir maklig giolld af sialfum gudi framsettr i pinu sins ofbelldis undir hegningarsprota sæls Nicholai, sem liosara gioriz, þa er meir greiniz i fylgianda efni.

164. Sva er skrifat i logtekinni ritning, at einn priorr var skipadr yfir þann brædrasamnat, er undir lytr guds modur kirkiu,

1 [ sæmiliga hliodar *1 Cd.* 2 lausan *1 Cd.* 3 lauss *1 Cd.*

er heitir Crux Cristi. Prior þessi var nockut stirdlyndr ok vidrskotull i ordum, eigi miok miukr til brædra, þott þeir bædi hann nockurs. I þann tima var fyrir skommu diktad fyrr sagt historia sæls Nicholai, en sungit eigi hvervetna i kristninni. Ok med þvi at brædrum er astudigt til þess blezada erkibyskups, skrifa þeir songinn skilvisliga, hugsandi at prior þeira muni giarna hafa vilia ok hatidliga syngia lata. En þat for þvers i mot þeira ætlan, þviat prior lætr eigi sem hann heyri, þott nockur frægi eda vel tali af nysomdu historia sæls Nicholai, helldr lætr i nos hans nockut litt sem med atfyndli. Af þviliku vidbragdi þickiaz brædr skilia, at prior er eigi a þeim veginum sem þeir villdu. Þvi bera þeir saman rad sin, sva sem nalgaz hatid sæls Nicholai, bidia prior orlofs at syngia i sæmd Nicholao hit nyia historia. Ok sem þeir hafa bedit orlofs litillatliga, svarar priorinn helldr þungliga, a þann hatt sem her ma heyra: «Undarligr hlutr er þat, segir hann, at þer klaustramenn vefiz i nyiungum veralldarinnar ok latit ydr eigi þorf vinna fornar setningar.» Ok med þvi at priorr svarar þessum ordum i þungum andardrætti, leggia brædrnir af ok hallda eigi lengra fram at sinni. Lidr nu timinn, ok rada brædr til i annat sinn, hugsandi at prior muni nu vera miukari vidmælis en fyrr. En þat er eigi þann veg med ollu, þviat nu svarar hann þyngra en fyrr sva segiandi: «Eigi þicki mer vis van, at ek gera þat fyrir ydra lausungarfulla bæn[1] at breyta kirkiunnar vana.» Hafa brædr sva buit, þar til er kemr næsti dagr fyrir festum Nicholai, þa bidia brædr þridia tima hins sama, en prior svarar blodreidr a þann hatt: «Dragiz i brott, segir hann, ok leggit af þegar i stad; hyggit þer, at ek muna leida inn leikara læti i kirkiu mina fyrir hopp ydvart ok lausleika?» Þickir brædrum sa hinn bezti at leggia af sem skiotaz ok gefaz upp, þviat prior stendr nu med ollu i framstafni hugar sins. Eru þeir godu menn brædrnir af þessum hlut miok angradir, segiandi aptansaung messudagskvelldit miok daprir, gangandi til svefns eptir completorium. Ok er allr conventus er i nadum, ser priorr, at madr mikill ok merkiligr kemr inn i herbergit[2], hann er skryddr byskups skruda ok hefir storliga mikinn vond i hendi, hann gengr snudigt fram at þeiri sæng, er priorr liggr i, ok flettir fyrst af honum klædunum, en þrifr sidan vinstri hendi i harit ok ryckir honum sva fram a stockinn, lætr sidan detta vondinn med miklu afli sva hart ok vægdarlaust i alla stadi, byriandi tonaliter med fyrsta hoggi þa antiphonam, er syngz yfir Magnificat fyrra

1 umleitan *1 Cd.* 2 dormitorium *1 Cd.*

aptan in festo Nicholai, ok sva hliodar i ordasetningi: O pastor eterne, [o clemens et bone custos, qui dum devoti gregis preces attenderes, voce lapsa de celo presuli sanctissimo dignum episcopatu Nicholaum ostendisti tuum famulum [1]. Þessi antiphona hefir þann skilning, at hun þackar almatkum gudi fyrir þat, er hann birti sælan Nicholaum makligan byskupdominum, sem fyrr var skrifat i hans kosningi. Sagda antiphonam syngr þessi sæmiligi byskup, er priorinn berr seint ok hatidliga [allt til enda, en berr sem hardaz allan þann tima, sva at prior velltiz fram or sænginni ok einstrengir upp i lopt undir hudstrokunni [2]. Vakna brædr vid þetta hareysti ok sia tilkomandi, at priorr liggr a golfi nidri blar ok blodugr medr ollu i oviti. Ok er þeir standa yfir honum med doprum hug undrandi þenna hlut miok, raknar priorr vid ok fær vitit, talandi sva til brædranna, er hia honum standa: «Skundit sem mest, farit sem skiotazt ok syngit sæmiliga novam historiam sancti Nicholai.» Sva bardi signadr Nicholaus þenna prior til batnadar rekandi fra honum hardydgisanda med vandarhoggum, sem hann blezadr vandiz [at gera þann tima sem hann styrdi kristnina [3], fyrir hveria grein þessi gofugligi cedrus er hatt uppreistr i signadri curia himneskrar paradisi ilmandi ok miok vegsamandi i allri kristninni. Rettliga kallaz Nicholaus ilmandi cedrus fyrir sina natturu. Cedrus er einn agætr vidr ok vex i þeim skogi sem Libanus heitir. Þat tre hefir fiorar dygdir: þa fyrstu, at þat kann eigi funa; þa adra, at þat ilmar einkar sætliga; þa þridiu, at feiti þess vidar er i sinni natturu sva mikillar yfirvættis dygdar, at hun grædir siuka limu drepandi þa madka, er sarunum spilla; þar med i fiordu grein hefir hon þann krapt med sinum ilm, at hoggormar ok eitrflugur mega eigi þola ok leggia undan a flotta.

165. Greindar natturur cedri þiona vidrkvæmiliga stett Nicholai. Su hin fyrsta dygd, at cedrus skrifaz uspilliligr, merkir agæt verk hrein ok heilog þessa guds vinar, er engan fleck eda folnan taka med ras timanna, helldr standa þau hardla fogr i guds augliti ubrigdiliga an enda; hvar fyrir fylgir ilmr mikill, þviat hunanglig frægd af fyrr greindum verkum sæls Nicholai vida hliodandi gengr inn i skilningarvit allra manna i kristninni. Af þeim blezada vidi gengr sa sveiti, er grædir siuka limu drepandi þa madka, er sarunum meina, þat er at skilia sa hinn agæti avoxtr,

1 [ ok alla til enda *1 Cd.* 2 [. Velltir priorinn ser þa fram af æpandi upp yfir sik harri roddu *1 Cd.* 3 [ medan hann var her i verolldinni *1 Cd.*

er blezadr herra Nicholaus veitti siukum salum her i heiminum, snidandi af med hvossu iarni sinna predicanarorda hrokkvisar[1] meinsemdir saranna, þat eru brogdottar flærdir ohreinna anda med hlyckiottri bliding lastanna, veitandi hreinum sarum[2] fagra smurning med feiti sinna miskunnsemda. Hoggormar ok eitrflugur, þat er at skilia i þessum stad illgiarnir dioflar, er flyia fyrir sætum ilm þessa avaxtar, þviat þeir brenna ok flyiandi renna fra herteknum hugskotum fyrir predicanarord, valld ok verdleika sæls Nicholai, er uaflatliga audgaz medr kroptum ok iarteignum. Þvi ma hans frægd alldregi lægiaz eda undir leggiaz, helldr eilifliga bodaz ok skilvisliga fram beraz, at hans rettlæti vel kunnigt gudi ok monnum se i eilifri minning medr godfusum hugskotum, hvar fyrir gud drottinn elskadi hann veitandi sva miklum kennimanni biarta stolu i himinriki.

*166.* [3]Nu i enda þessa mals hefium vær upp augu var ok hugskot til þin, hinn sælazti fadir Nicholae, þar sem þu rikir ilmandi cedrus medr almatkum gudi, bidiandi þina dyrd, at þu standir frammi fyrir allri kristni guds almenniligri, þiggiandi at hun fordiz grimmar kverkr kyndugs uvinar ok standi medr miskunnarverkum i stodugri tru drottinligrar iatningar. Bidium vær þik, hinn sælazti fadir, at þu minniz i þinum bænum andligs fodur vars postuligs herra herra pavans, at sa gud, er honum gaf sva mikit valld, vardveiti hann heilan, hreinan ok rettvisan til logligrar stiornar sinu folki, at allr kristiligr lydr þroiz medr ast ok verdleik undir sva miklum byskupi. Bidium vær þik, blezadr fadir, at virduligr herra byskup varr medr sinum prestum, klerkum ok klaustramonnum se hlifdir med þinum bænum, halldandi milli sin sannan frid ok ast hvarir eptir guds bodordum. Minnigr vertu ok, heilagr fadir, at bidia fyrir konungi varum ok ollu hans rettu radi, at sa drottinn, sem hann smurdi til krununnar, styrki hann ok stydi til lagasetninga ok rettra doma milli allra sinna þegna rikra sem fatækra, sva at eptir stundligt erfidi se hann makligr þeira malagiafa, er standa an enda. Sidazt i þessu mali bidium vær litillatliga þina milldi, virduligr fadir Nicholae, at hverium þeim manni, sem godfusliga less eda heyrir þessa sogu, veitir þu þa miskunn, er hann megi fegnaztr verda, þa er hann fram lidr af brigdiligum likama, takandi þann fagnad, er allzvalldandi gud let þeim fyrir bua, er hann hiartaliga elska ok honum dyggiliga þiona, i hverium

1 *saal. 2 Cdd*; hverskonar *1 Cd.* 2 *saal. 1 Cd*; bænum *2 Cdd.*
3 Sidarsti capituli Nichulas soghu *Overskr. Cd. Resen.*

er hann sialfr lifir konungr konunga, koronandi þik, Nicholae, milli frægztu sinna iatara, rikiandi ok alla hluti stiornandi, einvalldzherra ok drottinn allrar skepnu, hana stydiandi, fyllandi, fadmandi ok upphalldandi, einn oskiptiligr gud ok almattigr i heilagri þrenningu, æ lifandi, yfirbiodandi, drottnandi ok eilifliga rikiandi, honum se lof ok dyrd, heidr ok æra, sæmd ok prydi, valld ok uendilig virding, er med fedr ok syni ok helgum anda lifir ok rikir einn almattigr gud yfir allar veralldir verallda. Amen.

---

[1] Iarteinir sæls ok heilags Nicholai giorduz eigi at eins þar, sem hann hvilir at likam, helldr hvarvitna þar er a hann er kallat; hvar sem menn verda staddir i heims haska eda i sottum eda hverri meinsemi, þegar hann bidia miskunnar medr rettu hugskoti, þa fa þegar huggan meina sinna. Eigi ma oss audvellt vera at vita iarteinir hans allar, þar er þær giorduz, þegar hann fæddiz i þenna heim, ok skein i sva haleitri atferd alla æfi, at gud veitti honum allt þat, er hann bad hann. Sva hefir drottin hafit þenna sinn virktavin, at hann giordi hann hofdingia kristne sinnar ok gaf honum byskupstign i ombun þess, er hann gaf gudi alla eigu sina ok fodurleifd, ok villdi sialfr ecki eiga eda metord hafa þessa heims. En sidan hann vard byskup, giordiz mikill kraftr at bænum hans, at menn fengu likn meina sinna, þa er kolludu a hann, þott þeir væri i odrum londum, sem fyr er skrifat i sogunne, ok syndiz þeim, er a hann hietu, stundum vakandum, stundum sofandum, ok var hann þo heima at stoli sinum sem adr. Vel hefir hann nafn sitt sannat, þat er hann heitir Nicholaus, þviat þat þydiz i vart mal sigr lyds. Hvat se betr mællt, en hann se sigrgiafi lyds, þar er hann veitir þat fullting, at (sigr) vega a sinum vandrædum þeir, er a hann heita. Sannliga er sia madr sæll Nicholaus enn helgi, er til sva mikils gods kom i þenna heim, at hann matti sva vegsemd heimsins styra, at guds ast var iafnan i briosti honum, ok hugr hans girntiz einkis nema himneskra hluta, þot hann lifdi med iardligum monnum. Sva stillti hann life sinu, at hann sæmdi meir vid heimin en adrir helgir menn, þeir er vær vitum nockur deili a, þvit hann var betri bæna en flestir adrir. Dæll var hann ok hinn milldazsti vid

1 *Dette Slutningscapitel med Overskrift:* Her endir sogo Nicholai byskups, *tilføier Cd. Holm.* (*jvf. ovenfor S.* $45^{12}$—$46^{9}$).

alla goda menn, þa hann giafir ok vinattu af konungum ok gofgum monnum. En þoat hann væri bundinn i þvilikum hlutum, þa vardveitti hann þo einkanliga upplitning sem einsetumunkar ok saurgadiz (eigi) i sinne syslu, helldr tok hann margfallig laun firir sitt erfvide. Þvi er makligt, at heimrinn gofgi guds vine, þvi er ok makligaz hardla, at hann gofgi þenna, er sva mykla ahyggiu bar firir honum sem heilagr Nicholaus, er alla verolld hefir prydda med godum sidum ok iardteignagiordum bædi firir lifit ok eftir. Sva var hann ok miskunnsamr, at hann dugdi heidnum monnum ok syndi þeim guds stormerki ok kraft, at þeir mætti hialpaz, ok voru þeir sumir, er hans nafn dyrkudu, þott þeir væri eigi skirdir. Heimrinn sialfr berr vitni um, hve þarfr hann var verolldunne i sinu life, þar er hann er dyrkadr um alla kristne, eigi at eins a Griklandi, þar er hann vox upp ok hafdi byskupdom, helldr um alla austrhalfu heimsins, sva ok firir hedan Griklandz haf, bædi um Langbardaland ok firir nordan fiall; Frakkar ok Saxar, Valir ok Einglar, Danir ok Nordmenn, ok allir kristnir dyrka hann sem postula, ok hafa hans iarteignir at minnum ok hallda hatidliga dagh hans, ok lata gera kirkiur (honum) til vegs ok dyrdar. Hans frægd er farin um allan heim, ok nær i hveria obygd, eyiar ok annes ok afdali er komit nafn virduligs herra heilags Nicholai; hans iarteignir fyrnaz alldregi, þar er hann hvilir ok var firir morgum hundradum vetra, ok mega menn hans iarteignir en sia, þvit margir menn, þeir er i kirkium vaka firir dag hans a bænum, eda lata gera kerti honum til þacka, eda fasta firir hatid hans, verda heilir sotta sinna eda annara meina, ok fordaz fiarskada ok verda leystir or haska ok allzkyns vandrædum, þeim er at hendi monnum kann beraz. En til þess synir gud likamligar iarteinir firir helga menn sina, at þeir se at fusari at glikia atferd sina eftir helgum monnum, er sia megi iarteinir þeira. En hvat stodar oss at heyra sagt fra helgum monnum, ef vær vilium þo ecki eftir þeim mynda vart lif; þviat heilagra manna lif er sem skugsio; i þeiri skugsio litum vær fagra asianu lifs þeira ok vara atferd olika þvi, er saurgadir erum i margfolldum syndum. Kostum nu þess, godir brædr, med guds fulltingi ok bænum heilagra manna, at vær þvoim þann saur af oss med idranartarum, sva at vær megum hreinir vera af ollum syndum, þa er vær skiliumz vid þetta lif, ok megim þa odlaz samvistu med heilogum monnum.

---

# OLAFS SAGA HINS HELGA.

(*Cd. 235 folio*).

**Her byriaz saga Olafs kongs Harallz sonar videte.**

Hinn helgi Olafr konungr Harallzson[1] tok riki i Noregi, þa er hann var .xx. at alldri. Þa var þar i landi sva komit um kristnihalld, at vidazt um sębygdina voru menn kristnir, en uppi um land voru monnum okunnig kristin laugh, ok var þar vida heidit; þviat þegar er Olafs konungs Tryggvasonar misti vid, ok siolfr lydrinn var siolfradr, þa festizt fyrir monnum þat hellzt i minni um truna, sem i ber(n)sku hofdu numit. Olafr konungr braut allt landzfolkit til krisni ok þau bodord at hallda, sem þar eigu at fylgia, en tok af margar oveniur, ok heidinn her lagdi hann alla stund ꜳ, medan hann rikti yfir landinu, będi med blidu ok stridu, sva at (hann) let aungan uhegndan fara, þann er eigi villdi gudi þiona med retri tru; fek hann presta ok kennimenn i herod ok setti kristinn rett vid rad Grimkels[2] byskups ok annarra lęrdra manna. Hann tok med valldi fim konunga ꜳ Upplondum, er satu um lif hans, sem segir i sogu hans. Eptir þat bar hann einn konungsnafn yfir ollum Noregi ok fek kristnat allt landzfolk. Vida af londum spurdi hann at[3] sidum manna mest um kristindom, hversu haldinn veri, będi i Orkneyium ok ꜳ Hiatlandi, Fereyium ok ꜳ Islandi, ok betti yfir allz stad(a)r, eptir þvi sem hann matti vid komaz. Slikar rędur hafdi hann optaz i munni um laug at tala eda landzrett. Þat er alsagt, at hinn helgi Olafr konungr alldri[4] drykki afeinginn drykinn, ok opt leyndist hann ur hvilu sinni um netr til benar, þa er etlad var, at hann svefi. Sva er fra honum sagt, at hann var sidlatr ok benrekinn til guds

1 konungr *tilf.* Cd. 2 Grimgels Cd. 3 *rettet*; af londum af Cd. 4 *rettet*; her þa Cd.

[alla efi sina [1]. En sidan er hann fann, at riki hans þvarr, en motstodumenn efiduzt, þa lagdi hann ꜳ þat alla(n) hug at ger(a) guds þionustu alla stund, er hann matti fyrir audrum fiolskylldum, ok allar stundir i konungdominum hafdi hann þat starfat, sem mest var til nytsemdar, (at) frelsa ok frida landit af ꜳþian utlendra hofdingia, ok sidan at setia log ok landzrett med geymslu kristins doms. Hann hegndi ok fyrir rettdemis sakir marga þa, sem rangt gerdu i ranum eda hernadi, sem margir hof(d)ingia synir eda rikra bonda hof(du) gert; þar til ok refsadi hann rika sem urika i hverium stad, sem hann matti þvi vid koma. En þar fyrir fylltuz landzmenninir fiandskapar i moti honum ok þoldu honum eigi rettindi um sannar sakir. En hann var inn femilldasti vid sina menn ok vini.

2. En af slikri stormsemi hans, ok i annan stad storum febodum ok semdaheitum Knutz konungs riddara, þa toku ner allir landzhofdingiar Knut til konungs yfir ser. En hinn helgi Olafr konungr stauk ur landi. Ok er hann kom med lid sitt sudr a Meri, toku bendr, þeir sem þar voru fyrir, fegnir vid honum. Þar brutuzt þeir at bodi konungs vid urd eina, þat var torleidi mikit, sva at hvarki var þar fert monnum ne hestum. Konungrinn var heima um daginn i landtialldi. Menn hans komu heim um kvelldit, ok bendr med þeim, ok voru modir af erfidi miklu ok hofdu þo ecki syslat ok kvadu þar alldregi mundu veg yfir leggiaz. Þar voru þeir adra nott, ok var konungrinn alla þa nott ꜳ bęnum. Þegar i dagan bad hann menn fara til urdarinnar ok freista, ef vognum yrdi yfir komit. Þeir foru ok voru tregir, letuz ecki mundu fa at unnit. Þa er þeir voru bruttu, kom sa madr til konungs, er vistir vardveitti, ok [2] sagdi, at vist var eigi meiri en .ii. naut slatrs, «en þu hefir fiogrhundrut þins lids, sagdi hann, ok .c. bonda.» Konungrinn bad hann lata upp alla katla ok i hvern ketil nockut slatr. Ok er sva var gert, þa gek konungrinn til ok gerdi krossmark ok bad þa matbua. En hann siolfr gek til Sefsurdar, þar sem þeir skylldu veginn rydia, ok er hann kom þar, satu þeir allir meddir af miklu erfidi. Þa mællti Brusi, er þar var fyrir bondum: «Sagda ek ydr, herra, at ecki matti gera at urd þessi, ok villdu þer eigi þvi trua.» Þa leggr konungrinn af ser skikkiu sina ok bidr þa til fara alla ok freista enn, ok sva var gert. Ok ferdu þa .xx. menn þa steina hvert er villdu, er adr mattu eigi .c. manna ur stad hrera eda koma. Var vegrinn ruddr at midium degi, sva at þar var fert

1 [ allar efi sinar *Cd.* 2 at *Cd.*

bædi monnum ok hrossum med klyfium. Sidan foru þeir ofan eptir, þangat sem nu heitir Olafs hellir. Kellda er þar nęr hellinum, ok þo konungrinn ser þar i. En ef bufe manna sykiz þar i dalnum, þa batnar þvi, ef þat drekkr af. Sidan fara þeir til matar. Konungrinn spurdi, ef setr nokurt vęri i dalnum upp fra urdinni, at þeir metti þar vera um nottina. Brusi segir, at setr voru þar, er hetu Greningar, ok kvad þar aungva menn mega vera um netr fyrir flagdagang. Konungrinn bad þa bua ferd sina ok kvat þar vilia vera um nottina. Þa kom sa madr til konungsins, er vista getti, ok segir, at þar var mostr(!) vista, ok kvezt eigi vita, hvadan komit var. Konungr þackar gudi sending sina ok let gera bondum byrdar af mat, þviat margir voru i heimferd. Þeir voru aa setri um nottina. Ok ner nidri nott, er menn voru margir i svefni, þa var heyrt ut aa staudulinn mikit karll ok þetta męllt: «Sva brenna mik bęnir Olafs konungs, at eigi ma ek her vera at minum hybylum, verd ek nu at flyia ok koma alldri aa þenna stodul sidan.» Um morgininn mellti konungrinn vid Brusa: «Her skal gera bę, ok man sa bondi, er her byr, hafa framdratt at fe sinu, ok alldri skal her korn friosa, þott bædi friosi fyrir ofan bę ok nędan.»

3. Þa er Olafr konungr hafdi konungr verit yfir Noregi .xv. vetr med þeim vetri, er þeir Sveinn iarll (voru) badir, snyr hann ferd sinni til Sviþiodar ok þadan allt sudr i Gardariki, ok dvaldizt þar um hrid i godu yfirlęti af Iarizleifi konungi ok Ingigerdar drotningar, ok þo med storum aahyggium sinna radagerda, þar til er gud birti fyrir honum, hvat hann skylldi ur rada, ok þvi fylgdi hann sidan. En þat vard med þeim hetti, at sidan er hann bar upp fyrir Jarizlaf konung ok Ingigerdi drotningu radagerdir sinar, budu þau honum þar at dveliaz ok taka þat upp riki, er heitir Wlgar(i)a, ok var þat folk allt hundheidit i þvi landi. Olafr konungr hugdi fyrir ser um þetta bod ok bar fram fyrir menn sina; en þess lauttu allir, at hann skylldi þar stadfestast, ok eggiudu hann at fara aftr i riki sitt i Noreg, þviat hann hafdi þat i radagerd at fara ut i heim til Jorsalalandz eda i adra helga stadi ok radaz undir reglu. En þat kom leingstum i huginn at hugsa um, ef nockur færi mundi verda til, at hann nedi riki sinu i Noregi. En er hann hafdi þar huginn, þa minntiz hann aa þat, at ena fystu .x. vetr rikis sins voru honum allir hlutir hegir ok farsęligir, en sidan voru honum aull sin raad þungber ok torsott, en gagnstadligar allar hamingiuraunir. Nu efadi hann um fyrir þa sok, hvart þat mundi vera vitrligt raad at treysta sva miok hamingiuna

at fara med sva litinn styrk i hendr fiandmaunnum sinum, er allr landzmugr hafdi snuizt til at veita honum motstaudu. Slikar ahygg(i)ur bar hann optliga ok skaut til guds allo sinu male ok bad hann þat lata upp koma, sem hann vissi honum best gegna.

4. Þat var aa einni nott þa er Olafr konungr la i hvilu sinni, ok vakti leingi um nottina, ok hafdi hann storar aahygg(i)ur i skapi. En er hugrinn meddizt miok, þa seig aa hann svefn, ok þo sva laust, at hann þottizt vaka ok sia aull tidendi i husinu: hann sa mann standa hia hvilunne mikinn ok tiguligan, ok hafdi dyrlig klędi. Baud konunginum þat hellzt i hug, at þar mundi kominn Olafr konungr Tryggvason. Sa madr mellti til hans: «Ertu miok hugsiukr um radagerdir þinar, hvat þu skallt upp taka. En mer þickir undarligt, er þu velkir þat fyrir þer; sva ok þat, ef þu ętlar at leggia nidr konungs tign, þa sem gud hefir gefit þer; slict it sama ok at vera her ok þiggia riki af utlendum hofdingium ok þer ukunnum. Fardu helldr aptr til rikis þins, þess sem þu hefir at erfdum tekit ok radit leingi fyrir med þeim styrk, er gud gaf þer, ok lat eigi undirmenn þina hreda þik. Þat er konungs frami at sigrazt aa ovinum sinum, en vegligr daudi at falla i orrosto med lidi sinu. Eda efar þu nockut um þat, at þu hefir satt at męla i ydarri deilu? Eigi skalltu þat gera at dylia þik siolfan sannynda; fyrir þvi mattu diarfliga sękia til lanz þins, at gud mun bera þer vitni um þat, at þat er þin eign.» En er konungrinn vaknadi, þottizt hann sia svipinn[1] mannzinz, er aa braut gecc. En þadan fra herdi hann huginn ok einstreingdi fyrir ser at fara aptr til Noregs, sva sem hann hafdi adr fusastr verit, ok hann fann, at allir hans menn villdu þat hellzt vera lata. Gladdi hann þa hellzt i huginn, at landit mundi vera audsott, er haufdingialaust var, sva sem þa hafdi hann spurt; etladi hann þa, ef hann kemi, at margir mundi honum lidsinnadir. En er konungrinn birti þessa radagerd fyrir monnum sinum, þa toku allir þvi feginsamliga.

5. Svo er sagt, at sa athburdr vard i Gardariki, þa er Olafr konungr var þar, at son einnar gaufugrar konu fekc kverkasull, ok sotti sva miok, at hann matti ner ecki mat bergia, ok þotti hann vera nęr banvęnn. Modir sveinsins geck til drottningar Ingigerdar, þviat hon var kunleikakona hennar, ok syndi henni sveininn. Drotningh svarar, at hon kann þar eyngar lekningar til at leggia: «Gakk þu, sagdi hon, til Olafs konungs, hann er bestr leknir her, ok bid hann fara haundum meinit; ber til

[1] svifinn *Cd.*

ord min, ef hann vill eigi elligar.» Hon gerdi sem drotningin męllti. En er hun fann konunginn, þa segir hon honum, at son hennar var banvęnn af kverkasull, ok bad hann far(a) h(a)undum um meinit. Konungrinn segir henni, at hann var eingi leknir[1] ok bad hana þangat fara, sem lęknar voru. Hun kvad drottningu þangat hafa visat ser, «ok hun bad mik sin ord til bera, at þer legdit til þa lękning, sem þer kynnit, ok hun sagdi mer, at þu verir bestr lęknir i stadnum.» Þa tok konungr til ok for haundum um kverkr sveininum ok þukladi sullinum miok leingi, til þess er sveinninn hrerdi munninn. Þa tok konungr braud ok braut ok lagdi i kross i lofa ser; sidan lagdi hann þat i munn sveininum. En hann svalg nidr, ok þadan af tok verk allan ur kverkunum, ok var hann aa fam dogum alheill. Modir hans vard fegin ok sva frendr sveinsins ok vinir. Var þanveg virt, at Olafr konungr hafdi sva godar leknishendr, sem mellt verdr um þa menn, er su iþrot er miok lagit, at þeir haf(i) godar hendr. En sidan er alkunnig var iarteinagerd hans, þa var þat tekit fyrir sanna iartegn af morgum monnum.

6. Sa athburdr vard aa einum sunnudegi, at Olafr konungr sat ok hafdi sva fasta hugsan, at hann gadi eigi stundanna. Hann hellt aa knifi ok tannara ok rendi þar af sponu nockura. Skutilsveinninn stod fyrir honum ok hellt bordkerti; hann sa, hvat konungrinn gerdi, ok skildi at hann siolfr gadi eigi, hvat er hann gerdi. Skutilsveinninn mellti: «Manadagr er aa morgin, drottinn.» Konungr leit til hans[2], er hann h(e)yrdi þetta, ok kom þa i hug, hvat hann hafdi gert ok bad fa ser kertislios. Konungr sopadi saman aullum spanunum i lofa ser, þeim er hann hafdi telgt, þa bra þar i loginu ok let brenna sponuna i lofa ser, ok matti þar af marka, at hann mundi fast hallda login ok bodordin ok vilia eigi yfir þat ganga, sem hann vissi rettazt.

7. Sidan snyr konungr ferd sinni austan ur Gardariki, ferr til Sviþiodar ok eflizt[3] þadan at lidi, sem hann fek. En er hann for austan um Kiol ok sotti þa vestr af fiallinu, sva at land legdi þadan vestr, þa reid mart lid fyrr en konungrinn, en sumt sidarr; var þar þa rumt, er hann reid siolfr. Hann var hliodr, ok mellti eingi vid hann; reid hann sva langa hrid, at hann sazt litt um. Þa reid byskup at honum ok spurdi, hvi hann veri sva hliodr. Þa svaradi konungrinn med ahyggiu mikilli: «Undarliga hluti hefir nu fyrir borit um hrid; ek sa nu yfir Noreg, er ek reid vestr af

1 leiknir *Cd.* 2 ok mellti *tilf. Cd.* 3 epluzt *Cd.*

fiallinu; mer gaf þa syn, at ek sa um allan Þrandheim ok þvi nerst um allan Noreg, ok sva leingi sem su syn hafdi verit fyrir augum mer, sa ek ę þvi vidara, þar til er ek sa um oll lond ok verolld, lond ok sio, ok kenda ek giorla þa stadi, sem ek hafda fyrr komit, ok iafngiorla sa ek þa stadi, er ek hafda eigi fyrr sena, sva þa, er ek hefi haft spurn af, ok suma hina, sem ek hefi eigi heyrt fyrr getid, bygda sem obygda, sva vitt sem verolld er.» Byskup svaradi ok kvad syn þa vera merkiliga ok storum heilagliga.

8. Sidan er Olafr konungr sotti ofan af fiallinu, þa var bęr sa fyrir þeim, er aa Sulu heitir i ofanverdri bygd i Verdala fylki. En er þeir sottu ofan at bęnum, lagu akrar vid veginn. Konungr bad menn fara spakliga ok spilla eigi eign fyrir bonda. Gerdu menn þat vel, medan konungr var vid, en þer sveitir, er sidarr foru, gafu ath þessu aungan gaum, ok hliopu menn sva um akrinn, ath allr var lagdr at iordu. Sa bondi het Þorgeir flekr er þar bio, hann atti .ii. sonu vel frumvaxta. Þorgeirr fagnadi vel konunginum ok baud þeim allan þann forbeina, sem hann hafdi faung ath veita konunginum ok monnum hans. Konungrinn tok þvi vel ok spurdi, hvat titt var landinu, eda hvart samnadr nockurr mundi gerr vera aa moti honum þar. Þorgeirr segir, ath lid mikit var saman dregit i Þrandheimi, ok þar voru komnir lenndir menn będi sunnan ur landi ok nordan af Haloghalandi, «en eigi veit ek, segir hann, hvart þeir etla þvi lidi at stefna ydr i moti eda annan veg.» Sidan kerdi Þorgeirr fyrir konungi skada sinn ok sagdi honum siolfum, hvert hervirki menn hans hofdu gert ok brotid nidr alla akra hans ok trodit. Konungr segir, at þat var illa ordit, ath honum var mein gert. Sidan reid konungr þar til, er stadit hafdi akrinn, ok sa, at allr var ath iordu lagidr. Hann reid umhverfizt akrana ok mellti sidan: «Þess vænti ek, bondi, at gud muni leidretta skada þinn, ok man akr þessi betri aa viku fresti.» Var konungrinn þar um nottina i godum forbeina, ok hefr þadan ferd sina um morgininn. Ok er hann kom aa Stafamyrar, funduzt i hernum .ix.c. heidinna manna. En er konungr vissi þat, bidr hann þa skirazt lata, ok segir, at hann vill eigi hafa i orrosto med ser heidna menn, ok lysti þvi yfir, at hann etlar eigi i mannfiolda at fa sigr, helldr einni saman guds miskunn ok hans krapti. «Vil ek eigi, sagdi hann, blanda saman heidinna manna blodi vid minna manna blod.» Heiding(i)ar bera saman rad sin ok letu skirazt .cccc. manna, en allt lid þeira annat snerist aptr til landz sins. Ok er konungr fluttiz ut eptir dalnum, komu miok margir bendr

til moz vid hann, ok geingu flestir i lid med honum, ok kunnu allir eitt at segia, at landzmenn drogu saman her ovigian, ok þeir helldu ętlan sinni um þat at beriaz vid konung. Þa let konungrinn taka margar merkr silfrs ok fek i hendr einum bonda, ok mellti: «Fe þetta skalltu vandliga vardveita ok skipta sidan, leggia sumt til kirkna en sumt gefa kennimonnum, sumt olmosumonnum, ok fyrir sꜳl þeira manna, er med bondum er(u) i orrosto ok beriazt i moti mer ok falla fyrir vapnum varra manna. En þeir menn er falla i orrosto þessi ok mer fylgia munu, þa maunum ver biargazt allir saman.»

9. Olafr konungr flutti her sinn ut eptir dalnum ok letti eigi fyrr ferdinni, en hann kom ꜳ Stiklastadi. Þa sa þeir lid bonda, ok for þat miok dreipt, ok var sva mikill fiolldi, at af hverium stig dreif til, en vida þat, at storflokkar foru saman. Konungrinn stodvadi herinn ok bad menn stiga af hestum sinum ok buazt her um. Sidan var skotid ꜳ fylkingum ok sett upp merkit. Dagr var eigi kominn med þat lid, er honum fylgdi. Þorgisl[1] Hialmuson het sa bondi, er þar bio ꜳ Stiklastodum, hann var fadir Grims goda. Þorg(i)sl baud konungi lidsemd sina ok at vera i orrosto med honum. Konungrinn bad hann hafa þauk fyrir bodit: «En ek vil, sagdi hann, at þu bondi ser eigi i orrosto; veittu oss helldr þat, at þu biarg vorum monnum eptir bardagann, þeim sem sꜳrir verda, en veit hinum umbunad, er falla i orrostonne. Sva ok ef þeir athburdir verda, at ek falla i orrosto þesse, þa veittu þann umbunad liki minu, sem naudsyn beidir til, ef þer er þat eigi bannat.» Þorgisl het þesso sem konungrinn beiddi.

10. En er konungrinn hafdi fylkt lidi sinu, taladi hann fyrir hernum ok mellti sva, at menn skylldu herda hugina ok ganga diarfliga fram, ef orrostan tękizt, «hofum vær lid bęđi mikit ok fridt; en þoat bendr hafi meira lid, þa mun audna rada sigri; er þvi fyrir ydr at lysa, sagdi hann, at eigi man ek flyia ur orrosto þessi, skal ek annathvart falla her ella sigrazt ꜳ bondum. Vil ek ok þess gud bidia, at sa hlutr komi upp um þetta, sem hann ser, at mer gegnir betr. Skulum vær þvi treystazt, at ver hofum rettara at męla en bendr, ok þvi þar med, at gud man frelsa oss eigur vorar eptir orrosto þessa, en elligar mun hann veita oss meiri laun fyrir þa raun, er ver fꜳm her, en ver kunnim siolfir at kiosa oss. En ef ek hlyt eptir at mela um orrostona, þa skal ek gæda hvern ydarn eptir sinum verdleikum, ok eptir þvi sem hann gengr

1 Þorg'r *Cd.*

fram i bardaganum.» En er konungrinn lauk rędu sinni, gerdu menn mikinn rom at mali hans, ok eggiadi hverr annan.

11. En er Olafr konungr hafdi fylkt lidi sinu, þa voru bendr eigi enn komnir, bad hann menn þa setiazt nidr ok hvila sik. Settizt konungr þa nidr ok allt lid hans, ok satu rumt. Hann halladizt ok lagdi hofudit i kne Finni Arnasyni; þa rann svefn a konunginn, ok var þat um hrid. Þa sa þeir her bonda ok sotti lidid til mozt vid þa. En er konungr vaknadi, mellti hann: «Hvi vaktir þu mik, Finnr, ok lezt mik eigi niota draums mins?» Hann svarar: «Ekki mundi þig þess dreyma, at eigi mundi meiri naudsyn at vaka ok buazt vid ovinum vorum ok hernum, er at oss ferr; eda ser þu eigi, hvar nu er kominn bondamugrinn?» Konungrinn svarar: «Ekki eru enn þeir sva nęr oss, at eigi veri betra, at ek hefda sofit.» Þa mellti Finnr: «Hvat dreymdi þik þess, er þer þikir sva mikil missa, er þu vaknadir eigi siolfr?» Þa segir konungr draum sinn, at hann þottiz sea stiga hafan ok ganga þar eptir upp i loptid sva langt, at hann þottiz sea, at himinn opnadizt, ok þangat til þotti honum taka stiginn. «Var ek þa, segir konungrinn, kominn i ed efsta stigit, er þu vaktir mik.» Finnr svarar: «Ekki þiki mer draumr sia sva godr, sem þer mun þikia, ok ętla ek vera munu fyrir feigd þinni, ef þat er nackvat annat en svefnorar.»

12. Bændr fluttu her sinn aa Stiklastadi, þar sem fyrir var Olafr konungr med lid sitt. For Kalfr Arnason i ondverdu lidinu, ok Harekr ur Þiottu fram med merkinu. En er þeir mettuzt, tokz eigi allskiott arasin, þviat bęndr frestudu atgaungu ok bidu lidsins, þess er eigi var komit. Þorir hundr for sidarst med sinu lidi, þviat hann skylldi geta, at ekk(i) slegist aftr folkit, þa er heropit slegi upp, ok bidu þeir Kalfr Arnason. Bendr hofdu þetta ordtak i hernum at eggia lid sitt fram i orrosto: Fram fram buandmenn. Olafr konungr villdi eigi at ganga, þviat hann beid Dags ok þess lids, er med honum var, ok sa þeir þa, hvar þeir foru. Ok þa er hvaratveggia lid stod ok menn kenduz, mellti konungrinn: «Hvi ert þu þar, Kalfr? Vid skildumz vinir sudr aa Meri; illa samir þer ath skiota geigrskott i flok varn, þviat her eru fiorir bredr þinir.» Kalfr svarar: «Mart ferr nu annan vegh, konungr, en best mundi sama. Skilduzt þer sva vid oss, at naudsyn var at fridazt vid þa sem eptir voru. Verdr nu hverr at vera þar, sem hann er staddr, en settazt mundim vid enn, ef ek reda.» Konungr svarar: «Vera kann þat, Kalfr, at þu vilir settaz, en ecki fridsamliga þiki mer þer lata buendrnir.» Þa svarar Þorgeirr af Kvistodum:

«Þer skulut nu hafa slikan frid, sem margir hafa af ydr haft; munut þer nu þess giallda.» Konungrinn mellti: «Eigi þarptu, Þorgeir, at fysazt sva miok til fundar vid oss, þviat eigi mun þer i dag audit sigrs aa oss, þviat ek hefi hafit þik til rikis af litlum manni.»

13. Þorir hundr kom þa med sveit sina ok gek fram fyrir merkit boandanna ok mellti: «Fram fram, boandmenn.» Þa lustu bęndr upp heropi miklu ok skutu bedi aurum (ok) spiotum. Konungsmenn ęptu þa ok herop. En er þvi var lokit, þa eggiuduzt konungsmenn, eptir þvi sem þeim var bodit, ok melltu sva: «Fram fram Cristzmenn, krossmenn, konungsmenn.» Ok er þetta heyrdu boandmenn, þeir sem ut stodu i arminn, þa melltu slict id sama, sem þeir heyrdu adra męla. En er adrir bendr heyrdu þat, þa hugdu þeir þa vera konungsmenn ok baru vapn aa þa; baurduzt þeir þa siolfir, ok fell mart, adr þeir kaunnuduzt vid. Vedr var fagrt ok skein sol i heidi. En er orrostan hofzt, þa laust roda aa himininn ok aa solina[1], en adr letti, gerdi myrkt sem um nott. Konungr hafdi fylgt lidi sinu, þar sem var hed nockur, ok steyptuzt þeir ofan aa lid bonda ok veittu sva hartt aahlaup, at fylkingh bonda bognadi fyrir, sva at þar stod þa briost konungsfylkingarinnar, sem adr hofdu stadid þeir, er fremster stodu i bondalidinu, ok var buit margt bondalid at flyia. En lendir menn ok lendra manna synir ok huskallar þeira stodu fast, ok var þa allsnorp orrosta. Sotti þa lid bonda at aullum megum, hiuggu sumir, en flestir skutu. Gerdiz þa bardaginn skędr. I fystu fellu þeir miok, er voru fyrir framan merki konungsins, mart fell ok af bondum. Þyntizt þa um merkit. Þa bad konungr Þord fram bera merkit, en hann siolfr fylgdi ok su sveit manna, er hann hafdi siolfr valda til med ser at vera i orrostonni. Voru þeir menn i hans lidi einna vapndiarfastir ok best bunir at vopnum. Ok þa vard alhord hrid. Geck þa konungr siolfr fram i hauggorrostona. En er bendr sa i andlit honum, þa hręddust þeir, ok felluzt þeim hendr. Olafr konungr bardizt alldiarfliga, hann hio til Þorgeirs af Kvistodum lendz mannz, þess er fyrr var getid, ok um þvert andlitid ok sundr nefbiorgina aa hialminum ok klauf haufudit fyrir nedan augun, sva at nær tok af. En er hann fell, þa mellti konungrinn: «Hvart er þat satt, Þorgeir, er ek sagda þer, at þu mundir eigi sigraz aa fundi ockrum.» I þvi bili skaut Þordr nidr merkisstaunginni sva hart, at hon stod. Þa hafdi hann feingit banasaar, ok fell hann þar undir merkinu. Þa fell ok Þorfinnr

1 solillina *Cd.*

munnr ok Gizur gullbra; ok hofdu hann sott .ii. menn, hafdi hann drepit annan þeira, en annan sęrdi hann, adr en hann fell. Þa var þat, sem fyrr var sagt, at himinenn var heidr, en solin hvarf, ok gerdi myrkt sem um nott. I þenna tima kom Dagr ok tok at fylkia[1] lidi sinu ok setti upp merki sitt. En fyrir þvi at myrkt var, þa var eck(i) skiott um atgaunguna, þviat þeir vissu eigi vist, hvat fyrir þeim var. En þa sneru þeir þar at, sem fyrir voru Haurda(r) ok Rygir. Þessir hlutir voru ok margir atburdir adrir iafnsnemma, eda sumir litlu[2] fyrr en sumir.

14. [3]Kalfr ok Olafr hetu brędr frendr Kalfs Arnasonar, þeir stodu aa adra hlid honum, miklir menn ok sterkir ok hraustir. En aa adra hlid Kalfi gek fram Þorir hundr. Olafr konungr hio um þverar herdarnar. Sverdit beit ekki, en sva syndizt, sem dust ryki upp i moti ur hreinbialbanum. Þorir hio til konungsins, ok skiptuz þeir þa nockurum hoggum vid, ok beit ecki sverd konungs, þar sem hreinbialbinn tok fyrir. En þa vard Þorir saar a hendi. Konungr mellti til Biarnar stallara: «Berdu hundinn, er eigi bita iarnin.» Biorn sneri auxinni i hendi ser ok laust med hamrinum, ok kom þat haugg aa auxl Þori, ok vard mikit haugg, ok hratadi Þorir vid. En iafnskiott sneri konungr i moti þeim Kalfi frendum ok veitti Olafi banasar frenda Kalfs. Þa lagdi Þorir hundr spioti til Biarnar ok aa hann midian ok veitti honum banasaar. Þa mellti Þorir: «Sva beyta(!) ver biornuna.» Þosteinn knarrarsmidr hio til Olafs konungs med auxi, ok kom þat haugg aa fotinn vinstra fyrir ofan kneit. Finnr Arnason drap þegar Þostein. En vid sar þat hneigdiz[4] konungrinn upp vid stein einn ok kastadi sverdinu ok bad gud hialpa ser. Þa lagdi Þorir hundr til konungs, kom þat lag nedan undir bryniuna ok rendi upp i kvidinn. Þa hio Kalfr til konungs, ok kom þat haugg utan a halsinn enum hegra megum. Menn greinazt at þvi, hvar Kalfr veitti konunginum þetta sar. Þessi .iii. hafdi Olafr konungr til liflatz. En eptir fall konungsins, þa fell flest aull su sveit, er fram hafdi geingit med konunginum. Dagr hellt upp bardaganum, þar til er hann var ofrlidi borinn, sneri hann þa aa flotta, ok allt lid þat sem upp stod; en margir voru sarir eda modir, sva at til einskis voru ferir. Bendr raku skamt flottann, þviat hofdingiar sneru bratt aptr ok þar sem valr[5] laa, þviat margir attu þar at leita eptir frendum sinum ok vinum.

1 fylgia *Cd.* 2 lititlu *Cd.* 3 Fall Olafs konungs *Overskr.* 4 hneigid *Cd.* 5 valir *Cd.*

15. [1]Þorir hundr gek þar til, sem lik konungsins var, ok ve(i)tti umbunat, lagdi nidr ok retti likit ok breiddi yfir klædi. En er hann þerdi blod af andlitinu, þa sagdi hann sva sidan, at andlit konungsins var sva fagrt ok rodi i kinnum, sem þa at hann svefi, en miklu biartari en adr var, medan hann lifdi. Þa kom blod konungsins aa hond Þori ok rann upp i greipina, ok þurpti þat saar eigi umbaund at hafa þadan fra, sva greri þat skiott. Vattadi Þorir þat siolfr sidan um þenna atburd, þa er upp kom helgi Olafs konungs fyrir alþydu. Vard Þorir fystr til þess af sveit[2] manna þeira, sem i moti konunginum hafdi verit, at hallda upp helgi hans. Olafr konungr fell midvikudag .iiii. kal. Augusti. Þat var ner midium degi, er þeir funduzt, en fyrir midmunda hofz orrostan, konungrinn fell fyrir non, en myrkrid hellzt fra midmunda til nons. Bendr rętnu ekki valinn, ok var helldr sva, at otta slo yfir þa marga, er i mot konunginum hofdu verit, en þo helldu þeir illvilia sinum ok demdu þat milli sin, at allir þeir menn, er med Olafi konungi fellu, skylldu aungan þann umbunat eda grauft hafa, sem guds monnum somdi, ok kaulludu þa alla ransmenn ok utlaga. En þeir menn, er rikir voru ok þar attu frendr i valnum, gafu at þessu aungan gaum, fluttu þeir frendr sina til kirkna ok veittu umbunat eptir sidveniu.

16. Þorgils Hialmuson ok Grimr son hans foru til va(l)sins um kvelldit, er myrkt var ordit. Þeir toku upp lik Olafs konungs ok baru i bruttu, þar til sem var husskytia nockur litil ok aud annan veg fra benum. Hofdu þeir med ser lios ok vatn, toku þa kledi af likinu ok þogu þat, svipudu sidan med dukum ok laugdu þar[3] nidr i husinu ok huldu med vidum, sva at eigi matti sio, þott menn kemi inn i husit; gengu sidan brutt ok heim til bęiarins. Þar hofdu fylgt hernum hvaratveggia(!) margir stafkallar ok þat fatekt folk, er ser bad matar. En þat kvelld eptir bardagann hafdi þat folk þar mart dvalizt eptir, ok er nattadi, leitadi þat ser herbergis um aull hus bedi sma ok stor. Þar var einn blindr madr, sa er fra er sagt, hann var snaudr, ok for sveinn hans med honum ok leiddi hann. Þeir geingu uti um bęinn ok leitudu ser herbergiz, ok komu at þvi sama husi, sem lik konungs var inni. Dyrnar voru sva lagar, at þeir þurftu naliga at skrida inn eda kr(i)upa. Ok er hinn blindi madr var inn kominn i husit, þa þreifadizt hann fyrir, hvar þar mundi mega nidr setiazt. Hautt hafdi hann aa hofdi, ok steyptizt hann fyrir andlit honum, er hann laut

1 Iartein Olafs konungs *Overskr.* 2 s^u *Cd.* 3 þvi *Cd.*

nidr; hann tok upp hendinni votri, ok kendi at tiorn var aa golfinu, ok retti upp hauttinn, ok kom haundin vid augun. En þegar bra klada aa hvarmana sva miklum, at hann strauk med fingrunum augun siolf. Sidan hopadi[1] hann ut ur husinu ok segir, at þar matti ecki inni vera, þviat þar var allt vott. Ok er hann kom ut, sa hann fyst skil handa sinna, ok sva þat allt, er sva ner honum var, at hann matti sia fyrir mattmyrkri. Hann geck þegar til beiarins ok inn i stofu, segir þar aullum maunnum, ath hann hefir feingit syn sina, ok at hann var þa skygn madr. En þat vissu margir menn, at hann hafdi leingi blindr verit, þviat hann hafdi þar leingi farit um bygdir. Hann segir[2], at þa sa hann fyst, er hann kom ut ur husinu nockuru vaundu ok litlu, ok þar allt vatt inni, ok segir, at hann greip þegar i vetuna ok strauk votum haundunum um augun. Hann segir ok, hvar þat hus stod. En þeir menn, er þar voru ok sa þessi tidendi, undruduzt miok þenna atburd ok reddu milli sin, hvad þar mundi inni vera i þvi husi. En Þorgisl bondi ok Grimr son hans þottuz vita, hvadan af þessi atburdr mundi hafizt hafa; þeir hredduzt miok, at ovinir konungs mundi fara ok ransaka husit. Sidan leynduzt þeir til hussins, toku likit ok fluttu likit i brutt i haga ok falu þar, foru sidan heim til beiarins ok svafu af nottina.

17. [3] Þeir fedga(r) hofdu nu i sinni geymslu lik Olafs konungs hins helga, ok voru um þat miok hugsiukir, hversu þeir feingi til gett, at eigi nedi ovinir konungs at misfara þvi med nockurum hetti; þviat þat var ord bonda, at þat mundi til liggia, ef lik konungsins fyndiz, ad brenna þat eda flytia aa sæ eda sockva nidr. Þeir fedgar hofdu sed sva sem kertislios veri, þar sem lik konungsins la i valnum. Sva var ok sidan, er þeir hofdu folgit likit, þa sa þeir iafnan lios um netr þangat, sem konungrinn hvilldi. Þeir hredduzt, at ovinir hans mundi leita liksins, þar sem þat var, ef þeir sęi þessi merki, var þeim þvi titt til at koma þvi i þann stad, er þat ver(i) vel komit. Þeir gera kistu ok vanda sem mest ok leggia þar i lik konungsins. Sida(n) gera þeir adra kistu, ok bera þar i halm[4] ok griot, sem veri mannz haufgi, lykia kistu þa vannliga. Ok er bruttu var af Stiklastodum allt bondalid, þa bua þeir ferd sina, fa ser rodrarskutu ok eru saman .vii. menn eda .viii., ok voru allir þessir frendr eda vinir Þorgils. Þeir fluttu lik konungs til skips leyniliga ok setia kistu undir þiliur nidr. Kistu þa

1 hofadi *Cd.* 2 þegir *Cd.* 3 Af liki Olafs konungs *Overskr.*
4 hialm *Cd.*

hofdu þeir med ser, er griotit var i, settu þeir hana i skip, sva at menn saa, foru sidan ut eptir firdi ok fa gott leidi, komu um kvelldit, er myrkva tok, til Nidaross. Þa sendi Þorgils menn upp i bęinn ok let segia Sygrdi(!) byskupi breska, at þa(t va)r af halfu Knutz konungs, at þeir fara med lik Olafs konungs. En er byskup spyr þat, þa sendir hann þegar menn ofan aa briuggr(!). Þeir taka ser lettiskutu ok leggia at skipi Þorgilss, bidia fa ser lik konungsins. Þeir Þorgils taka kistu, þa er uppi stod aa þilium, ok bera i skutuna. Þessir menn roa þar aa fiordinn ut ok sokva þar nidr kistunni. En þa var myrkt af nott. En þeir Þorgils roa upp eptir anni til þess, er þra(u)t bęinn, ok lcgdu at þar, er Sau(r)-hlid er kallad; þat var þa fyrir ofan bęinn. Fundu þeir menn at mali, þa sem helldr hofdu verit vinir Olafs konungs, ok spurdi, ef þeir villdi taka vid liki Olafs konungs. En þat þordi eingi madr at gera. Sidan fluttu þeir Þorgils likit upp med anni ok grof(u) þar nidr i sandmel þeim, er þar var, biuggiu(!) þar sva um, at þar skylldi ecki nyvirk(i) aa sia. Hofdu þeir þessu aullu lokit adr dagadi, foru sidan til skipsins ok logdu þar ut eptir anni; ok foru þar til, er þeir komu heim aa Stiklastadi.

18. Hinn nesta vetr eptir hofzt umræda sudr i Þrandheimi, at Olafr konungr væri sannheilagr madr, af morgum monnum, ok iartegnir margar urdu þar at helgi hans. Hofu þa margir menn aaheit vid hinn helga Olaf konung um þa hluti, er monnum þotti malskipti vid liggia, ok feing(u) margir menn af þeim aaheitum bot, sumir heilsu, en sumir farargreida eda adra þa hluti, er naud-syn þotti til bera. Einarr Þambaskelbir vard fyrst til þess rikis-manna at hallda upp helgi Olafs konungs. Eptir um sumarit gerdizt mikil umræda um helgi konungsins. Sneri þa ordrominum, voru þeir þa margir, er þat sonnudu, at konungr mundi vera heilagr, er fyrr hofdu med ollum fiandskap mot honum geingit ok latid hann i aungan stad na af ser sannmęli. Toku menn þa at snuazt til amęlis vid þa menn, er honum hofdu mestan motgang veitt. Var af þvi mikit kent Sigurdi byskupi. Gerazt menn þa sva miklir hans ovinir, at hann stok brutt ur Noregi ok vestr til Einglandz aa fund Knutz konungs. Sidan gera Þręndir menn ok ordsendingar eptir Grimkeli byskupi ok bidia hann koma nordr i Þrandheim. Byskup bregdr skiott vid þessa ordsending, bar þat miok til, at hann trudi þat satt vera mundu, er sagt var fra iartegnagerd Olafs konungs ok helgi hans. Byskup ferr fyst til fundar vid Einar Þambaskelfi, ok tok Einarr feginsamliga vid

honum, ręddu þeir mart ok sva þat, sem þar i landi hafdi gerzt ok til stortidenda ordit, ok komu allar rædur vel aa samt med þeim. Sidan ferr byskup inn i kaupangh, ok tok þar oll alþyda vel vid honum. Hann spyrr vandliga at um takn þau, er saugd voru fra Olafi konungi, ok spurdizt honum þar vel til. Sidan gerir byskup ord Þorgisli inn aa Stiklarstadi ok Grimi syni hans, stefnir þeim ut til bęiar aa sinn fund. Þeir fara, ok er þeir koma, segia þeir honum aull merk(i), þau sem þeir vissu, ok svo hvar þeir hofdu latid lik konungs. Sidan sendir byskup eptir Einari, ok kom hann til beiar, hafa þeir byskup ok Einarr rędur vid Svein konung Knutzson, er þa var yfir Noregi, ok vid Alfivi(!) modur hans; badu þeir konung leyfa, at lik Olafs konungs veri ur iordu tekit. En konungr bidr byskup fara med þvi, sem hann vill. Þa var þar mikit fiolmenni i bęnum. Byskup ok Einarr ok menn þeira med þeim fara til, þar sem Olafr konungr var grafinn, letu þar til grafa, ok var þar kistan komin miok sva upp ur iordu. Þat var margra manna raad, at byskup leti lik konungsins grafa i iord at Clemens kirkiu, þa kirkiu hafdi Olafr konungr gera latid, ok sva var gert. En sidan fra andlati Olafs konungs voru lidnir .xii. manadir ok .v. nętr, þa var upptekinn hans heilagr domr. Var þa enn uppkomin miok kistan ur iordu, var hon þa spanosa, sem nyskafin veri. Grimkell byskup geingr þa til, er kistan var upptekin, var þar þa dyrligr ilmr. Þa berar byskup andlit konungsins, ok var eyngan vegh brugdit hans aasionu, sva rodi i kinnum, sem þa mundi, þott[1] hann veri nysofnadr. En aa þvi fundu menn mikinn mun, þeir er sed hofdu Olaf konung, þa er hann fell aa Stiklastodum, at vaxit hafdi haar hans ok negl, þvi nest sem þa mundi, þott hann hefdi lifs verit iafnlangan tima. Þa gek Sveinn konungr til ok adrir hofdingiar, þeir sem þar voru. Þa mellti Alfifa: «Furdu seint funa menn i sandinum; ecki mundi sva, ef hann hefdi i moldu legit.» Þa tok byskup saux ok skar af hari konungsins, ok sva tok hann af kaumpum hans. Hann hafdi haft langa kampa, sva sem þa var sidr. Byskup męllti þa til konungs ok Alfivu: «Nu er haar konungs ok kampar sva sitt, sem þa er hann fell, en þvilikt hefir vaxit, sem nu siait er her afskorit.» Þa svarar Alfifa: «Þa þicki mer har þetta heilagr domr, ef þat brennr eigi i elldi; en opt vitum vær haar manna heillt ok osakat[2], þeira sem leingr hafa i iordu (legit) en þessi madr.» Þa let byskup taka elld i glodarkeri ok blezadi, ok lagdi

1 er þott *Cd.* 2 oskakat *Cd.*

reykelsi aa elldinn ok ględrnar ok þar med har konungsins. Ok er brunnit var reykelsit allt, þa tok byskup harit upp ur elldinum med ollu obrunnit. Synir byskup konungi ok audrum hofdingium. Alfifa bad þa leggia harit i ovigdan eld. Þa svarar Einarr þambaskælbir ok bad hana þegia ok valldi henni morg snaud ord. Var þa þat byskups atkvedi ok konungs samþycki ok domr allz heriar, at Olafr konungr veri sannheilagr. Var þa likami[1] hans borinn inn i Clemens kirkiu ok þar um buid. Var kistan sveiput pellum[2] ok tialldat allt yfir med gudvefium. Vurdu þar þa þegar margskonar iarteinir at hans heilǫgum domi.

19. Þar aa melnum sem Olafr konungr hafdi i iordu legit, kom upp brunnr fagr, ok feingu marger bot af þvi vatni meina sinna. Var þar veittr umbunadr, ok hefir þat vatn verit vandliga vardveitt iafnan sidan. Kapella var þar fyrst gerr ok sett þar allterit, sem verit hafdi leidi konungs. En nu stendr (þar) Kriztz kirkia ok þar haallterit sem i enne fyrri hafdi verit. Þat er nu kallad Olafshlid, er heilagr domrinn var borinn af skipi, ok er þat nu ner bę midium. Byskup vardveitti lik Olafs konungs ok helgan dom, ok skar har hans ok negl, þviat hvart(v)eggia vox sva skiott, sem hann veri lifandi madr i þessum heimi. Olafr konungr enn helgi var þa haalfertugr at alldri, er hann fell, ok hafdi att .xx. folkorrostor. Þa er Olafr konungr fek it fysta haugg aa Stiklarstaudum, kastadi hann fra ser sverdinu Hneiti. Þat tok upp ok vo med einn senskr madr, sa madr komz ur bardaganum med audrum flottamaunnum ok til bus sins heim i Sviþiod, ok for med sverd þat alla sina daga, ok sidan son hans, ok hverr eptir annan þeira frenda; ok fylggir þat ę eign sverdzins, at hverr segir audrum nafn þess, ok sva hvadan komit var. Sidar miklu aa dogum Kirialax keisara bar sva til, at aa einu sumri, þa er keisari var i herferd nockurri, at þeir lagu i herbudum; voru þar storar sveitir Vęringia, ok þeir voktu ok vord helldu yfir konunginum, lagu aa velli nockurum fyrir utan herbudir. Skiptu þeir med ser nottinni til voku ok voru med alvepni, laugduzt þa adrir til svefns, er adrir vokn-udu. Þeir voru vanir, þa er þeir svofu, at hafa hialm aa hofdi, en skiold yfir ser ok sverd undir hofdi, ok hegri hendi hallda um medalkaflann. Einn þeira felaga er lotid hafdi at [vaka, vaknadi[3] i dagan, ok var þa sverd hans i brottu. Stod hann upp ok tok ok etladi lagsmenn sina, er voktu, hafa gert til spotz vid sik at vela fra honum sverdit. Þeir synia fyrir sik. Sva ferr þriar nętr,

1 likama *Cd.* 2 fellum *Cd.* 3 [ vakakanadi *Cd.*

Hann undrazt þa miok, ok allir er vissu, ok spurdu[1] hann, hveriu gegna mundi. Þa segir hann, at sverd þat var kallat Hneitir, ok Olafr konungr hafdi att ok siolfr borit i bardaga, þa er hann fell. Segir ok sidan, hversu sverdit hefir farit sidan. Þetta var sagt Kirialax keisara, let hann þenna kalla til sin ok fer honum gull þrenn iafnnvirdi sverdzins. Sidan let hann sverdit bera i Olafs kirkiu, þa sem Væringiar hallda. Eindridi ungi lendr madr ur Noregi ꜵ dogum sona[2] Harallz gilla var þa i Miklagardi ok hann sagdi fra þessu i Noregi, þa er hann kom heim.

20. Magnus konungr son ens helga Olafs konungs let gera skrin ok bua gulli ok silfri ok setia steinum, er þat sva gert at mikilleik sem kista liks, ok svalir undir, en vætt yfir vaxit sem rǫfr, ok þar af upp hofut ok burst ꜵ hlidveggiunum, lamar ꜵ bak en lǫst framan. Sidan let Magnus konungr leggia i skrinit helgan dom Olafs konungs fodur sins. Urdu þar þa margar iarteinir. Þa var i logh tekit at hallda heilagt um allan Noreg liflatzdagh Olafs konungs, var þa sa dagr þar þegar halldinn sem hinar sterstu hatidir. Magnus konungr hafdi heriat ꜵ Vindr, ok sidan er hann kom aptr til Danmerkr, let hann fra lidit mart, ok var hann þa eptir eck(i) fiolmennr. Þat sama haust foru Vindr med ogrynni lids. Hann dregr þa her saman ok ferr i moti heidingium, ok var lidit hans litid hia þvi, sem þeir hofdu. Eggiudu þa menn hans, at hann skyldi flyia, ok var hann þa allhugsiukr. Þa i svenfni syndizt honum enn helgi Olafr konungr fadir hans ok mellti vid hann: «Erut þer nu ottafullir, er heidingiar hafa her mikinn; hrez þu eigi, ek man þer fylgia. Stattu upp ok rad þægar til orrosto, (er) þer heyrit ludr minn; verit oruggir ok ottalausir.» Þa vaknadi konungrinn. Rann þa sol upp. Segir hann draum sinn, ok urdu menn vid þat gladir, herdu nu hugina. Þa sa þeir her Vinda fara yfir Skotborgar ꜵ. Þa heyrdu allir lid(s)menn Magnus konungs upp i loptid yfir sik kluckuhliod, ok þeir menn, sem verit hofdu i Nidarosi, þa kendu, at sva var sem Glaud veri hringt. Su kluka var at Clemens kirkiu, ok hafdi hinn helgi Olafr konungr hana þangat feingit til. Sidan steypti Magnus konungr af ser bryniunni ok tok i hond ser Hel, auxi þa er Olafr konungr hafdi atta, redzt þegar i moti Vinda her. Giora þeir þa (sva) harda atgaungu, at Vindr hrukku fyrir; sneru þa ꜵ flotta þeir sem fremstir voru, en þeir sem sidaz voru, stodu sva, at hinir mattu eigi flyia; fellr þar þa hverr um annan. Magnus konungr ok menn

1 spurdi *Cd.* 2 sonar *Cd.*

hans hiuggu þa nidr sem bufe. Segia frodir menn þat manfall mest verit hafa aa Nordrlondum i kristni. Raku þeir þa flottann[1] sidan ok drapu þa ogrynni lids.

**21.** Guthormr son Gunhilldar systur en(s) helga Olafs konungs for vestr i vikingh aa Irland, var hann þar i kerleikum miklum med Mardagi konungi. Um sumarit heria þeir aa Brettland ok fa of fiar, leggia sidan i Aungulseyiar sund, skipta herfanginu. Ok er konungr saa yfir silfr þetta it mikla, vill hann hafa einn allt, virdir þa litils vingan vid Guthorm. En Guttorhmi(!) likadi illa, ok vill eigi vera hlutreningr, ok menn hans. Konungr gerir honum .ii. kosti, annathvart at beriazt vid hann eda ganga þar fra aullu herfanginu ok sva fra aullum skipum sinum: «Vil ek hafa þau, sagdi konungr, ella hefir sa fe, er sigrazt.» Sa var munr lids þeira, at konungr hafdi .xi. langskip, en Guttormr .v. Bad hann ser fresta um þetta vandkvędi, ok fek þat eigi. Þa kaus hann at deyia med dreingskap eda vega sigr, helldr en þola skaumm ok svivirdingh af sva mikilli missu fyrir aungva sok. Kallar hann aa gud ok hinn helga Olaf konung frenda sinn; var þa ok hans vokuaptan; bidr hann fultings ok hialpar ok het honum at gefa tiund af aullu þvi herfangi, sem hans menn hlyti, ef þeir feingi sigr. Sidan skipar hann ok fylkir lidi sinu i moti þeim mikla her ok bardizt vid þa, ok med guds fulltingi ok hins helga Olafs konungs fek hann sigr. Þar fell Mardagr konungr ok hverr madr będi ungr ok gamall, er med honum var. Eptir þann haleita sigr vendir Guttormr heim gladr med allt þat fe, er þeir hofdu til heriad. Var þa tekinn hverr penningr enn tiundi, sem heitid var Olafi konungi. Var þat sva mikit ofa fe, at þar af let hann gera rodu eptir vexti sinum eda stafnbua sins. Er liknerski þat nu miklu meira en þeir menn, sem nu eru. Gaf hann roduna sva buna til stadar hins helga Olafs konungs, ok hefir hon þar sidan verit til minningar sigrs Guttorms ok iartegnar Olafs konungs.

**22.** Kir(i)alax Miklagardz keisari for herfaur aa Blaukumanna vollu. En er hann kom aa Peizina vollu, þa kom þar i mot honum heidinn konungr med uvigian[2] her, będi hestalid ok stora vagna, ok þar aa i ofanverd vigskaurd. Biuggu sva um nattbol sitt, skipudu vagnum hverium vid annan fyrir utan herbudir sinar, ok þa(r) fyrir utan grofu þeir diki mikit. Var þat þa allt saman vigi mikit sem borg. Enn heidni konungr var blindr. Nu er Grikia her kom, þa setia heidingiar fylkingh sina vid vagnaborgina, en Grikir

1 falttan *Cd.* 2 uvegian *Cd.*

setia sina fylkingh þar i mot; rida fram hvarertveggia [1] ok beriazt. Fa Grikir þar mikit mantion ok flyia, en heidingiar fa sigr. Þa skipar keisari fylkingh af Frakkum ok Flemingium, rada þeir fram, ok fer sem fyrr, at margir fellu, en allir flydu. Var þa keisari reidr hermonnnum sinum, en þeir svarodu ok badu hann taka til Væringia vinbelgia sinna. En hann lezt eigi vilia leida fa menn, þo at hrauster veri, i mot sva miklum her. Þa svarar Þorir helsingr, er þa var fyrir Væringium: «Þott fyrir veri brennandi elldr, þa munda ek ok miner menn þegar upp hlaupa ydr til viss fridar.» Keisari svarar: «Heitid aa Olaf konung ydarn til fulltings ydr [2] ok sigrs.» Þa taka þeir heit med stadfesti ok hetu at reisa kirkiu Olafi konungi af sinum kostnadi ok godra manna stodum. Sidan ridu fram Vęringiar aa vollinn. Ok er heidingiar [3] sea þat, segia þeir konungi sinum, at enn ferr lid af Grikkia her ok rann um volluna, ok er meira en haund full mannz. Þa spurdi konungrinn: «Hverr er sa inn tiguligi madr, er þar ridr aa hvitum hesti fyrir lidi þeira?» «Eyngan siam ver þann mann, sogdu þeir.» Þar var eigi minni lidsmunr, en sem .lx. heidingia veri i mot einum krisnum manni, en eigi ath sidr redu Vęringiar til bardaga alldiarfliga. Ok þegar er þeir komu saman, kom otti yfir heidingia, ok toku þegar at flygia. Væringiar raku þa ok drapu marga. Þat sa Grikir ok Frakar, er flyid hofdu fyrr, reduzt nu til ok raku flottann med hinum. Voru Væringiar þa komnir upp i vagnaborgina. Vard þar hit mesta mannfall i flotta heidingia. Þa var hinn heidni konungr handtekinn, hofdu Væringiar hann med ser. Þeir toku her þa herbudir hinna i sitt valld ok foru aptr med agetum sigri.

23. Greifi einn grimr var i Danmork, hann atti ambatt norræna ok þrænska. Hun dyrkadi Olaf konung med mikilli trufesti. En Greifin tortrygdi allt þat, sem honum var sagt fra hans heilagleik, hefir i spotti ok sagdi þat kvitt einn vera ok pata. Aa hatidardegi Olafs konungs, er allir Nordmenn hallda, þa vill sio greifi eigi heilagt hallda, hann baud ambattinni at vinna, ath baka braud ok ellda ofn til brauds þann dag. Vita [4] þottizt hun ędi hans, ef hun gerdi eigi sva, at hann mundi henne sarliga hefna. Geingr þa til allnaudig ok bakar i ofninum, ok kveinar þo miok, medan hun var at, ok heitazt vid Olaf konung, kvazt alldri skyldu trua helgi hans, nema hann hefndi nokuru þessarrar naudungar. Ok allt var iafusnemma ok aa somu stund, at greifinn vard blindr

1 hvartereggia *Cd.* 2 ydrs *Cd.* 3 hofdingiar *Cd.* 4 Veita *Cd.*

badum augum ok braudit allt vard at grioti, þat sem i ofninn var skotid. Ok sidan hefir Olafs messa verit halldin um Danmork.

24. Magnus konungr vardveitti sidan helgan dom fedrs sins Olafs konungs, medan hann lifdi, skar hær hans ok negl, ok sva gerdi Haralldr konungr eptir hann um sina dagha, allt til þess er hann for ur landi vestr til Einglandz; þa lęsti hann skrinit, en kastadi lyklunum[1] ut aa Nid, en sumir menn segia, at hann kastadi utan bordz fyrir Agdanesi. Þa var lidit fra falli Olafs konungs halfr[2] fiordi tugr vetra, þat var iafnlanght sem hann hafdi lifat her i heimi. En Olafr konungr kyrri let gera steinkirkiu[3] i kaupangi i þeim stad, sem lik Olafs konungs var fyrst i iord grafit, let hann þat musteri bua, ok var þar vigd Kriz kirkia. Var þar þa byskupsstoll ok skrin Olafs konungs ens helga, þar urdu þa margar iartegnir, ok gerdizt þangat mikil at(sokn) hatidardag Olafs konungs. Þenna tima hofdu þangat flutz þrir siukir menn ok vęnt ser heilsu ok miskunnar af hinum helga Olafi konungi. Einn þeira fek syn sina um kvelldit fyrir Olafs messu, er sionlaus hafdi þangat komit; en annarr mal sitt, sa er þangat hafdi dumbi komit, þa er helgir domar voru utbornir ok skrinit nidr sett i kirkiugardi eptir vanda. Tok sa þa gudi at þakka ok enum heilaga Olafi konungi med miuku tungubragdi sina heilsubot. Kona var inn þridi madr, er þangat hafdi sott austan af Sviþiod, ok i þeiri ferd hafdi hon þolt mikid vos ok naud; hun var sionlaus ok borin til kirkiu, ok hafdi verit blind .xiiii. vetr; en fyrr en tidum var lokit um daginn, þa sa hun badum augum ok for þadan heil heim.

25. Ungan mann danskan at ętt toku heidnir menn ok fluttu til Vindlandz, hofdu hann þar i baundum med audrum herteknum maunnum. Hann var um daga i iarne einnsaman vardveizlulauss, en um nętr var son bonda i fiotri med honum, at hann hlypi eigi fra honum. En þessi aumi madr beid alldri svefn ne ro fyrir harmi ok sinni sorg, hugsadi marga vega, hvad til hialpar veri, ok kvidde miok aanaud, hreddizt sullt ok pislir, vænti aungrar lausnar af frendum sinum, er tys(v)ar adr hofdu hann utleyst med fe af heidnum monnum. Eyngan ser hann annan utveg en hlaupaz ut ok brutt, ef hann ma. Aa einni nott drepr hann son bonda ok hoggr af honum fotinn, skundar sidan til skogar med fioturinn. Um morgininn er lysir, verda menn varir vid hann, at hann er i bruttu, ok fara eptir honum med sporhunda, finna hann þar i skoginum, þar sem hann la, taka hann nu med hondum ok beria fast, binda

1 lyknunum *Cd.* 2 hialfr *Cd.* 3 steinsta kirkiu *Cd.*

hann sidan i iarne. Þotti honum, sem skuggi einn veri þat hardretti, er fyrr hafdi hann reynt, hia þvi ollu, er nu þolldi hann. Eingi bad honum miskunnar ne sa aumu aa honum nema krisnir menn, er þar lagu bundnir hia honum, þeir haurmudu ok gretu hans mein ok sina naud. Einnhvern dagh rada þeir honum þat ok bidia hann gefazt Olafi konungi honum at þiona i hans kirkiu, ef hann kemizt med hans miskunn i brutt ur þessi prisund. Hann iatar þvi feginn ok gefr sik til stadar hins helga Olafs konungs. Nestu nott saa hann i svefni mann standa fyrir ser ekki hafan, ok mellti vid hann: «Heyrdu, aumr madr, hvi ris þu eigi upp?» Hann þottizt svara: «Lavardr minn, hverr ert þu?» Sa svarar: «Ek em Olafr konungr, er þu kalladir aa.» Hann mellti: «Ek villda feginn upp risa, en ek ma eigi, þviat ek lig [bunndinn i iarni[1] ok þo i fiotri med þeim monnum, er her liggia bundnir.» «Stattu upp skiott, sagdi sa, ok edrast eigi, vist ertu lauss.» Þa vaknar hann ok seger felogum sinum, hvad fyrir hann bar. Þeir badu hann þa upp standa ok vita[2], ef satt veri. Hann stendr upp ok kennir, at hann er lauss. Þeir kvadu honum fyrir ecki koma mundu, er hurdin var lęst. Þa lagdi til gamall madr, er þar var meinliga halldinn, bad hann eigi tortryggia þess heilaga mannz iartegn ok miskunn, er hann hafdi lausn af feingit, «man hann af þvi iartegn vid þik ger(v)a hafa, sagdi hann, at þu munt niota skulu ok hedan lauss verda, ok eigi þer til vesalldar eda meiri pinu; nu leita þu dyra, ok ef þu kemzt ut, þa ert þu holpinn.» Hann gerir sva ok finnr þegar dyrnar opnar, kemzt ut ok i brutt. Þetta finna heidnir menn ok fara þegar eptir honum med hunda. Hann liggr ok leynizt, ser hann giorla, hvar þeir fara, en hundarner villazt sporsins, þegar þeir sekia i nand honum, ok maunnunum villizt sva syn, at þeir sio hann eigi, ok la hann þa nær fyrir fotum þeim. Fara þeir nu heim aptr ok fundu hann eigi. En hann setti undan ok til skogar. Þa gaf enn helgi Olafr konungr honum aptr heyrn ok alla heilsu, er hann hafdi mist i hardretti, þa er barit hafdi verit um hofud honum. Þvi nęst komst hann aa skip med .ii. krisnum monnum, er þar hofdu leingi pindir verit, ok flytiazt sva i brutt af þeim flugstigi. Sidan sotti hann til Nidaross ok var þa ordinn alheill. Hann idrazt þa heita sinna ok geingr aa ord sin vid hinn helga Olaf konung, ok hleypzt i brutt þadan um dagh, kemr til eins bonda, er honum veitti hus fyrir guds sakir. Um nottina i svefni ser hann koma til sin meyiar þriar fridar, ok avita

1 [ bunndit j iarna *Cd.* 2 hvart hann *tilf. Cd.*

þær hann ok spyria, hvi hann geriz sva diarfr at hlaupazt i brutt fra enum helga Olafi konungi, er honum hafdi sva mikla ok margfallda miskunn veitt, ok hann hafdi honum adr gefizt. Þa vaknar hann felmsfullr ok otta, stendr þegar upp ardegis ok segir bonda, hvat tit er. En bondi let hann aungu audru vid koma en snua heim aptr til stadarins. Sa madr ritadi i fyrstu þessa iartegn, er sa manninn ok sa aa honum iarnastadinn.

26. Đora modir Sigurdar konungs Jorsalafara let skera tungu ur hofdi þeim manni ungum, er Kolbein het, ok fyrir eigi meiri sok, en hann hafdi haft eitt stykki af diski hennar, ok sagdi hann steikarann hafa gefit ser. En sa þordi eigi i gegn at ganga fyrir henne. Sidan for þessi madr leingi malauss. Hann kom til Nidaross ok vakti at Krizkirkiu. En um ottusaung Olafs messudag inn sidarra sofnar hann, ok ser hann Olaf konung koma til sin, ok tok tungustufinn ok heimti. Hann vaknadi heill ok gerdi gudi þackir ok hinum helga Olafi konungi.

27. A dogum sona[1] Harallz gilla Eysteins ok Sygurdar ok Inga toku Vindar mann þann, er Halldorr het, ok veittu honum meizl, skaru kverkrnar ok drogu þar ut tunguna ok skaru af i tungurotunum. Sidan sotti hann til ens helga Olafs konungs ok rendi fastliga hug til hans, bad hann arna ser vid gud mals ok heilsu. Þvi næst feck hann mal ok heilsu, ok gerdizt þegar þionostumadr heilags mannz ok hellt þvi iafnan sidan alla sina lifdaga ok gerdizt godr madr ok trufastr. Þessi iartegn gerdiz halfum manadi fyrir sidarri Olafs messudag, er Nicholas cardinali vard landfastr i Noregi.

28. Brædr .ii. voru aa Upplondum rikir menn ok kynstorir ok audgir, Einarr ok Anndress synir Gutthorms grabarsz, þeir voru modurbrædr Sigurdar konungs munnz. Systur attu þeir frida ok eigi til forsiala[2], at þvi sem sidarr reyndizt. Hon hafdi blidlęti mikit vid einn enskan prest, er Rikardr het, er þar atti heima med brędrum hennar, gerdi hun honum ok martt med godvilia. En um konu þessa gerdizt ferligr ordromr, ok er þat var aa lopt komit, þa hugdu þat allir prestinum aa hendr, sva brædr hennar sem adrir menn. Þegia þeir þo yfir leyndri vęl ok lata þo ecki aa sik finna. Einn dag kalla (þeir) hann til sin[3], hann vardi einskis af þeim nema gods eina. Teygdu þeir hann heiman med ser ok letuzt ferd eiga i annat herat, hofdu einn mann med ser, þann er eigi vissi þessi raad med þeim. Þeir foru aa skipi eptir

1 sama *Cd.* 2 fiorsiala *Cd.* 3 ein dagh *gjentager Cd.*

vatni þvi, er Raund heitir, ok lendu vid nes þat, er Skiptisandr heitir, ganga þar a land ok leku litla (stund). Sidan fara þeir i leynistad einn, lata hann verkmanninn sla hann prest(inn) auxarhamars hogg eitt, sva at hann la i oviti. Hann spyrr, þa er hann vitkazt: «Hvi skal nu sva hart leika?» Þeir svarodu: «Þu skallt nu finna, hvad þu hefir gert.» Baru þeir þa sakir aa hann, en hann syniadi ok bad gud skipta med þeim ok inn helga Olaf konung. Þa briota þeir fotleggi hans ok draga hann sidan milli sin til skogar, binda hendr hans aa bak aptr. Sidan leggia þeir streing at hofdi honum en þiliu undir hofud ok herdar, setia aa sneril ok snua at streinginn. Þa tok hann Einarr elrihel ok setti aa auga presti; þionninn[1] stod yfir ok laust aa med auxi, sva at augat stok ut or ok nidr aa kampinn. Þa setr hann helinn aa annat augat ok męllti: «Liostu munum kyrrara.» Hann gerir sva. Skautz hellinn þa af augasteininum ok sleit hvarminn. Hann Einarr lypti hvarminum ok sa, at þar var augasteinninn, setr þa helinn at vid kinnina, ok er þar var aa lostid, sprac augasteinninn a kinnarbeinit, þar sem hest var. Sidan luka þeir upp augu hans ok munn hans, drogu ut tunguna ok skaru af. Eptir þat leysa þeir hendr hans ok hofut. Þegar er hann vitkazt, verdr honum þat fyrir, at hann leggr augasteinana[2] i stad sinn ok helldr þar at badum hondum sem fastast. Þeir bera hann til skips, roa til bæia(r), er heitir aa Sæheimraudu, senda menn til bæiar ok segia[3], at þar la prestr aa straundu. Medan þeir voru i bruttu, spyria þeir prest, ef hann megi mæla. Hann bladrar tungustufinum ok leitar vid at mæla. Þa seger hann Einarr til brodur sins: «Ef hann grer ok rettir vid fyrir tungustufinn, þa hyg ek, at hann megi mæla.» Þeir klypa þa med taung ok skera af tungunni tysvar ok sidarst i tungurotunum, ok lata hann þar eptir liggia halfdaudan. Husfreyia aa þeim bæ var fatek, for hon þo til hans med dottur sinni, ok bera þer hann heim i motlum sinum. Sidan var sottr prestr, hann kom ok batt saar hans oll; leita þa(u) honum heginda slikra, sem þau mega. Enn saari prestr la þa lama ok ollu megni numinn, gret hann sarlega ok stundi, bad gud miskunnar i hugnum ok enn sæla Olaf konung arnadarordz. Eptir midia nott sonfnar hann. Þa þikkizt hann sio gofugligan mann koma til sin, ok mællti sva: «Illa ertu nu leikinn, Rikardr felagi; se ek nu, at mattrinn er nu eigi mikill.» Hann þottizt svara: «Þyrpta ek miskunnar almattigs guds ok ens helga Olafs konungs.» Hann

1 þinonin *Cd.* 2 augvsteinana *Cd.* 3 þegia *Cd.*

svarar: «Þu skallt nu ok hafa.» Hann tok þa i tungustufinn ok heimti sva hart, at prest vard sart vid. Sidan strauk hann hendi sinni um augum(!) honum ok bein ok um adra sꜳra limu. Þa spurdi hann prest(r), hverr hann veri. Hann leit vid honum ok mællti: «Her er Olafr konungr nordan ur Þrandheimi.» Hann hvarf þa i brutt, en prestrinn vaknadi alheill ok tok þegar at mæla: «Sell em ek, sagdi hann; almatkum gudi (þock) ok enum helga Olafi konungi, hann hefir grædan mik.» Sva hormuliga sem hann var adr leikinn, sva bradar bætr fek hann þeirar all(r)ar ohamingiu, ok sva þotti honum, sem alldri hefdi hann ordit siukr ne sꜳr tungan var heil ok bædi augun fagrliga i lag komin med biortum skygnleik, brotin bein voru heil ok aull aunnur sꜳr voru groin [1]. En til vitnis, at augu hans voru utstungin, þa var groit aur hvitt ꜳ hvarumtveggia hvarmi ok til agætis enum helga Olafi konungi.

29. Bondi einn ꜳ Mǫri vard fyrir þiofnadar alygi, sva at hann feck eigi fyrir sik ordi ne eidi, ok hann til galga leidr aurvænti [2] af þeim allz rettdæmis, sem vid voru; het þa ꜳ hinn helga Olaf konung, at sa byrgi honum ok ryfi þeira rangdæmi, er fyrir rettletinu let þessa heims lif ok afladi sva ens himneska. Sidan var hann heingdr af gnipu fram hꜳri [3] nockurre; ok er hann bar af gnipunni fram, ok virgullinn villdi renna at halsi honum, þa þotti honum Olafr konungr skiota fiol undir fetr honum ok firra hann dauda. En er hann hafdi uppi hang(i)t fra dagmalum ok allt til nattmala, þa kom til kona hans ok synir med leyfi gaufugs mannz at iarda lik hans. Sidan steig hann son hans upp i galgatreit ok skar virg(u)linn. Vard fallit sva hatt fyrir hamarinn nidr, at þat veri vanliga mannz bani, þott þat eina yrdi til. Litlu sidar en hann var ꜳ skip lagdr, ok nacvad roid, þa er sem hann vakni af svefni, ok segir þa slickt, sem i hafdi gerzt, sekir sidan erchibyskups fund med fagnadi, ok var þar þeim iartegnum lyst.

30. A Þelamork villdu menn steinkirkiu gera lata enum helga Olafi konungi, en talgugriot hittizt hvergi i heradinu, þa er steinsmidrinn var kominn. Redu menn þa at gera trekirkiu, er eigi urdu efni ꜳ audru. Ok er smidrinn villdi aptr hverfa, brast þar fiall eitt i sundr, ok hraud þar fram talgugrioti, sem hafa villdi. Var þa byriad steinkirkiusmidin, sem fyrir aundverdu var stofnat.

31. Heradsmadr einn audigr ok rikr gek af tru sinni ok gafzt fiandanum. Hann var staddr i Nidarosi at Olafsmessu, þo at af

1 grafin *Cd.* 2 aurvænta *Cd.* 3 aahri *Cd.*

allzaungum godvilia. Af þessum manne tok þar fiandinn at hælast sva sem af auruggu herfangi. En þa er skrin ens helga Olafs konungs var utborit, tekr þessi vesli madr saman at virda ok sundr leitazt vęsolld sina ok himnerskan fagnad þessa ens haleita konungs med allri samiafnan, tign hans ok virdinghu. Her af kom gud-hræzla yfir hann, ok fellr aa hann sva akafligr ohugr, at hann fellr allr til iardar i þeim stad, sem skrin konungs hafdi stadit þa, medan uti var dvalizt, ok græt þar sarliga glep sinn. En þo vard hann þreckvana til at segia þar til sins misfellis. Nockuru sidar kom yfir hann guds bardagi i sott af bænum hins helga Olafs konungs, ok þa sagdi hann kennimanni alla settningh sinnar diofu-ligrar handgaungu. Skar sva ur allt id dauda adr andarsaar, (en) hann veri af heilags anda giof med heilu grett.

32. Einn riddari vestan af Einglandi sotti heim enn helga Olaf konung. Hann var horfinn ogurligu vandrædi, hann hafdi barizt vid brodur sinn um arf, ok vard bædi banamadr hans ok sva modur sinnar i einu atvighi, þa er hon villdi skilia þa sonu sina. Taldizt hann eigi hafa hana kent, er blod ok reidi ok sveiti sotti i augu honum, ok etladi frillu hans. Ok eptir slikan glęp tok hann aa ser sarligar skriptir med idran. Bar hann aa ser morg iarn marga vetr ok sotti heim helga stadi vida um verolld; þat eina hafdi hann matar ok klæda, er menn hugdu honum þegi-andi þaurf. En er hann kom i Kriztkirkiu i Nidarosi, þa bar hann enn aa ser .ii. iarn, annat um armlegginn, en annat um augxl ok nidr undir haundina beygt ok neglt ramliga, gek þa um briost ok bak. En er messan var upphafin hvitsunnudag i Kristz-kirkiu, þa hrytr iarnit af hendi honum ok langt i brutt. Þa þotti honum at naudsynligra at bida þar Olafs messu, sva sem hann heyrdi sagt, at þa yrdi þar flestir ur aanaudnum(!) leystir. Nu kemr at Olafs [messu, er[1] heilagr domrinn var borinn um kirkiu, ok þa med guds miskunn ok arnadarordi hins sæla Olafs konungs brestr iarnit af þessum manni ok i þria hluti, þat sem legit hafdi um herdar honum ok briost; þetta hafdi slegit verit af sverdi þvi, er hann hafdi misverkann med unnit. Sidan hefia lerdir menn upp Tedeum, en ulærdir menn syngia Kirieleison ok lofa allzvalldanda gud ok hans pislarvott enn sæla Olaf konung, er þessar allar iar-teignir, sem nu eru her ritadar, med otali annarra þiggr af þeim sama drottni vorum Jesu Kristi, er med fedr ok helgum anda lifer ok riker gud um allar alldir. Amen.

1 [ *rettet*; konungr er hinn *Cd.*

# PALS SAGA EREMITA.

(*Cd. Holm. 2 folio*).

**Her hefr upp sögu hins helga Pauli heremita ok Antonij.**

Af Antonio einsetumanne er saga gior fulliga bædi a girzku ok latino, ok þvi hefir ek ætlat, segir enn helgi Jeronimus, at rita faa luti af upphafi ok endalykt Pals, ath þessi frasögn hafi adr nidri legit, en þat er eingum kunnikt ordit, hversu hann hefir lifat midian lut æfi sinnar eda hveriar umsatir anzskotans hann hefir þa þolat.

1. A dögum Decij keisara ok Valeriani enna grimmöztu ovina guds kristni, þa er pindir voru med dyrligu liflaati Cornelius pave i Romaborg ok Ciprianus byskup i Cartagine, þeiri höfutborg vestr i Affrica, þa braut ok nidr guds kristni mikill ofridarstormr vida a Egiptalande ok i Thebaida. Þat þotti kristnum monnum æskiligt i þann tima ath vera sverdum höggner fyrir guds nafne. En slægdafullr fiandi leitadi þvi langar kvaler at fa þeim framan til daudans, at hann girntiz meir ath drepa salurnar en likamina; ok svo sem sagdi sa, er af honum var pindr, enn sæli Ciprianus, let hann eigi naa ath deyia þa, er giarnir voru til daudans. Ok at fiandans grimleikr ok hans limi megi kunnari verda, segium vær tvenn dæmi til þess, þau er minnissöm skulu vera mega. Einn guds pislarvottr stadfastr i sinni tru, sidan er hann hafdi verit margfalliga kvaldr ok hann hafdi sigrad bædi elld ok iarn, þa var sem fiandinn kendi rad til, hann var flettr af klædum ok smurdr hunangi, bundnar hendr hans a bak aptr i þeim stad, sem solin skein sem heitazt aa hann, at sa skylldi vægia fyrir hvössum flugna broddum, er eigi matti af gloandi pislarfærum sigradr verda. Annarr ungr madr, þvi at hann villdi eigi lata sina tru, var leiddr i enn fegrsta grasgard, ok þar sem sniohvitar liliur ok raudar

rosur voru alla vega i hia honum; rennandi lækr i grasinu kraunadi skamt fra honum, en litit vedr hvisladi i laufinu yfir honum; þar voru dyr klædi borin undir hann ok buin sem hæguz reckia; en bundinn var hann þar ok þo med silkidukum, at hann mætti eigi i brott komazt, en hefdi þo sem sitz meinlæti af bondunum. Ok þa er allir gengu fra honum, þeir sem hann hofdu þangat flutt, kemr þar ein puta fǫgr at sia, su er hans freistar med sinu blidlæti, sem hann skylldi sem mest til hennar fysa ok fa ser eigi fra halldit at eiga vit hana. Hvat mætti Kristz riddari nu til rada taka, hvert var undan at leita, (at) munugdin [1] sigradi (eigi) likamann, þann sem eingar pislir fengu adr sigradan. Ok þo at hann tæki at digna, þa fyrirlet guds miskunn þo eigi sinn riddara, er honum kendi þat raad, sem fiandinn vard fyrir at lata: hann retti or ser tunguna ok spytti henne framan i andlit putunni, er adr lockadi hann til saurlifis med kossum ok annarri radleitni svo rækiligri, sem madr ma skammazt i fra at segia. En sarleikr þessar pislar feck skiott stǫdvad alla lostasemi, þa sem adr hafdi kviknad i likamanum.

2. A þeim tima er guds riddarar þoldu slikar þrautir, þa hafdi sia Pall, er fra skal segia, mist fodur ok modur, þa er hann var .xvi. vetra gamall. Mikinn arf leifdu þau honum, systur atti hann, ok var hun þa manne gefin. Vel var hann lærdr bædi a girzka tungu ok ebreska. Hann var madr hogværr ok unne gude hardla mikit, ok þar til er ofridarstormr enn mesti kunni af at ganga, var hann i þorpi einu eigi allnær heimili sinu ok nockut huldu hofde. En hvat er þat, er gullzins þorsti fær eigi þraungt agiǫrnum manne? Sa madr er atti systur hans, þvi at hann villdi komaz at fe mags sins, tok um þat at sitia, at ofridrinn yrdi varr vit [2] þann, er hann var skylldr at leyna ok skyla sem hann mætti. Hvorki mikill gratr huspreyiu hans ne svo nanar teingdir mattu heimta hann fra þessum glæp, er hann ætladiz fyrir, eigi ottadizt hann svo gud, er alla hluti ser, at hann villdi at sidr hall(d)a framm þessi ohæfu. Kostgæfr var hann aa at gera vart vit mag sinn, ok neytti hann svo greypleiks þess, er af agirninni reis, sem þat væri mikil millde. Sidan er sa enn ungi madr Pall fullr af speki fann, i hveriu magr hans starfade, þa flyr hann aa fioll aa braut ok ætlar þar vid at hafaz, þar til er ofridrinn mætti lægiaz. Ok er hann atti þar nockura dvol, þa snyr hann naudsyn þeiri, er honum þraungdi þangat, i þat efni, ath hann vill þar stadfestaz; reikar nu

1 munudgin *Cd.* 2 hann *tilf. Cd.*

aptr ok framm at leita ser nockurs herbergis, ok hann kemr at fialle nockuru ok finnr þar einn helli i nedanverdri fiallzhlidinni; hellismunninn var litill ok var byrgdr med hellu einni. Pall velltir henne fra dyrum, fysir hann ath vita, hvat þar væri til nylundu, eda hvilikr hellir sa væri. Ok er hann kemr inn, þa tekr hellirinn bratt at rymazt, ok þar er þa liost um at siaz, þviat biargit er þa opit yfir honum. Ok i þeim glugg, er aa var biarginu, var i einum stad or hamrinum vaxit eitt tre, þat er palme heitir; þat breiddi vel i sundr kvistu sina ok huldi glugginn med laufi sinu, sva at þo var vel liost. Brunnr var þar ok i hellinum hardla fagr, ok sa lækr er þadan rann fell þegar i iord nidr fyrir utan hellinn. Fleiri voru þar þess konar herbergi i fialli þessu, funduz þar smidartol fornlig ok rydtekin, stediar ok hamrar þess hattar, sem myntarar ero vanir at hafa. Þat segia egipzkir menn, at i hellum þeim hafi silfr verit slegit aa laun a þeiri tid, er Antonius romverskr hofdingi hafdi geingit at eiga Cleopatram, er drotning var yfir Egiptalande.

3. Þa er Pall hafdi fundit helli þenna ok kannat, þa felldi hann svo hug sinn til þessa herbergis, sem sialfr enn hæsti gud hefdi þenna stad honum til handa buit. Ok þar er skiott fra at segia, at i þeim helli bio Pall alla æfi sina þadan i fra ok skemti ser vit bænir sinar ok einsetu. Tre þat, er i biarginu stod ok adr var fra sagt, feck honum bædi mat ok klædi; at hann alldinit en klæddi sik med laufinu. Nu at eigi þicki þetta med nockurum kosti eigi vera mega, þa veit gud ok hans einglar, segir enn helgi Jeronimus, at ek segi satt, at i þeiri eydimörk einni, er liggr vit Syrland, hefi ek sed þa munka, at einn af þeim, sa er inni sat þriatigi vetra, lifdi ecki vit annat en vit byggbraud ok drack leirsfullt vatn. Annar munk(r) hafdi byrgt sig i gröf nockurri, ok át sa eingan dag meira en .v. caricas, alldin þau er sva heita. Slikir lutir munu þeim þickia otruligir, er eigi trua, at ecki se omattuligt þeim, sem trufullir ero.

4. Nu skal enn aptr snua, segir enn helgi Jeronimus prestr, til þeirar frasagnar, er ek hof adr. Ok er fra þvi nu at segia, at þa er Pall hafdi lifat i helli sinum himnesku lifi her a iardriki, ok var svo gamall ordinn, at hann hafdi þrettan vetr ok .c. tirætt, ok Antonius var nirædr i odrum stad i eydimörkinni, þa kom su hugrenning i briost honum, sem hann var vanr sidan at segia, at eingi munkr mundi fyrr hafa til hætt en hann at setiaz i eydimörk. Ok eina nott er honum vitrad i svefni, at var annar madr

miklu betri en hann, sa er fyrr hafdi tekit slikt raad, ok þat var honum vitrat med, at hann skylldi sem skiotaz fara þangat. Þegar er dagr kom eptir þa nott, þa tok saa enn virduligi karll Antonius staf i hond ser, ferr heiman ok veit þo ecki til, hvert hann skal fara, ok þa modr miog af elli, sem ætla ma um niræđan mann. Um hadegis skeid, þa er solin skein sem heitazt, ok Antonius let þo eigi af framm at hallda sinni ferd, þa mællti hann fyrir munni ser: «True ek gudi minum, at hann mun syna mer þræl sinn, sem hann hefir heitit.» Þa er hann hafdi þetta mællt, þa ser hann mann undarliga vaxinn, hann er hestr ath sumum luta; þess hattar skrimsl kollodu skalldin centaurum, þat kalla sumir menn elgfroda. Antonius signir sik, er hann ser þenna dreing. «Heyrdu, sagdi hann, hvar hellzt byggir sia gud(s) þræll, er ek fer at leita?» Elgfrodinn, ef svo skal kalla, umladi i mot, sem hann þættiz mæla, en ecki matti þat skilia, ok þo at hann hefdi ogurliga asionu, þa leitadi hann þo vit at gera sig blidan i andsvorum, þeim er hann villdi veita, retti sidan fra ser hǒnd ena hægri ok visadi Antonio leid, þa er hann fystiz at vita, en hefir aa raas þegar eptir þat ok a brǒtt i eydimǒrkina annan veg, sem fugll flygi, svo at skiott fal syn med þeim Antonio. Þat vitum vær eigi, segir Jeronimus, hvort fiandinn hefir þetta ferliki latit bera fyrir augu Antonio til at skelfa hann, eda fædiz þetta dyr i eydimǒrk sva sem onnur, þau er undrskopud eru[1]. Antonius undradizt ok hugleiddi fyrir ser þat, er hann hafdi set, helldr þa fram eigi at sidr ferdinni. Litlu sidar ser hann i dal nockurum mann litinn vexti biugnefiadan miǒg, horn voru vaxin i enne honum, en geitafætr hafdi hann. Vit þessa syn tekr Antonius til vopna sinna, sem godr framgǒngumadr tekr upp skiolld sinn ok bryniu, hoc est scutum fidei et loricam spei, þat er trausta tru ok ǒrugga von til guds. En þetta kykvendi kastadi at honum alldine af tream þeim, er palme heita, sem þat skylldi vera ast hans ok fridtakn þeira i millum. Antonius nemr þa stadar ok spyrr hann eptir, hverr hann væri, en fær þessi andzsvor i moti: «Ek em, sagdi sa, einn af þeim, er eydimorkina byggia, ok heidnir menn spottadir af ymisligri villu dyrka ok kalla faunos[2] satiros eda incubos, ok kalla þat gud sin vera; gæti ek hiardar minnar. Bidium vær, attu arnir oss miskunnar af sameignum gudi, er vær vitum komit hafa fordum i heiminn monnonum til hialpar, ok hans ord ok erendi hafa farit um allt iardriki.» Nu er þetta ferliki hafdi slika hluti rætt, þa felldi sa

1 erut *Cd.* 2 fanios *Cd.*

enn godi ok enn gamli karl morg taar, þau er fram flutu af fagnadi þeim er hann hafdi i hiartano, þviat hann fagnadi af dyrd Jesus Kristz en af ofôrum andskotans; undradiz hann ok, er hann skylldi skilia mega mal þessa kykvendis; berr nu aa iôrdina stafnum, er hann hellt aa, ok mællti: «Vei verdi þer, Alexandria, þar er þu truir aa skrimsl ok segir þat gud vera! Vei verdi þer, borg, er puta mættir heita, þviat þu giorir þik heimila til þionostu allz heims diôflum. Hvat hefir þu nu til svara fyrir þik? Dyrin kalla nu Krist ok votta dyrd hans, en þu kannazt enn eigi vid hann.» Varla hafdi Antonius lokit at mæla þat, er hann villdi, ok þa var sia dreingr þvi næst allr aa brautu, sva skiott farandi sem fugll flygi. En ath eigi þicki þetta nockôrum otruligt, sem sagt var fra vexti þessa manz, er Antonius sa, þa er allkunnikt ordit aa dôgum Constantini keisara, segir enn helgi Jeronimus, at þa var færdr lifandi þess hattar madr til Alexandriam, ok þotti lydnum, er sia matte þetta undr, mikils um vert. En þvi at hann do skiott, þa var lik hans salltad, ath eigi þefadi þat illa at sumarligum solar hita ok fyrirfærizt. En sidan var þat flutt til Antiochiam, at keisarinn, er þar var þa staddr, skylldi sia megha.

5. [1] En at ek hallda, segir Jeronimus, fram þvi efni, sem ek hof, þa er fra þvi at segia, ath Anthonius helldr enn aa sinni ferd ok nadi ecki annat at sia en dyra farveg ok mikit viderni eydimerkrinnar. Hvat matti hann raada taka, ecki vissi hann, hvert hann skylldi stefna. Nu var aflidinn annar dagr, sidan er hann for heiman. Eitt var eptir radit, treysta þvi ath guds miskunn mundi alldri fyrirlata hann, hvert sem hann færi. Ok þat raad hafdi Antonius. Vakti hann adra nottina alla aa bænum sinum. Ok þa er nockut tok at lysa, þa ser hann, hvar vargr einn hleypr skamt fra honum þorstafullr farande vatz ath leita, ok rennr til fiallzhlidar nockurrar. Hann sendir augun eptir dyrinu, svo sem hann ma, ok fær sed, ath þat rennr inn i helli nockurn. Antonius geingr ok ath hellisdyrum, en þar er svo myrkt, ath hann fær ecki þat sed, sem hann forvitnazt; ok þvi at algior ast byrgir uti hræzluna, sem heilug ritning segir, þa geingr Antonius inn eigi at sidr, þott myrkt se, ath niosna, hvat þar væri tidinda, ok stillir fram sem hliodligazt, lætr allslægliga, dregr lagt ôndina, nemr stadar at ôdru hveriu, ok hlydizt um, ef hann mætti til nockurs heyra. Um sidir ser hann lios nockvat fram fyrir sig, ok þa er hann villdi skynda ferdinni, drepr hann vit fæti i stein einn, ok

1 Fra Jeronimo *Overskr.*

verdr af þvi hareysti nockut. Sa er þar byggir fyrir var ecki gestrisinn. I fyrstunni þegar er hann heyrir nockut hark, þa keyrir hann aptr hurd, þa er þar var fyrir idra hellinum, ok skytr fyrir loku, þvi at dyr hôfdu adr verit opnar. Þessi dreingr er þar bio var enn sæli Pall einsetumadr. Antonius kastar ser nidr fyrir dyrunum, ok þadan hlytr hann fyrir at mælazt allt til mids dags eda leingr, ok bidr ser inngongu svo mælandi vit þann er fyrir er: «Kunnikt er þer, hverr eda hvadan ek em, eda hvert er mitt erendi; veit ek, at ek em (o)makligr ath sia þitt andlit, þo mun ek eigi hedan fyrr ganga, en ek nae þik at sea. Þu er vit tekr dyronum, fyrir hvi rekr þu manninn fra þer? Ek leitada ok fann ek. Nu bid ek, ath mer se upp lokit. En ef ek fæ þat eigi, þa skal ek her deyia fyrir dyrum þinum, ok muntu þa verda at iarda lik mitt, þo at þu vilir eigi annat veita mer.» Slikt taladi Antonius ok let hvergi hefiaz fra dyrunum. Þa svaradi Paall: «Eingan veit ek svo bidia, at hann lati heitan fylgia, bidia med taarum en bioda ranginde. Wndrazt þu, at ek vil eigi vit þer taka, med þvi attu hefir þess erendis hingat farit at deyia her.» Þetta mællti hann brosandi ok lykr sidan upp dyronum.

6. [1] En er þeir finnaz, þa verda þeir badir fegnir, fadmar hvor annan med mikilli blidu, ok þo at hvorgi hefdi annan fyrr sed, þa heilsar þo hvortveggi odrum med eiginligu nafni ok gera gudi þackir, er þeira fund hefir saman borit; ok eptir þann helga koss setiaz þeir[2] nidr badir. Tekr Pall þa fyrri til orda ok segir svo: «Se her nu þann, er þu hefir leita farit med svo miklu starfi, se hversu ufagud hæra hylr þa limo, er funadir ero af ellinni. Se þann mann litr þu her, er skiott mun at molldu verda. En þvi at astin berr alla luti þolinmodliga, þa bid ek, attu segir mer, hversu mannkynit hefir sik i heiminum, eda hvort nockut hrellazt upp fornar borgir, eda hverir hofdingiar nu styra heiminum, eda hvort nockurir ero þeir enn uppi, er svo se villtir af fiandanum, ath þeir bloti skurdgodum.» Ok þa er þeir eiga slikt at ræda, sia þeir, ath hrafn einn settiz i trenu, er stod i biarginu uppi yfir þeim. Hann sitr litla hrid, ok þa er hann flygr upp, lætr hann falla or klom ser heilan braudleif nidr fyrir þa, þar er þeir sitia. Ok þa er hann var i brott floginn, mællti Pall: «Gud hefir sendan ockr dôgurd, sannliga er hann milldr, sannliga er hann miskunnsamr; svo hefir nu geingit sextigi vetra, at hvern dag hefir hann sent mer halfan hleif; en fyrir sakir þinnar tilkomu hefir Kristr

1 Fundr Pals ok Antonij *Overskr.* 2 þa *Cd.*

drottinn gefit halfu meiri fæzlu riddorum sinum.» Þeir giora nu gudi þackir, setiaz þeir nidr aa backann hia þeim fagra brunni, er var i hellinum. Ok þa gioriz þræta milli þeira eigi af odru efni en þvi, hvar fyrri skylldi briota hleifinn. Su þræta vanzt þeim allt naliga til aptans. Pall þottizt eiga ath rada hybylahattum, er hann var husboandi. Antonius sagdi enn ellra eiga ædra vera. Þat var þeira[1] raad wm sidir, ath þeir skylldu kippa i sundr hleifinum, ok hafva þat hvorr, sem þa helldi aa. Sidan er þeir voru mettir, leggiaz þeir nidr at brunninum ok drecka litid þat. Eigi var bonde svo rikr, at hann ætti nockut ker at drecka af. Eptir þat taka þeir at bidiaz fyrir ok hallda þa nott alla i guds lofe med bæn ok voku. Ok þa er lioss dagr var ordinn, mællti enn sæle Pall sva vit Antonium: «Fyrir longu vissa ek, brodir, ath þu biott her i þessum herodum, fyrir longu hafdi drottinn mer fyrirheitid minum samþræli. En þvi at nu er at hendi komin andlatztid min, ok þat er mik hefir langat til hveria stund fra annarre, at ondin skylldi skiliaz[2] vid likamann ok verda med Kristi ok taka þa ombon, er henni er fyrirbuin eptir lidit starf, þa ert þu sendr af gudi at iarda likam minn ok giallda aptr iordina iordunni.» Nu er Antonius heyrdi þessi tidindi or munni Pals, þa tekr hann at bidia gratandi, ath eigi skylldi skilia med þeim, ok Pall mætti þat af gudi þiggia, at Antonius nædi hans foronautr at vera til slikrar ferdar. En hann svaradi svo slikri eptirleitan: «Eigi skalltu, segir hann, leita þins snudar, helldr skalltu lita annarra naudsyn. Þat hæfir mer at leggia byrdi likamans ok fara til guds. En brædrum byriar ődrum ath vera enn samdir af dæmum lifs þins, ok fyrir þvi bid ek, attu sert mer eigi sorgmodr, far helldr ok sæk mőttul þann, er Athanasius byskup gaf þer, ok legg i þeim mőtli minn likama i iordina.» Enn sæli Pall bad þessa eigi af þvi, at hann hirdi miok um, hvort likami hans funadi hulidr edr nőktr, þar sem hann hafdi svo langar stundir eigi klæde haft, nema þau er hann hafdi gert af laufi þess vidar, er palma heitir ok þar hafdi vaxit i biarginu uppi yfir honum, helldr bad hann Antonium af þvi ferdar þessarrar ok fann slikt til erendis, ath hann hefdi þa minna harm en adr af hans framfőr, ath hann væri eigi vit staddr.

7. Antonius undradiz, er Pall hafdi nockut heyrt af Athanasio ok mautli hans; sem hann sæi sialfan Krist med Pali ok dyrkadi[3] drottin i hans briosti, þordi hann őngu at svara þadan af, helldr kysti hann ath eins augu hans ok hendr, geingr i brott

1 þetta *Cd.* 2 skyliaz *Cd.* 3 dyrkadr *Cd.*

uppreistr af dauda, edr þa er madr fordaz vodasamligan haska. Langt er þessa hluti alla ath tina, af þvi munum vær þat segia, er oss þicker agætazta vera, hvat Constantinus konungr gerdi til stormerkia.

9. Þann enn sama dag er Constantinus konungr for or hvitavodum, kastadi hann af skickiu sinni ok mældi sidan grundvǒll til kirkiugerdar. En sidan bar konungrinn i minningu ok i tǒlu .xii. postola .xii. byrdar a ǒxlum ser þangat, er kirkian var stofnut. En sidan for hann heim fagnandi til hallar sinnar ok ók i kerru med Silvestro pafa til hallarinnar. Annan dag eptir let konungr kirkiu reisa vit holl sina sialfa ok mællti svo vit hirdmenn sina: «Af þvi megu allir hyggia ok vita, at vær erum kristnir menn, er vær latum standa guds musteri vit hǒll vora, til þess at þangat komi med oss kristinn lydr at giora þar guddomi hans þackir.» En sidan er hann hafdi þetta mællt, þa let konungr setia þau lǒg, ef voladr madr nockur villdi kristinn vera, þa skylldi sa eignaz af konungs fe alklædnat ok .xx. skillinga, sa er hefdi inzsigli byskups; en þat var gert til þess, at eigi slægdiz otruir menn til þessa giafa ok segdiz kristnir, þeir er eigi væri kristnir. En svo mikill fioldi manna tok vit tru a þeim misserum, at .vij. þusundir kalla letu skiraz, en bǒrn ok konur umfram. En er hofdinginn hafdi þessa tru tekit, þa heimti Constantinus konungr saman alla olldunga ok rikismenn til þess, at eigi reiddiz þeir Silvestro pafa um sidaskipti, ok sat konungrinn aa stole ok mællti sidan vid allan lyd sinn: «Sundrþycki otruadra manna tekr af þvi eigi vid skynsamligu radi, at hun velltiz[1] i villuþoku ok ser eigi et sanna lios; upp er lukanda ok þa, sagdi hann, hugskotz augum, ok er aa þat vandliga litanda, at eigi mega god kallaz handaverk manna, helldr eru menn gud þeira, er þau giǒrdu. Ef nǒckvert þeira lestiz at nǒckvi, þa bæta mennerner þau af sinum hagleik; af þvi eru menn god þeira, sem ek sagda, at þeir giǒrdu þau, þa er þau voru eigi, ok bæta þeir þau, þa er þau lestazt. Þersi dæmi megi þer sialfir sia ok reyna aa mer, þviat gud mætti mik eigi endrbæta ok græda, ef hann væri eigi skapari minn; þviat allt reynizt þess guds skepna vera, er brotit bætir ok styrkir siukt ok upp reisir fallit, sva sem ǒll eru skurdgod manna smidi ok endrbætaz af manna fulltingi, ef þau brotna. Hafi villa sia enda, segir konungr, um sidir, ok rækium mer þann vanda, er ovitra bar en heimska fæddi, ok likium helldr eptir sidum Silvestri pafa.

1 eigi *tilf. Cd.*

Gôfgum vær einn gud, þann er sannr er um allar allder. Latum af vær at trua ok þiona þeim, er vær gôrdum[1] sialfer, en þeir mega oss eigi græda; bidium eigi þa vardveita oss, er vær verdum at vardveita. Hvat gôfgum vær vesaler menn nema stock edr steina edr malm. Allt hingat kôlludum vær aa daufa, at þeir heyrdi, ok aa blinda, at þeir sæi; en þat skulu nu aller vita, at vær latum af þessi villu at fulltingianda Kristi sialfum ok Silvestro pafva. En ef Romaborgar spekingar þickiaz eigi liugfroder, þa gôfgi þeir þann gud, er þa vardveitir, en eigi þann, er þeir vardveita. En at eigi giôriz ydr langt mal leidindi, segir konungr, þa munum vær bratt yfver lysa, hvat vær vilium bioda. Upp vilium luka kirkiu fyrir kristnum monnum, sva at byskup kristinna manna laga taki metnad þann, er blotmenn hafa fyrr hafdan; ok hefir (ek) til þess latid kirkiu gera vid holl mina, at allr Romaborgar lydr viti þat vist, at ek þiona Kristi sialfum sônnum gudi, sva at eingi ifi ennar fornu villu er eptir i hiarta minu.» En er Constantinus konungr endi sva sitt mal, þa giordiz romr alþydu at mali hans um allar .ii. stundir dags, ok mællto menn opt et sama: «Fariz þeir aller, er Kristi neita.» Þat er sagt, at Constantinus konungr let kirkiu gera þegar eptir skirnina ok let reisa gôfugligt musteri i Romaborg, ok var su kirkia helgud Johanne baptista med almattkum gudi. Su kirkia er sidan kôllud Constancia, er hann let fystr giôra, fyrir þær sakir tok hun nafn af hans nafni. Eptir þat let hann gera adra kirkiu til dyrdar helgum guds postolum Petro ok Paulo, en ena þridiu kirkiu (let) konungrinn giôra, þa er stendr uti a Puli, ok let helga þa kirkiu med sialfum gudi þeim helgum manni er Sosorianus het, ok er su kirkia kôllud Hierusalem, ok er sagt, at hann leti þar vardveita at þeiri kirkiu nôckurn hlut af krossi drottins vors. Enn let hann giôra ena fiordu kirkiu til dyrdar enni helgu meyiu Agnete. Þessa kirkiu let hann giôra at bæn dottur sinnar, þeirar er Constancia er nefnd. Sia kirkia var gior eptir skirn dottur hans ok i þeim enum sama stad, sem hon var skird. En ena .v. kirkiu let hann giôra til dyrdar enum sæla Laurencio ok aa gôtu þeiri, er Tiburtina heitir, ok stendr hun aa akri þeim, er Veranus heitir, ok let hann helga þessa kirkiu guds pislarvottum Petro ok Marcelliano. Enn let hann giôra ena settu kirkiu, su kirkia stendr aa gôtu þeiri, er Lavikana heitir, ok let helga þessa kirkiu morgum helgum monnum. Giôra let konungr enn ena siaundu kirkiu, hun stendr i

1 gôfgum *Cd.*

borg þeiri, er heitir Hostia, sia borg stendr vid Romaborgar hlid. Þessa kirkiu helgadi hann guds postolum Petro ok Paulo ok einkum Johanne baptista.

10. «Saa er Krist gôfgar mun aavallt sigr hafa; reki aa brott blotmenn or borgum, en luki upp kirkium ôllum; þeir er enn blota, se þeir aa daga brott reknir.» En er alþydan hafdi þetta allt mællt ok opt et sama, þa bad konungr ser hliods i annat sinn ok mællti vid allan lyd: «Su er grein aa milli gudligrar þionustu ok mannligrar, at mannlig þionusta er aanaudig, en guds þionusta er sialfrad; af þvi skal guds þionusta sialfrad vera, at menn skulu gôfga hann med hreinum hugh. I þvi er vist, at hann er gud, er hann reiddiz eigi um sva margar allder ne fyrirfor þeim, er honum hôfnudu, helldr syndi hann sik milldan ok miskunnsaman þeim, er aa hann trudu, ok fyrirgaf þeim synder ok veitti heilsu ôndum þeira ok likômum. Af þvi viti allir menn vist, at eingi madr skal naudigr kristinn vera, helldr sialfradi at sinum vilia, þviat eingum manni byriar fyrir manna hræzlu at koma til gôfganar guds, helldr skal hverr bidia med skynsamligum athuga þa, er kristnum lôgum þiona, at þeir leidi hann i tôlu truadra; sva sem synd er at neita skirn þeim, er bidia, sva synizt mer ok omakligt at gefa þeim skirn, er eigi bidia. En ôngvir þurfu at ugga, at aa braut verdi reknir fra vorri vinattu, þott eigi vili kristnir vera, þviat eigi skiptiz hugr vor vid vini vora, þott vær hafim adra tru en þeir; en þat ma at likendum rada, at þeir munu oss tidaztir verda i vinattu, er sialfkrafa vilia koma til kristinna laga.» En er Constantinus konungr lauk eyrindi sinu, þa lofadi allr lydr kristinn ok heidinn þessi lôg, er Constantinus konungr hafdi sett, ok æsktu allir konungi lifs ok heilsu. Allir fôgnudu þvi, er þau log voru gefin, er eingan mann neyddi til sannrar tru ok eingan mann rak aa braut fra sinni tru. En er Constantinus konungr for heim til hallar sinnar, þa for aa mot honum allr borgarlydr med liosi ok allri vegs þionustu. Fôgnudr gerdiz allri kristni, ok dyrkuduz allar kirkiur ok helger domar; allir Kriz iaterar, þeir er i haskum ok utlegdum hôfdu verit, hurfu aptr medr dyrd ok veg til fostriarda sinna ok giôrduz vinir Constantini konungs. Lida latum vær marga hluti usagda, þa er giorduz til frasagnar, þviat vær skundum enn til agiætari atburda.

11. Helena drottning modir Constantini konungs var austr i londum med tveimr sonarsonum sinum, annar þeira het Constans en annar Constancius. En hun var i sveit Gydinga, ok mundi

hun Gydinga tru (hafa), nema son hennar Constantinus konungr kalladi hana fra villu ok til rettrar tru. En er hun fra þessi tidindi, at konungrinn hafdi sidaskipti giôrt ok son hennar var kristenn vordinn, þa sendi hun syni sinum rit a þessa lund: Helena drottning sendir (kvediu) Constantino syni sinum. Vitr hugr hneckir eigi sônnu, ok hefvir rett trua alldregi skada. Guds miskunn eignum mer þat, er þu nadir at fyrirlata skurdgod, en vær kennum mannligri villu þat, er þu villdir trua Jesum Nazarenum gud vera ok ætla þann guds son ꜳ himni, er Gydingr var at kyni ok rægdr[1] fyrir fiôlkyngi ok krossfestr med þiofum. En þat skalltu vita, at eingi er ônnur gata til ens sanna lios nema trua Gydinga, þeira er guds lôg hafa. En af þvi er þer heilsa gefin af gudi, at þu giordir fystr enda a blotum skurdgoda ok reyndir, at þeir megu eigi gud kallazt ne truazt, er likneski eru vondra manna or malmi gior, ok hafa eigi ônd edr skilning. En sannr gud syndi oss, at þau eru eigi sônn gud, er vær ræddumz at þarfleysu ok hugdum oss mega heilsu veita, ef þau væri oss holl, en ꜳ braut taka, ef þau reiddizt. Af þvi giôrdi gud enda ꜳ þessi villu ok tok ꜳ braut haska ok (veitti) lif ok heilsu af himne. En er þu gôfgar hann, þa muntu eignaz velldi slikt, sem hafdi David, ok speki slika, sem hafdi Salamon, ok med þer mun(u) vera spamenn þeir, er gud mælir vid, ok muntu geta af gudi þa hluti, er þu bidr hann. Lif heill þu konungr, enn kærsti son, ok þroazt i ollum farsælligum lutum. En sidan er Constantinus las rit þetta, þa sendi hann annat rit i moti ꜳ þersa lund: Constantinus konungr sendir kvediu Helenu drottningu modur sinni. Sa er verôlldu styrir ok ôllum heims nytium rædr, þeim er vær lifum vid, ok hann lifgar ok sialfr fyrir sik allt þat er lifvir, ok hann gefr þrælum sinum lôg fyrir briosti hôfdingia. En þvi audsærri verdum vær ôllum, sem vær hôfum hærra stad medal manna. Af þvi skal allt þat satt vera, er vær vilium, ok þat rangt, er vær vilium eigi, at allir nemi retta hluti af vorum verkum. En sialf villa vor vottar þat, at gud er umframm um skilning vora, þar er vær hugdum þat gud vera, er vær letum sialfir giôra. Endiz mannlig dirfd ok þa med þeiri skynsemi, at saman komi ꜳ eitt mot kennimenn Gydinga ok kristinna laga, ok sanni hvorir sina tru med vitni heilagra boka fyrir oss, er hia munum vera, sva at vær megim vita et sanna ok leida verôlld alla med oss til sannra laga.

1 rægtr *Cd*; magus accusatus *lat.*

Lif heil þu moder, ok eflzt i godum hlutum med tveimr sonum minum vaxôndum[1].

12. En er rit þetta kom til handa Helenu drottningu, er Constantinus konungr sendi henne, þa red hun þat rit, ok þa er drottningin hafdi ritid radit, þaa let hun saman safna ôllum yfirgydingum ok spekingum þeira ok kennimonnum[2] til þers at velia ena malsniolluztu menn, þa er fara skylldu med henne til Romaborgar, ok sagdi hun þeim, at þeir skylldi þræta um sônnun tru sinnar vid kristna menn, ok eigi mætti konungr vita sônn log, nema adrer stigi yfer adra i sinni tru edr mals sônnun. A þeiri tid var yfverbyskup Gydinga sa er Isachar het, en hann braz siukr, er hann fra þessi tiþindi, ok taldiz hann undan forinni sialfr, en hann sendi af sinni hendi þa .xii. spekinga, þa er makligir þottu vera til þessar þrætu, þviat þeir kunnu vel bædi girzska tungu ok ebreska. Þa giôrdiz kennimanna fundr mikill i Romaborg; þangat kvomu .vi. byskupar ens atta tigar, en .ix. ok .c. kennemanna Gydinga fyrir utan þa .xii. kappa, er Isachar hafdi senda. Constantinus konungr kom þangat, ok allir ôlldungar Romaborgar ok Helena drottning med sveit sinni. En þeir voru domendr teknir aa þessu enu fiôlmenna þingi, er hvorki voru kristnir ne Gydingar, af þvi sva, at eigi halladiz þeir eptir sinni tru i domi.

13. Spekingr nôckurr var til domanda tekinn, sa het Krathon, hann var vel lærdr bædi a girzsku ok latinu. En hann var sva ofegiarn madr, at þat[3] matti eigi fyrir honum umtelia, at hann þægi giôf at manni. Alldri virdi hann konungs tign i domi edr nôckurs rikismanz velldi, vinr var hann hôfdingium, en þo villdi hann ecki iardligt hafa sialfr; en þott hann hefdi eigi aura med hôndum edr femuni, þa sagdi hann þo sitt eigin vera allt þat, er hann sa fagrt; en hann kvad audkyfinga vardveita þat med mikilli ahyggiu, er hann kvez betr niota en þeir ok bera einga ahyggiu fyrir. Sva var hann vanr at mæla: Ef audgir menn beri aa sik gull edr silfr ok dyrlig klædi, til þers at þeir synizt þa alþydu betr en adr, þa þiona þeir med allri fegrd sinni þeira augum, er audæfum hafna, en þeir gremia þa at ser, er audæfanna girnazt, af þvi at eigi giorir ast[4] audæfanna manninn audgan, helldr hôfnun audæfa, fyrir þvi at saa dugir vinum sinum ok svikr eigi fe af (o)vinum sinum, ok þickizt allt eptir ærit eiga. Þetta atkvædi Kratons spekings var ôllum spôkum mônnum ok godgiôrnum vel at skapi. Annar madr var til domanda tekinn, sa

1 vexôndum *Cd.* 2 kennimenn *Cd.* 3 hann *Cd.* 4 oss *Cd.*

het Zenophilus, sa hafdi greifi verit, ok var fyrir þær sakir hellz til þersa velldis tekinn, at hann þotti allra manna ofegiarnaztr vera, þeira er þo hefdi opt mikil audæfi med hôndum; alldregi kvad hann rettlatan mega vera þann mann, er med nôckurum atburd villdi fegiafir þiggia af ôdrum. Þersara tveggia þegna atkvædi var ôllum spôkum mônnum sva hugþeckt, at fyrir lôg var haft allt, þat er þeir dæmdu, ok ifudu ôngvir um þat, er þeir dæmdu. Af þvi voru þessir teknir tveir domendr af hendi konungs ok drottningar a milli Gydinga ok kristinna manna, at þat var af radi allz stormennis ok alþydu.

14. En sidan er allir voru komnir til motz med konungi ok drottningu, þeir er þeira flock fylldu, þa var hliods bedit, ok tok Constantinus konungr til mals ok mællti a þessa lund: «A þessu moti er þeira hluta leitanda, at eigi at eins eru þeim naudsynligir til heilsu, er nu lifa i heimi, helldr ok þeim, er okomnir eru i heiminn, þviat speki drottningar modur minnar berr ahyggiu fyrir þurft allz heims; en hun vill Gydinga tru fylgia, nema annat reyniz sannara a þessu þingi, en allr lydr veit þat, at ek em kristinn. Af þvi samir ockr badum at sitia ok lyda þvi, er mællt er, ok virda ôll mal rettri virdingu ok veita i hugskotz vitni lof skynsamligum malum en fyrirlita oskynsamligar þrætur. Siti sa, er ser lætr þessi laug lika, ok lydi þvi, er dæmt er um tru ens himneska konungs almattigs guds, ok tęi vel sônnu en hnecki lognu. En þeir er med þessum athuga koma til sannrar tru, munu oss verda þeckir, ok munu þeir finna heilsu anda sinna.» En er hann hafdi þetta mællt, þa romadi allr lydr mal hans ok taldi ser þat þo vel lika.

15. En er hliod giôrdizt, þa tok Kraton spekingr til orda ok mællti: «Hlydi þer mer, allir lydir, er a þessu þingi eru! Skamt mal mun ek mæla, segir hann. Til þeira hluta allra, er her giôrazt, hefir konungr mik settan domanda ok annan Zenophilum gôfgan mann ok agiætan. Constantinus konungr leggr ast a kristin lôg, ok er hann hlifskiolldr þeirar tru, en hann villdi af þvi eigi domandi vera, at hann setti sialfr þau lôg, ath eingi skylldi bædi veria sôk ok dæma um. En en milldazta drottning moder konungs fulltingir Gydinga logum. Miklir eru fylgendr hvorstveggia mals, þar er af tiginna manna trausti eflazt hvorirtveggiu, þeir er til þessar þrætu (eru) bunir. En þat skulu þer allir vita, at vid domendr erum eigi kristnir ok eigi Gydingar, helldr elskum vid speki ok rettlæti, ok vilium vid helldr deyia en tyna rettlæti.

Allra þurft er her mællt, ok skulu af þvi allir hliodir vera, at allir skili, hvat her er mællt edr dæmt.» En er Kraton hafdi lokit sinu male, þa mællti Zenophilus: «Sva hefir Kraton mællt, sem hann hafi minum munni; en ek vil þess spyria, hverir skulu i moti mæla þessu, at eigi taki hverr (m)adr fyrir munn ôdrum mal at mæla; einum lofum vær senn at mæla, en ôdrum at andsvara einum senn, er hinn þagnar, er adr hefer mællt; en ef sva verdr gert, þa vitu allir vist, hvat hvergi mælir, ok allra visazt, hvat domendr dæma.» Allir letu ser vel lika þat, er domendr mællto.

16. Sidan voru taldir ok nefndir þeir, er til þrætunnar voru bunir. Tolf[1] kappar Gydinga voru fystir taldir, þeir er Isachar hafdi af sinni hendi senda. Fyst voru taldir þeir Abiathar ok Jonas lærifedr þeira; sidan voru taldir Godolias ok Aunan, þeir voru ritarar þeira; þa voru taldir þeir Doek ok Kusi[2], þeir voru lôgspekingar (þeira); þa voru taldir þeir Beniamin ok Aroel, þeir voru tulkar þeira; þa voru taldir þeir Jubal ok Thara, þeir voru lôgsôgumenn þeira; sidaz voru taldir þeir Seleon ok Jambri, þeir voru prestar þeira. En sia Jambri var fiôlkunnigr, at þvi er reyndizt sidan, en þvi var leynt, ok var Gydingum mikit traust at honum. En nu eru taldir þeir .xij. kappar, er af Gydinga hendi voru. En af kristinna manna hendi var taldr fystr Silvester pafe, en þa annarr prestr, sa er Romanus het, Maximus diakn enn þridi, Tullianus het enn .iiij. sidsamr madr ok gôfugr. En er þessir voru nefndir, þa var spurt, hvi eigi skylldi nefna fleiri[3], unz væri .xij. i moti .xij. Silvester svaradi: «Eigi treystumz vær i fiôlda manna, helldr i mætti guds ok tôlu fiugurra gudzspiallamanna. Kristr er ærinn einn, ok kôllum vær a hann af ollu hiarta ok mælum sva: «Ris upp þu drottinn (ok dæm) um sôc þina[4].»

17. Sidan tok Abiathar til mals lærifadir Gydinga ok hof þessa kostar sitt mal: «Vor propheta sông þetta i salmi einum: taktu dæmi af þinum bokum, segir hann, en eigi af vorum bokum, ef þu villt þitt mal sanna.» Silvester svaradi: «Oll vitni mun ek af ydrum bokum taka i dag i gegn ydr, sva sem þer skulut taka af vorum bokum i gegn oss, ef þer megit sialfer.» Sidan mællti domandi: «Makliga ok skynsamliga er þat fundit, at sialfr verdi yfirstiginn af sinum bokum sa, er upp hefr þrætuna.» Abiathar svaradi ok mællti: «Þat er upp(haf) mals mins, at vær truum a einn gud, en sia Silvester veit ecki i lôgum hans, er þria goda gôfgar, ok veit hann eigi, hvat hann skal mæla, sem sa vissi eigi,

1 *rettet;* .xix[an]. *Cd.* 2 *saal. senere Cd., her* Esui. 3 fleira *Cd.* 4 sina *Cd.*

er sialfr gud sagdiz ok var af þvi krossfestr af fedrum vorum, ok mun Silvester eigi dylia, at hann hafi daudr verit ok grafinn; en þvi eykr hann, at hann hafi upp risit af dauda aa þridia degi ok stigit upp til himna. Nu eru þar tveir godar, fader ok sonr, ok enn helgi andi enn þridi, er postolar ens krossfesta segia ser hafa vitrazt. En gud vor mælir sva i lôgum vorum: siai þer, at ek em einn gud ok eingi er annar gud.» Zenophilus mællti: «Ef gud hefir þetta mællt, segir hann, þa verdr Silvester skylldr at sanna sik aa einn gud trua en eigi .iij.» Silvester svaradi ok mællti: «Sia rôdd guds er i gegn otru Gydinga, þeira er dulduz vid gud, þa er þeir sa hann ok heyrdu ord hans ok reyndu krapt hans, þa er hann gaf daudum lif, þviat sva mællto flester spamenn Gydinga: sa er gud vor, er upp reiser dauda menn. Gud vissi fyrir otru Gydinga ok mællti sva: se þer at ek em einn gud, ok eingi er annar gud; ek mun vega, ek mun lifga, ek mun beria ok græda.» Abiathar svaradi ok mællti: «Rannsakadu gudzspiall þitt ok [1] syn oss, ef Kristr hefir nôckurn veginn [2], þvi at rôdd guds vors mællti sva: Ek mun vega ok lifga.» Kraton domandi tok til orda ok mællti: «Ef Kristr reisti [upp dauda menn [3], þa er synt, at hann matti rada dauda [þess, er adr lifdi [4], þviat dyr megu lifanda manni bana, ok margr annar vodi, sa er monnum giôrir [5] geig, en gud einn ma daudum lif gefa.» Abiathar svaradi ok mællti: «Margir gerdu slikar iarteinir i lôgum vorum; þeir gengu þurrum fotum um sio ok stodvôdu sol ok tungl, ok þeir letu falla elld af himni yfvir ovini sina, ok þeir gafu daudum lif; ok kalladiz eingi þeira gud, þott slikar iarteinir gerdi, nema Jesus sia, er Silvester pafi kallar Krist guds son.» [Þa svaraði Silvester [6]: «Þvi mattu eigi i gegn [7] mæla, at Jesus gaf lif dottur hôfdingia ydvars, ok reisti hann upp af dauda einga son eckiu, er til grafar var borinn, ok gaf lif Lazaro, er .iiii. daga [var daudr i grôf ok fôlnadr(!) i iôrdu [8]. Lyg ek, ef Josippus [9] sagnamadr ydar hefir eigi þetta sagt fra honum.» Abiathar mællti: «Sagda ek adr, kvad hann, at margir giôrdu slikar iarteinir fyrr, ok tôlduz þeir vera þrælar guds, en sia [10] sagdiz gud sialfr vera.» Silvester mællti: «Mantu þat sagt, Abiathar, i bokum þinum [11], at þeir Dathan ok Okoreb [12] ok Abiron drômbudu i gegn Moysen, ok opnadiz iôrd undir þeim.»

1 *Her begynder Fragment 23⁸⁸ folio.* 2 vegit *Fr.* 3 [ menn af dauða *Fr.* 4 [ þeim sem hann villdi, sem aðr lifði *Fr.* 5 mein ok *tif. Fr.* 6 [ *tilf. Fr.* 7 mot *Fr.* 8 [ hafði i grôf fulnat *Fr.* 9 Josephus *Fr.* 10 þessi *Fr.* 11 yðrum *Fr.* 12 Çhoreb *Fr.*

Abiathar [svaradi: «Man ek þat.» Silvester spurdi enn: «Mantu þat sagt[1], at Saul konungr var selldr ohreinum anda fyrir ofmetnad?» [Abiathar svaradi: «Sagt var þat[2].» Silvester mællti enn: «Ef þat er sagt[3], en allra hellz [þvi at[4] satt er, þa liti domendr aa þat, ef Jesus [sia er[5] gaf blindum syn en daufum heyrn ok rak diôfla fra odum mônnum, ok geck þurrum fotum um sia, ok stôdvadi hridir ok vinda, ok gaf daudum lif, [ok sanni þeir þat[5], hvort hann mætti liuga þat, at hann væri guds son, þar er gud let alldri vitislaust undan ganga ofmetnadarmenn; en sia[6] Jesus sagdi sik gud vera ok sannadi þat iarteinum ok mællti sva vid Gydinga: Ef er truid eigi ordum minum, [truid þa iarteinum[7].» En er Silvester lauk mali sinu, þa mællto domendr þeir Kraton ok Zenophilus: «Yfver er stiginn Abiathar af Silvestro, ef þat er vist, at gud Gydinga hefir avallt stadit [fyrr i gegn[8] ofmetnadarmônnum, ok ef sia Jesus segdiz gud vera, ok [væri hann eigi gud[9], þa mætti hann eigi [reisa menn af dauda[10], helldr væri hann sialfr dauda verdr.»

18. En þa geck [Jonas fram a motit[11] ok mællti: «Upphaf mals mins mun hefiaz af Abraham fedr vorum. Vinr guds var hann kalladr, ok kyn hans allt er heilagt. Þa er gud skipti þiodum ok endimôrkum þeira, þa vard guds hlutr yfir [kyni Jacobs, þess er var sonarson[12] Abrahams. Lyg ek, kvad Jonas, ef Silvester ma dylia, at sva se[13] ritid.» Silvester svaradi: «Eigi dylium vær, at sva er, en [þeygi vitum vær, til hvers þu færir þat vitni fram[14].» Jonas svaradi ok mællti: «[Þvi at umskurningarskirn[15] helgar alla þa, er a gud trua, [fyrir þvi at eingum[16] var lofat i lôgum vorum at samteingiazt vorri sveit, nema hann tæki adr umskurdarskirn[17].» Silvester svaradi: «Rett mællt væri þetta, ef engi[18] hefdi rettlatr verit[19] án skurdarskirn. Abel likadi fyrstr gudi vel, ok var hann enn rettlatazti, en sidan var enn helgazti madr Enoch, ok segia bækr, at hann [hafi verit uppnuminn[20] fra daudligum mônnum. Noe var rettlatr madr, ok mællti gud sva vid hann: Þik fann ek rettlataztan mann fyrir mer i

1 [ lezt þat muna. «Mantu þat, sagði Silv. *Fr.* 2 [ Ok hann kveðz þat vist muna *Fr.* 3 satt *Fr.* 4 [ ef *Fr.* 5 [ *mgl.* *Fr.* 6 *mgl.* *Fr.* 7 [ þa trui þer verkum *Fr.* 8 [ i moti *Fr.* 9 [ lygi hann þat *Fr.* 10 [ lif gefa dauþum *Fr.* 11 [ fram Jonas aa mot Silvestro *Fr.* 12 [ Jacob sonarsyni *Fr.* 13 er *Fr.* 14 [ þo vitum ver eigi, hvar þu vill, at þetta mal komi til *Fr.* 15 [ þess at skurþarskirn *Fr.* 16 [ ok ôngum *Fr.* 17 skurðarskirn *Fr.* 18 *saal.* *Fr*; ek *Cd* 19 ok guði likat *tilf.* *Fr.* 20 [ var kominn *Fr.*

þessu kyni. Sem ok Japhet synir hans voru rettlatir at vitni blezunar guds sialfs. Lygr þu, Jonas, ef þu dylr [1], at þessir allir hafi [gudi likat [2] an skurdarskirn.» Þa svaradi Jonas: «Minztu þess, er ek sagda, at Abraham var upphaf mals mins, þers er ek vil [3] syna, at eingi ma gudi lika án skurdarskirn.» Silvester svaradi: «Af þvi nefnda ek ena fyrri fedr, at [ek villda vita, hvort þu segdir, at sa væri [4] enn sami gud, er þeir elskudu, ok sa er Abraham elskadi.» [Jonas svaradi: «Sa enn sami [5].» Silvester spurdi Jonas a þa leid: «Hvort likudu þessir gudi vel fyrir skurdarskirn eda fyrir rettlæti?» Jonas [svaradi: «Fyrir rettlæti.» Silvester spyrr enn: «Hvort gerdiz rettlæti þeira gudi þægt med godum verkum þeira eda af tru þeiri, er þeir trudu (a) gud?» Jonas [6] svaradi: «Eigi mattu þeir kallazt rettlætir, nema þeir [trudu aa gud [7].» Silvester spurdi Jonas: «Hvenær likadi Abraham gudi, ok letz gud vera med honum, edr hvenær bardi gud lid Abimelecs konungs fyrir hans saker, ok var mællt vid konung, at hann skylldi eigi granda spamanni guds, helldr bidia Abraham, at hann bædi fyrir honum, at a braut hyrfi bardagi guds fra husi konungs? Segdu, hvenær Abraham sa .iii. eingla, ok gôfgadi hann einn gud i þrenningu, ok trudi hann þvi, at hann mundi son geta i elli sinni, sem gud hafdi honum fyrir sagt, ok var hann kalladr vinr guds. Segdu, hvenær hann var pryddr þessum hlutum ôllum, hvort hafdi hann þa umskurdarskirn edr eigi?» Jonas [svaradi: «Um skurdarskirn ræddi ek vid þik, þa er gud gaf kyni Gydinga til sônnunar vitnis.» Silvester svaradi ok mællti: «Svaradu þvi fyrst, er þu ert spurdr, ok skrid eigi undan sva sem hrockvis hôggormr: Abraham sagdir þu vera upp(haf) mals þins. Segdu nu þa, hvenær Abraham var þessum hlutum ollum skryddr ok var kalladr vinr guds, edr hvort hafdi hann þa tekit skurdarskirn edr eigi?» Jonas [6] svaradi: «Eigi hafdi hann þa tekit [8].» Silvester mællti: «Trua giôrdi hann þa vin guds.» Jonas spurdi: «Til hvers var gudi at bioda vinum sinum skurdarskirn, ef þat trumark [9] var eigi naudsynligt til heilagleiks?» Silvester svaradi «Gud vissi fyrir, at kyn Gydinga munde vida dreifaz ok fyrirfaraz, ok gaf hann [af þvi þat mark aa likami þeira [10], at allir kynsmenn hans [11] syndi i þvi marki fodur sinn Abraham gudi hafa likat

1 þess *tilf. Fr.* 2 [ rettlatir verit *Fr.* 3 þer *tilf. Fr.* 4 [ þu segþir, hvart sa er *Fr.* 5 [ Hann sannaði þat *Fr.* 6 [ *mgl. Fr.* 7 [ elskaði guð ok tryði aa hann *Fr.* 8 skurþarskirn *Fr.* 9 *mgl. Fr* 10 [ þeim af þvi þat mark a likômum sinum til þess *Fr.* 11 Abrahe *Fr.*

fyrir tru ok rettlæti.» Þeir Kraton ok Zenophilus [toku til mals[1]: «Trua ok rettlæti ma meira en skurdarskirn, sǫgdu þeir, ef Abraham likadi gudi helldr fyrir tru ok rettlæti en fyrir skurdarskirn, ok er Jonas yfirstiginn af Silvestro, ef hann hefir eigi annat at svara fyrir sik.»

19. En þa geck fram Godolias [ritare Gydinga[2] ok mællti: «Undrumzt ek þat, [er kynsmaðr heiðinnar þioþar þorir at klanda nǫckut[3] i lǫgum vorum, fyrir þvi at hvort sem hann[4] segir Abraham likat hafa gudi fyrir tru ok rettlæti edr fyrir skurdarskirn, þa er oss einum ok voru kyni [hans trua heimilld af gudi sva sem erfd[5].» Silvester svaradi: «Lat af þu at kalla tru Abrahams ok rettlæti ydra erfd at eins, þviat þu hefir lesit þat, er gud mællti vid Abraham, at i hans kyni mundi allar þioder arf[6] taka. En nu skyri domendr, hvort helldr er, at gud hefver satt sagt, en þu logit, eda [mun gud logit hafa, en þu matt nǫckut sannara segia[7].» En þeir Kraton ok Zenophilus domendr sǫgdu: «Godolias hefer sik vist mællt i þaul, ef gud mællti þat vid Abraham, at i hans kyni mundi allar þiodir arf taka, ok efnir gud heit sitt, þat er hann het, en Godolias gydingr er yfvirstiginn.»

20. En þa geck Aunan fram riteri þeira Gydinganna enn fiordi ok mællti: «Se ek þat, sagdi hann, at domendr þessir dæma eigi iafnt med oss, er þeir hafa otallig vitni [i gegn oss[8]. Ok ef vær verdum at einu mali felldir fra, þa er oss eigi lofat at taka onnur dæmi nalægri[9] af bokum vorum at biarga mali voru.» Domendr svǫrudu Aunan: «Þer hefit[10] oll mal fyrri upp. En sa [er þat mal tekr upp, er eyðiz, hann verðr yfirstiginn; en ef mal hans[11] verdr eigi eytt, þa ma hann sanna sitt mal med mǫrgum þusundum orda. Af þvi skal hverr fyrir siazt, [adr hann verdi[12] byrgdr, þvi at hann hefvir eigi rum at renna, ef hann verdr byrgdr adr. Domandi verdr sekr ok rekinn af sæti sinu, ef hann [helldr eigi rettlæti i domi; en þat er rettlætisdomr at lofa þat, er lofanda er, en fyrirdæma þat, er[13] lastanda er. Nu af þvi [finn þu[14] sonnur a þinu mali, [til þess at þu faer adra rettlata domendr[15];

1 [ domendr mællto *Fr.* 2 [ enn .iiidi. *Fr.* 3 [ *saal Fr*; hvi heidinnar þioder kynsmanz þorer at blanda *Cd.* 4 Silvester *Fr.* 5 [ trua Abrahams heimil sva sem erfð af guði *Fr.* 6 erfd *Fr.* 7 [ hefir guð logit, en þu mættir nockut sannara segia en hann *Fr.* 8 [ at sanna sitt mal, sem i gegn oss ero *Fr.* 9 nalęg *Fr.* 10 *saal Fr*; hafit *Cd.* 11 [ *saal. Fr*; en sa verdr yfirstiginn, er þat mal fyrri upp er eydizt, en ef þat *Cd.* 12 [ at eigi verði hann *Fr.* 13 [ dęmir þat rett, sem *Fr.* 14 [ *saal. Fr*; þa fijndu ok *Cd.* 15 [ ok fa aðra domendr, ef þu matt *Fr.*

en ef þu matt eigi onyta þessa, þa er rett, at þu latir ordalaust.» Aunan spurdi: «Hver sôk var til þess, at Abraham tæki skurdarskirn i marki tru sinnar?» Silvester svaradi: «Þat var til þess, at gudi er rækt a hreinlifi manna, sva sem hann mællti fyrir spamann sinn einn: Taki þer skurdarskirn hiarta ydvars. Gud leitaði[1] hreinlifis hugar, en þat mattu Gydingar eigi skilia, ok ætludu Gydingar, at skurdarskirn [mætti vinna[2] heilagleik, þar er heilagleikr hofz eigi af skurdarskirn, helldr hofz skurdarskirn af heilagleik.» En þa tok Kraton til mals: «Wita vilium vær, til hvers Aunan gydingr [færdi fram þessa spurning, eda hvort vær skulum Krist gud trua[3]?» Aunan spurdi: «Hvi gegnir þat, er lærisveinar Kristz lasta[4] skurdarskirn, þar er lærifadir þeira tok þa skirn sialfr?» Silvester svaradi: «Minztu þess nu, er ek sagda þer aðan[5], at gud mællti fyrir spamenn: Snidi þer hiôrtu ydur helldr en likami ydra, sva sem hann mællti þetta: Særi þer eigi ydr med iarni, helldr vardveiti þer hreinlifi i hiarta ydru.» Aunan svaradi: «Fyrir hvi tok [eigi Kristr ydar hiartaskirnina, en hann tok skurdarskirnina[6], eda þa er hann [tok skurdarskirn[7] sialfr, fyrir hvi bannadi hann hana lærisveinum sinum?» Silvester svaradi: «Þat var rett, at skurdarskirn helldiz [til þess unzt[8] Kristr var borinn, sa er allar þioder leidretti fyrir tru en eigi fyrir skurdarskirn. En Kristr giôrdi enda aa likamligri skurdarskirn, en hann hof andliga skirn hiartans, þa er fyrir var heitin allri þiodu[9] til syndalausnar.» Aunan mællti: «Illa litz mer þat giôrt, [at þa er Kristr tok skurdarskirn, at þa skylldi hon þegar onytaz[10].» Silvester svaradi: «Þeir giôra illa, er siþan[11] taka skurdarskirn, [sizt Kristr endi hana, sva sem fyrir var heitid[12] Abrahe, en sidan er fyrirheit guds fylldizt, þa endizt[13] skurdarskirn, ok tok þa upp ath hefiazt vatzskirn.» Kraton tok til orda ok mællti: «Ef þvi var heitid af gudi, er i Kristi fylldiz, þa er Aunan yfirstiginn, en annar gangi fram til þrætu, sa er [skynsamligu mali[14] spyri þers, er greid svôr liggi til, ok leiti eigi annars mals at ôdru, ef visse skynsemi verdr svarat um sinn.»

1 *saal. Fr*; heradi *Cd.* 2 [ mundi gefa þeim *Fr.* 3 [ spurdi þessa eða sva, hvart ver skulum aa Krist trua eða eigi *Fr.* 4 *saal. Fr*; fala *Cd.* 5 *saal. Fr*; adur *Cd.* 6 [ Kristr yðvarr eigi hiartaskirn, at eins, en eigi skurþarskirn *Fr.* 7 [ *saal Fr*; taldi skirnina *Cd.* 8 [ þar til er *Fr.* 9 þiod *Fr.* 10 [ er Kristr tok skurðarskirn, til þess at hon skylldi þa þegar onytt auðrum, er hann var skirðr þeiri skirn *Fr.* 11 *saal Fr*; sidr *Cd.* 12 [ er Kristr villdi hana lykta, þa er fyrir var heitin *Fr.* 13 lyktaðiz *Fr.* 14 [ skynsamligs mals *Fr.*

21. En þa [stendr Doek[1] upp ok mællti: «Ef Kristr er[2] sannr gud or kyni Davids, þa mundi hann ok einn heilagr vera; en hver þörf var honum þa at lata skirazt?» Silvester svaradi: «Sva sem skurdarskirn endiz fyrir skurdarskirn Kristz, sva hofzt ok helgadiz vatzskirn fyrir skirn Kristz. Eigi helgadiz hann af skirnarvatninu, helldr helgadi hann vatnit, þviat i skirn hans opnadiz himinn yfir honum, ok kom heilagr andi yfvir hann af himni, ok veitti Jesus Kristr þvi þann krapt votnunum[3], til þers at þau þægi sva ok reinsadi allar andir af syndum, sem þau reinsa likami af sauri, ok tæki allir helgan anda fyrir skirn i skirnarbrunninum, þeir er trua a guds son.» Zenophilus domandi mællti: «Gnogri skynsemi litz mer svarat þessi spurning, en Doek gydingr leiti ser annarrar spurningar, ef honum syniz vanspurt.»

22. Þa geck fram Kusi, enn .vi. kappi þeira Gydinga, ok mællti: «Gud er algiörr ok einskis þurfi, til hvers var honum ath berazt hingat i heim?» Silvester svaradi: «At sa er getinn var af fedr fyrir alldir ok giördi alla hluti, þa er eigi voru adr, þat er himinn ok iörd ok allr buningr þeira.» Kusi mællti: «Segir þu, at sonr guds giördi himin ok iörd?» Silvester svaradi: «Hvat ætlar þu son guds vera?» Kusi mællti: «Þat skalltu segia, er a gud truir.» Silvester svaradi: «Vær truum son guds vera ord fedr, en fyrir þvi attu geriz nu lærisveinn kristinna manna, en adr vartu Gydingr edr höfdingi Gydinga, þa hlydtu þvi er mællt er, ordi guds eru himnar festir. Enn mællti annar spamadr: ord guds er styrkt ok mattugt, i þess krapti er iörd sköput, ok himinn med liosum sinum, ok sær i stödu sinni.» Kusi mællti: «Medr hverri skynsemi sannardu ord þetta son guds vera?» Silvester svaradi: «Sialfr fadir [sannar þat[4], er hann gat son þann, er ord guds er, þa er hann mællte sva: med þer er upphaf a degi krapz þins i liosi heilagra, fyrir tidir gat ek þik. En sva mikill er mattr almattigs guds födur, at ord reynis ok truizt son hans vera, ef framm ferr af munne hans at skapa alla hluti, þa er eigi voru adr.» Kuse mællti: «Vist matti hann eigi fader kallaz, adr hann atti þenna (son). Segdu mer, hversu hann ma kallaz oskiptilighr, ef atburdr eignadi honum þenna son.» Silvester svaradi: «Hird eigi þu sva heimsliga at villazt, attu ætlir gud sva getid hafa son sem menn; gud var avallt fadir, þviat son var avallt, eigi hlaut hann þetta nafn (af) atburd, af þvi at fadir hafdi avallt ord ok krapt

1 [ reis Dohech *Fr.* 2 *Her ender Fragm.* 238[8] *folio.* 3 vatninu *Cd.* 4 [ sonar þess *Cd.*

ok speki med ser án ifa.» Kusi mællti ok spurdi: «Hversu mattu þat sanna?» Silvester svaradi: «Sialfr gud fader sannar ord þat, er hann kvad ꜳvallt vera i hiarta sinu, ok mællti gud sva: Upp ropti hiarta mitt godu ordi. Enn mællti sva sialf guds speki: Ek for ut or munni ens hæsta guds, ok giörda ek þat, at upp runnu lios af himni, ok skipada ek öllum hlutum, þa er giorr var himinn ok iörd, ok þa er upp spruttu allir brunnar vatna. Fader hafdi avallt krapz ord ok tok eigi þa at hafa þat, er hann hafdi eigi adr, er þersir hlutir giorduzt, helldr tok hann at syna kraptt ordz sins, þess er hann hafdi avallt; fyrir þvi at gud skiptiz alldri, ok var hann avallt gud ok fadir, þviat ord hans ok kraptr ok spekt er sonr hans. Hversu ma þa af atburd tidar þetta nafn hafa komit at gudi, at hann kalladiz fader, þar er hann hefir alldregi verit ꜳn speki edr krapt edr ord, þat er sonr (ok) fader.

23. Beniamin tok til mals, tulkr Gydinga, ok svaradi hann sva: «Um þann þrætum vær, er borinn var um daga Tiberius[1] konungs, ok fra þeim segia gudzspiöll ydur, at fiandenn freistadi hans, ok hann var selldr vid verdi af lærisveinum sinum ok var tekinn ok bundinn ok bardr fyrir gudlaustun sina, ok var þorngiord rekin ꜳ höfud honum, ok var hann krossfestr ꜳ milli tveggia þiofa, ok var hann daudr ok grafinn; en þer kristnir menn göfgit gröf hans ok segi þer, at hann risi upp af dauda ꜳ enum þridia degi eptir pining sina, en þat megum vær eigi segia, hver skynsemi til þess er, ath þer kallit hann gud.» Silvester svaradi: «Allztu synder þann yfirstiginn, er adr atti þrætur vid mik, ok mattir þu eigi domsordz at bida, þa hlyttu, unz svarat er serhverium hlut, þeim er þu spurdir. Þa er ek sagdi son guds avallt vera, þa mælltir þu sva: um þann rædum vær, er borinn var, ok villdir þu eigi þat fylgia lata at segia, at hann væri fra Mariu meyiu borin, til þess at eigi mællti spamadr þinn i gegn þer sialfum, sa er spadi higatburd hans ok mællti sva: Mær mun son ala, ok mun kallaz Emanuel, en þat þydiz gud ꜳ vora tungu. Sia var borinn at likam or kyni Davids, en hann var son guds i krapti. Gud efndi þat, er hann het David, ok sor þers, at sa mundi sitia ꜳ stoli hans, er fra honum væri kominn. Ok þann son, er fadir gat án modur, fyrr en heimr sia væri, þann enn sama son bar Maria mær algiörvan gud ok mann án likamligum fedr, þviat heilagr andi helgadi briost osaurgadrar meyiar ok let hana þann son geta, er endrbætti allan heim, ok guds son er osyniligr i krapti,

1 Tiburius *Cd.*

en hann giðrdiz syniligr mönnum fyrir manndom sinn, en gud fader af himni mællti vid hann: Sonr minn ertu, i dag gat ek þik. Ef þetta er eigi ritid a bokum ydrum, þa neittu þvi; en med þvi at ritid er, þa er rett, at þu truir ritningum þinum helldr en ordum minum.» Zenophilus domandi mællti: «Ef ydrer spamenn segia þetta, þa megi þer eigi bækr þær rækia, er þer truid helgar vera; en ef þat er eigi aa ydrum bokum, þa megi þer þvi neita þrætulaust.»

24. Aroel annar tulkr Gydinga mællti ok sagdi sva: «Fyrir hvi rædir sia madr um burd Kristz sins at eins, þar er Beniamin spurdi framarr at pisl hans?» Zenophilus domandi svaradi: «Beniamin hof mal sitt um burd hans, ok skulu þer annattveggia iata eda neita þvi fyst, er um burdinn er ydr svarad, til þess at hann megi enn odru svara, þvi er þer spyrid.»

25. Jubal tok til mals lögsögumadr Gydinga ok mællti: «Segi Silvester þat, ef gud hefir baulvat hiuskap.» Silvester svaradi: «Þat segium vær, at hiuskapr er blezadr en eigi baulvadr af gudi.» Jubal mællti ok spurdi: «Fyrir hvi neitid er þvi, at Kristr ydvar væri af hiuskap getinn?» Silvester svaradi: «Eigi segium vær af þvi vera Krist meyiar son, at vær fyrirdæmim[1] hiuskapinn, helldr til þess at vær dyrkum meydominn.» Þa svaradi Jubal ok mællti: «Eigi skil ek, hveria skynsemi þu matt adra syna fyrir meyiar burd, helldr en þat at þu lofar meydom en lastar hiuskap.» Silvester svaradi: «Med þeire skynsemi dyrkaz hiuskapr en lastaz eigi, at su mær, er Krist bar, var af hiuskap borin, en hun vardveitti sva hreinliga likam sinn, at hun var maklig at ala guds son, þann er ollum heimi barg.»

26. Þa geck fram Thara annar lögsögumadr Gydinga ok mællti a þessa lund: «Minnizt Silvester þess, er hann het at segia öll rök burdar ok pislar Kristz sins.» Silvester svaradi: «Sva mun eg giöra, sem ek het, at syna til nytzsemi ok segia ydr[2] alla hluti, þa er um hann hafa giörzt; en gud skop enn fysta mann or reinni iordu, þa er hun het mær.» Seleon prestr Gydinga kvad vid ok mællti: «Nýbreytiligan malshatt heyri ek nu, at iördin hafi mær verit, sva sem hun mætti kona vera.» Silvester svaradi: «Oll iörd var mær, medan hun hafdi eigi manzblod druckit ne opnat sik til graftar ne saurgaz af syndum manna.» Seleon svaradi: «Hversu mattu þat sanna, at iord hafi mær verid?» Silvester svaradi: «Undrumz ek þat, er þu leitar vitnis at þvi, er

1 eigi *tilf. Cd.* 2 nytsemi ok *tilf. Cd.*

þat er almæli, at su iôrd er mær, er eigi hefir daudra manna gropt i ser. En ef þu vill þat vita, hvenær iôrd let af (at) vera mær, þa hlydtu, hvat gud mællti vid þann, er vegit hafdi brodur sinn: bôlvud er iôrd i verki þinu, þviat hun lauk upp munn sinn ok drack blod brodur þins. Enn mællti spamadr þetta: Saurgadiz iord af blodi ok spilltiz iord af verkum þeira vondra.» Kraton domandi mællti: «Án ifa matte iord mær vera, ef hun mætti sidar saurgazt af syndum.»

27. Silvester mællti: «Enn fysti madr, sa er allir heims menn eru fra komnir, var skapadr or reinni iôrdu, þeiri er mær var; af þvi byriadi, at sa letiz fra meyiu berazt, er endrbætti verk ens fysta manz ok gaf eilift lif ollum truôndum monnum, sva sem hann var getinn af fedr ok borinn fra meyiu af tilkvomu heilags anda einga sonr[1] guds, er aavallt hafdi verit, til þess at vær endrbætimzt guds megir[2] i heilagri skirn. Sva let hann ok freista sin, til þess at hann leysti oss fra freistni; hungradi hann ok þyrsti, til þess at hann gæddi oss ok gæfi oss lifs dryck; bundinn var hann, til þess at hann leysti oss; selldr var hann, til þess at hann keypti oss til sin; hleginn var hann, til þess at hann tæki oss fra hlatri diôfla; þorngiôrd var hann skryddr, til þess at hann tæki af oss bolvan þorna ok þistla, ok gaf hann oss bloma paradisar, þann er mannlig dirf(d) hafdi glatad; or fôtum var hann færdr, til þess at hann hyldi skemd ennar fystu syndar eigi saurgum klædum helldr hvitum klædum miskunnar sinnar. A krosstre var hann pindr, til þess at hann bætti þat, er misgiôrt var a girndartre; eitr var honum gefit at drecka aa krossinum, til þess ath hann leiddi oss til hunangs fliotandi iardar; bolvon vora tok hann, til þess at hann gæfi oss blezon sina; dauda vorn tok hann, til þess at hann gæfi oss lif sitt; eigi at eins lauk hann upp dyrr paradisar, þau er hann byrgdi dirf(d) ens fysta manz, helldr lauk hann ok upp himinriki fyrir ollum retttruôndum monnum. Eigi sannadi hann med ordum einum guddom sinn, helldr ok med taknum, þa er hann reid molldu ok raka sinum a augastad þess, er blindr hafdi verit, ok gaf honum sion, til þess at hann syndi sik vera þann, er skapadi enn fysta mann or molldu iardar. Af þvi hreinsadi hann likþra ok gaf heilsu siukum, ok hann rak diôfla fra odum mônnum, ok geck hann um sæ þurrum fotum ok stôdvadi vinda ok hridir, ok gaf hann lif daudum mônnum ok grôfnum.» En er Silvester pafve hafdi þetta mællt, þa tok allr lydr med konungi ok dom-

1 sonar *Cd.* 2 môgir *Cd.*

ôndum at lofa kenningar hans ok þôckudu gudi, er þeir heyrdu kenningar hans med sva mikilli skynsemi, sva at þeir mattu eigi ifa um guddom Kristz.

28. En sidan þa reiddiz Jambri enn af þeim .xii. koppum Helene drottningar, ok mællti hann aa þersa lund: «Wndrumzt ek þat, er spakir menn ok domendr vilia trua þvi, at i ordaþrætum megi reynaz mattr guds. En nu skulu þer lofa mer þat, er ek hefir enn ecki um mællt, at ek syna[1] krapt nôckurn i nafni guds vors, til þess at mannlig skynsemi lati fyrir guds krapti, ok syniz þat med vitni ok iarteinum helldr en med ordum einum, hver enn sanni gud er. En Silvester sanni þann gud vera, er hann dylr eigi sialfr at krossfestr var, ok fyrir þvi skal ek sanna þess guds krapt, er oumrædiligr er ok uskiptiligr. Leidi hingat nu hinn sterkazta ok enn grimmazta gridung, ok mun ek nefna nafn guds i eyra honum, ok munu þer þa sia krapt þess nafns sva mikinn, at steinar munu eigi standazt mega.» En fyrr en hann hafdi mali sinu lokit, þa var þangat leiddr enn sterkazti gridungr, ok helldu menn aa festum ôllum megin. En sidan þa nefndi Jambri nôckud illzskunafn i eyra griþunginum; en gridungrinn beliadi vid um sinn hatt, sidan fell hann daudr nidr, sva at hann hrærdi ecki aa ser. En þa hræddizt allr kristinn lydr, ok mællto þat margir menn, at þetta væri guddoms nafn, er eingi skepna matti standazt.

29. Þa bad Silvester ser hliods ok mællti sidan a þessa lund: «Lydi þer Romaborgar spekingar, ok skili þer krapt Kristz; en ek mun syna ydr þat, at þetta er eigi guds nafn, er nefnt er i eyra gridungi þersum, helldr[2] ens versta diôfuls, fyrir þvi at ek boda þann gud aa at trua, er eigi at eins deydir lifendr, helldr lifgar hann ok dauda, en dyr ok ormar edr illvirkiar mega glata lifôndum en lifga eigi dauda. En þott þat se kraptr nôckurr at giora gridunginum bradan bana fyrir akall eins nafns, þa þiki mer meiri sa kraptr at lata gridunginn lifna aptr. En ef Jambri vill, at vær truum eigi þat hafa verit diôfuls nafn, þa nefni hann nu þat nafn i eyra gridunginum daudum, til þers at hann lifni. En ef Jambri ma[3] deyda en eigi lifga gridung þenna, þa er vist, at hann hefir aa diôfuls nafn kallat, þat er lifendr ma drepa en lifga einga dauda.» En er Silvester lauk mali sinu, þa matti Jambri eigi reisa upp gridunginn. En þa mællto domendr vid hann sialfan ok sôgdu: «Vist er nu, at þu hefir a diôfuls nafn kallat, sem Silvester sagdi, er þu matt deyda gridunginn en lifga eigi.» En

1 syndi *Cd.* 2 ok *tilf.* *Cd.* 3 eigi *tilf.* *Cd.*

Jambri svaradi ok sagdi sva mikinn vera guds matt, at eingi skepna mætte standazt. Silvester svaradi ok mællti: «Vær sôgdum fyrir stundo adr, ath drottinn vor Jesus Kristr syndi sik vera guds son i þvi, er hann gaf heilsu siukum en lif daudum; eda hvern telr þu þenna vera, Jambri, er hans nafn matti deyda kvikan en lifga eigi daudan?» Jambri svaradi ok spurdi: «Veiztu eigi hôfudundr þau .x., er urdu aa Egiptalandi fyrir akall guds nafns, ok do þa allir frumburdir Egiptalandz bædi menn ok fe.» Silvester svaradi: «Veiztu eigi, Jambri, at sa enn sami, er drap frumburdi Egiptalandz, mællti sva: Ek mun drepa ok lifga, ok ek mun beria ok græda; en ef þu kalladir aa gud, at hann dræpi, kalladu nu þa aa hann, til þess at hann lifgi, ok til þess at vær megim aa einn gud allir trua ok aa þann, er bædi ma lifga ok deyda, af þvi at sva er fra honum sagt: drottinn lifgar ok deydir ok leidir til helvitis ok enn aptr þadan.» Þeir toku til mals domendr badir Kraton ok Zenophilus ok sôgdu: «Yfvir er stiginn Jambri, er hann ma eigi reisa upp gridunginn i þess nafni, sem hann deyddi hann.»

30. Jambri mællti: «Reisi Silvester nu þa upp gridunginn i nafni Jesus Kriz ens naddverska, til þess at vær megim vera sannindamenn guddoms hans.» Silvester svaradi ok mællti aa þersa lund: «Gudi þôckum vær, kvad hann, er Jambri mællti um sidir nôckut ord af viti.» Ok enn mællti hann: «Þid domendr, sagdi hann, Kraton ok Zenophilus, er rettliga dæma um alla hluti, spyrid nu adra Gydinga, þa er ordaskipti attu vid mik, ef þeir vilia allir trua i nafni Jesus Kriz, ef gridungrinn lifnar.» Sidan mællto þeir domendr Kraton ok Zenophilus: «Segi nu serhverir Gydingar, sôgdu þeir, ef þeim likar þetta atkvædi, er en efzta þræta fann.» Abiathar geck framm ok mællti fystr af þeim Gydingum: «Bunir erum vær, kvad hann, at ganga at þvi, ef vær reynum þat, at gridungrinn risi upp i nafni Jesus.» Þa tok Jonas til mals ok mællti aa þessa leid: «Heyra vilium vær, sagde hann, hvat Silvester mælir yfir gridunginum, at vær megim vita, at hann kalli aa nafn ens krossfesta, ok megim vær þa trua aa hann.» Sidan tok Godolias til orda ok mællti: «Ef Silvester kallar aa þann, er fedr vorir dæmdu sekan, ok risi gridungr sia upp, er i guds nafni er drepinn, þa mun ek an ifa allan trua kenningu Silvestri.» Aunan mællti ok sagdi sva: «Sva sem eigi ma [trua vor villaz[1] af rettri gôtu, sva mun ok eigi gridungr sia upp risa. En fyrir þvi at þau eru malalok ordin, ef gridungrinn ris upp i nafni ens krossfesta,

1 [ truaz vor villa *Cd.*

til þess at vær truem aa hann, þa mun ek eigi þvi i gegn mæla.» Doek tok þa til mals: «Undrumz ek þat, segir hann, er sva spakir menn vefiaz i sva mikilli villu, sem her er nu, at trua þvi, at gridungrinn muni upp risa ok lifna, er i guds nafni ok krapti var drepinn. En ef hann ma sik nôckur hræra i nafni Jesus ens krossfesta or þeim stad, er nu liggr hann, þa mun ek kasta nidr ollum ifa ok trua þvi, er Silvester kenner.» Þa tok Kusi at mæla: «Orôggr heit ek þvi, at ek mun trua þvi er Silvester kennir, fyrir þvi at gridungr þessi ma eigi lifna fyrir nafn Jesus.» En þa mællti Beniamin þetta: «Fyrir hvi munu menn eigi hlæia at oss, kvad hann, þeir menn er sia gridung þenna liggia daudan ok bolginn, en vær skulum trua þvi, at hann muni upp risa i nafni Jesus ens krossfesta manz. En fyrir þvi at domendr beida þessa, þa mun (ek) veita þat af minum mun ok eptir þeira þocka, ef þetta ma verda.» Aroel mællti: «Slikt ed sama mun ek um mæla, sem Beniamin mællti, trua, ef gridungr lifnar.» En þa mællti Jubal þetta: «Bratt mun ek yfvir þvi lysa, at ek mun hverfa fra Gydinga tru, þegar er Silvester ma sva giôra, at gridungr sia lifni.» Nu mællti Thara med þersum hætti: «Sva sem þat eru miklir orar at trua þvi, at gridungr sia megi upp risa, sva er ok mer mikil heimska at fyrirlata lôg min; en fyrir þvi at hvorki ma verda, þa heit ek þvi ôruggr, at ek mun kristinn verda, ef Silvester reisir upp gridunginn.» Sidan tekr til (mals) Seleon prestr Gydinga ok mællti: «Hveriu sem vær heitum, þa mun hvorki fram fara, at gridungr lifni ne (ek) muna trua; en ef Silvester er fuss at reisa hann upp, þa mun ek eigi einn i gegn þvi mæla, ok heitum vær þa allir, at vær munum kristner verda, ef hann reisir upp gridunginn i nafni Kristz sins.» Zenophilus ok Kraton domendr badir toku þa til mals ok mællto þann veg ok tiado fyrir ollum lyd: «Þar hefir nu stadar numit, segia þeir, atkvædi allra Gydinga, þeira er keptu vid Silvestrum, at þeir munu allir fra Gydinga tru hverfa, ef Silvester kallar aa nafn Jesus Kristz ok reisir upp gridung þenna.»

31. En þa er þraut þessar rædur[1], þa bad Silvester ser hliods ok mællti aa þessa lund: «Lydit þer mer synir ok brædr, þeir er gud gaf skilning. Þat vitum vær allir, at gudi er eigi rækt aa nautum, en nu beidir allra þurft, at hann lati ser soma at rækia þetta kvikendi; en fyrir þvi skili kristner menn sik fra heidnum mônnum ok Gydingum, ok gôngum mer allir saman i einn stad,

[1] rædir *Cd.*

er aa Krist truum, ok fôllum aa knebed allir, ok bidium þess gud af ollum hug, at hann lati ser soma at heyra bænir vorar ok syna ollum lyd drottin Jesum Krist son sin vera.» En er Silvester hafdi þetta mællt, þa skilduz kristnir menn allir fra heidnum mônnum ok voru a bæn sinni alla tid dags, ok var eigi sa madr þar, er vatni helldi. Þa toku Gydingar at hlæia at kristnum mônnum ok mællto svo: «Nu mun Kristr ydvar koma ok synaz ydr.» En þa tok Silvester pafi at hallda upp hôndum sinum til himna ok at mælaz fyrir vit gud a þessa leid: «Deus Abraham, deus Ysaac, deus Jacob, er[1] þvi ert nefndr i þrennu akalli ok kend(r) vit þessa þria alldarfedr, at þu ert einn fadir gud i þrenningu, fadir med syni ok helgum anda, fadir getandi sannan son af þer ok helgan anda frammfaranda af fedr, einn guddomr i þrenningu, iafn avallt ok enn sami! Þu gud, er skapadir himen ok iôrd or ongu fyrir ord, þat er fyrir son þinn, þann er ser let soma at taka mandom a sig ok gerdizt gud algerr madr, til þess at hann byrgi ollum truondum monnum, sa er borinn var fra meyio heilagri ok i iôtu lagdr, himna konungr, sa er einglar syndu hirdum, en stiarna syndiz austrvegs konungum, ok sa er til þess var freistat af diofli, at hann leysti oss fra diofla freistni, sa er krossi var pindr fyrir syndir heims, ok gerdiz til þess madr, ad hann giordi menn[i]na guds sonu ok hluttakendr eilifrar dyrdar! Kalla ek aa Jesum Krist nazarenum, þann er krossfestr var ok reis upp af dauda, a þik kalla ek yfir gridung þenna, er i diofuls nafni do, til þess at hann rise upp i þinu nafni, ok fari hann hogvær sem lamb til hiardar sinnar, ok veittu honum margra vetra lif til vitnis kraptz þins, til þess at menn þessir allir viti, at þu ert son guds, er komt i þenna heim.»

32. En er Silvester hafdi a þann veg fyrir bediz, þa laut hann i eyra gridunginum ok mællti svo: «Þu nafn bolvonar ok dauda, svo sem þu gallt inn i eyra gridungs þessa, svo gialltu ut fyrir krapti drottins vors Jesus Kristz ens krossfesta, i þess nafni mæli ek vit þik: ris upp þu, gridungr!» En er hann hafdi svo mællt, þa bles gridungrinn vit ok reis upp sidan. En Silvester leysti bond af honum ok mællti svo: «Far þu nu til nauta þinna ok ver hægr avallt sidan.» En þa geck gridungrinn a braut ok til hiardar sinnar hægr ok hogvær, ok lifdi marga vetr sidan. En eptir þat kalladi allr lydr einni roddu med Constantino konungi ok Heleno drottningo modur hans ok domondum guds ok Gydingum

1 ser *tilf. Cd.*

ok ollum lyd, ok mællto svo: «Sannr er gud ok sannr er guds son drottinn Jesus Kristr.» Ok a þessum enum sama degi sneruz til Kristz meir en .iiij. þusundir Gydinga. Helena drottning modir keisara tok tru med sonarsonum sinum .ij. Constancio ok Constante ok dottor konungs[1] Constancia, ok allir þeir er henne þionodu, toku vit tru. Craton ok Zenophilus domendr badir toku ok vit tru ok allir þeira vinir, ok gerdu allir þackir gudi, er þeir voro allir leystir fra villu fyrir Silvestrum pafa.

33. En þa for hverr heim fagnandi þadan fra þvi þinge til sinna heimkynna. En er þadan lidu nockurir dagar, þa sendo blotbyskupar Constanti(n)o konungi rit ok mællto a þessa lund: «Lydr þinn, konungr, fær skada mikinn af blæst(r)i dreka þess, er hofgydiur vorar voru vanar at blota ok færa honum fæzlur a hverium manadi. En sidan er þu tok(t) kristin lôg, þa er honum nu ecki fært drekanum i fæzlu, ok reidiz hann nu ok kvelr hvern dag marga menn af blæstri sinum. Af þvi bidium vær, at þu lofir oss nu at færa honum fæzlu, sem vant hefir verit, til þess at lydr þinn megi fagna heilso[2] sinni.» En er konungr hafdi (lesit) ritid, þa spurdi hann Silvestrum at þvi, hvort (hann skylldi) þetta blotmonnum veita eda eigi. Silvester svaradi ok mællti: «Lattu nu svo, ef nockur hofdingi riddara þinna leti taka upp lôg vinar þins i gegn þer ok þinum logum, mundir þu eigi reidaz honum, þott hann gerdi eigi þat sialfr, en hann bannadi eigi odrum at gera? Hvat dæmir þu um þat?» Konungr svaradi: «Dauda er sa verdr.» Silvester svaradi ok mællti: «Slikrar pislar er verdr fra himnakonungi hverr þeira, er eigi bannar diofuls logh i gegn guds vilia.» Calpurnius het borgargreifi einn, hann var heidinn madr, hann var þa staddr med honum, er Silvester mællti þetta. En er hann heyrdi þessi ord Silvestri, þa mællti hann greifinn vit konunginn: «True þu þvi, konungr, sem ek segi þer, at meir en .iii. hundrut manna faraz a hverium degi, ok er nu ecki annat biargrad, nema þat at vær aukim fæzlu drekans, ok verdi hann oss i hugum, þegar er þat ma vera.» Silvester svaradi ok mællti: «Syndu mer nockurn kristinn mann af þeim, er daudir ero af blæstri drekans.» Calpurnius greifi mællti a þessa lund: «Ef drekinn grandar eigi kristnum monnum, þa fardu til hans ok kyrr hann svo nockurn manad, at hann drepi eigi menn.» Silvester svaradi ok mællti: «I nafni Jesus Kristz mun ek svo giôra, at dreki sia grandi mannigi sidan.» Calpurnius mællti: «Giôr þu þat, er þu mælir

1 k'r *Cd.* 2 heislo *Cd.*

nu, til þess at vær megim trua Kristi þinum.» Silvester svaradi ok mællti sva vit Constantinum konung: «Konungr, kvad hann, hlyd þu mer, ok gior sem ek beidi. Ek vil nu, at þu biodir hingat ǫllum blotbyskupum a morgin, til þess at þeir heiti þvi allir, er nu heitr Calpurnius einn.» Konungrinn kvad svo vera skylldu, sem Silvester mællti, ok baud þangat ǫllum blotbyskupum at morni. En er þar kvomu allir blotbyskupar annan dag eptir med Kalpurnio greifa, þa hetu þeir þvi allir, at Kristi mundi trua, þott drekinn kyrdiz einn manud, ok drepi hann eigi menn.

34. En þa for Silvester til kirkiu ok prestar hans .ii. med honum Fauskonius ok Constancius, ok fǫstodu allir saman sex dęgr ok voru aa bænum allar þær stundir. En ena þridiu nott syndiz Petr postoli, ok mællti postolinn vid hann: «Med þeim prestum, er fǫstudu med þer [1] ok voru aa bænum stadfastir, þa vil ek at þu stigir nidr til drekans, ok skulud er allir taka corpus domini, en einga skalltu fæzlu adra taka; eigi skalltu hrædaz, helldr hafdu allt traust i gudi, ok gack til dreka þess, er fiandinn byggir i, ok mæl vid hann: Jesus drottenn, sa er getinn var af helgum anda ok borinn fra mey Mariu ok var krossfestr daudr ok grafenn ok reis upp af dauda, ok ste hann upp til himna, ok sitr nu til hægri handar gudi, ok mun hann þadan koma at dæma um lifendr ok dauda, bidtu hans stadfastr ok bundinn i þessum stad, unz hann kemr. En sidan er þu hefir þetta mællt, þa bittu munn hans med hǫrþrædi þrefolldum vextum ok snunum, ok inzsigla sidan, ok lat krossmark aa vera; stig þa upp sidan fra drekanum. Sidan kom þu til kirkiu minnar, ok muntu þar þa finna braud latid aa allteri, þat er ek sendi þer, ok skalltu þvi fyst bergia, adr þu takir fæzlu þina, ok mun þa flyia fra þer ǫll illzska ok eitr.» En er Petr postoli hafdi þetta mællt, þa hvarf hann aa braut. En Silvester giǫrdi, sem hann baud, ok ste sidan nidr til drekans. En kristnir menn voru a bænum i ǫllum kirkium medan, ok badu allir fulltings ok trauz af gudi. En blotbyskupar sendu eptir honum ok þeim .ii. fiǫlkynga menn, ok het annarr þeira Porphirius en annar Torkvatvus, til þess at þeir sæi, hvort hann kæmi til drekans edr eigi. En sidan ste Silvester nidr i iǫrd til drekans med tveimr prestum sinum, ok .l. palla annars hundrads. En þeir enir fiǫlkunnigu menn Porphirius ok Torkvatuus blotudu diofla, adr þeir stigi nidr eptir þeim Silvestro. En er þeir enir fiǫlkunnigu menn komu at blæstri drekans, þa fellu þeir nidr badir

1 honum *Cd.*

ok kvôlduz i sott akafa mikilli. En Silvester kom til drekans ok batt munn hans medr streing, þeim er hann hafdi med ser, ok mællti vid hann ôll þau ord, er honum voru kend at mæla. En er hann kom aptr or þeiri haskafôr, ok prestar hans med honum, þa fann hann þa Porphirium ok Torkvatuum illa halldna, ok bad hann fyrir þeim ok tok i hônd þeim ok leiddi þa med ser upp or iordinni; en þa let hann þa fara, ok voru þeir þa alheilir af bænum ok iarteinum Silvestri pafa. Þa runnu þeir þegar visliga eptir villubokum sinum ok brendu þær allar þegar i augliti Silvestro ok allz lyds ok allra blotbyskupa, ok mællto þeir sva fyrir sialfir: «Brenni þeir, er eigi trua Kristi þeim er Silvester bodar.» En þa vard margr Romaborgar lydr leystr fra tvennum dauda, þeim er Silvester leysti þa, fra skurdgoda[1] blotum ok fra diôfuls villu ok fra eitri drekans. A þeim misserum toku tru ok sneruzt gudi til handa .xx. þusundir karla, ok voru umfram bôrn ok konur, ok toku skirn af Silvestro pafa, enda vard mannigi mein at þeim dreka um alldr sidan.

35. Þa vard Silvester pafi storliga ꜳgætr um allan heiminn af tôlum sinum ok af otalligum iarteinum, þeim er hann giôrdi i Romaborg, fyrir þvi at bædi lærdir menn ok olærdir elskudu heilagleik hans ok sidsemi, fyrir þvi at mikill fiôlldi manna hvarf til handa drottni vorum af hans kenningum ok fyrirtôlum; fyst at upphafi Constantinus konungr, er hann hvarf eptir tru þeiri, er Silvester bodadi, en sidan Helena drottning modir hans ok Gydingar þeir allir, er henne fylgdu, ok allir rikismenn ok storeflismenn[2], þeir er i Romaborg voru, hurfu eptir bodordum Silvestri pafa. En sidan er Silvester hafdi sva mikinn frid giôrt ꜳ medal manna, at hann hafdi ôllum komit ꜳ einn sid at trua ꜳ gud fôdur ok son ok helga(n) anda, þa sendi sidan Constantinus konungr rit i allar storborgir ok mællti sva: Constantinus konungr sendir kvediu ollum Romaborgar lyd ok allra borga hôfdingium. Se ôllum fridr ok heilsa gôfgundum enn hæsta gud. Leingi hefvir ek wndrazt med miklum hugarharmi willu vora ok rangindi[3], er vær gofgudum skurdgod med þeiri ræzlu, sem vær skylldum gofga þann gud, er sier alla leynda hluti hiartans ok veit allt fyrir, adr verdi, skapari allra hluta, sa er alla tru gefr lifs anda, einn er sannr gud, sa er styrir valldi allz heims, osyniligr ok oumrædiligr, ôllum ædri ok allz valldandi i sinum mætti ok allz litandi i sinum guddomi, þat er ordit er ok oordit. En eigi er undarligt, þott

1 skurdgodum *Cd.* 2 storelfismenn *Cd.* 3 ranginda *Cd.*

ostyrkr likami megi eigi lita i gegn eilifu liosi allz heims skapara ok lausnara, þar er vær megum eigi sia i gegn solar geisla, sva at eigi dôckviz þegar ostyrkleikr mannligrar synar, en oss gegnir at fyrirlita eitr illra hugrenninga ok hallda dyrd himnakonungs med rettum hug ok fyrirlata myrkva gôtu en ganga liosan heilsustig. Af þvi latum vær af villu ok greidum hug vorn til þeira hluta, er betri eru ok nytzsamligri, þviat su er betri gata ok biartari, er guddomr synir, en su er myrkr færir ôllu mannkyni ok tekr hugi manna fra ordi guds. Hôlldum vær[1] þvi med omæddum vilia lôg þau, er gud gaf oss, þviat med honum er eilift lif ok lios, en sa mun ôdlaz eilifa miskunn, er hans lôgum þionar. Hônum byriar oss at þiona en fyrirlata skadsamliga villu, þa er oss bannar lifs gôtu, þviat þeir munu finna eilift lif ok lios, er gofga sannan gud med milldum hug, ok munu þeir niota sætleiks himneskrar fæzlu med gudi þeim, er rikir i himnum. Þessa hluti veit ek med ast til sannrar tru, til þess at ek syndag mônnum naudzsynliga gôfgun gudligrar milldi, sva sem ek kallazt hôfdingi fostriardar þessar. Hyggium vær ath dyrd almattigs guds, ok bidium hann oss misk-unnar, ok munum vær þa eignaz aar ok frid ok fordaz allan haska. En enn hæsti gud, þa er hann ser sidu vora ok godan vilia, þa mun hann gefa oss fyrir milldi sina ok miskunnsemi eilifan frid ok gnott fagnada, sa er lifver ok riker med syni ok fedr ok helg-um anda um allar alldir allda.

36. En eptir þat sidan þa for Constantinus konungr til orostu vid Serki ok hafdi gagn or orostunni. En er hann kom til borgar þeirar, er Bizancium heitir, þa dreymdi hann um nott, at honum væri kona færd gômul ok daud, ok þat at Silvester mællti þetta vid hann: «Bid þu fyrir henne ok mun hun lifna.» En er konungr bad fyrir henni, þa reis konan upp, ok vard hvn ung ok fôgr, ok þockadiz hun vel i augliti konungs, ok skryddi Constantinus hana skickiu sinni, ok setti konungr yfir hôfud henne koronu[2], þa er hann atti bezta. En honum þotti, sem Helena drottning mællti vid hann: «Sia skal þin kona vera, sagdi hun, ok deyia eigi fyrr en i enda heims.» Þa vaknadi konungrinn ok sagdi vinum sinum draum sinn, ok red eingi drauminn, sva ath honum hugnadi. Þa tok Constantinus konungr at fasta, ok bad hann gud vitronar ok mællti sva: «Eigi mun ek aflata at fasta ok bidia þik, Kristr sonr guds, unz þu vitrazt mer fyrir þion þinn Silvestrum.» En aa enum þridia degi fôstu hans þa syndiz honum i annat sinne heilagr

1 med *tilf.* *Cd.* 2 korona *Cd.*

Silvester i draumi ok mællti vid konunginn ok mællti sva: «Aurvasa kerling er borg sia Bizancium, er þu ert nu i staddr, þviat veggir hennar eru nu fallnir af fyrnsku; en þu stig aa hest þinn, þann er þu reitt til kirkiu postola guds Petrs ok Pals i Romaborg, þa er þu vart nyskirdr, ok gef þu tauma hestinum, at hann fari, sem eingill guds leidir hann[1]; en þu skallt hafa merkisstaf þinn i hendi þer ok draga stafvinn, sva at broddrinn nemi iörd, sva at sia meghi ristuna eptir aa iördunni, þar er stafrinn hefvir nidr tekit. En i þann farveg skalltu upp reisa borgarveggi, ok muntu endrnyia borg þersa, er nu er forn ok miok sva daud; en þersa borg muntu pryda nafni þinu ok giöra drottningu annarra borga, ok munu vera giörr i henni musteri gudi til vegs ok öllum helgum mönnum, ok munu synir sona þinna hafa her velldi.» En þa [vaknadi konungrinn[2] ok for þegar til kirkiu, ok sagdi hann draum sinn byskupi borgarinnar, en hann het Sisinnius; en sidan let hann syngia ser messu ok færdi gudi fornir i messunni ok tok sialfr corpus domini. En eptir þat ste Constantinus konungr aa hest sinn, ok for hann þangat, sem eingill guds leiddi hann. En konungr let þar upp reisa borgarveggi i þann farveg, er stafsbroddrinn hafdi aa ritit(!), ok var su borg köllud sidan Constantinopolis, en þat er Constantinus borg, en þa borg kalla Nordmenn Miklagard aavallt sidan. Sva segir aa bokum, at Constantinus konungr enn mikli, sa er nu var fra sagt um hrid, red fyrir sinu riki ok styrdi sinum konungdomi eitt aar ens fiorda tigar, ok var hann enn mesti höfdingi ok agætismadr fyrir sakir sinnar tignar ok gæzsku, ok for hann af þessum heimi i fullum veg sinum ok akvedinni stundu af almattkum gudi. En heilagr Silvester pafvi, sa er vær hölldum nu messudag, giördi allzskonar iarteinir i sinu lifi i guds nafni af sinum bænum ok verdleikum, hann gaf sion blindum ok heyrn daufum, mal þeim er dumba voru, göngu þeim er halltir voru, likþrair hreinsuduzt, diöflar flydu fra odum mönnum.

37. [3]Nu er þat langt at tina edr fra þvi at segia um hans iarteinir, en þo er her skömm frasögn giör aa þessi bok, þott nog se malaefnen. En þar sem vær megum eigi alla hluti rita aa bokum, þa er giorz hafa i lifi ens dyrliga pafva Silvestri, edr hversu mörgum mönnum hann hefvir snuit til rettrar tru af Gydingum ok heidnum mönnum bædi med ordum ok medr iarteinum, þa vilium vær þo med skömmu mali yfir fara enar efztu

1 hans *Cd.* 2 [ for k'gin ok vaknadi *Cd.* 3 Her er andlat heilags Silvestri pafva *Overskr.*

hans lifs stundir. Þa er almattigr gud villdi honum ǫmbuna sitt erfidi ok leida hann fra þessa heims aanaud til eilifrar dyrdar, þa tok hann þyngd, þa er hann þottiz sik skamma stund mundu lifa, ok kalla(di) til sin alla sina klerka ok kysti þa alla ok mællti sidan vid þa aa þersa lund: «Nu er her komit, synir minir, at mik skylldir hvortveggia til framfarar alldr mikill ok vanheilsa, ok er nu mal, at iǫrdin taki til sin þat, er af henni var tekit fyrir ǫndverdu, likama þann, er gud gaf mer, til þess at ek skylldi honum þiona, ok mætti sva verda, sem hann mælir sialfr fyrir munn Davids spamanz, at þa mætti verda likaminn erfd drottins, er hann gefr svefn þann vǫldum mǫnnum sinum, er bid eru meiri dyrdar helgum mǫnnum, þa er þeir eru hedan af heime kalladir. Um alla hluti framm vil ek ydr bidia, at þer halldit ast ydvar aa milli, en unnit gudi um alla hluti framm aa ǫllum dǫgum lifs ydvars.» En þa er hann hafdi þersa hluti mællt ok marga adra fyrir þeim, þa komuz þeir vid, er hia voru stadder, ok sungu lof gudi, ok skildiz þa en helgha ǫnd vid hann aa milli gudligra mala, ok andadiz þa at vilia guds Kristz iateri ok yfirbodi allrar kristni. Likami Silvestri pafa var grafvinn med veg ok med dyrd i kirkiugardi Pricille [1] heilagrar meyiar. Su kirkia stendr aa gǫtu þeiri, er heitir Via Salaria, ok er þat aa enni þridiu milu ath leidarleingd fra Romaborg, ok veitir almattigr gud í þeim enum sama stad ok vida annars stadar margfallda miskunn af bænum ok verdleikum hins helga Silvestri pafa, ok verda þar mǫrg takn ok iarteinir allt til þessa dags, ok getr sia enn helgi madr Silvester pafi alla hluti at gudi, þaa er hann vill bedit hafva. En i andlati Silvestri pafa var su [2] en helga ǫnd, er fylgt hafdi þessum enum helga likama i þessu lifi, borin til himneskra fagnada af guds einglum. Ok med þvi at vist er, at hans ǫnd gladdiz þa aa milli heilagra eingla, þa hæfir ok, at vær gledimz med godu aa hans hatid, er til þess erum settir at hallda nu minning hans dyrdar her aa iǫrdu. En heilagr Silvester pafi sat i stoli Petrs postola, ok vardveitti hann postoligt sæti ok sidu .iii. aar ok .xx. manudr .x. ok umfram daga .ix. Nu skulum mer þau hafa lok þersa mals at bidia enn helgazta Silvestrum pafa liknar ok arnadarordz, at hann arni oss aa hveriu dægri ok arnat fae, at vær getim bætta alla glæpi vora ok syndir, adr drottinn skili andir fra likǫmum vorum, fyrir verdleik ens helga Silvestri pafa, ok þat at Kristr lati ser soma af sinni miskunn ok dyrd at leida oss aa enum efzta dome helga ok

1 Pricilli *Cd.* 2 svo *Cd.*

hreina med ser til himneskra fagnada, þar er alldregi verdi endir per omnia secula seculorum. Amen.

---

# APPENDIX.

---

## 1.

(*Fragm. 655 V*[2]. *qv.*)

Siluester uar ungr selldr til lerrinngar preste þeim er Cirinus het, enn hann glicþi brat eptir siþom prestens(!) oc com til ennar ǫsto tru cristins siþar. Gestrisni vanþi hann sik, oc framþi hann þat helldr af auþhofom gvþs vilia enn iarþligs fiar. Enn hann tok cristinn mann nekquern a gisting, þann er komenn uar or Anþekio oc boþaþi Crist nafn berlega; enn sa het Timotheus. Enn þat þorþo þa faer menn at gera, þui at ofriþr mikill var cristnom monnom i þer mvnndir. Enn Silvester tok eigi at eins viþ honom at gistingo, helldr elfide(!) hann oc kenning hans meþ sino lofe. Enn er Timotheus hafþi kenningar fram forþar .ii. misseri oc .iii. manoþr oc snvet morgom lvþ til gvþs, enn þa uarþ hann tekenn af heþnom monnom oc selldr Tarqino borgargrefa, enn hann let pina hann morgom pislom oc setia hann i myrquastouo. Enn er gvþs kappe villdi eigi blota scvrþgoþom, þa uar hann hoguenn meþ manndrapsmonnom. Enn sanctvs Siluester forþi licam hans til hvs sins, oc callaþi hann þangat Melkiadem pava, oc heldo þer minning pislar hans þa not alla i gvþs loue. Enn nekquer cristen cona, sv er het Theodane, grof lik hans i garþi sinom scamt fra leiþi Pæls postola. Þat uerk licaþi vel ollom cristnom monnom, at sa gvþs votr vere ner pælo postola grauenn, sva sem fvr fvlgþi hann honom oc uar hans lerisveinn. Siþan let Tarquinus greve taca Siluestrvm, þuiat hann vętti, at Timotheus mvndi at haua aura nacquara. Enn er marger boro uitni, at hann hefþi ongua iarþliga æra atta, þa gaf grefenn þat at soc Silvestro, er hann uar cristenn, oc letsc honom mvndo bana, nema hann blotaþi sialfcrafe. Siluester suaraþi: «Vittv þic fvr dom þan vera til eilifra quala,

nema þu trver sciott a Jesvm Crist son gvþs.» Þa reidisc Tarquinius borgargrefe oc baþ setia Silvestrvm i mvrquastouo oc męlte, at «a onndvrþom dege a morgon mon ek lata glata þer i horþom pislom.» Silvester svaraþi: «Goþspialligom orþom mon ek uiþ þic męla: A þesse not mon ond þ[in sciliasc] fra þer, at tu taker eilifar qualar fvr þat er þu piner crist . . . . . . . . . . . . . . at sa er gvþ er ver cristner . . . . . . . . . . . . . . . . . .

## 2.

(*Pergamentblad 655 qv. IV.*)

Helena drotning moþir Constantini konvngs var austr [i lon]dom meþ tvem sonarsonom sinom, annarr [þera] het Constans, enn annarr Constantinus. Enn hon var i svet gvþinga oc mvndi gvþinga trv haua, nema sonr hennar callaþi hana fra villo til trv rettrar. Enn er hon fra þessi tiþindi, þa senndi hon søni sinum rit, enn sva sagþi a ritino: Helena drottning sendir q. Constantino konungi søni sinom. Vitr hugr hnøkir eigi sonno, oc hevir ret trva alldregi scaþa. Gvþs miscunn eignom ver þat, er þu naþir at fyrlata scvrþ goþ, enn ver kennom manligri uillo þat, er þu uildir trva Jesum nabzarenum gvþ vera, oc etla þann gvþs son a himni, er gvþingr uar at kvni oc røgþr fvr fiolkvngi oc crosfestr meþ þiofom. Enn þat scaltu uita, at eigi er ꝍnnur gata til gvþs oc ins sanna lios nema trua gvþinga, þerra er gvþs log haua. Enn af þui er þer helsa geven af gvþi, at þu gerþir fyrstr convnga enda a blotom scvrþgoþa, oc reyndir þu, at þer mego eigi gvþ kallasc ne trvasc, er licnesci ero uandra manna or malmi gor, oc haua eigi ꝍnd ne scilning. Enn saþr gvþ syndi, at þau ero egi sonn gvþ, er ver hredomsc at þarflauso oc hugþom oss mega helso uęta, ef þꝍ uere oss holl, enn brꝍt taca, ef þꝍ reidisc. Af þui gerþi gvþ enda a þesse villo oc toc a braut hasca oc uetti lif oc helso af himni. Enn er þu [h]etr hann at gaufga, þa monþu eignasc velldi slict sem David oc speke slica sem Salomon, oc muno uera meþ þer spamenn þer, er gvþ melir viþ, oc mundu geta at gvþi alla hlvti, þa er þu biþr. Lifi heill þu konungr, inn kersti son, oc þroasc i ollom farseligom hlutom. Enn er Konstantinus konvngr las rit þetta, þa sendi hann annaþ rit at moti a þessa lvnd: Constantinus konvngr s. q. Eleno drotningo moþor sinni. Sa er uerolldo stvrir oc ollom heims nvtiom ręþr, þeim er ver lifþom(!) uiþ oc føþomsc,

hann lifgar sialfr fvr sic allt þat er livir, enn hann gefr þrelom sinom log fvr briost hofþingia. Enn þui a⁊þseri verþom ver ollom, sem uer hovom høra staþ a miþil manna. Af þui ma ret vera þat, er ver uiliom, enn rangt eigi, at allir nemi retta hluti af orþom orom. Enn siolf villa or uattar þat, at gvþ er umb fram of scilning ora, þar er uer hvgþom þat gvþ vera, er ver letom sialvir gera. Enndisc manlig dirfþ oc þa meþ þeri scvnsemi, at saman comi a eitt mót kennimenn gvþinga oc cristinna laga, oc sanni hvarir trv sina meþ uitni heilagra boca fvr oss, er hia monom vera, sva at ver megem uita it sanna oc leiþa alla verolld meþ oss til[1] . . . . . . . . . . . . . . . . eflsc i goþom hlutom meþ .ii. sonom minom.»

12[2]. Þa samnaþi Elena drotning ollom . . . . . . . . . . . . ennimonnom, til þess at velia ena malsniollosto menn, þa er fara scv[lldi] meþ henni til Romaborgar, oc sagþi hon þeim, at þer scvlldi þrevta . . . . . . trv sinnar uiþ cristna menn, oc eigi meti konvngr vita et sanna, nema aþrir tvegio stigi vfir aþra. A þerri tiþ var vfirbvscop sa er het Isacar, enn hann brasc siukr, er hann fra þessi tiþindi, oc talþisc vndan forinni sialfr. Enn hann sendi af sinni hendi .xii. spekinga, þa er macligir þotto vera til þessar þreto, þuiat þer cvnno beþi vel girzca tvngo oc ebresca. Þa gerþisc kennimanna fvndr mikill i Romaborg, oc komo þangat .vi. bvscopar ens atta tigar, enn .ix. oc .c. kennimanna gvþinga fvr utan þa .xii. spekinga, er Isachar hafþi senda. Constantinus konungr com þangat oc allir o[lldu]ngar Romaborgar oc Elena drotning meþ sveit sinni. Enn þer voro domendr tecnir, er hvartke hofþo gvþinga trv ne crist[inna manna], at eigi hallaþisc þer eftir sinni trv i domi.

13. Spekingr necqverr var til domanda tekenn, sa er Craton het, oc uar lerþr vel beþi a girzco oc latino. Enn þat matti alldregi of telia fvr honom, at hann þegi giof at manni. Alldregi uirdi hann konvngs tign i domi ne enscis rikismanz velldi; vinr var hann hofþingia, en þo uilldi hann eki iarþlict veldi sialfr haua. Enn þot hann hefþi eigi aura meþ hondom, þa sagþi hann sit eigin vera allt, þat er honom þotti fagrt at sia, enn hann qvaþ [auþ]kvfinga uarþuęta þat meþ ahvgio, er hann quask betr niota enn þer, oc bera evngva ahvgio fvr. Sva uar hann [uanr] at mela: Ef auþgir menn bera a sic goll oc silfr oc dvrlig cleþi, at

1 *Her er Hul paa Pergamentet.* 2 *Fragmentet har ingen Capitelinddeling; denne er foretagen for at lette Sammenligningen med Texten ovenfor.*

þer svnesc þa alþvþo betr en aþr, þa [þio]na þer meþ allre fegrþ sinni þerra augom, er auþhofom [ha]fna, enn gremia þa at ser, er auþhofanna girnasc; þui at eigi gorir ost auþhofa [mann auþgan] helldr hofnon; þui at sa dvgir uinom oc svcr eigi fe af ouinom, oc þvckisc þv(!) allt [ør]it eiga. Þetta atqueþi Cratonis spekings var ollom spocom monnom oc goþgiornom uel i scap. Annar domandi het Zenophilus, sa hafþi greve verit oc uar fvr þer sakar helst til þessa velldis tekinn, at hann þotti allra manna ofegiar-[nastr] vera þerra manna, er þo hefþi oft mikil auþhøfi meþ hondom. Alldregi quaþ hann þann mann retlatan mega uera, er meþ necqueriom atbvrþ uilldi fegiafar þigia af oþrom. Þessa þegna .ii. atqueþi var ollom spocom monnom sva hvgþect, at fvr log var haft alt þat er þer dømþo. Af þui uoro þessir tekner domendr af hendi konungs oc drotningar a milli gvþinga oc cristinna manna at raþi allz stormennis.

14. Enn er allir voro comner til mots meþ konvngi oc drotningo, þa uar hlioþs beþit, oc toc konungr til mals: «A þesso moti er þerra hluta letanda, er eigi at eins ero þeim nauþsvnligir til [helso, er nu lifa i] hemi, helldr oc þeim, er enn ero egi komner i heminn, þuiat speki drotningar moþor minnar berr ahvgio fvr þvrft allz heims, enn nu fvsisc hon gvþinga trv fvlgia, nema annat revnisc [sannara] a þesso þingi. [Enn þat ueit allr] lvþr, at ec em cristinn. Af þui samir ocr boþom at sitia oc hlvþa þui, er melt er, oc virþa oll mol [retri uirþingo oc ueita i] hugscots uitni lof scvnsamligom molom, enn fvrlita oscvnsamligar þretor. Siti sa er ser letr [þessi] log lica, oc hlvþi meþ oss þui, er domt er of trv ens himnesca konvngs, þat er [almattigs] gvþs, oc tøe sonno enn hnøki logno. Enn þer, er meþ þessom hvga coma til saþrar trv, mono oss verþa þeckir, oc mono þer finna helso anda sinna.» Enn er konungr hafþi þetta mellt, þa romaþi allr lvþr mal hans oc talþi ser þat uel lica.

15. Enn er hl(i)oþ gerþisc, þa melti Craton spekingr: «Lvþir allir, er a þesso þingi eroþ, scamt mal mon ec mela. Til þerra hluta allra, er her [gera]sc, hevir konvngr mic setan domanda, enn a[nnan] Zenophilus gofgan mann oc agøtan. Konvngr leggr ost a cristni, [oc er] hann hlifsciolldr þerrar trv. Enn hann uilldi sialfr eigi af þui domandi vera, at hann setti þaꝛ log, at engi scvlldi beþi veria soc oc døma umb. Enn in milldasta drottning moþir konungs fvlltingir gvþinga trv oc þera logom. Miklir ero tøendr hvarstvegia mals, þar er af tiginna manna trꜹsti eflasc hvarer-

tvegio, þer er til þessar þreto ero bvnir. Enn þat scolo aller uita, at uit domendr erom eigi cristnir oc egi gvþingar, helldr elsco uit specþ oc retlęti, oc uiliom helldr devia enn tvna retlęti. Allra þvrft er her melt, oc scolo at þvi allir hlioþir vera, at allir of scili, hvat her er melt eþa dómt.» Þa melti Zenophilus domandi: «Sva hevir Graton melt, sem hann hafi minom munni, en ec uil þes spvria, hverir mela scolo a moti þesso, at eigi taki hverr maþr mal fvr munn oþrom. Einom lofo ver senn at męla, en þa oþrom at andsvara einom senn, er hinn þagnar. Enn ef sva verþr gort, þa uitu allir uisast, hvat hverge melir, oc allra uisast, hvat domendr døma.» Allir leto ser þat uel lica, er domendr melto.

16. Siþan voro talþir oc nefndir þer, er til þretonnar voro bunir. Tolf cappar gvþinga voro talþir, Abiathar oc Jonas lerifeðr þerra, Godalias oc Aunan ritarar þera, Beniamin oc Aroel tulcar þeira, Jubal oc Thasa logspekingar þera, Doec oc Kvsi þingkallendr þerra, Seleon oc Jambri prestar þera. Enn sia Jambri hann var fiolkvnnigr mioc, en þvi uar leynt, oc uar gvþingom mikit traust at honom. Enn af cristinna manna liþi uar fvrstr talþr Siluester pave, þar nestr prestr sa er Romanus het, enn Maximus diacn inn þriþi, en inn fiorþi Tvllianus siþsamr maþr oc gofugr. Enn er þessir fiorir voro nefndir, þa uar spurt, hvi eigi scvlldo .xii. a mot .xii. Siluester svaraþi: «Egi trvstomc uer i fiolþa manna, helldr i mętti gvþs oc tolo .iiii. gvþspiallamanna. Cristr er oss enn ørinn, oc kollo uer nu a hann af ollo hiarta oc melom sva: Ris up þu drottinn, oc dom of sok þina.»

17. Abiathar gvþingr toc þa til mals: «Varr prophete sagþi þetta i psalmi: tacþu dømi af þinom bocom, en eigi af orom bocom, ef þu uill mal þit sanna.» Siluester svaraþi: «Oll uitni mon ec taka af vþrom bocom i dag i gegn vþr, sva sem er scoloþ taca af orom bocom i gegn oss, ef er megoþ.» Zenophilus domandi melti: «M[1] . . . . . . . . . . . . . . þat fvndit, at sialfr verþi vfirstiginn af sinom bocom oc logom, sa er upp hefr þret . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . er upha[f m]als mins, at ver trvum a .i. gvþ, enn sia Siluester ueit eki i logom, hans, er þria goþa gofgar, oc ueit hann eigi, hvat hann scal mela, sva sem sa uissi eigi, er gvþs sonr sagþisc, oc uar af þui crossfestr af feþrom orum, oc mon Siluester eigi dvlia, at hann uar dauþr oc grauenn. Enn þvi evcr hann a, at hann segir hann up haua risit a þriþia

1 *Hul paa Pergamentet.*

degi oc stigit til himna up. Nv ero þar .ii. goþar faþer oc sonr, enn inn helgi andi inn þriþi, er postolar segia ser uitrasc haua. Enn gvþ uar melti sva i logom orum: Seþ er, at ec em .i. gvþ, oc er engi annarr gvþ.» Zenophilus męlti: «Ef gvþ hevir þetta melt, þa uerþr Silvester scvlldr at sanna sic a .i. gvþ trva en egi a þria.» Silvester svaraþi: «Sia rod gvþs er i gegn otrv gvþinga þera, er dulþusc uiþ gvþ, þa er þer sa hann oc hevrþo orþ hans oc revndo craft [hans], er hann gaf dauþom lif; þui (at) sva melto flestir spamenn gvþinga: Se her gvþ varn, er up reis[ir d]auþa menn. Gvþ uissi fvrir otrv gvþinga oc melti: Seþ er, at ec em .i. gvþ oc engi annarr, ec mon uega, oc ec mon lifga, ec mon beria oc grøþa.» Abiathas svaraþi: «Ransacaþu gvþspiall þit, oc svn oss, ef Cristr þin haui necquern ueginn, þui at rod gvþs vars melti sva: Ec mon uega oc lifga.» Graton domandi melti: «Ef Cristr reisti up dauþa menn, þa er svnt, at hann man raþa lifi þess, er lifþi, þvi at dvr mego lifanda manni bana, oc ma(r)gr a[nnarr] uaþi, sa er monnom gorir geig. Enn gvþ .i. ma daudum lif geva.» Abiathar melti: «Margir gerþo slicar [iartei]nir i logom orum. Þer gengo þurrom fotum of sio, oc stoþuoþo sol, oc leto falla eld af himni vfir ouini sina, oc gauo dauþom lif, oc callaþisc engi þerra gvþ, þot slicar iarteinir gerþi, nema sia Jesus, er Siluester callar Crist gvþs son.» Siluester svaraþi: «Þui mattu eigi i gegn męla, at Jesus gaf lif dotor hofþingia yþuars, oc resti hann af dauþa einga son eckio, er til grauar (uar) boren, oc gaf hann lif Lazaro, er .iiii. daga uar fulnaþr i grof; lvg ec, ef Josippus spamaþr yþuarr hevir eigi þetta sagt fra honom.» Abiathar męlti: «Sagþa ec aþr, at [margir] gerþo slicar iarteinir fvrr, oc tolþosc eigi vera gvþ helldr þrelar hans, enn sia sagþisc gvþ vera.» Siluester melti: «Mantv þat sagt i bocom þinom, at Daþan oc Goreb oc Abiron dromboþo i gegn Moisen, oc opnaþisc iorþ undir þeim.» Abiathar svaraþi: «Sat uar þat.» Siluester melti: «Ef þat er satt, enn allra helst þui at sat er, þa liti domendr a þat, ef Jesus sia, er gaf blindom svn, enn daufom hevrn, oc rac diofla fra oþom, oc gek þvrrom fotom of sę, oc stoþuaþi hriþir oc uinda, oc gaf dauþom lif, hvart hann metti livga þat, at hann vere gvbs son, þar er gvþ letr alldregi uitislaust vndan ganga ofmetnaþar[menn, en sia Jesus] sagþi sic gvþ ver[a oc] sannaþi þat meþ iarteinom, oc melti sva viþ gvþinga: Ef er trveþ egi orþu[m minom, tr]veþ er þa iarteinom.» Þa melto domendr Graton oc Zenophilus: «Vfir er Abiathar stiginn af Siluestro, ef þat er uist, at gvþ gvþinga hevir auallt

fvr i gegn staþit ofmetnaþarmonnom. Enn ef hann segþisc gvþ vera oc [vere hann ei]gi, þa mette hann eigi lif geva dauþom, helldr vere hann sialfr da/þa verþr.»

18. Þa gek fram Jonas oc melti: «Vphaf mals mins mon hefiasc af Abraham feþr orum. Vinr gvþs var hann callaþr oc cvn hans allt heilact. Þa er gvþ scipti þioþom oc endimorcom þerra, þa varþ gvþs hlutr vfir cvni Jacobs, þess er var sonarson Abrahams. Lvg ec, ef Siluester ma dvlia, at sva er ri

---

# STEPHANUS SAGA.

(*Cd. Holm. 2 folio, A*; *Cd. 661 qv., B*).

**Her hefr upp sogu ens helga Stephani erkidiakns**[1].

I þann tima er Tiberius keisari red Romariki, oxu upp tveir ungir menn gaufgir ok agætir undir hendi godum manne ok virduligum i Gydingalandi, þeim er het Gamaliel, hann var meistare ok lögmadr Gydinga. En þessir inir ungu menn het annar Saulus en annar Stephanus, badir voru þeir ættstorir menn ok vitrir en þo sundrleitir i ordum ok skapferde. Saulus var hardlyndr ok bradr, en Stephanus var miuklyndr ok þolinmodr, Saulus var odr[2] ok akafr, en Stephanus var linr ok blidr. Saulus [skildi þat er hann nam af[3] meistara sinum i Moyses lögum eda spamanna bokum likamliga, en Stephanus þyddi þat andliga. Optliga for svo þeira i millum, at Saulus leitar vandra spurninga vit Stephanum, en hann leysti þær vel ok vitrliga, en Saulus þrætti þo moti þriotligha. Saulus var utlendr at ættboga, en Stephanus þarlendr. Stephanus var allra manna vænstr, svo at hans fegrd ok fridleiki var likari einglum en monnum. Þetta [er miok allt[4] samstunda þvi, er drottinn vor Jesus Kristr birti verolldina med sinni holldgan [ok pining[5] ok dauda, ok mörgum iarteignum ok stormerkium, þeim sem gudspiollin votta bædi i lifinu ok sialfs hans piningarsaugu[6].

2. [7]En eptir pisl Jesus Kristz ok upprisu þa ihugar Pilatus iarll sitt mal, er hann veit a hendr ser sakir[8] um þat, er hann hafdi Jesum Krist til dauda dæmdan saklausan, ok uggir reidi

1 *Saaledes er Overskriften i A*; *B har:* Hier byriar upp saugu virduligs herra Stephani prothomartiris patroni Snoksdals kirkiu. 2 ygr *B*. 3 [ var næmr at *B*. 4 [ var *B*. 5 [ hiervist, uppstigning *B*. 6 pislarsaugu *B*. 7 Af Pilato iarli *Overskr. i A; jvf. Postola Sögur, S. 154 ff.* 8 *mgl. B*.

Tiberij keisara af þessu tilfelli; tekr nu þat rads, at hann lætr bua skip ok setr fyrir vin sinn, sa het Adrianus, ok sendir til Romam med miklum fiarhlut ok storum giôfum at tulka maal sitt ok afsaka sig fyrir keisaranum. Adrianus rædz [a ferdina[1], ok bera vedr hann vestr i hafit miog, ok at lyktum at Galicialande[2], þar sem nu hvilir enn helgi Jacobus postoli. Þar fyrir var Vespasianus settr einvalldzhôfdingi af Tiberio keisara. En þat var þar venia ok lôg, at allt þat sem þar bæri vedr at lande ok ræki upp, þa skylldi þat vogrek heita, ok landzmenn skylldu eiga valld bædi aa fe ok mônnum. Nu er ok þegar tekit feit allt ok hondladir menn af landzfolkinu. Ok er Adrianus veit sidu þeira ok ser lif sitt i hættu ok sinna manna, ok þa leiddr fyrir Vespasianum, segir hann svo: «Ek veit herra, sagdi hann, at eptir lôgum ydrum em ek ok allir minir menn i[3] ydru valldi, en fyrir hôfdingskap ydvarn bid ek ydr, at þer gefit oss frid ok frelsi þangat sem vær vilium, hvat sem af fe verdr.» Vespasianus svaradi: «Hverr ertu eda hvert skalltu fara, eda hvadan komtu ath?» Adrianus svaradi: «Ek em af Jerusalem borgarmadr, þadan kominn, ok ætlada ek til Romam, ef eigi bægdi oss vedr ok bære hingat.» Vespasianus spyrr: «Segir þu þik þadan ættadan, sem menn eru vitrir; seg mer, kantu nockut af lækning[4]? leyn mik eigi, ef þat er.» Vespasianus hafdi kvikur i nausunum allt fra þvi er hann var fæddr, en þeir kalla þat mein vespas, ok af þvi var hann kalladr Vespasianus. Adrianus svaradi: «Satt er þat, at med oss eru margir vitrir menn, en þo em ek eingi læknir, ok enga bot ma ek þer vinna; en þo var madr einn dyrligr med oss, ok ef þu hefdir hans fundi naad, þa værir þu nu heill.» «Þu kant, sagdi Vespasianus, at lækna mik, tak til at helldr, þviat þar skal lif þitt vit liggia.» Adrianus svaradi: «Sa enn sami, er syn gaf blindum, heilsu siukum, hreinsadi likþra, græddi oda, lifgade dauda, leidretti villta, hann veit, at ek kann ongva lækning, ok hann mun mik leysa undan lifs haska.» «Hverr er sa, er þu segir her fra?» Hann svaradi: «Jesus nazarenus, sa madr er mattugr var[5] i ordi ok verki bædi fyrir gudi ok monnum, hann dæmdu til dauda Gydingar fyrir ôfund sina ok krossfestu.» Vespasianus svaradi: «Sia kann ek þat, ef sia madr lifdi, þa mætti hann mik heilan giora.» Adrianus svaradi: «Ok enn veit ek, ef þu [hefir tru til, attu[6] matt af honum miskunn fa.» Vespasianus svaradi: «At

1 [ til ferdarinnar *B*. 2 [ *saal. B*; Galizkilande *A*. 3 *saal. B*; af *A*. 4 at segia *tilf. B*. 5 *tilf. B*. 6 [ truir a hann, at þu *B*.

visu trui ek, at sa megi mer bæta ok mik heilan giðra, ef hann vill, er lifgadi dauda menn.» Ok iafnskiott sem hann hafdi þetta mællt, þa fellu kvikurnar allar þegar or nausum honum, ok feck hann fulla lækning ok heilsu meins sins. Hann var storfeginn ok mællti svo: «Auruggr em ek, at sa madr er sannliga guds son, er mik hefir græddan, ok þegar er ek fæ leyfi til af keisaranum, þa skal ek her safna, sem ek ma fyrst, ok fyrirkoma þeim nidingum, er þetta overkan hafa unnit at rada eda gera honum dauda, þeim enum sama er adra grædir ok lifgar dauda; en þu haf nu heilan sialfan þik ok þina menn, fiarhlut þinn ok þeira, ok far nu heill ok i fridi hedan heim, ok far ecki med þeim eyrendum framar, sem fyrir þik eru logd.» Ok svo giorir hann, snyr aptr ok kemr heim i Judeam.

3. [1] Svo er sagt fra Tiberio keisara, ath hann hafde [2] haft vanmegn mikit, ok er svo i sumum bokum fra sagt, at hann hefdi æxl mikit odrum megin a kinninne eda vanganum, ok var margs i leitat um lækningar, ok verdr eingin su fundin, er [honum vinni bot [3]. Keisarinn fregn þessi tidendi or Gydingalande, at þar var læknir, sa er hvetvitna græddi heillt, ok eigi med grasagrædingu eda iarnaskurdi eda elldbruna [4], helldr med einu saman ordi sinu. Nu heimtir hann til sin .i. hǒfdingia ok sinn kæran vin, er het Albanus, ok sendir hann ut um haf med miklum fiarhlut ok foruneyti a fund Pilati iarllz [5]. Honum [tekz vel sin ferd [6], ok kemr sidan til Jorsalaborgar ok a fund iarllzins, berr upp fyrir hann bref ok eyrendi sin ok fær þar virduligar vittokur; var þat ok i brefum bundit, at keisarinn bad iarllinn senda ser Jesum lækni nordr þannveg [7] til Romaborgar. Pilatus vard vit þetta far ok ihugafullr, ok spyrr Albanus, hvi honum [finniz her ecki [8] um. «Þvi segir Pilatus, at hans er nu eigi vit kostr, hann er nu daudr,» ok segir honum sidan allt, hversu farit hafdi um piningina Jesu, þviat hann hafdi þat vor krossfestr verit, sem þa var nylidit or hendi. Albanus telr miok a hendr iarlinum ok avitar hann um þat, er hann skal dæmdan hafa til dauda þann mann, er þvilikr nytiamadr var ollu folki, sem Jesus hafdi verit, ok sagde hann i hættu hafa riki sitt ok valld, ef keisarinn spyrr þetta. Pilatus verr sik sokinni, kvad sialfa Gydinga eina þessu valldit [9] hafa ok radit, en sagdiz hafa gefit til samþycki at lokum, ok þo nær

1 Fra Tiberio keisara *Overskr. A.* 2 hafe *B.* 3 [ vinne bot meinenu *B.* 4 elldzbruna *B.* 5 iarls *B.* 6 [ forzt vel *B.* 7 þangat *B.* 8 [ finz hier svo mikit *B.* 9 ollat *B.*

naudigr, ok hafa vit[1] mællt, medan hann matti. Nu medan Albanus dvelzt þar i Judea, þa eru honum sogd morg takn ok iarteignir, þær sem Jesus hafdi gervar, ok iafnvel er hann reisti menn af dauda. Þa segir hann svo, ath honum virdiz þessi sannliga gud vera, er med sannyndum [let lifga[2] dauda menn. Hann a ok stefnur vit Gydinga ok asakar þaa fast, [at þeir hefdi[3] sialfan gud krossfestan ok pindan, «ok munut þer, segir hann, þat fyrir hondum eiga at lata land ydvart ok fiarhlute, en taka a moti ofrid ok harmkvæli, ef þer fait eigi med sônnu þessi sok af ydr komit[4].» Gydingar verda hræddir ok ihugafullir vid þesse ord Albani ok beida ser bidstundar til andzsvara um þetta mal, ok vilia ord gera þeim, sem frodaztir voru ok vitraztir til umrada, hversu þessu mali ma sannligaz hrinda. Nu lætr hann svo standa þetta mal at sinne, sem þeir beiddu, ok byz nu til heimferdar.

4. Kona ein var su, er i[5] mikille vingan ok kærleik hafdi verit vit Jesum ok het Veronica, hun var gôfugh husfreyia ok radvond kona. Hun kom til fundar vit Albanum ok sagdi honum môrg takn ok stor fra Jesu Kristo, ok kvad hann vera drottin sinn ok gud sinn, «var hann iafnan med mer, sagdi hun, medan hann lifdi, ok hialp ok huggan minu hyski; hann fyrirdæmdi Pilatus til dauda ok krossfestingar fyrir ôfund ok illvilia Gydinga; hann reis upp af dauda a þridia degi ok syndiz vinum sinum af dauda risinn; a fertuganda degi fra upprisu sinni steig hann til himens.» Albano fær þetta mikils ihuga ok segir svo: «Se ek, segir hann, at erendleysu mikla ferr ek at sinni, er ek skal einga lækning fa mega keisaranum, þviat nu se ek þann ôngvan utveg til.» Hun svaradi: «Alldri mun su von at eingu verda, er madr treystiz gudi.» «Allmiok harmar mik, segir hann, er ek skal med ôngum kosti minu eyrendi til leidar koma.» Hon svaradi: «Þat var, þa er minn herra ok meistari for her um land ath kenna tru ok retta sidu, at hann var stundum ath min, ok þo lôngum mista ek hans syniligrar navistu; þa villda ek nockura liking hans hafa iduliga hia mer til hugganar, ok þa er ek villda færa duk einn skrifara, at hann pentadi þar a likneski drottins mins, þa mætti hann mer sialfr, ok er ek sagda honum spyrianda efni gôngu minnar, þa tok hann dukinn or hendi mer ok strauk andlit sitt med ok feck mer sidan, en þa var dukrinn markadr fagrliga sialfs hans yfirliti[6] ok likneskiu; ok þess vænti ek, ef keisarinn litr

1 moti *B.* 2 [ hefir lifgat *B.* 3 [ er þeir hofdu *B.* 4 hrundit *B.* 5 *tilf.* *B.* 6 asionu *B.*

þenna duk ok likneskiu, at hann fae heilsu sina, þviat mörgum hefir at þvi ordit.» «Er sia gersimi, segir hann, nockuru[1] gulli eda silfri samvirdilig?» «Nei, segir hon, ok engu vætta nema fastri·tru ok fullkomnum godvilia.» Albanus spurdi þa: «Hvat er nu til rads?» Hun svaradi: «Ef þu vill, sagdi hun, þa mun ek fara med þer til Romaborgar ok syna keisaranum likneskit.» Albanus þackar henne ok verdr· storliga feginn. Snyr nu þegar sinni ferd heimleidiss, ok ferr Veronica med honum. En er hann kemr a fund keisarans ok geingr fyrir hann, þaa verdr keisarinn honum svo feginn, at hann kvedr Albanum fyrri ok ætladi, at Jesus mundi þar kominn med honum.· Albanus sagdi honum nu, hvat titt var a Gydingalande. «Hvat er nu þa, sagdi keisarinn, er mer nu eingi von lækningar eda liknar?» Albanus svaradi: «Eigi er svo, her er komin dyrlig kona med mer, su er verit hefir hans þionostukona, ok hefir sialfs hans likneskiu a einum duki dyrliga merkta med sialfs hans hagleik ok undarligum hætti, ok hefir til heilsubotar ydr þessa gersimi hingat flutt, ef þer takit med trufesti.» Keisarinn bad þegar dukinn til sin bera ok let allt a leidina [fyrir breida nidr[2] klædi ok kaugra, pell ok purpura. En iafnskiott sem hann leit likneskiuna, þa vard hann heill. Veronika lofar gud fyrir allar giafir sinar ok iarteinir, ok snyr heim aptr sinni ferd med miklum soma ok giöfum af keisaranum. Eptir þetta lætr keisarinn Tiberius þings kvedia i borginni, ok hefir hann uppi ok tiar a þinginu, hveria heilsubot ok iarteign hann hafde feingit, ok vill þat i moti leggia, at sia Jesus, er honum hafdi heilsubot unnit, væri [i lög tekinn[3] ok i goda tölu hafdr þadan i fra bædi i Romaborg ok annarstadar, ok beiddi þar alla samþyckis[4] til ok iayrdes, þviat þa var sem nu svo rik Roma, at þat eitt skylldi fullkomit edr lögtekit med ollum monnum um heiminn, sem þar var sett eda [lögfest gert[5]. En aulldungar villdu eigi þessu samþyckia, at Jesus væri i lög leiddr, kvoduz ecki kunna at henda ordreidu[6] alþydu til slikra stormæla, þar sem eingi höfdu þeim bref um þetta komit eda merkiligar ordsendingar höfdingia or Gydingalande. Nu fæz þetta eigi, sem keisarinn beiddi, en her i mot lætr hann suma ölldungana drepa en suma or lande reka.

5. En fra Gydingum er þat at segia, at þeir ihuga vandrædi sin. Þeir stefna til sin ollum inum æztum[7] ok vitröztum sinum ættmönnum ok eiga margar stefnur sin a medal, setia þessi svör

1 nockut *B.* 2 [ nidr breida bæde *B.* 3 [ logtekinn *B.* 4 samþycktar *B.* 5 [ laugtekit *B.* 6 ordrædu *B.* 7 ellztum *B.*

ok sakvarnir fyrir sigh, segia gud vera odaudligan ok eigi mega deyia, en kallaz villumann einn dæmdan hafa, þann er nidr braut Moyses lôg ok eyddi ollum soma þeira eda retti, þeim sem gud hafdi settan, at folkit skylldi gera til sinna yfirmanna. Nu vilia þeir fa ser formælanda þessi svôr ok sakvarnir upp at bera fyrir Romveria. En þar finna þeir ôngvan iafnvel tilfallinn sem Stephanum bædi fyrir ættar sakir ok vitzku ok snilldar. Eiga nu vit hann ok bidia hann undir taka um þetta maal ok fara a fund Romveria ok hrinda þessu vandmæli med þvilikum svorum ok efni, sem nu var fra sagt. Stephanus gefr rad til, at þeir sendi ord enn af nyiu til allra hinna æztu ok hinna vitrôztu manna iafnvel i onnur lond, þeira sem þar væri Gydingar, ok bad þa þing stefna þar i Jorsalaborg, letz þa vilia heyra ord þeira allra eda hvat samþykt[1] yrdi med þeim, letz þo midlung[2] vænt hugr um segia, hversu fara mundi um þetta mal, kvedz ugga mundu fyrir þeira hond, at þeir mundi[3] sônnu sagdir, «þviat mer syniz, sagdi hann, sem allir hlutir se framm komnir ok fylltir um Jesum, þeir sem fyrir voru spadir bædi i Moyses lôgum ok i[4] spamanna ordum.» Þessum tillogum hans toku þeir þungliga, en þo þago þeir þetta rad, at þeir efna þingit ok stefna til vida enum vitrozt-um Gydinghum.

6. En a þessu mæli[5] fregnir[6] hinn helgi Petr ok adrir postolar vitrædur þeira Stephani ok Gydinga ok stefna honum aa sinn fund leyniliga ok kenna honum retta tru, sem þat var aud-vellt, ok eptir þat var hann skirdr, ok bado postolarnir hann sidan kenna mônnum kenningar. En er vaxa tok fioldi lærisveina, en konur þeira urdu umhyggiulausar, þa môgludu Girkir um þat. Postolarnir heimtu saman lærisveina ok mælltо: «Eigi hæfir oss at fyrirlata kenningar en þiona þeim i fæzlufangi, leiti þer af ydr siau þeira manna, sem godan ordrom hafve ok fullir se af helgum anda, þa er vær setim yfir þetta verk. En vær skulum vera stadfastir i bænahalldi voru ok kenningum guds orda.» Ollum likadi þetta vel. Þa logdu postolarnir hendr i hofut þeim siau, er þeir gafu diakna tign, med bænarordum. Hinn helgi Stephanus var valdr einn af siau diaknum til þessarar þionostu, en hann var fullr miskunnar heilags anda ok sannrar speki, styrktr af gudi at giora takn ok iarteinir fyrir folkinu.

7. En er Gydingar fluttuz[7] saman til Jorsalaborgar, af þeim

1 samþycke *B*. 2 þeyge *B*. 3 mundu *B*, 4 *saal. B*; svo *A*. 5 mali *B*. 6 fregnar *B*. 7 flycktuzt *B*.

sokum sem fyrr voru sagdar, þa reistuz upp nockurir af þinghusamonnum Gydinga til motmælis vit Stephanum, er kalladir ero Libertini, þat ero þeir er frelsingar[1] ero giorfir af þrælum; þessir voru fyrstir, er i mot stodu kristiligri tru ok enum helga Stephano; þar med þeir menn er kallaz Cyrenensis af Cirene, þeire borg er svo heitir, ok þeir er voru af Cilicia ok Asia enni minne, er hvort er odru nalægt. Þessir allir gengu til þrætu um truna vit hinn helga Stephanum, en eigi mattu þeir i moti standa sannri speki ok helgum anda, er med honum talade. Þa leiddu þeir inn tvo falsvotta, er vottudu hann sagt hafa gudlaustun i mot gudi ok Moyses lôgum, hrærdu þeir nu allt folk, hôfdingia ok ritara til mikillar reidi, ok leiddu[2] sidan enn helga Stephanum aa þing þat, er Gydingar hofdu stefnt. Falsvottarnir, er til voru ætladir, risu upp aa þinginu ok sôgdu svo: «Þessi madr lætr eigi af hallmæli at veita helgu musteri ok lôgunum, vær heyrdum hann segia, at Jesus nazarenus mun nidr briota stad þenna ok um skipta setningar þær, er Moyses skipadi oss.» Ollum þeim, er a þinginu voru ok sa enn helga Stephanum, syndiz andlit hans fagrt sem eingils asiona. Hôfdingi kennimanna spurdi þa, hvort þessir lutir væri svo, sem þa voro fluttir honum i mot. Hinn helgi Stephanus dvaldi þaa ecki andsvor merkilig at veita, en þvi at hann var avitadr ok rægdr af gudlôstun i gegn gudi ok Moyses logum, veik hann i upphafi sinnar tolu lofsamligum ordum til sialfs guds, er fyrr meir taladi vit helgha fedr ok spaamenn, sagdi þenna vera gud allz velldis ok dyrdar; skiotliga sneri hann malinu til lofs vit Moysen, talandi af hans ættmonnum virdulighum, er hann var fra kominn i upphafi af Abraham, segiandi hversu hann geck ut af Caldea ok kom i Mesopotamiam ok i Karram ok þadan i Judeam, hof sidan med þessum hætti sina tolu.

8. Heyrid mik[3], brædr ok fedr. Gud dyrdar vitradiz fedr vorum Abraham, þa er hann var i Mesopotamia, fyrri en hann bygdi i Aran, ok mællti vit hann: «Gack ut af þinu lande ok fra frændsveit[4] þinni ok kom a þat land, er ek mun þer syna.» Þa for hann braut af lande Caldeorum ok bygdi i Aran, þat er et sama ok Karra. Ok sidan er fadir hans Tare var andadr, leiddi gud hann aa þetta land, er þer byggit nu, en eigi gaf gud honum erfd aa þessu lande ok eigi eitt fotspor, þat er enn minzta hlut, þviat ecki atti hann þar þa nema þat, er hann hafdi verdi keypt, helli med akri eignadiz hann eigi at erfd, helldr keypti hann hann

1 frelsingiar *B.* 2 *saal. B*; leiddi *A.* 3 *saal. B*; menn *A.* 4 ættleifd *B.*

af Effron syni Seor etheo fiorum hundrudum skillinga, en þetta land het gud at gefa honum til eignar ok afkvæmi hans [i erfd[1] eptir hann, med þvi at þa enn atti hann ôngan son. Gud mællti þa wit Abraham: «Afkvæme þitt mun vera utlent a odru landi, ok munu egipzkir menn þat undir þrældom leggia ok þat illa hallda þar fiogur hundrut ara ok þriatigi, en þa þiod, er þina ættmenn þrælkadi, mun ek hegna, sagdi drottinn. Eptir þat munu þeir braut fara af Egipto ok þiona mer i þessum stad.» Gud gaf sidan Abrahe laugmal skurdarskirnar, ok eptir þetta var fæddr Ysaac son Abrahe. Fadir hans veitir honum skurdarskirn aa atta degi þadan fra. Ysaac gat Jacob, en Jacob .xii. hôfudfedr. Synir Jacobs aufundudu Joseph brodur sinn ok selldu hann vit verdi i Egiptum, en gud var med honum ok leysti hann af ollum kvolum ok mannraunum ok gaf honum miskunn, gipt ok speki[2] i augliti Pharaonis konungs Egipti. Pharao skipadi Josep hofdingia yfir Egiptum ok yfir allan sinn hirdgard. Þar næst kom sulltr ok hallæri mikit yfir Egiptum ok iord Canaan, svo at fedr vorir fengu eigi fæzlur at kaupa; ok er Jacob heyrdi, at hveiti matti aflaz i Egipto, sendi hann fyrst [fedr vora af þessi sôk, ok svo i annat sinn[3]; var Joseph þa kendr af brædrum sinum. Þa var Pharaoni konungi kunnikt, hverrar ættar hann var. Sidan sendi Josep menn eptir fôdur sinum ok ollum nafrændum. Kom Jacob þa i Egiptum, ok med honum siautigir ok .v. menn. Þar andadiz hann ok fedr vorir, ok voru fluttir i Sichem ok grafnir i þeim stad, er Abraham keypti med silfri af sonum Emor sonar Sichem. En þa er nalgadiz guds[4] fyrirheit, þat sem hann het Abrahe, toku at vaxa ok fiolgaz ættmenn vorir i Egipto, þar til er konunga skipti vard i landinu. Þessi enn nyi konungr vissi eigi skyn aa Joseph ok þeim velgerningum, er hann veitti landino, þessi veitti umsatir frændum vorum ok naudgadi fedr vora, at [þeir bæri[5] ut sonu sina, en þeir væri eigi uppfæddir. A þeirri somu tid, er konungrinn baud sveinbôrnin ut at bera, var Moyses fæddr[6], er kær var gudi, [þria manadi var hann fostradr i husi fodur sins[7]. Eptir þetta var hann utborinn ok kastadr i ana Nil. Dottir Pharaonis konungs kom til arennar Nil a þessi stundu ok tok sveininn, fæddi ok fostrade sem sinn son. Moyses var lærdr aa alla speki egipzkra manna, hann var mattugr ok framkvæmdarmikill i ordum ok

1 [ til erfdar *B*. 2 i ollum hlutum *tilf. B*. 3 [ sonu sina þangat af þessare sok *B*. 4 *saal. B*; gudlikt *A*. 5 [ bera *B*. 6 i husi fedr sins *tilf. B*. 7 [ *mgl. B*.

verkum. Ok er Moyses mundi vera fertugr at alldri, hugsadi[1] hann at vitia brædra sinna Israels sona, ok er hann sa nockurn ebreskan mann meingiordir þola af egipzkum manne, hefndi hann þess, er meingerdina þoldi, ok drap enn egipzka, ætlandi at brædr hans myndi skilia þat sem hann sialfr skildi andliga, at fyrir hans styrk mundi drottinn frelsa Israels sonu af vallde egipzkra manna; en þeir skildu eigi. Næsta dag eptir villdi hann sætta .ij. ebreska menn þrætandi sin a mille, ok sagdi svo: «Þit erut brædr yckar i mille, þvi samir eighe, ath hvor giôre odrum mein.» Sa er naungi sinum weitti meingerdina, hafnadi hans tillôgu svo segiande: «Hverr skipadi þik hôfdingia ok domanda yfir oss, edr willtu drepa mik, svo sem þu drapt i giær hinn egipzka mann.» Ok er Moyses heyrdi þetta, ottadiz hann ok flydi a iôrd Madian; þar geck hann at eiga Sephoram dottur kennimanz Madian ok gat vit henne tvo sonu. Ath fylltum odrum fiorumtigum vetra vitradiz honum eingill guds i eydimôrk fiallzens Synay svo sem i loganda runni. Moyses þetta siaandi undradizt synina, ok er hann geck nær, at hann matti[2] glôgligar at hyggia, þa heyrdi hann rodd drottins svo segiandi: «Ek em gud fedra ydvarra, gud Abraham, gud Ysaac, gud Jacob.» Moyses hræddiz miôg ok þordi eigi nær ath ganga. Drottinn mællti þa vit hann: «Leys þu skoklædin af fotum þer, þviat stadr, sa er þu stendr aa, er heilôg iôrd. Ek sa mædi ok meingerdir, er lydr minn þolir, sa sem halldinn er i Egipto, heyrda ek ok syting ok grat minna manna, ok nu kom ek þa at leysa. Ek kom nu ok at senda þik i Egiptum.» Þenna Moysen, er þeir neitudu, er svo sôgdu fyrr, «hverr skipadi þik domanda ok hofdingia yfir oss,» sendi gud hofdingia ok lausnara þa at leysa af egipzkum þrældome[3] med fulltingi eingils, er honum vitradiz i loganda runni. Þessi leiddi þa af Egipto gerandi takn ok mikil stormerki a Egiptalande, i hafinu rauda ok i eydimôrk fioratigi ara. Þesse enn same Moyses sagdi svo sonum Israels: «Gud mun spamann reisa ydr til hugganar af brædrum ydrum, honum skulu þer hlyda sem mer.» Þessi er sa er var med safnadi Israel folks i eydimôrkinni, med eingli þeim, er talade vit hann a fiallinu Synay, ok med fedrum vorum, hann tok af gude lifs ord at gefa ydr. Fedr vorir villdu honum[4] eigi hlyda, ok raku hann af hôndum, en fystuz aptr i Egiptum med rangsnunum hiortum svo talandi vit brodur Moysi Aron: «Gior oss þau gud, er oss visi leid, þviat vær vitum eigi, hvat af er ordit Moysi, þeim er oss leiddi brott af Egipto.»

1 for *B*. 2 mætte *B*. 3 *saal. B*; þrældon *A*. 4 *saal. B*; hann *A*.

A þeim dögum smidudu þeir einn kalf, sidan færdu þeir þessu skurdgodi fornir ok glodduz af handaverkum sinum. Fedr vorir höfdu ok tialldbudir logmals eda vitnis i eydimorkinni eptir þeire skipan ok mynd, sem gud syndi Moysi a fiallinu, ok baud honum at gera, ok þessa somu tialldbud fluttu þeir med Jesu, er Josve kallaz, a fyrirheitziord, er fedr vorir bygdu eptir brautferd heidinna þioda fyrir gudligan styrk ok allt til daga Davids konungs, er fann miskunn i guds augliti, ok bad at hann mætti finna eda smida tialldbud gudi Jacob. Salomon konungr smidadi guds musteri aa sinum dögum. En hinn hæsti gud [byggir eigi i þeim herbergium[1], er med manna hondum er gior, sem hann sialfr segir fyrir spamanninn: «Himinn er sæti mitt, en iordin fotbord fota minna.» Ok enn segir hann svo: «Hvilikt hus munu þer mer smida, eda hvilikr mun vera stadr [minnar hvilldar[2], eda gerdi eigi min önd alla þessa hluti? Þer hafit hardan ok torsveigdan hals, svo it sama oskir hiortu ok saurga heyrn, þer vorud avallt gagnstadligir helgum anda sem ydrir fedr. Hverr er sa madr af spamonnum, er fedr ydrir gerdu eigi ofrid? Þa drapu þeir, er fyrirbodudu tilkomo ens rettlata, þess ens sama vorut þer nu svikarar ok manndrapsmenn; þer tokut vid logmalinu eptir skipan ok vardveittud þer eighi.»

9. [3] En er Gydingar höfdu heyrt agæta tölu ens helga Stephani, skaruz [innan hiörtu þeira[4], ok gnistu tönnum i gegn honum. En med þvi at enn helgi Stephanus var fullr af helgum anda, leit hann i himinenn ok sa guds dyrd, hann sa ok Jesum i [manz asionu standandi[5] a hægri hönd gudligs kraptz. Hinn krossfesti Kristr vitradiz honum standandi, at eigi stakade sa i trunni, er gryttr mundi vera. Ok af þvi sialfu, er Kristr syndiz standandi, birti hann sig buinn at hialpa enum helga Stephano, þviat sa, er beriazt skal eda fullting veita, hæfir at stande. Hinn sæli Stephanus mællti þa: «Nu se ek himna upp lukazt ok son guds standa a hægra veg guddomligum krapti.» Gydingar æpto þa akafligha i gegn honum, en byrgdu eyru sin, svo sem þeir hræddizt gudlaustun ath heyra, ok med einu samþycki ok akafa gengu þeir at honum grimliga ok drogu hann ut af borginni ok gryttu hann þar. Þetta hugduzt þeir gera eptir Moyses lögum, þviat lögin budu, ath gudlastanarmadr væri leiddr ut af herbudum

1 [ giorer eigi i þeim herbergium at byggia *B*. 2 [ sa er ec hvilir *B*.
3 Gryting Stephani *Overskr*. *A*. 4 [ þeir innan i hiortum sinum *B*.
5 [ mannligri asionu standa *B*.

ok gryttr þar af ollum lyd. Tveir falsvottar, eptir þvi sem lôgin budu, gryttu hann fystir, þviat svo var ritad af gudlastanarmanne hin fyrsta hond vottanna mun hann gryta. Klædi sin lôgdu þeir nidr[1] fyrir fætr ungum manne Saulo, er fyrr var getid, fostbrodur heilags Stephani, sa er nu Pall postoli, sem þeir skylldu eigi saurgaz nærkomandi þeim, er gryttr var. Heilagr Beda prestr vottar, at gud sa miskunnsamliga fyrir Saulo, er hans hendr saurgoduz eigi i uthelling saklauss blods, helldr at eins vardveitti hann klædi þeira, er gryttu Stephanum; en þo mundi hann hafa fyrirfarizt af þessu samþycki sva sem makligr daudans, nema sialfr gud fyrir sina miskunn hefdi blasit i hans briost sanna synda idran. Enn helgi Lukas segir svo: Nu gryttu þeir Stephanum kallanda ok svo segianda: «Heyrdu Jesu drottinn minn, tak nu anda minn.» Svo mællti drottinn Jesus Kristr vit gud fodur fyrir sitt andlat: «I hendr þinar fel ek anda minn.» Hinn helgi Stephanus setti nidr kne sin kallandi mikilli roddu ok svo segiandi: «Heyrdu drottinn minn, lat þeim eigi þetta verda at synd, þviat eigi vita þeir, hvat þeir giora.» Margir þeir, er honum veĩttu dauda, hugduz lôgin fylla i[2] þvi, sem drottinn hafdi fyrir sagt: Koma mun su stund, at hverr sꜳ, er ydr veitir dauda, mun hyggiazt gudi þionostu veita. Ok er hinn helgi Stephanus hafdi þetta mællt, þa sofnadi hann i fridi[3] drottins. Hinn sæli Stephanus kallaz merkismadr piningarvotta guds, þviat hann var fyrst[4] pindr eptir Kristz pining a þvi enu sama are, [er menn hyggia at verit hafi[5]. Gydingar letu uiardadan liggia likam hans, ath dyr rifi eda fuglar, en med gudligri gæzlu vard svo, at hvorki grandade. Gamaliel fostri hans ok fleiri[6] guds vinir toku likam hans ꜳ nattarþeli ok veittu virduligan grauft eptir þeira sid, ok gretu miok ok syttu miok hans dauda. Svo er sagt, at hinn helghi Stephanus væri pindr a þeim manade er Augustus heitir, en heilagr domrenn fyndiz[7] i Decembrē manadi þann dag, er vær hôlldum piningina[8]. Þa gerdiz ofridr mikill kristnum mônnum i Jorsalaborġ, flydu allir adrir nema postolar guds, ok dreifduz i herod Gydingalandz ok Samarie, en Saulus leidrettiz litlu sidarr af bænum heilags Stephani ok gerdiz postole guds. En hefnd drottinligrar piningar vit Gydinga frestadiz af Romverium fioratigi ꜳra, eda helldr meir allt til daga þeira fedga Vespasiani ok Titi, þviat

1 af sier ok *B*. 2 eptir *B*. 3 nafne *B*. 4 fyrstr *B*. 5 [ at þvi er menn hyggia *B*. 6 adrer *tilf.* *B*. 7 fundenn *B*. 8 *saal.* *B*; piningvnne *A*.

þegar er Vespasianus geck til rikis yfir Romverium, mintiz hann sins fyrirheitz, þess sem fyrri var getit, ok gerdu þeir fedgar her ut um haf ok brutu nidr Jorsalaborg ok drapu marga Gydinga, en suma selldu þeir eda meiddu, ok eyddu allt Gydingaland. En langa æfi leyndiz likame heilags Stephani i iordu ok annara heilagra manna, þeira er[1] med honum voru grafnir, þar til er drottinn villdi lata lysa yfir dyrd heilagra votta sinna mônnunum til hialpar.

10. Lucianus het prestr, sa er var skamt fra Jorsalaborg a bæ þeim, er kallaz Gamaliels stadr, þviat þar hafde hann buit ok [latid kirkiu gera[2]. Gamaliel var spekingr mikill ok hafdi tekit tru af kenningum Pals postola, en verit lærifadir þeira Stephani aa fyrrum timum, svo sem adr var ritad. Lucianus prestr var lôngum at kirkiu ok a bænum ok var vanr at sofa i kirkiuskoti. En þetta gerdiz a dôgum konunga þeira, er annar het Honorius en annar Theodosius. A fôstunott þeire er var enn þridia nonas dag Decembris manadar, þa er Lucianus var kominn i reckio sina ok sofnadr svo laust, at hann vissi trautt, hvort hann vakti eda eigi, þa sa hann koma til sin gôfuglighan mann alldradan ok mikinn vexti, hæran ok skeggiadan i kennimanz buningi, ok var krossmark a klædum hans, ok hafde hann gullsprota i hende, ok stod hia prestinum ok knydi[3] hann med sprotanum þrysvar ok mællti: «Luciane, Luciane, Luciane! fardu i Jerusalem ok mæl þetta vit Jon byskup: Hversu leingi skulum vær byrgdir vera, þar sem vær eigum aa þinum tidum ath vitrazt? luk þu upp skyndiliga grof þeiri, er i liggia likamir vorir oræktir, at drottinn luki upp dyrum milldi sinnar fyrir mannkyninu, þviat heimrinn færizt i margan haska; en eigi ber ek þessa ahyggiu fyrir mer einum, helldr ok fyrir þeim sem[4] med mer ero.» Lucianus mællti: «Hverr ertu eda hverir ero med þer?» Hann svaradi: «Ek heiti Gamaliel fostri Pals postola, en austr fra mer i grôfinni þar er Stephanus drottinn minn, er grioti var bardr af Gydingum fyrir Kristz tru utan borgar i nordratt, ok la þar likame hans bædi dag ok nott omyldr fyrir borgarhlidi, sem Gydingar budu, en ecki dyr ne fugl grandadi likama hans; en ek vissa tru hans ok heilagleik, ok villda ek eignaz nockurn hlut med helgum manne, ok sendi ek leyniliga um nott þa menn, er ek vissa guds tru hafa, ok feck ek þeim reidskiota ok adra naudsynliga hluti til, at þeir færdi likam heilags Stephani a bæ minn .xx. milur fra Jorsolum, en ek let hann leggia i steinþro mina nyia. En i annari steinþro hvilir

1 þar hvila, er *tilf.* ***B.*** 2 [ þar kirkiu giorva ***B.*** 3 knude ***B.*** 4 er ***B.***

Nichodemus, sa er kom um nott til lausnara wors, ok heyrdi hann þa kenning af honum, at eingi matti inn ganga i himinriki, nema hann væri endrgetinn af vatne ok helgum anda. Sidan tok hann skirn af lærisveinum Kristz. En Gydingar urdu varir vit þat ok toku af honum hôfdingia velldi ok rako hann a brott or Jorsalaborg; en ek tok vit honum, ok fædda ek hann ok klæddag, til þess er hann andadiz. En sidan grof ek hann vegsamliga hia Stephano, þviat hann hafdi ok tekit ofrid fyrir guds nafni. Þar hvilir ok i þridiu steinþro Abibas sonr minn, er med mer tok skirn af lærisveinum Kristz tvitugr at alldre, ok andadiz fyrr en ek. Ok var ek lagdr sidan i þa enu somu steinþro hia honum; en kona min ok enn ellri son minn þau ero grafin aa odrum bæ, þviat þau villdu eigi taka tru Kristz.» En er Gamaliel hafdi þetta mællt, þa spurdi Lucianus prestr ok mællti: «Hvar skulum vær þin[1] leita?» Hann svaradi: «I akri þeim er kallaz Delagabri.» En þat þydiz styrkra manna stadr. Þa vaknadi Lucianus ok geck til bænar ok mællti: «Drottinn Jesus Kristr, ef sia syn er af þer, ok se þetta eigi villa, þa veittu, at mer vitriz i annat sinn ok et þridia, ef þu villt, at ek treystumzt at segia þessa vitran.» Þaa tok Lucianus at fasta ok þurra fæzlu at hafa allt til annars fôstudags. Þa vitradiz honum enn Gamaliel med enum sama buningi ok yfirliti[2] sem fyrr ok mællti vit hann: «Fyrir hvi oræktiz þu at segia Joni byskupe þa luti, sem ek baud þer?» Lucianus svaradi: «Ek hræddumst miôk, drottinn, at segia ena fyrstu syn, ath eigi giordumzt ek lygimadr. En ek bad drottin minn, attu skylldir vitrazt mer i annat sinn ok et þridia, ef þu ert[3] af gudi sendr til min.» Gamaliel mællti: «Þviat þu spurder, hvar helgir domar vorir væri, þa hyggdu at vandliga þeim lutum, er ek syni þer.» Lucianus svaradi: «Svo skal vera, drottinn.» Þa syndi Gamaliel honum þria gullkistla, en hinn fiorda silfrligan fullan ilmandi grasa. Þrir gulligir kistlar voru fullir af rosum, tveir hôfdu hvitar rosor, en hinn þridi raudar sem blod, en hinn fiordi, sa er silfrligr var, var fullr af kroge ilmanda. En er Lucianus spurdi, hvat þetta merkti, þa svaradi Gamaliel: «Þetta eru helgir domar vorer. Sa er raudar rosor[4] hefir, þat er vor herra hinn helgi Stephanus, er hvilir til hægri handar i austratt fra haugsdyrum, en annar kistill er Nichodemus, sa er hvilir i gegn dyrum; en hinn silfrligi kistill er Abibas son minn, er hreinlifr andadizt ok er af þvi syndr silfri biartare med godum ilm, en hann hvilir i

1 ydvar *B*. 2 alite *B*. 3 værer *B*. 4 rosir *B*.

enni somu steinþro sem ek.» Ok er Lucianus vaknadi, þa gerdi hann gudi þacker ok hellt fostunni til ens þridia fostudags. Þaa vitradiz honum Gamaliel et þridia sinn reidr ok ogurligr ok mællti vit hann: «Fyrir hvi oræktir þu hingat til ath segia Joni byskupi þat, sem ek synda þer, hveria vörn muntu hafa a domsdeghi fyrir [þessa orækt[1]? Ser þu eigi, hversu mikit hallæri er um allan heim, ok ert þu þo orækinn? Fyrir hvi skilr þu eighe, ath margir eru þer betri menn i eydimörkum, ok lidum vær um þa ok villdum helldr þer vitrazt; af þvi villdum vær þik lata hingat fara af odrum bæ ok vera her kennimann, at vær vitrodumzt fyrir þik. Af þvi ris þu upp ok far ok segh Joni byskupe, at hann luki upp gröfum vorum ok giori oss bænarstad, at drottinn miskunni lyd sinum med voru arnadarordi.» Lucianus svaradi af hræzlu[2]: «Eigi dvalda ek fyrir orækt[3], drottinn, helldr beid ek ennar þridiu tilkomu þinnar, ok nu skal ek fara a morgin ath segia byskupi þat er þu bautt mer.» En er [Luciano þotti Gamaliel reidr standa fyrir[4] ser, þa dreymdi hann annan draum vit voknon sialfa, hann þottiz kominn i Jorsalaborg fyrir Jon byskup, ok sagdi honum drauminn. Honum þotti byskup svara ser: «Ef drottinn hefir þer[5] vitrad þessa hluti a vorum dögum, enn kærsti vinr ok brodir, sem þu segir, þa byriar mer ath hafa a brott or þinni landeign enn mikla olldung, þann er vel kann ardr at draga ok vagn, en lata þik rada fyrir odrum þeim, sem eptir ero.» Þa þottiz Lucianus mæla: «Hvat stodar mer, ef ek hefi eigi þann aulldung, er fædiz ok styriz aull landeign min af?» Þa þotti honum byskup svara ser: «Þessa kostar hæfir at se, enn kærsti brodir, þviat vor borg hefir marga vagna, en til ens mikla vagns höfum vær eingan mikinn olldung, nema þann er þu segir i þinni landeign leynazt, ok at visu hæfir, at hann se helldr i enni agætuztu borg en i litlu þorpi, þviat þer vinna þörf tveir enir minni at yrkia iord þins vagns.» Þa vaknadi Lucianus ok gerdi gudi þackir, ok for þegar til Jorsalaborgar ok sagdi Joni byskupi alla hluti, þa er hann hafdi sed ok heyrt, nema [oxadrauminn rifiadi[6] hann eigi, ok beid atkvæda byskups ok orda, þviat hann skilde, at Stephanus var enn mikli ölldungr, en vagn eda kerror væri[7] helgar kirkiur, en Syon en ætzsta kirkia kallaz enn mikli vagn. Ok af þvi villdi hann eigi segia byskupi oxa [vitronina, at byskup hafdi valld til þess[8], hvert

1 [ þetta orakslu(') verk *B*. 2 med hræzlu mikilli *B*. 3 orækslu *B*. 4 [ Lucianus sa Gamaliel reidan standa hia *B*. 5 *saal.* *B*; þat *A*. 6 [ oxa vitrunina sagde *B*. 7 voru *B*. 8 [ drauminn, at hann hefde valld a þvi *B*.

heilagr domr Stephani skylldi fara. En er Jon byskup heyrdi þessa lute, þa felldi hann taar fyrir fagnadi ok mællti: «Lofadr se drottinn Jesus son guds lifanda! Ef gud vitrade þer þat, er þu heyrdir, brodir, þa byriar mer ath fara til ok færa þadan Stefanum frumvott Kristz, þann er fyrstr hade guds orostu ok sa drottin standa a himnum i velldi sinu, ok syndiz biartr sem eingill aa þinghi fiolmenno. En þu, Lucianus brodir, skallt fara til stadar þess, er þer er vitrad, ok leita þeirra þar, ok seg mer, ef þu finnr þa.» Lucianus svaradi: «Geck ek um akrinn, ok sa ek þar glôgt haug smarra steina, ok ætla ek þa þar vera i hôgnum[1].» Byskup mællti: «Fardu ok graf hauginn, ok send diakn þinn eptir mer, ef þu finnr þaa.»

11. Þa for Lucianus heim ok sendi ord ollum bæiarmônnum, at þeir risi upp snemma um morgininn ok græfi hauginn. En a þeiri somu nott vitradiz Gamaliel munki nockôrum einfolldum, þeim er Migecius het, med enu sama aliti ok buningi, sem hann vitradiz Luciano, ok mællti vit hann: «Far þu ok segh Luciano, at hann starfar at þarflausu i haugi þeim, þviat vær erum nu eigi þar, en þa vorum vær þar fyrst, er gratinn var daude vor at fornum sid, ok var þa orpinn haugr sa til vitnis; en nu leitid þer vor i landnordr þadan i þeim stad, er kallaz Debathalia a syrlendzsku, en þat kollum vær godra manna eign.» En er morgintidum var lokit ardegis, þa bioz Lucianus med lidi sinu at fara til haugsins at grafa. Þa mællto nockurir menn vit Lucianum: «Hlydit fyrst þvi, er Migecius munkr segir.» En er hann var þangath heimtr, þa spurdi Lucianus, hvat hann hafdi sed. Ok sagdi hann sigh sed hafa haug fornan i akri ok þriar gulligar reckior i hauginum, ok hvilldu tveir i einni reckiunne, annar gamall en annar unghr, en [einn hvilde[2] i hvorre hinna; ok mællti enn gamle madr vit Megęcium: «Far þu ok seg Luciano, at vær erum drottnar þessa stadar. Ef hann vill finna enn mikla oc enn rettlata, þa hvilir hann austr fra mer.» En er Lucianus heyrdi þetta, þa dyrkadi hann gud, þviat fundinn var annar vottr vitranar heilagra manna. En er Lucianus fann ecki i haugi þeim, er þeir grofu enn fyrra daginn, þa hurfu þeir til þess haugs, er munkinum var vitrad, ok grofu þar ok fundu steinþroar þær þriar; þar fundu þeir ok runar klappadar a steine[3], er svo mællto: Her hvilir Stephanus guds vottr ok Nichodemus, Gamaliel ok Abibas son hans. Þa sendi Lucianus diakn sinn at segia Joni byskupi, þar er hann var a kennimanna

1 hauginum *B.* 2 [ *saal. B*; hinn þridi *A.* 3 *saal. B*; sveini *A.*

funde i borg þeiri er Lidda heiter. Þadan hafdi hann i for med ser tvo byskupa, þa er hvortveggi het Eleutherius, annar þeira or borg er heitir Jerico, en annar or Sebasteborg. En er þeir hofdu upp lokit steinþro Stephani, þa vard landskialpti mikill, ok þadan kom ilmr svo mikill ok dyrligr, at eingi madr hafdi slikan kendan, svo at allir hugduz vera i paradiso, þeir sem[1] þar voru vit staddir. En þar var mikill mannfioldi ok margir þeir, sem[1] siukir voru af ymissligum meinum; en a þeire somu stundu toku heilsu þrir menn ens atta tigar af ilm þessum, sumer toku syn blindir, hreinsuduz likþrair, ærir vitkoduzt, sumum stôdvadizt blodras, sumum bættizt hôfutverkia, en sumum innanmeina eda ridusotta. Þeir kystu[2] a helga domana ok biuggu um sidan. Þaa færdi Jon byskup, ok þeir er med honum voru, helgan dom Stephani med guds lofi i Jorsalaborg til hofutkirkiunnar Syon, þar er hann hafdi erkidiakn vigdr verit af postolum guds. En Jon byskup gaf Luciano presti nockura luti af beinum hans ok þa adra helga doma, er þar funduzt med honum, af þvi at bein voru eptir, en allt holld af fallit ok ath dusti ordit. Þa voru adr þurkur miklar ok hallæri vida um heiminn; en aa þeiri stundo kom regn af himni, ok gaf gud gnogan avoxt ok aar a iôrdina fyrir bænir ens helga Stephani. Helgir domarnir funduz ok voru færdir aa annan dag iola, þa er vær hôlldum piningina[3], en fimm nottum eptir Olafs messu hyggium vær, at hann væri pindr, þa er vær holldum minning fundningar hans. En Lucianus ritade þessa frasogn ok sende presti þeim, er Avitus het, ok var prestr Augustini byskups. En er Augustinus byskup spurdi þessi tidende, þa gaf hann mikinn kost til þess at naa helgum dome Stephani, ok veitti gud honum fysi hans[4], en hann midlade vit marga kennimenn helgan dominn i sinni syslu, ok urdu margar iarteignir at, hvervetna þar sem heilagr domrinn kom eda honum voro alltari vigd.

12. Alexander het olldungr einn i Jorsalaborg, sa er kirkiu let giôra enum helga Stephano af sinu fe sialfs a dogum Jons byskups. Ok þa er husit var algiort, bad hann byskup, at þangat skylldi færa helgan dom Stephani. Þat veitti byskup honum, ok var þangat færdr heilagr domrinn a manadi þeim, er December heitir, ok nidr lagdr i kistu þeiri, er merkt var utan med ebreskum stôfum þeim, er skyrdu, hvers likami þar var hirdr. Fim vetrum sidar tok Alexander sott ok gerdi þann maldaga um fe sitt, at kona hans, er Juliana het, skylldi hafa þridiung, en annan

1 er *B.* 2 *saal. B*; þustu *A.* 3 *saal. B*; piningvnni *A.* 4 sina *B.*

fatækir menn, ok enn þridia heilög kirkia, ok bad sidan Jon byskup, er þar var þa vit staddr, ath likama hans skylldi nidr setia hia likama ens sæla Stephani i kirkiu þeire, sem hann hafdi sialfr gera latid, sem fyrr var ritad. Litlu sidar andadiz Alexander, ok annan dag eptir andlat hans kom Jon byskup med fiolda manna at setia nidr likama hans hia enum helga Stephano, sem hann hafdi bedit i sott sinni. Atta vetrum sidarr villdi Juliana fara af Jorsalalande til Miklagardz ok hafa med ser likama bonda sins; þvi villdi hon til Miklagardz [1], at fadir hennar lifdi ok var þar, ok hon var þar odalborin, ok af þvi odru, at hun villdi eigi giptaz, en henne var til þess miok bægt. Juliana geck a fund byskups þess, er þa var i Jorsolum, er Cirillus het, ok beiddi, at hun skylldi naa likama bonda sins; en byskup þordi þat eigi at veita, af þvi at hann kvedz eigi vita, hvors likami var eda ens sæla Stephani. Juliana vard daupr vit ord byskups ok for heim gratande, ok sidan sendi hon rit fodur sinum i Myklagard, at hann skylldi fara a keisara fund, þess er Constantinus het, ok beida þess, at [hann sendi bref sin ok inzsigli Cirillo byskupi, at Juliana nædi sinu mali at hafa likama bonda sins ok giptaz [2] eigi, nema hon villdi. Fadir hennar feck af keisaranum, at hann sende rit Cirillo byskupi, at Juliana nædi þvi, er hun beiddiz. En er keisarans bref kom til byskups, þa treystiz hann eigi i mot at mæla ordum hans. Sidan kallade byskup Julianam a sinn fund ok bad hana bua ferd sina en segia ser, þa er hun væri albuin. Hun bioz nu skyndiliga ok for sidan a fund byskups. A þeim apni enum sama for hun med herra byskupi, er hun hafdi komit til Stephanus kirkiu, ok tok þa synt at huma. En er til var leitad, þar er likamarnir [3] voru nidr settir, funduz þar kistor tvær. Þa mællti byskup: «Eigi veit ek, hvar er kista [ens helga Stephani eda [4] bonda þins, Juliana.» Hun svaradi: «Ek kenni kisto bonda mins, þa er ek let gera.» Byskup mællti: «Tak sialf, ef þu kennir.» Sidan tok Juliana i fadm ser kistu ens sæla Stephani ok ætladi kistu bonda sins, ok lagdi i bunar barar [5], en bad byskup vel lifa ok i guds fridi, ok for sidan leid sina. Ok alla nottina þa heyrdi Juliana ok föruneyti hennar dyrligan lofsöng ok kendu sætan ilm. Ohreinir andar kollodu ok sogdu: «Vei verdi oss, þviat frumvottr guds Stephanus, sa er her ferr nu, berr oss med brennanda elldi.» Juliana sat i vagne, en þrælar hennar gengu

1 fara *tilf.* *B.* 2 [ hun næde bonda sinum ok giptizt *B.* 3 likamirnir *B.* 4 [ *mgl.* *B.* 5 baurur *B.*

fyrir bôrônum med otta ok mællto: «Ætlar þu eigi, drotning, at vær hafim likama ens helga Stephani med oss, er fiolldi guds eingla syngr honum lofsông, en dioflar veina ok þickiaz brenna af bænum hans.» Juliana felldi taar [1] ok mællti vit sina menn, at þeir skylldi ecki fra segia, hvat fyrir þa hefdi borit i fôrinni. En ef þeir væri spurdir, hvers likama þeir bæri i bôrum, «þa segit þer, kvad hon, þar er likami bonda drottningar vorrar, [henni skulum vær flytia hann [2] i Miklagard.» Hvervitna þar sem þau komu, vurdu heilsugiafir vit siuka menn ok iarteignagerdir af arnan heilags Stephani. Þau komu i sæborg, þa er Askalena heitir, ok fundu þar buit skip til Miklagardz. Juliana bra styrimanne aa mal ok gaf honum fimtigi skillinga gulls ok mællti svo: «Ek hefi leynda luti þer at segia, en þu mæl eigi i moti: i minni for er likkista su, er þu skallt virduliga flytia til Miklagardz med mer, ok muntu af almatkum gudi laun fyrir taka.» «Eigi mun ek i mot mæla þinum vilia eda ordum [segir hann [3], þviat med þer er frumvottr guds Stephanus, ok augu min sa i dag dyrliga hluti um hann. Kom þu til skips, drotning, ok fôrum i guds krapti ok ens helga likama, þess er þu flytr.» Sidan letu þau ut i godum byr ok sigldu i mitt haf. Þa gerdi siavarstorm mikinn [ok af hreggi [4], svo at menn þottuz at bana komnir. Þa stodu menn wpp ok dyrkudu helghan dominn med tarum. Hinn helgi Stephanus vitradiz þeim i þvi bili ok mællti: «Em ek her, hirdit eigi at hrædaz.» Ok þegar fell vedrit i logn, ok gerdiz kyrr siar, ok þvi næst skin biart; þau foru fyrir land framm, þar sem einn rikr madr var fyrir. Þa gerdiz landskialpti mikill upp a landit, svo at fellu huss ok borgir [5] i riki hôfdingians, medan skipit for þar fyrir. Dioflar kollodu a hofdingiann ok mællto: «Heyrdu, enn omilldazti hôfdingi, hvi lætr þu eigi brenna skip þetta, sem her fer fyrir lande fram; þat velldr landskialfta ok undrum þeim, sem [verit hefir [6].» Sidan er hofdinginn heyrdi þetta, sendir hann eptir þeim dromunda fimm at brenna skipit. Þeir sem a dromundonum voru, komuz nær at skipinu, en þa kom guds eingill a mot þeim fra skipi Stephani, sa er drekti ollum þessum lyd. Þa vard fagnadr mikill a skipi Stephani, þviat gud var med þeim. Sidan foru þau þria daga ok komo i Kallcedonem ok dvolduz þar .v. daga. Svo margir sem þar voru siukir menn, þa voru þangat færdir til grædingar, ok urdu allir heilir af arnadarorde heilags Stephani. Þar

1 fyrir fagnadi *tilf.* *B* 2 [ hann skulum ver færa *B*. 3 [ *saal.* *B*; Juliana *A*. 4 [ *mgl.* *B*. 5 bæir *B*. 6 [ hier verda *B*.

kollodu odir menn, ath þar væri Stephanus kominn, «sa guds vottr er Gydingar gryttu, ok hann verdum vær at flyia, þviat hann brennir oss.» Þadan foru þau til borgar þeirar, er Josas heitir, þar vurdu kristnir menn fegnir ok runnu i mot þeim, en heidnir menn hryggvir. En þa komu þau til þeirar borgar, er Straturium heitir; þa gengu sögur fra um helgan dominn, ok drifu menn þusundum[1] til at sia krapt ens helga Stephani. Þessi tidendi fretti Eusebius byskup i Miklagardi, hann for þegar til fundar vit Constantinum keisara ok sagdi honum um helgan dominn Stephani. Keisarinn spyrr[2], hverr sa madr væri, er hann hefdi þangat flutt or Jorsalaborgh. Þa leiddi byskup framm Julianam ok mællti: «Þesse kona flutti hingat helgan dominn.» Keisarinn mællti vit hana, ath hun skylldi satt segia, af hverium sokum hun hafdi þat giort. Sidan rifiadi Juliana upp allann [atburdinn fyrir keisaranum[3], fyrst um kirkiugerd bonda sins, ok þat er Stephanus var þangat færdr, en þa um andlat Alexandri, ok þat er hann var grafinn hia Stephano, sem hann hafdi bedit Jon byskup i sott sinni, þar næst inti hun til, at henni var bægt til at giptazt, ok af þvi villdi hun til Miklagardz fara med likama bonda sins, en þat nadiz eigi, adr keisarans bref kom til, «þa for ek, sagdi Juliana, a nattarþeli med Cirillo byskupi, ok hugdumz ek taka wpp likama bonda mins, en ek tok helgan dom Stephani.» Þa syndi Juliana keisaranum brefit med inzsigli, ok hann kendi þat skiott. Juliana mællti þa: «Undir ydr er nu, herra, likamligh hefnd [þessa lutar[4], en undir gudi andlig; en ef þer truit eigi sögu minni, þa sendit til ebreskan mann at lesa bref þat, sem fylgir kistunni ok ebreskum stöfum er ritad, ok ma sa þa seghia ydr sanna sögu.» Sidan sendi keisarinn ebreskan mann at [rada[5] stafina[6] med tveimr vitnismönnum. Þeir komu til skips, ok red hann þegar brefit ok mællti: «Mikils hattar syn se ek nu, af þvi at her er kominn Stephanus frumvottr guds.» Þa var þetta sagt keisaranum af vitnisburdarmönnunum. Hann vard feginn miok ok sendi þegar Eusebium byskup med fiolda manna ok villdi lata bera helgan dominn i haull sina. Lydrinn for med brennondum kertum, en byskup bar kistuna af skipi ok lagdi i vagn ok let aka til hallarennar. Mular tolf voru fyrir vagninum. Guds einglar þyngdu helgan dominn, svo at mularnir komuz tregliga til þess stadar, er heitir Constancianes, ok eigi leingra. Þeir bordu þa mulana. Þa

1 marger *B*. 2 *saal. B*; svaradi *A*. 3 [ atburd um, svo sem farit hafde *B*. 4 [ *mgl. B*. 5 *rettet*; radina *A*. 6 [ lesa brefit *B*.

tok einn þeira at guds vilia manz rôdd ok mællti: «Hvi berit þer oss svo? I þessum stad byriar Stephano ath vera, ok af þvi þreytit þer oss eigi meir.» Þa ottadiz byskup miok ok gerdi keisaranum ord, at þeir mattu eigi færa Stephanum leingra. Keisarinn [vard hryggr vid[1] ok sendi enn adra .xii. mula at draga vagninn. Þeir voru enn stodvadir af guds eingli, svo ath þeir mattu vagninn hvergi hræra. Þa kallade allr lydr ok mællti: «Einn er almattigr gud, sa er giorir undarliga hluti fyrir frumvott sinn Stephanum, þann er pindr var fyrir guds nafni. Veittu oss, drottinn, hialp ok miskunn fyrir hans bænir.» Þa hof byskup kistona or vagninum ok let þar sidan kirkiu gera at helgum dominum, svo at giôr var aa fimm manudum. Þar urdu heilsugiafir ok hialpir yfir siukum monnnm aa þessum tidum i dyrd fôdur ok sonar ok heilags anda, honum se vegr ok dyrd um allar alldir verallda. Amen.

13. [2]Þa er Preiectus byskup for med helgan dom Stefani hia vôtnum þeim, er Tiburtine heita, med[3] miklu fiolmenne, þa var sionlaus kona nockur þangat leidd, ok bad hun ser miskunnar ok lagdi aa helgan dominn graus fôgr, er hun hafdi i hendi. En er hun lagdi grôsin vit augu ser, þa tok hun syn sina, ok for fyrir a leid fagnande ok þurfti eigi sidan leidtoga.

Lucillus byskup or kastala þeim, er Sinecensis heitir, hafdi æxl mikit a hendi ser, þat er fyllti badar hendr læknis, þess er þat skylldi skera. En er hann tok vit helgum domi Stephani ok bar til kirkiu sinnar med fagnadi allz lyds, þa vard hann heill, ok hvarf i brott æxlit.

Eukarius het prestr af Ispanialande, sa er [stein hafdi i hrærôn(um)[4], hann tok heilsu eptir langa sott af helgum domi Stephani, þeim er Possideus byskup sendi honum. En prestr sia tok sidan sott adra ok andadizt. Þa var klædi hans borit til alltaris Stephani ok aptr þadan ok lagit yfir lik ens dauda prestz, ok reis hann þegar upp heill ok lifande.

Marcialis het hofdingi nockur heidinn gamall at alldri, en hann atti dottur kristna ok mag, þann er nyliga hafdi skirn tekit. En er þau tôldu tru fyrir honum siukum, þa stygdizt hann vit þat ok rak þau fra ser med reidi. Þa foru þau til kirkiu ens helga Stephani ok badu leingi fyrir honum med tarum, at gud gæfi honum[5] fysi til rettrar truar. Sidan toku þau nockur fôgr graus

1 [ *saal. B*; mællti hryggr *A*. 2 Upphaf iarteignagerda Stephani *Overskr. A*. 3 *tilf. B*. 4 [ steinn la i hrærum hans *B*. 5 heilsu sina ok *tilf. B*.

af alltari Stephani ok lôgdu undir hôfut honum, þa er hann svaf um nott. En hann vaknadi fyrir dag ok sendi þegar menn eptir kennimonnum, ok er prestar komu þangat, þa sagdiz hann trua a Krist, ok var hann þegar skirdr ok mællti þetta eitt ord [þadan fra, medan hann lifdi: «drottenn taktu anda minn [1],» ok hafdi hann þau ord i munni sem Stephanus, þa er hann var grioti bardr; en þat lystiz i þvi, at hann sneriz af bænum ok verdleikum heilags Stephani til rettrar truar. Þar fengu ok tveir fatækir menn heilsu, annar þar heradsmadr, en annar utlendr, þa er þeir hofdu heitit a Stephanum. Fyrir enum utlenda manne var vitrad i draume, hvat innan borgarmadr gerdi, þa er hann var siukr, ok gerdi hann slikt et sama ok vard heill.

A bæ þeim, er Audurus [2] heitir, er kirkia heilags Stephani, ok þar er af helgum domi hans. Þat gerdiz þar, at yxn hliopu med vagnhlassi a svein einn ungan, er lek ser a velli, ok lamdiz þegar [3] ok do. En modir hans fann hann ok bar til kirkiu heilags Stephani med miklum harmi, ok tok hann þar bædi lif ok heilso.

Nunna nockur vard siuk, ok var kyrtill hennar borinn til kirkiu heilags Stephani. En hun var ôndut, adr kyrtillinn kom aptr. En þo lôgdu frændr hennar hann a likit, ok reis hun þegar heil upp.

Bassus het einn madr, er kom til kirkiu heilags Stephani med klædi dottur sinnar siukrar ok bad fyrir henne. Þa komu sveinar or husum hans ok sogdu meyna dauda. En vinir hans bonnudu sveinunum at segia honum sialfum andlat hennar. En er hann kom ok lagde klædit a likit, þa reis hun þegar upp lifande.

Son bonda nockurs do, þess er Herenus het, ok var buit um lik hans med miklum hryggleika. Margir [vinir hans villdu [4] hugga hann. Sidan mællti einn þeira: «Taki vidsmiôr or lioskeri heilags Stephani ok ridi aa likit.» Svo var giort, ok lifnadi sveinninn.

Enn kom rikismadr nockur, sa er Eleusinus het, til kirkiu heilags Stephâni med son sinn daudan ok bad fyrir honum leingi, ok lifnadi sveinninn.

Husfreyia nockur gômul var vanheil, svo at læknar mattu henne eigi bot vinna, en gydingr nockur taldi þat fyrir henne, at hun byndi i harþrædi sinum undir falldinum fingrgull, þat sem steinn sa var i, er fundiz hafdi i oxanyra, ok magnadr sidan med forneskiu. En hun giôrdi, sem gydingrinn mællti, ok for þo ath

1 [ *tilf.* *B.* 2 Auductus *B.* 3 allr *B.* 4 [ komu vinir hans at *B.*

sækia helgan dom Stephani. En er hun for leidar sinnar hia aa nockurri, þa sa hon fyrir fotum ser aa gotunni liggia fingrgullit þat sama, sem hun hafdi knytt i harþrædinum. Þa undradi hun ok leitadi til harþradarins ok fann hann heilan med ollum knutum. Þa grunadi hon[1], ath gullit mundi brotit vera ok hafa svo af skridnat af þrædinum. En er þat var heillt ok usakat, þa hafdi hon þessa iartein til vitnis heilsu sinnar, þeirar sem hun vænti af Stephano, ok kastadi gullinu aa ana, ok tok hun þa þegar heilsu, sem hun vænti, af hinum sæla Stephano. Hun feck sidan[2] giaford i borgh þeiri er heitir Kartago.

Tio syskin voru i borg þeire, er Cesaria[3] heitir, ok voru sveinar siau en þriar meyiar, þau voru gôfug ath kyni. En þau gerduz ohlydin modur sinni eptir dauda fedrs[4] sins, ok kunni hon illa ohlydni þeira ok bôlvadi þeim, ok toku þau oll viti a ser, svo at þau skelfdi rida med ogurligri sott. Þa skommoduz þau skialpta sins ok sottar ok þordu eigi at vera i sinu heradi, ok dreifduz þau i ymsa stadi. Tvô syskin af þeim komu halfum manadi fyrir paska til [borgar Augustini[5] byskups. Sveinninn het Paulus, en mærin Palladia, ok gengu þau hvern dag i kirkiu ok badu ser liknar af gudi ok heilsu i minning heilags Stephani. En er margr lydr var kominn til tida paskadag enn fyrsta, þa stod sveinninn Paulus ok studdizt vit korþili, þat er var fyrir alltare Stephani. En er minzt vardi, þa fell hann nidr, sem hann sofnadi, ok skalf þo eigi, sem hann var vanr, þa er hann svaf. Allir undrudu, þeir er hia voru, ok villdu sumir reisa hann upp, en sumir bonnudu þat. Þa reis sveinninn heill upp ok skalf eigi sidan, ok lofudu allir gud, þeir er hia voru, ok gerdiz romr mikill um kirkiuna. Hverr ath odrum villdi segia Augustino[6] byskupi þessi tidendi, ok þottizt hafa nyia sogu, þott adrir hefdi adr sagth. En er tidum var lokit um daginn, þa for sveinninn til bordz med byskupi ok sagdi honum allan atburd meinsemdar syskina sinna. En enn þridia dag i paskum sagdi Augustinus[7] byskup alþydu atburd iarteignar þessarar, ok let hann standa syskin þessi bædi saman, þat er annat skalf af sott, en annat eigi, at þa mætti allir skilia, hvat gera skylldi, þat er at bidia, at gud gæfi þeim badum heilsu sina. En er Augustinus[7] byskup atti um þetta at tala fyrir alþydu, þa komu tidendi þau fyrir hann, at mærin Palladia hafdi nidr fallit, svo sem sofnut væri, fyrir alltari heilags Stephani ok risit sidan heil

1 hana *B.* 2 gaufugt kvonfang ok *tilf. B.* 3 Cesarea *B.* 4 fauþurs *B.* 5 [ Eugenii *B.* 6 Eugenio *B.* 7 Eugenius *B.*

upp. Þa felldu allir taar fyrir fagnade, er hon hafdi heilsu tekit sem brodir hennar, ok þôckudu þat gudi, er hun var heil ordin ok lik brodur sinum, su er litlu adr hafdi honum olik verit, ok gerdu allir gudi þackir, þeim er stodade vilia þeira, fyrri en þeir helltu bænum ut. Þessar iarteignir bera vitni tru drottins vars Jesu Cristi, fyrir þeiri enni somu tru tok Stephanus bana ok gerdi svo gôtu fyrir ollum pislarvottum Cristz, at hann tok fyrstr pisl fyrir guds nafni. Er þat ok þvi sannliga af honum sungit, at hann var fystr fundinn i heilagra manna tolo, ọk honum i spor ganga allar rettlatar salur. Nu svo sem hann launadi fyrstr sialfum guds syni sina pining ok dauda, er hann þoldi ollum oss til hialpar, svo se ok hinn sæli Stephanus at eilifu vorr tulkr ok formælandi til sættar vit þann sama vorn lausnara Jesum Cristum son lifanda guds, er med honum ok helgum anda lifir ok rikir einn gud i algiorri þrenningu, honum se lof ok dyrd ok vegr um allar alldir verallda. Amen.

---

# THEODORUS SAGA.

(*Cd. 235 folio*).

Maximianus ok Maximus heidner konungar sendu bod um oll herod rikis sins i mot krisnum monnum, at allir skylldu bergia af blotmat[1], ef þeir villdu lifa, en þa skylldi pina morgum pislum, er i gegn þessu mælltu. Aa þeire tid var heilagr Theodorus tekinn til riddarasyslu, ok margir adrir med honum. En er hann mællti þessu i gegn, þa var hann tekinn ok leiddr fyrir greifa, þann er Brinka het, i þeiri borg, er Amesia heitir, þar sem allir voru til blota neyddir. Þa mællti greifinn vid hann: «Fyrir hvi hlydir þu eigi bodordum konunga at blota godum odaudligum?» En heilagr Theodorus fullr af helgum anda svarar: «Þvi at ek em kristinn, ok er mer eigi lofat at blota rækium skurgodum, þviat konungr minn er aa himne Jesus Kristr.» Greifinn mællti: «Taktu vapn þin, Theodore, ok riddarasyslu ok blota odaudligum godum, ok hlyd bodordum konunga.» Theodorus svarar: «Gudi einum þiona ek, ok ma ek aungum audrum þiona.» Greifinn mællti: «Eru þessir ok krisnir, er þer fylgia?» Hann svarar: «Þeir vita þat siolfir, hverium þeir þiona; en ek þiona drottni minum himnerskum konungi ok syne hans Jesu Kriste.» Þa mællti rikismadr, sa er Possedonius het: «Segir þu, at gud eigi ser son?» Theodorus svarar: «Vist aa hann son, fyrir þann er(u) gervir allir hlutir.» Brinka mællti: «Hversu megum vær hann kenna?» Hann svarar: «Þat villda ek, at hann gefi ydr þa skilning, ath þer mettit kenna hann.» Possidonius mællti: «Þot vær kendum, þa megum vær eigi fyrirlata god vor ok fylgia honum.» Guds madr svarar: «Latid þer ecki hepta ydr ath ganga ur myrkri til lioss ok fyrirlata skammæligt traust, þat sem þer hafit af kon-

1 blodmat *Cd.*

ungum ydrum iardligum ok daudligum, en þer gangit til handa himnerskum konungi ok odaudligum, at þer verdit guds riddarar sem ek.» Brinka mællti: «Gefum vær honum frest nockura daga, at hann hyggi at siolfum ser ok snuizt til þess, er honum gegnir.» En er honum voru frest gefin, þa var (hann) aa bænum nott med degi.

2. Sidan for greifinn um borgina ok let taka alla krisna menn, ok setia let hann i myrkvastofur. En heilagr Theodorus kom til þeira ok taldi tru fyrir ok mællti: «Hirdit eigi, bredr, ath hrædazt kvaler þer, er grimmir menn pina ydr til þess at neita himneskum konungi drottni Jesu Kriste.» Ok er hann hafdi þvilict talad fyrir þeim, er i myrkvastofunni voru, þa for hann um nott til hofs Þors ok brendi hofit. En er hann var senn ath þessu verki, þa toko heidnir menn hann ok ferdu Publio iarlli ok mællto: «Þessi styrialldarmadr kom fyrir skaummu i borg[1] vara, ok var hann til riddara tekinn, en nu brendi hann hof godanna. Af þvi tokum ver hann ok ferdum þer, at þu letir pina hann eptir logum vorum fyrir oskil sin, þau er hann gerdi godunum.» En er Publius heyrdi þetta, þa heimti hann til sin Brinkam[2] greifa ok mællti vid hann: «Gapt þu Theodoro frest til þess, at brendi hann hof goda varra?» Greifinn mællti ok svarar: «Ek bad hann opt, ok til þess gaf ek honum frest, at (hann) hygdi ath ser ok blota(di) godum odaudligum; en fyrir þvi ath hann gerdi þetta, þa hefndu honum þessi laga afbrigdi, eptir sem þer er veldi til gefit.» Þa baud iallinn, ath þangat skylldi leida Theodorum, ok mællti sidan vid hann: «Af hvi misgerdir þu vid god var ok brendir hof þeira, þar sem þu skylldir luta þeim ok brænna reykelsi fyrir þeim?» Theodorus svarar: «Eigi dyl ek þess, sem ek gerda, tre ok steina brenda ek; en eru god þin sva litil fyrir ser, at þeim ma granda eldr?» Þa reidizt Publius ok mællti vid hann: «Eigi þarf maurgum ordum vid þik at skipta, þviat þer eru bunar pisler þær, som þik munu neyda til at blota ok hlyda bodordum konunga.» Heilagr Theodorus svarar: «Eigi let ek at þer, ok eigi ugga ek pislir þinar, þott þer se grimligar. Gior þu þat, er þu vill, þviat mik ladar dyrd rettlætis, ok treystumst[3] ek þeiri von, er [drottinn minn[4] Jesus Kristr hefir mer heitid.» Domandinn mællti: «Blotaðu godum ok leys þik fra kvalum þeim, er þer eru ætladar.» Theodorus svarar: «Þer kvalar eru mer eigi ogrligar, er þu heitazt vid mik. Drottinn minn Jesus Kristr, konungr minn, stendr

1 þeira *tilf. Cd.* 2 Grikam *tilf. Cd.* 3 treymstumst *Cd.* 4 [ drottins mins *Cd.*

fyrir augliti mer, sa er mik[1] leysir fra pislum; en þu matt eigi siea(!) hann, þviat þu ser eigi hugskotz augum.» Þa let iallinn setia hann i myrkvastofu ok bannadi aullum at fera honum mat ok dryk, at hann syllti þar af hungri.

3. Þa somu nott vitradizt honum drottinn Jesus Kristr, enum sęla Theodoro, ok mællti vid hann: «Vertu stadfastr, þionn minn, þviat ek man med þer vera; ei skalltu þiggia (m)at ne drykk at þessum maunnum, þviat æfvi[2] þin er ospillt aa himne.» Eptir þessi ord leid drottinn fra augliti hans til himins. Þa tok Theodorus ath fagna ok syngia lof gudi. En er þat heyrdu verdir myrkvastofunnar, ok sa hana vandliga læsta, þa litu þeir inn um glug einn ok sa margan lyd skryddan [hvitum klednadi[3], ok sungu þeir med Theodoro. Þa hreddizt(!) verdirnir ok foru at segia iarlinum, hvat þeir sa. Þa reis iarlinn upp skyndiliga ok rann til myrkvastofunnar ok sa, at henni var læst, hann heyrdi marga rodd ok sông med Theodoro. Þa hugdi iarlinn, at krisnir menn mundu inni vera med hinum helga Theodoro, ok baud riddurum sinum at sla hring manna um stofuna ok vardveita, at eingir kæmizt aa brutt, þeir sem inni voru. Sidan lauc[4] hann upp myrkvastofunni, ok gek inn ok fann aungan mann nema Theodorum sitia i stokki. Þa lauk hann aftr stofunne i annat sinn ok for aa brutt med hræslu mikilli, ok sva allir þeir, er med honum voru. Þa let iarllinn fęra honum braud ok vatn. En trur vattr guds lifdi vid tru sina ok tok eigi vid iardligri fedu, helldr mællti hann sva: «Drottinn minn Jesus Kristr fædir mik.»

4. Ath morne let Publius leida Theodorum fyrir domstol sinn ok mællti vid hann: «Hlyd mer, Theodore, ok blota godum vorum, ok man ek senda rit konungunum[5], at þeir geri þik blotbyskup, ok mant þu þa taka veg mikinn af þeim.» Theodorus svarar: «Þott þu brennir likama minn i elldi eda hauggvir mik med sverdi, medan ek ma mæla, þa skal ek eigi neita gudi.» Þa let iarlinn festa hann i tre ok slita hold af sidum hans med iarngreipum; en þeir skofo[6] sva holld af beinum, ok ber voro rifin eptir. Þa saung heilagr Theodorus lof gudi ok mællti: «Lofa man ek drottin aa hverri tid, ok lof hans man aavallt vera i munni minum.» Iallinn undradizt stadfesti hans ok mællti vid hann: «Þu en undarligi madr! fyrir hvi skamadizt þu eigi at trua aa[7] daudan mann, þann er Kristr er kalladr, ok sælia þik til dauda hans fyrir

1 ser *tilf. Cd.* 2 *rettet,* afælu *Cd*; vita tibi ab interitu aliena *lat.* 3 [ hvitan klednad *Cd.* 4 laut *Cd.* 5 konunginum *Cd.* 6 skopo *Cd.* 7 at *Cd.*

nafn hans?» Theodorus svarar: «Sea skemd er yfir mer ok yfir aullum þeim, er hans nafn dyrka, drottins varss Jesus Kristz.» En er eingi fleckr var oskaddr aa likama hans, þa spurdi iallinn: «Hvart villt(u) blota eda vera meirr pindr?» Heilagr Theodorus svaradi med guds trausti ok mællti vid iarllinn: «Þu enn omilldasti diofuls son ok fullr allrar illsku ok makligr fianda syslu, fyrir hvi hredizt þu eigi gud þann, er þer gaf þetta velldi, ok aullum konungum ok hofdingium gefr riki aa iordu? En þu neydir mik til at fyrirlata gud lifanda ok trua aa steina andlausa.» Publius mællti: «Hvart villtu vera med oss eda Kristi þinum?» Guds vattr svaradi med fagnadi: «Med Kristi minum var ek, ok med honum em ek æ, ok man ek med honum vera.» Þa sa iallinn, at hann matti hann eigi yfirstiga af stadfesti med pislum, ok lauk domsordi aa ok mællti: «Þat demi ek, at þer brennit Theodorum i elldi, þviat hann hlydir eigi bodordum konunga ne velldi goda vorra, en hann truir aa Jesum Krist, þann er krosfestr var i velldi Pilati ialls, eptir þvi sem Gydingar segia.

5. Eptir þetta baro kveliarar vid saman ok slogu bal ok leiddu Theodorum til pislarstadar. En er elldr tok at brenna, þa lagdi guds vattr af ser kledi sin ok leysti af ser skoa. En er kveliarar villdu festa vid tre hann aa balinu, þa mællte hann: «Eigi þurfit þer þessa, þviat sa er mer gaf þolinmædi i pislum, sa man mer gefa enn at standazt ellzpislir þessar skadalaust.» En þeir leysto hann eigi, helldr kaustudu þeir honum bundnum aa balit. En guds vattr gerdi krossmar(k) yfir ser bundnum med ordum, þviat hendr hans voru bundnar aa bak aptr, ok var hann leiddr til bana sva sæm einvala saudr af mikilli hiordu fyrirbuinn til guds hiardar ok fornar, ok sa upp til himins ok mællti: «Drottinn gud almattigr, fadir gredara vars Jesu Kristz ok skapare allrar skepnu, þik lofa ek, þviat þu gerdir mik þessa dags makligan ok luctanda(!) med pislarvottum þinum i upprisu ok dyrd[1] andar ok likama i odaudleik heilags anda. Tak þu mik nu i dag þægia forn i augliti allz lydz! þu[2] gerdir mik visan, at þu ert sannr gud, ok af þui bid ek þik fyrir drottin varn Jesum Kristum son þinn, at þu letr þer soma at kalla þa til þessa sigrs, er med mer eru taldir ok teknir.» Ok er hann hafdi þetta mællt, litadizt hann um ok sa riddara einn, þann er med honum hafdi verit tekinn til riddarasyslu, sa het Kleonicus, ok kalladi aa hann ok mællti: «Brodir Cleonice, skunt þu ok fylg mer, þviat ek bid þin. Vid fyll(g)dumz iafnan i

1 dyrdar *Cd.* 2 þui *Cd.*

þessu brigdlega lifæ, ok eigi skulum vid skiliazt i himnersku lifi.» En eptir þat hvarf Theodorus til bænar ok mællti: «Drottinn Jesus Kristr, gerdu mik makligan at stiga yfir þessa þraut! Þackir geri ek þer, ok lofa ek ok dyrka nafn þitt fodur[1] ok sonar (ok) anda heilags um allar alldir.» En er hann hafdi bæn lokit, þa tok eldrinn at kyndaz, ok er upp laust loganum, þa sa menn undarligan hlut, þeir sem hia voru, ok sogdu audrum sidan: logann gerdi aa þa leid af vindi umhverfiz likama heilags Theodori sem vindblasit segl eda hvolf af lopthusi. En hann var eigi sem brunninn likami helldr sem bakat braud. Guds vottr stod i midium loganum an allri kvôl, þviat heilagr andi kom yfir hann ok hlifdi honum. En hann lofadi gud ok sendi aund sina til himins. Þa kom ilmr dyrligr ok raudd af himni yfir hann ok mællti: «Kom þu nu, vinr minn Theodore, ok gak inn i fagnad drottins þins, þviat þu endir truliga þraut þina.» Sidan sa margir, þeir er hia voru, himininn opinn fyrir honum yfir. En nockur gofug kona, su er het Eusebia, kom til ok tok likama hans ok smurdi[2] med dyrligum smyrslum ok vafdi i hreinum duki ok grof i stad þeim, er kalladr er Encaita, ok þar let hun kirkiu gera i minningh heilags Theodori, ok verda þar margar iarteinir, hreinsast likþrair, en dioflar flydu fra odum monnum, ok blindir fa syn af hans arnan, til lofs ok dyrdar drottni vorum Jesu Kristo, þeim er med fedr ok helgum anda lifir ok rikir gud um allar alldir. Amen.

1 fôdar *Cd.* 2 smyrdi *Cd.*

# THOMAS SAGA ERKIBYSKUPS.

**Fragment.**

---

(*Cd. Holm. 2 folio*).

[1] ongum manne undarligt þikia, þott sva yrdi, þviat gud villdi þenna sinn astvin [2] dyrlig(r)a liflat hafa lata i þessum heimi. Sva leysti gud Thomas at þvi sinni or likams haska ok hirti hann fra heims gledi þeiri, er gud villdi eigi, at hann fylgdi leingr. Þa er Thomas var tvitugr at alldri eda nôckuru meir, þa for hann til erkibyskups i Kantarabyrgi, en sa het Þiodballdus, er þa var. Hann tok vel vid honum af vinattu þeiri, er byskup hafdi vid fedr hans. Thomas þockadiz vel erkibyskupi fyrir sakir atgervi sinnar ok godrar atferdar. Hann gerdi Thomas erkidiakn sinn ok hafdi hann med ser i godu yfirlæti allt til þess, unz Heinrikr vard konungr yfir Einglandi ok Þiodballdus vigdi hann til konungs. Erkibyskup kom opt aa fund konungsins, fyrir þvi at vinatta var god med þeim, ok hafdi hann med ser avallt Thomas i fôr. Konungrinn vard nu varr vid, at enn sæli Thomas var inn vitrazti madr ok godgiarnari flestum monnum aa Einglandi, ok þvi bad konungr, at erkibyskup skylldi lata fara gôfugligan erkidiakn sinn Thomas til hirdar med ser, «ok vil ek, sagdi konungr, at bædi se hann hirdprestr minn ok radunautr.» Þa for Thomas til hirdar med Heinriki konungi, ok virdiz konunginum sva vel atferd Thomas, at hann let hann vera fehirdi sinn ok rædizmann ok ser nagonglan at ollum radum um sitt riki, ok eingi madr var sa i hird konungsins, er honum væri kærri en Thomas nema kona hans ok bôrn. Konungrinn let i hans vardveizlu borgir ok kastala, byskups-

1 *Begyndelsen af Sagaen, formodentlig kun et Blad, mangler.* 2 leingra *tilf. Cd., men Skriveren har gjennemstrøget Ordet som Tegn paa, at det skal gaa ud.*

stola ok munklifi. Aull mal, þau er gerduzt innan hirdar eda i ôdrum stôdum a landinu i hans riki, sva ok iarldomar ok ôll ônnur mal, þau sem at kunni bera, þa redzt hann avallt um vid Thomas. Gull ok silfr hafdi hann ok i sinni vardveizlu ok allzkyns konungs gersimar, ok ôll konungs fe matti hann ok hafa, slikt sem hann villdi, af konungs radi. En hann hæfdi sva til, at eingi skylldi þat fregna, at hann hefdi þar i meiri efni, en konungs vili væri til. Thomas hafdi iafnan med ser mikinn fiôlda manna bædi lærda ok olærda. Eingi hôfdingi a Einglandi hafdi betr buit lid sitt en Thomas. Sva ox metnadr hans, at hann hafdi hvern mann ser at felaga eda at þionustumanni. Þeir menn, er fyrir konungs reidi urdu, sottu hans fund, þvi at hann matti fyrir ôllum frida eda aleidis færa vid konung; ok sva gerdi hann godan mann (eigi) at minna, at fatækr væri, ne illan at meira, at audigr væri. Hann gaf storar giafir leyniliga fatækum monnum ok lærdum monnum, ok þeim er i myrqvastofum voru eda i annarskyn meinum, en iôrlum eda ôdrum agiætum monnum valdi hann gripi eda gersimar oleyniliga. Fatækir menn unnu honum fyrir miskunnsemi hans. En hinir æztu hofdingiar virdu hann sem iafningia sina ok ottuduz hann sem yfirmenn sina. Huggadi hann fatæka, en hirti [audga menn] af ra[di ok riki] þvi, er hann hafdi af konunginum. Allir hinir rikuztu menn redu ser til vinattu vid Thomas, þviat eingi þottiz i þann tid hafa mega ovinattu vid Thomas.

[1] Þat er sagt, at sæll Thomas tok at leggia allan hug a almattkan gud ok a himneskan fognut h . . . . . . . . . . . . vackti miôg a bænum. En . . . . . . . . . . . . . . . ok dyrligu lifi. Þat fann . . . . . . . . . . . . . . . þeckinn at dyrligr hirdprestr . . . . . . . . . . . . . . . . lifi. Þvi virdi konungrinn hann ôllum monnum fr[amar] . . . . . . . . . gi hann red ôllu þvi, er hann villdi rada . . . . . . . . . . . . . . dit. Thomas var helldr har medalmadr at vexti . . . . . . . . kurteis, svartr a harslit, helldr lang[nefiadr ok rettleitr], skyrmælltr ok hvellmælltr ok blidr i mali ok [stamr littad] stundum, ok mællti hann brosandi [nockut, en] hvarki fylgdi [hans mali] hlatr ne stemi sva, at til lastar þotti, helldr þotti [þat vera] med blidleik ok þockamoti. Sæll Thomas var rôskr i soknum, sem sagt er fra hinum helga Sebastiano, trur i heitum, forsiall i radum, agiætligr i ollu, sidprudr i buningi, þa er hann fylgdi konungi, þo bar hugprydi hans meir af ôllum monnum i hveriu godu radi, ok þott nô[ckura tima] syndiz hann drambsmadr i sinni

[1] Fra Thomasi *Overskr.*

prydi likamligri, þa var hann ollum framar i dyrligum hugrenningum ok litillatr i guds augliti. Hveria nott vakti hann leingi a bænum, stundum i reckiu sinni, en stundum i kirkiu uti. Þat kom fram um hans rad, sem David sagdi i salltara fra sinu athæfi: hveria nott mun ek þva kinnr minar ok klædi reckiu minnar i tarum minum, segir sæll David spamadr. Þa gerdiz atburdr sa a Einglandi, at Þiodbaldus erkibyskup andadizt i Kantarabyrgi, ok var þa byskupstollinn hôfdingialaus. En i þenna tima var Heinrikr konungr fyrir sunnan sæ i Normandi, þa er hann fra andlat erkibyskups. Ok fyrir þvi at naudsyn krafdi at velia annan erkibyskup þegar i stad þessa, þann er styrdi guds cristni aa Einglandi, þa sendir konungrinn bref sin ok innzsigli med þeim ordum, at erkibyskupar ok lydbyskupar ok abotar ok allir enir merkiliguztu menn skylldi saman safnazt at velia annan hôfdingia til stols þess, er Þiodbaldus var fra fallinn, ok sagdi konungrinn sinn vilia, at honum syndiz sva, at Thomas væri til byskups kosinn[1], ok kvad hann vel verdan vera þeirar tignar fyrir vitrleiks sakir ok godvilia ok allra hluta annarra. En þa er enir [æztu landz]hôfdingiar spurdu þessi ord konungs, þa var settr fundr mikill ok fiôlmennr lærdra manna i Lundunaborg, ok komu þar erkibyskupar ok lydbyskupar (ok) abotar, eptir þvi sem konungr sendi ord til, ok gerdu at dæmum godra manna ok badu gud senda þeim þann hofþingia at styra guds cristni, er honum vær(i) sæmiligr en . . . . . . . En fyrir þvi at miog margir voru i . . . til, þa urdu eigi allir aa eitt sattir, sumir villdu kiosa Thomas, en sumir mælltu i moti þvi ok sogdu hann eigi fallinn til þeirar [tignar]. Þa mællti Gunzsilinus Lunduna byskup, at þeir skylldu leggia frest aa mal þessi, medan þeir sendi menn til konungs med ritum at vita skyrt konungs vilia. Þa svaradi honum Hilarius byskup af Ciscestare: «Þetta mal, qvad hann, mun eigi sva nidr falla, nema er hafit ônnur tidindi af konunginum, en vær hôfum.» Þa mællti abotenn af Vestmusteri: «Vel væri munkum sia fallinn til þess stadar, er þeir væri, at hann mætti gefa god dæmi þeim, sva sem gerdi hinn heilagi Augustinus, er var i kanoka lifi.» Þa mællti enn Hilarius byskup: «Hvat manna sem hann er adr, meir vigdr edr midr, þa ma þo godr vera ok sidsamr an ydvarn buning.» Þa mællti byskup af Vincestari: «Werum sva til þessa[2] fundar komnir, at þat hæfir, at hverr segi sinn vilia ok sligt sem þikir, en sidan hôfum þat af, sem oss synizt ôllum vænazt. Mun ek þvi eigi leyna fyrir

1 vera *tilf.* *Cd.* 2 þessar *Cd.*

mina hônd, at mer þikir Thomas allvel til byskups fallinn, ok eigi lit ek þa hluti i hans fari, er fyrir þvi megi standa. Nu ef þer vilit þvi iata, þa eggia ek þess, at hann se til byskups valinn.» Margar voru vidrædur þeira at þeim fundi ok miklar þrætur, ok mundo þo meiri kappmæli ꜳ vera, ef þeir þyrdi a mot at mæla konungs ordsendingu, ok vard þat at lokum, at allir iatudu Thomasi til erkibyskups nafns ok sendu eptir honum ok letu hann koma a þann lærdra manna fund.

En þegar er Thomas kom, þa mællti Heinrikr byskup af Vincestari vid Thomas: «Winr, qvad hann, gud hefir þik valdan, ok vær vid hans vilia, vorn yfirmann til stiornar heilagrar kristni ꜳ aullu Einglandi ok til forrads enu æzta byskupsriki i Kantarabyrgi, ok vera vigdr til byskups til vegs ok dyrdar heilagri þrenningu ok upphalldz almenniligri kristni.» En er Thomas heyrdi ætlun þeira, þa komz hann vid ok felldi tꜳr ok mællti sva: «Er vilid mer fyrirkoma ok binda mer þa byrdi, er ek fa eigi borid. En ek em ꜳ alla vega omakligr þeirar tignar, þviat ek hefi i ollum hlutum til saka gert ok til seckta vid almattkan gud ok helga kirkiu.» Ok færdizt hann undan ꜳ alla vega, sem hann matti, at taka vid byskups tign. Þa mællti Heinrikr byskup: «Sonr, qvad hann, lattu þik eigi þetta hryggva, þat sem þu hefir hingat til misgert vid gud, þa muntu nu allt bæta. Giordu sem Pall postoli, er fyst heriadi a helga kristni ok hennar vini, en sidan þoldi hann dauda fyrir astar sakir vid gud til vegs ok dyrdar en ser til miskunnar.» Þa svaradi Thomas litillatliga: «Med þvi at gud hafi þat fyrirætlat, ok þat er ydvar vili, þa iati ek þvi ok þo ræddr.» Þa hofu þeir upp tedeum ok lofudu gud af ôllum hug ok sungu fagra lofsôngva. Eptir þetta foru þeir til Kantarabyrgis, en Thomas for til Merentoniam. Þar skipti hann bædi hugskoti sinu ok klædabunadi ok tok kanokaklædnad til raunar i stad silkiklæda ok gudvefiar, ok slopp hvitan ok svarta skickiu. En sidan er hann kom til Kantarabyrgis, þa gerdu lærdir menn processionem i moti honum ok fôgnudu honum dyrliga. Si(dan) vigdi Heinrikr byskup Thomas til prez, ok tok hann þa vid fingrgulli þvi, er erkibyskup hafdi att, ok forrædi stadarins. En þa þegar er sia sæll guds pislarvottr var heima at stadinum, þa var hann þo allr annar madr at môrgu athæfi sinu: hann vackti um nætr ꜳ bænum, ok hann sa opt ꜳ helgar bækr, ok hann fastadi miog ok gaf mart fatækum monnum, hann bodadi agætliga guds eyrindi. Sidan var enn sæli Thomas vigdr til byskups. En bratt

eptir þat bio hann fōr sina til pafa fundar, ok tok þa pallium af honum ok tign þa alla, er erkibyskupsdæmi fylgdi, ok var þa legatus settr yfir ōllu Einglandi af pafans hendi. Þa for hann heim til stols sins ok styrdi tign sinni med mikilli milldi ok margfalldri giæzku vid alþydu. Thomas erkibyskup eignadi ser forrad a ōllum kirkium ok kennimanna vistum i sinni syslu. Hann er rikr víd usidamenn bædi lærda ok olærda, miuklyndr var hann vid alla sidlata menn. Heinrikr konungr var bædi vitr madr ok rikr, hann hafdi vida radit fyrir kirkiufiam ok fyrir kennimanna vistum, adr Thomas væri erkibyskup. Þa gerdiz med ōdru moti, ok urdu þa (konungi) eingi forrad a þeim hlutum, er erkibyskupi þotti til sin koma fyrir at rada. Heinrikr konungr atti son þann er Heinrekr het, hann var þa fulltidi madr at alldri; þess beiddi konungrinn þa, at Thomas skylldi vigia enn unga Heinrik til konungs. Hann lezt eigi mundu vigia hann til konungs at honum lifanda, «fyrir þvi, sagdi hann, at eigi eigu .ij. konungar senn at vera yfir einu landi.»

I þeiri borg, er i Jork heitir a Einglandi, var sa erkibyskup, er Jokell het, annar byskup er nefndr Gillibiarkr, þeir voru badir motgongumenn Thomasi byskupi; þat kom til þess, at hann vandadi um sidu þeira ok bodord; þeir baru rog saman a milli konungsins ok Thomas byskups. Þat var leingi torvellt at koma osætt þeira i millum, þviat konungrinn var vitr madr, ok hugr hans var leingi stadfastr a ast vid Thomas byskup. Þat vissu þeir byskuparner, at Thomas villdi eigi vigia enn unga Heinrik til konungs, þeir budu at vigia hann til konungs, ef konungrinn villdi, ok þat þa hann ok at þeim. En þa er Thomas erkibyskup vissi þessa motgerd þeira vid gud almattkan ok vid sik, þa sendi hann rit pafanum ok sagdi honum til slikra vandræda. En pafinn setti þa bada byskupana i bann ok sva son konungs, ok enn neckveria kennimenn adra osidlata. En þa er þeir vissu þessa sina svivirding, þa spurdu þeir konung, nær hann mundi þenna o[1] . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

þa mællti prestr enn, at eigi þyrfti at dvelia at iarda hann, «nu hafa lidit .iii. nætr, sagdi hann, þadan fra, er hann andadiz.» Bondinn svaradi: «Ollungis eigi mun sonr minn enn vera grafinn, fyrir þvi at sva bydr mer i skap, sem sæll Thomas muni eigi vilia, at ek missi enn sonar mins; færi mer, qvad hann, vatn drottins mins, ok mun ek hella i munn syni minum.» Þa tok hann vid

1 *Her mangler 4 Blade.*

vatninu ok hellti i munn enum andada. En þegar er vatnit kom innan tanna sveininum, þa vard þegar rodmi i kinnum hans, ok þvi næst skaut hann upp ǒndu ok mællti: «Wer þu gladr, fadir minn ok sva moder min, þviat sæll Thomas sendi mik aptr til unads yckr.» Þau urdu fegin ok lofudu gud almattkan ok enn sæla Thomas erkibyskup fyrir sina milldi.

Þat er sagt, at .v. sinnum hafi brugdit vatn hins helga Thomas bædi ǒdli sinu ok lit: fiorum sinnum hefir þat synz sem blod, en eitt sinn sem miolk. Fiorum sinnum hefir lios komit af himne hatidardag Thomas i Kantarabyrgi, ok hafa kerti kve(yk)z i kirkiunne yfir hans helgum domi honum til dyrdar ok lofs med almattkum gudi. Nu ma sia um þenna enn sæla guds pislarvott Thomas erkibyskup, at honum eru ǒngvir hlutir omattugir, þar sem hann hefir reista menn af dauda, rekit diǒfla fra odum monnum, gefit sion blindum, heyrn daufum, hǒlltum gongu, hreinsada likþra, ok nu fær eingi mannz tunga talt ne hugr ætlat hans iarteignir, sva margar agætligar sem eru. Bidium nu þa ok þenna enn dyrliga guds astvin, at hann arni oss fridar ok farsældar i heime þessum, ars ok audræda, yndis gods ok sva nǒckvi langs lifs, sem hann ser, at hveriu voru gegni bezt; en ad lidnum lifs stundum leidi oss sia enn dyrligi astvinr guds ok vorr hirdir fyrir kne almattkum gudi a domsdegi, ok vær megim þa niota med honum himinrikis fagnada med almattkum gudi drottni vorum Jesu Kristo, þeim er med fedr ok med helgu(m) anda lifir ok rikir einn gud um allar alldir allda. Amen.

---

# VINCENCIUS SAGA.

(*Cd. Holm. 2 folio.*)

**Her hefr upp sögu hins helga Vincencij diakna.**

Dacianus heidinn iarll a Spanialandi tok velldi af heidnum konungum at pina kristna menn, sa er fyrr var olmr vid hiörd guds, en hann mætti bita. En a mot illzku hans gengu fyrstir þeir Valerius byskup ok Vincencius diakn hans, ok trudu sig þvi sælli ok dyrligri verda mundo fyrir gudi, sem þeir yrdi skiotare at stiga yfir ognir heidinna manna med þolinmædi. En er Dacianus saa, at þeir voru stadfastir i tru Kristz, þa gerdi hann þeim þat pislar upphaf, at hann let þa draga langa leid borga i millum, ok voru þeir settir i myrkvastofu um nætr, at þa kveldi bædi erfidi leidarinnar ok matleysi ok iarnrekendr, er þeir baro aa halsi ok hondum ok fotum. En er hann hugdi, at þeir mundi mæddir vera af mikilleik pisla, þaa ugdi hann, at þeir mundi fyrr deyia, en hann mætti yfir ollum grimleik sinum lysa vit þa, ok let hann þa leida or myrkvastofu, þviat hann villdi eigi, at þeir dæi, adr þeir væri meir pindir. En er þeir voru leiddir i augsyn honum, þa undradiz hann, er hann sa þa heila ok hressa at likam ok stadfasta i hug, ok reiddizt vardhalldzmonnum ok mællti vit þa: «Til hvers gafu þer þessum monnum gnott bædi atz ok dryckiu?» Iarlinn undradiz ok matti eigi skilia fyrir hardbrysti sinnar sakir, hvi þeir voru styrktir, er gud fædd(i) med sinni miskunn, ok reiddiz hann, er hann sa þraa sitt eigi mundu fra(m) komaz vit þa, er hann reyndi, at styrktir voru bædi ath ond ok likama. En þott hann hefdi þegar skemd i hiarta, þa syndi hann þo dyrd i yfirliti ok mællti vit þa, sva sem þeir mætti hrædaz: «Hvi giordir þu Valerius i gegn hofdingium, þar sem þu hefir tignarnafn.» En

af þvi kvaddi hann fyrri enn ædra, at hann hugdi ser audvellt mundu at tæla adra, ef hann mætti tæla enn ætzsta. En gud let hann helldr verda yfirstiginn af þeim, er minni vigdzlu hafdi, at hann mætti skilia, hversu fiarri honum mundi fara at stiga yfir hinn ædra, þar sem hann var sigradr af hinum minna. En er Valerius byskup svaradi hofsamliga dramblatum iarlli ok talde fyrir honum retta tru, þa mællti Vincencius fullr ens helga anda vit fostra sinn: «Til hvers hvislar þu vit dramblatan mann hofsamliga, æp þu helldr a hundinn, er hann geyr.»

2. [1] Þa reiddiz Dacianus ok mællti vit þræla sina: «Leidit brott Valerium byskup, en takit Vincencium ok leidit til pisla, þann er fyrstr þordi at mæla vit oss illt, ok fyrir þær saker festid þer hann i stagl ok þenit allan likam hans.» En er hann var upphafdr ok þandr i stagli, þa mællti Dacianus vit hann: «Hvar ser þu nu komit vesaligum likam þinum, Vincencius?» En hann svaradi: «Nu em ek hafdr yfir werolldina, af þvi fyrirlit ek hofdingia þina, þa er traust hafa i þessa heims welldi.» «Eingin pisl, kvad Dacianus, skal lida um likam þinn.» Wincencius svaradi: «Þess æskta [2] ek avallt, ok ek em einskis iafnfuss, en þu einn ert sa, er mer vilir þat veita.» Þa voru borin at honum brennandi log, ok var holld slitit af honum med iarngreipum. Þa mællti Vincencius: «Þetta er allt dyrd nafn(s) Kristz; þvi meiri dyrd veitir þu mer, sem ek stig yfir fleiri kvalir þinar; buenn er Kriz þræll til allra pisla, ath þu kvelizt þvi sarligar i hugskoti, þa er þu lætr mik pina ath likam.» Þa tok Dacianus ath ædazt ok barde stongum edr vondum riddara sina, ok þa er fiandinn reiddiz i mot Kristz riddara, tok hann meir ath kvelia sina menn, þa er hann hafdi velldi yfir. Þa mællti heilagr Vincencius vit iarllinn: «Hvat er nu, Daciane, ef þu skilr nafn Kristz ok krapt hans, þa er nu þegar framkomin hefnd min yfir þik ok yfir riddara þina.» Þa tok Dacianus at grenia ok gnista tônnum fyrir reidi, at su illzka, er guds vin pindi, syndi, at þeim var werra er pindi, en hinum er pindr war. Allir kveliarar mædduz, svo ath þeim lôfdu hendr um sidur, ok bliknudu andlit þeira, ok runnu sveitalækir af þeim, ok þefodu, svo ath þeir drogu nær einsvegar ônd, at þeir reyndi sig meir kvalda þa þegar en guds win. Dacianus bliknadi i andliti af reidi sinni, ok foru ymsir litir i hann sem æran mann, ok kalladi a þiona sina: «Hvar er nu mattr ydvar, þer fyrirforut mordingium ok glotudut galldramonnum ok stigut yfir hordoms-

1 Fra iarlli ok kveliorum *Overskr.* 2 æsksta *Cd.*

menn ok þiofa, en þer megit nu eigi einn mann neyda til þess, at hann þegi yfir skemd worri.» Þa mællti hann vit Vincencium: «Neitadu þik kristinn vera, ok neita Krist gud vera, ok far i brott omeiddr.» Þa brosti Wincencius ok svaradi honum: «Kristi iati ek gudi minum drottne; en þu beidir mik, ath ek neita sônnu; lôg bioda at kvelia lygimenn, þvi er synt, attu giorir i mot lôgum hofdingia þinna, þviat þeir budu þer at kvelia þa, er neita sonnu. Kristinn segi ek mik vera, en þu beidir mik, at ek mæla þat, er ongu gegnir; en er þu matt eigi rada, hvat ek skal mæla, þa kvelz þu i hugskoti, er ek vil eigi liuga.» Þa mællti Dacianus, ath endrnyia skylldi kvalernar; ok komu omodir kveliarar ok slito holld af honum med iarngreipum, ok foru um allt hôrund hans bædi um bak ok briost ok sidur ok kvid. En er blod flaut um alla limo hans, ok skinu beinin ber vit i môrgum stodum, þa leitadi Dacianus rads, hversu hann mætti fara ondu hans, þa er hann sa ecki oslitid aa likam hans, ok sia matti idrin inn i bukinn.

3. Iarlinn harmadi sigh yfirstiginn i pislum ok mællti: «Miskunna þer, Vincenci, ok glata eigi bloma æsku þinnar. Eir þu sialfum þer, ath eigi glatir þu lifi þinu.» Heilagr Vincencius svaradi med stadfesti: «Þu ert smidr illzku ok finnandi slægdar, radandi rangra teyginga. Hvat mun þat, er eigi þorir þu at gera i gegn mer, er þu þorir at freista drottins mins; se ek fysi þina, lit ek grimleik rads þins; leiti þeir miskunnar þinnar, er neita miskunn[1] Kristz, ok hrædiz þeir þina reidi, er eigi hrædaz guds reidi. Þat er helldr vesold en miskunn, er þu kallar milldi; af þvi halltu reidi þinni, sem þu hoft, ok sæfaz eigi, ok drag enga kvol undan, þa er þu matt hugsa, at þu vitir þik i ollu yfirstiginn, þvi er þu giorir, þa er þu ser ecki eptir vera þat, er þu megir giôra.» «Kvelit þer þenna þriot, kvad Dacianus, ollum pislum þeim, sem þer erut vanir at kvelia þiofa eda mordingia, ok se allir limir hans i pislum, medan ond er i likama hans, at ek verda eigi yfirstiginn, medan hann lifir.» Enn sæli Wincencius svaradi med hreinum hug ohræddr ok med blidligu andliti: «Ognir þinar eru mer skemtan, ok dyrd min eru pislir þinar; þa er þu þickizt reidazt, miskunnar þu.» Þa var elldr giôrr ok iarnslar lagdar i elldinn ok gervar gloandi, ok var sa stadr ætladr Vincencio til pislar. En er hann var or stagli tekinn, þa for hann rennandi til elldzins ok fyrirleit gloandi iarnslar svo sem rennanda vatn or brunni, ok syndi eigi hræzluþocka i ordum ne yfirliti. Stadfastr

1 miskunnar *Cd.*

var hann i tru ok fyrirleit kvaler svo sem blida hluti, ok syndi ollum, ath Kristr var med honum, sa er eigi verdr yfirstiginn. Kvaldr var hann ok bardr, elldi brendr ok iarnum skorinn, sallti ok glodum iosu þeir i opin saar um alla limo hans, ok var þa eigi holldit eitt pint, er sallt ok eimyria[1] fellu a idrin.

4. Ða sogdu kveliarar Daciano, at allar kvalir voru frammi hafdar, en Wincencius var þvi þrarri, sem hann var meir pindr, ok iatte Kristi framar en fyrir ǫndverdu. Dacianus svaradi: «Yfirstigumz vær af Wincencio; en ef þriotzka hans ma eigi yfirstigaz, þa skal oss þat til likna, ath hann se alldregi kvalalauss, medan hann er iendr. Sidan let iarllinn byrgia hann i enum myrkvastzta stad, þeim er hvossu grioti var allr innan þildr, at hann særdiz þvi meir af griotino, sem hann villdi ser helldr vikia til hæginda. En þo let hann fyrr þenia hann milli tria tveggia, ath oll sar hans opnadiz, adr honum væri kastad a hvassa griotit. Sidan var hann þar byrgdr, svo at hann matti ecki sia ok einskis manz mali naa ok enga fæzlu hafa. En iarllinn mællti vit vardhalldzmenn, at þeir segdi, ef hann andadiz. En aa ondverdri nott þa er vardhalldzmenn voro nysofnadir, þa sneruz þeir lutir i dyrd, er Dacianus hafdi ætlat til pisla Vincencio ok bana. Dauck ok hrædilig myrkvastofa tok himneskt lios, ok brunnu kerte solo biartare, einglar guds veittu honum hægia reckiu, ok song hann med þeim lof gudi med fagnadi. Allir þeir, er hryggvir urdu vit pisl hans, glodduzt, er þeir sa ok heyrdu dyrd hans. En er vardhalldzmenn voknodu ok sa ok heyrdu þa luti, sem gerduz, þa hrædduz þeir ok ætludu, at menn hefdi til komit at leysa þann, er þeim var bodit ath vardveita. Þa kalladi guds vottr ok mællti, ath þeir skylldi eigi hrædazt, «ok mun ek, kvad hann, eigi flyia dyrd mina; litit þer hingat, ef þer megit, ok siait huggan þræls guds, þa sem einglar guds veita mer; siait þer nu lios, þar sem þer gerdut myrkt, heyrit þer nu þann gladan syngia lof gudi, sem þer hugdut, at undan mundi flyia; losnod ero bǫnd min ok groin oll sar min, ok ollum er mer hægt. Undriz þer helldr en þer hrædiz, ok fagnit þvi, er iatare ens sanna guds hefir avallt sigr. Farit þer ok segit Daciano, hveria dyrd guds vottr hefir. Leiti diofullinn nockurra bragda, ef hann ma; þvi meiri dyrd veitir hann ǫnd minni, sem hann færir meiri pislir ath likamanum, þviat gudligt lios vitradiz mer, þa er mannligt lios var fra mer tekit, ok var mer gefin eingla huggan, þa er mannligh huggan var brǫtt tekin.»

[1] eymyria *Cd.*

5. [1] En er Dacianus fra þessi tidendi, þa vard hann fôlr sem naar, ok þottiz kenna aa ser allra pisla þeira, er hann hafdi guds þræl pina latit, ok vard hann þa naudigr satt ath segia, þviat hans illzka pindi hann til sannrar sogu, þa er hann mællti þetta: «Hvat megum vær nu framar giora vit þenna mann, er [2] vær erum yfirstignir i ollu þvi, sem vær giôrum. Færit þer hann nu til hægrar reckiu ok lati af at pina hann, þviat ek vil eigi giora dyrd hans meiri, ef hann deyr i pislum.» Þa baro þeir hann gladir a ôxlum ser til hægrar reckiu, er adr hofdu at pisl hans verit, ok reyndiz hann at sônnu guds vinr, er hann nadi þionostu uvina sinna. En þegar er hann var lagdr i reckiuna, þa andadiz hann ok bar med ser eilifan sigr pislar. En af þvi let Kristr hann þegar andazt, ath eigi þættiz Dacianus hann hafa vardveittan af sinni miskunn. En er Daciano var sagt andlat hans, þa skammadizt hann ok mællti: «Ef ek matta eigi stiga yfir hann lifanda, þa skal ek þo pina hann daudan, ath ek mega vega sigr a þeim daudum, er ek matta eigi a kvikum. Kasti honum a vidan voll, þar sem eingin standi fyrir, ath likami hans verdi etinn af dyrum ok fuglum, at eigi grafi kristnir menn likam hans ok kalle hann helgan.» En guds gæzla vardveitti þann, er menn villdu eigi miskunn veita, þviat vargr ok hrafn vardveittu marga daga likam hans, svo at eigi þordu dyr ne fuglar aa at falla. Þa endrnyioduzt spamanz iarteinir yfir guds þræli svo sem ath guds forradi. Dacianus hræddiz, er hann heyrdi þetta sagt ok mællti: «Eigi megum vær stiga yfir þenna mann daudan helldr en kvikan, ok verdr hann þvi dyrligri, sem ek leita meir ath pina hann. En ef iôrd ma eigi fyrirfara honum, þa taki siavar diup vit honum, ok leyni siarenn sigri hans, ath eigi skammimzt vær ok verdim at fyrirsion af ollum monnum at verda yfirstignir af daudum manni. Kaste þer likam hans i kistu griotz fulla, ok færit hann langt fra landi ok sockvit honum þar i sia, ath skrimsl sævarins fyrirfari honum, ef landkykvendin vilia eigi þiggia hann.» Þar soktu þeir nidr i midiu hafi likam ens heilaga Vincencij, ok fara aptr gladir ok sôgdu Daciano med fagnadi, ath Vincencius var brott færdr or augliti manna. En gud styrdi skiotara likama Vincencij til landz en þeir skipi sino, ok var hann fyrr til landz kominn, en þeir ætludu [3] hann til grunna sockinn, ok fyrr grafinn vegsamliga, en hann væri sagdr aa sia kominn. Þviat hann vitradiz trufostum manne nockurum i draumi ok sagdi, hvar likami hans var rekinn

1 andlat Vincencij diakna *Overskr.* 2 enn *Cd.* 3 ætlædu *Cd.*

a strǫndu. En er sa var tomlatr ok treystiz eigi at segia, þa vitradi(!) sǫnn merki, hvar siar hafdi kastad likama hans a land, eckiu nockurre gamalli, en hon sagdi þegar kristnum monnum, hvat henne var vitrad. Þa fundu þeir likama hans, er hann villdi, ok grofu med mikilli dyrd, sem makligt var. En hvar sem kirkia verdr ger ok helgut i hans nafni, þa verda þar margar iarteinir ok velgerningar, sva sem i þeim stad er hann hvilir at likama, ok dyrkaz um allt Ispanialand i tru Vincencij nafn drottins vars Jesus Kristz, þess er lifir ok rikir med fedr ok helgum anda gud um allar alldir. Amen.

---

# VITUS SAGA.

(*Cd. 180*[b] *folio.*)

A dogum Diocleciani ok Maximiani heidenna konunga giorde heilagr sveinn Vitus margar iartegner i herade þvi er Lucania [1] heitir, ok var hann a biænum oft nætr ok daga ok snere morgum til truar ok veitte þurfundum marga naudsynlega hlute i olmosogæde. Enn heilagr Vitus var audegr at aurum ok gaufugr at kyne, ok skrydde hann sik harklædum ok kallade a gud ok mælte: «Drottenn Jesus Cristr, gior þu myskunn med þræle þinum, ok rek mik eige fra bodordum þinum, ok skil þu eige mik fra samlage rettlatra.» Enn er Vitus bad gud i hiarta sinu, þa kom rodd af himne yfer hann ok mælte: «Heyrd er biæn þin, verde sem þu batt.» Enn fader hans var grimr ok heidenn ok let eige af blotum skurgoda, enn hann het Hylas, ok villdi hann kalla son sinn til blota. Vitus svarade: «Aungvann kann ek annann gud nema einn sannann gud ok eilifan, þann er skilde lios fra myrkre, ok kallade hann lios, ok vard dagr, ok kallade hann myrkr, ok vard nott. Honum sialfum þiona ek konunge eingla, þeim er skop himenn ok iord ok alt þat, er þar er a mille.» Enn er þetta heyrde Hylas fader hans, þa let hann festa son sinn a tre ok beria ok mælte vid hann: «Hverr kende þier þetta at mæla; ef þat heyra konungar, þa munt þu deyia.» Vitus svarade: »Þat er þu heyrder mik mæla, fader, Kristr kende mier, sa er ek em hans þræll.» Þa kallade Hilas þangat Modestum fostra sveinsens ok

1 lu$^{c}$ia *Cd.*

mælte: «Gæt þu, at sveinnenn mæle eige optar slika hlute.» Vitus svarade: «Þetta er mier hunange sætara, svo sem psa(l)maskalldet mælte: «Sætare eru brioste minu þin mal, drottenn, enn hunang munne minum. Betre eru mier log þins muntz enn mikill fiolde gullz ok silfrs.» Þa syndizt Vito eingill guds ok mælte vid hann: «Ek em þier senndr af gude, at ek vardveita þik til andlazt, ok þægar eru gude biæner þinar.» Enn Hylas gret son sinn svo sem daudan ok leitade vid at teygia hann med blidum ordum til blota. Vitus mælte: «Hverium godum vilt þu at ek blota?» Hilas svarade: «Veizt þu eige odaudleg god vera Odenn, Þor ok Frey, Frigg ok Freyiu, er konungar gofga.» Vitus mælte: «Alldri heyrda ek nefnda svo morg god, eirn kann ek gud, faudr drottens mins Jesu Cristz, þess er pindr var fyrer syndum vorum ok leyste oss med sinu blode, enn þu kant hann eigi fodur. Enn ef þu villder kenna hann, þa munder þu vita, hversu mikill (er) drottenn vor Jesus Cristr sonr guds lifanda fleklaust lamb, þat er tekr synder heims.» Hilas mælte: «Veit ek þann er þu kallar Krist, (at hann) var krossfestr af monnum.» Heilagr Vitus svarade: «Hans krosfesting er lausn synda vorra, er a hann truum. Enn einge ma mik skilia fra ast hans.»

2. Enn heilagr Vitus vann morg kraftaverk ok grædde siuka, lyste blinda ok rak diofla fra odum. Enn er þat spurde Vallerius iarl, þa heimte hann til mals vit sik fodur hans ok mælte med hann: «Þat heyre ek, at sonr þinn fyrerlætr god vor ok gofgar Krist, þann er krossfestr var aa Gydingalande, af þvi lat þu hann hingat leida.» Enn er Vitus var leiddr fyrer domstol iarls, þa mælte iarl vid hann: «Fyrer hvi blotar þu eige, eda veizt þu eige, at konungar budu at kvelia morgum pislum alla þa, er Krist gofga?» Heilagr Vitus svarade: «Alldri mun ek hneigia hals minn fyrer skurgodum ne luta steinum, þviat ek hefe drotenn, þann er ond min þionar.» Enn er Hylas heyrde þetta, þa mælte hann med hryggleik: «Gangit hingat viner miner ok gratet med mier, þvi at ek se, (at) son minn vill fyrerfarazt.» Vitus svarade: «Eige fyrerforunzt ek, helldr kosta ek mier at ganga i sveit rettlatra.» Valerianus mælte: «Nu þegar leta ek þik stongum beria, ef eige være vinatta med mier ok fodur þinum; af þvi lat þu at mier ok blota godum.» Vitus svarade: «Sagda ek þier um sinn, iarl, Krist gofga ek son guds.» Þa reiddizt Valerianus ok let Vitum festa a tre ok beria. Enn sa er fystr rette hendr sinar til at beria sveinenn, þa visnudu hendr hans, ok kallade (hann)

ok mælte: «Glata ek hondum minum, ok kveliunzt ek i sott.» Þa var þangat kalladr Hylas fader svein(s)ens, ok mælte Valerianus vid hann: «Se ek son þinn fiolkunnegan vera.» Heilagr Vitus svarade: «Eige em ek fiolkunnegr, helldr em ek þræll Kristz, þes er mier kenner bodord sin, ok em ek fylldr af hans anda, þess er dauda lifgade ok geck þurrum fotum a sio. Enn ef god ydur mega nockut, þa giore þau heila hond þessa mannz.» Valerianus mælte: «Gior þu þat, er þu mæler.» Vitus svarade: «I nafne drottens Jesus Kristz mun ek giora.» Enn er hann kallade a nafn Jesu, þa giorde hann heila hond hins.

3. Þa sellde iarl Vitum fodur sinum ok mælte vid hann: «Bætt þu fyrer syne þinum, at hann late at oss ok blote godum ok fyrerfarezt eige.» Þa leidde fader hans inn i hus Vitum ok synde honum kraser ok fogr audæfe, ok let leika fyrer honum golegar meyiar ok prudar, ok ætlade sik mundo teygia hugskot hans fra tru Jesu Kristz med blidendum heims. Enn Vitus leit til himens ok mælte: «Eige fyrerlitr gud litillatt hiarta.» Enn klefe sa, er Vitus var i luktr, var innann buenn gulle ok silfre ok gymsteinum(!). Þa fiell heilagr Vitus aa kne ok (bad) til guds ok mælte: «Gud Abraham, gud Ysaac, gud Jacob, myskunna þu mier ok styrk mik i krafte þinum, at eige meige illgiarnn dreke fremia vilia sinn i gegn þræle þinum, at eige þurfe heidnar þioder at spyria, hvar gud vor er.» Þa kom lios mikit i klefann, svo sem solskin, ok svo dyrligr ilmr, at hiu letuzt alldri slikann ilm hafa kenndann. Þa mælte Hylas: «God vor munu komen i husit vera.» Enn er hann leit i klefann i gegnum glugginn, þa lukuzt upp augu hans, ok sa hann .vij. eingla biarta standa hia sveinenum ok styrkia hann. Enn er (hann) sa þetta, þa vard hann blindr. Enn er heilagr Vitus bad fyrer faudur sinum ok mælte: «Drottenn, er sonr getenn ert af anda helgum, ef þat er fyrerætlun myskunnar, þa skil þu mik eige fra fedr minum, helldr visa þu honum til heilagrar hallar þinnar.» Enn Hylas kallade sarlegre roddu ok mælte: «Vesall em ek, þviat glatada ek liose augna minna.» Þa giordizt hryggleikr mikill allra hiona hans, ok foru þesse tidinde um borgina innann.

4. Þa kom Valerianus iarl þangat ok spurde, med hverium atburd Hylas hefde blindr vordit. Hylas svarade: «Þa er ek sa i klefa sonar mins, þa sa ek elldleg gud þar, ok matta ek eige standazt vidlit þeira.» Valerianus mælte: «Goden voru þar.» Þa var Hylas leiddr til Þors hofs at rade Valeriani iarls, ok het þar

miklu tafne ok mælte: «Þorr god, ef þu giorer mik heilann, þa mun ek færa þier gullhyrndann oxa.» Enn Þor svaf ok veitte honum onga hialp, helldr stunde Hylas eda æpte fyrer ofverkium. Enn enn sæle sveinn Vitus fiell aa kne ok bad til guds ok mælte: «Þu gud, er lyster Thobiam ok grædder Job af sarum, gior þu svo myskunn þina vit fodr minn, ef hann vill at þier lata.» Þa var leiddr blindr fader til sonar, ok fiell hann til fota honum ok mælte: «Sonr, gior þu myskunn vit mik.» Vitus mælte: «Vill þu heill vera?» Hylas svarade: «Vist vil ek.» Vitus mælte: «Neit þu Þor ok Odne, Frigg ok Frey ok Freyiu.» Hylas svarade: «Hversu ma ek þeim neita?» Heilagr Vitus mælte: «Veit ek, at hiarta þitt er hardnad i villu, enn fyrer hiastandanda lyd mun ek giora myskunn vit þik i nafne drottens mins Jesu Kristz, at lydr vite, at hann er gud.» Enn er Vitus giorde krossmark yfer augum hans, þa fiell hreistr af augum hans, ok vard hann heill ok kallade ok mælte: «Þacker giore ek godum minum, er mik giordu heilann.» Vitus broste ok mælte: «Þu ovinr, Kristr grædde þik enn eige god þin.»

5. Enn er Hylas villde bana syne sinum, þa vitradezt eingill guds Modesto forstra hans ok mælte vid hann: «Far þu nidr til siofar med sveinenn, ok munt þu finna þar skip, ok mun ek feria ydr til annars landz.» Modestus[1] svarade: «Drottenn, eige kunnum vær leid til siofar.» Eingellenn mælte: «Ek mun leida ydr.» Enn þa var Vitus .vii. vetra gamall. Enn er þeir komu til siofar, þa funndu þeir skip þat, er Kristr sende þeim. Eingell freistade sveinsens ok mælte vit hann: «Til hvers herads vilit þier fara?» Vitus svarade: «Þangat sem drottenn vill oss senda.» Eingell mælte: «Hvar er skipleigan[2]?» Vitus svarade: «Kristz þrælar erum vær, hann mun þier giallda verkaup.» Enn er þeir stigu aa skip, þa voru þeir þegar fundner a odru lande, ok sau þeir ecki til skipsens, er þeir komu aa land. Enn þeir komu til ar þeirar, er Siler heiter, ok hvilduzt þar under tre nockuru. Enn Vitus giorde margar iartegner, ok sogdu dioflár til hans, er mæltu[3] fyrer munn odra manna. Ok kom margr lydr til hans, ok toku marger tru, er sau iartegner hans, ok kennde hann þeim ord guds.

6. Enn sonr Dioclesiani konungs var odr af diofli, ok kallade ohreinn ande ur munne hans ok mælte: «Eige mun ek burt fara

1 Modesto *Cd.* 2 skipleikan *Cd.* 3 mælti *Cd.*

nema Vitus kome.» Dioclecianus konungr mælte: «Hvar megum vær þann mann finna?» Ohreinn ande svarade: «Hia aa þeire, er Siler heiter, munu þier finna hann.» Þa sendi Dioclecianus þangat .x. vopnada riddara skyndelega, at þeir kallade helgann Vitum til funndar vit konung. Riddarar foru ok funndu Vitum standannde aa biæn, ok mæltu þeir vit hann: «Ertu Vitus?» Enn hann svarade: «Ek em.» Riddarar mæltu: «Konungr sende oss epter þier.» Vitus svarade: «Hvat þarf konungr svo litils sveins?» Riddarar mæltu: «Sonr hans er kvaldr af diofle.» Vitus mælte: «Foru vær þa.» Enn er þeir koma i Romaborg, þa var sagt Diocleciano, ok let hann leida sveinenn fyrer domstol sinn. Enn Vitus var vænn at alite, ok var guds myskunnarþocke audsær a honum. Dioclecianus mælte: «Ert þu Vitus?» Enn hann þagde. Þa spurde hann Modestum fostra hans. Enn Modestus var gamall ok kunne eige konunge at svara, þa mælte Vitus vit konung: «Vit hvern mæler þu, enn elldra eda enn yngra? Af þvi svarada ek þier eige, at þu ætter fyrr at kvedia enn elldra.» Dioclecianus mælte: «Hvort styckizt(!) þu i gegn oss?» Vitus svarade: «Eige erum vær stykner, helldr einfallder sem dufa, þviat lærefader vor er godr ok hofsamr i sinu edle.» Enn ohreinn ande kallade ur hinum oda sveine ok mælte: «Vitus, fyrer hvi kvelr þu mik?» Dioclecianus mælte: «Mattu heilann giora son minn?» Vitus svarade: «Eige ma ek, helldr drottenn minn Jesus Kristr sonr guds lifanda.» Þa geck Vitus til sonar konungs ok lagde henndr sinar yfer hofut honum ok mælte: «Þu illgiarn ande, far i burt fra skepnu guds.» Þa flyde fiande ok drap marga menn, ok hræddizt alþyda, ok fiell Dioclecianus sialfr i ovit fyrer hrædzlu [1]. Enn er hann rettez vit, þa mælte hann vit Vitum: «Lat þu at mier ok blota godum minum, ok mun ek gefa þier helming eigu minnar ok rikis mins ok gofga þik gulle ok silfre ok dyrlegum klædum.» Vitus svarade: «Riki þitt ok fe þitt se med þier, enn þat (er med) mier, er naudsynlegt (er), þviat ek hefe med mier gud lifanda. Enn ef ek er stadfastr i hans ast, þa mun hann skryda mik odaudlegu skrude, þvi er myrkr mega eige dauckva.» Dioclecianus mælte: «Gef þu heillt rad ond þinne ok blota godum, at eigi fyrerfariz þu i pislum.» Vitus svarade: «Þess fysunzt ek at koma til þeirar dyrdar, er drottenn het vinum sinum.» Þa let konungr setia Vitum ok Modestum i iarn ok lykia [2] þa i myrkvastofu, svo at eingi kiæme at vitia þeira ne færa at eda dryck.

1 hlædzlu *Cd.* 2 likia *Cd.*

7. Enn er þeir komu ok voru setter i myrkvastofu, þa kom lios mikit af himne ok fyllde myrkvastofuna, svo at vardhallzmenn unndruduz. Enn heilagr Vitus kallade mikille roddu a gud ok mælti: «Hygg þu a hialp vora, drottenn, ok skynt þu at leysa oss ur þesse pisl, svo sem þu leyster .iii. sveina fra ofne brennanda ellz.» Þa vard landskialte mikill, ok vitradizt eingill guds Vito sveine ok mællti vit hann: «Ris upp þu Vite!» Þa bradnudu af þeim iarn sem vax vit elld, ok sungu þeir bader lof gude ok mæltu: «Lofadr se drottenn gud Israel, sa er vitiade ok giorde lausn þiodar sinnar.» Enn er myrkvastófuvordr sa ok heyrde þessa hlute, þa rann hann til konungshallar ok kallade mikille roddu: «Fyrerfarazt mun borgin, ok eru menn i haska.» Dioclecianus mælte: «Hvat er ordit?» Myrkvastofuvordr svarade: «Lios mikit er yfer monnum þeim, er þu sellder oss til vardveizlu, ok ilmr dyrdlegr, ok er med þeim madr sa, er ecke mannkyns ma i gegn at sia.» Dioclecianus mælte: «Dyrum skal selia ander þeira, ok mun ek þa sia, ef Kristr þeira meige leysa þa ur[1] hondum minum.» Enn er þeir voru leidder til dyragardz ok stodu þar, þa mælte Vitus vid Modestum fostra sinn, at hann hræddizt eige, ok mælte: «Hrædz þu ei daudann, þviat nu nalgazt dyrd ockur.» Enn þar stodu hia .xx. þusunder karla, enn fleire voru konr ok born. Þa mælte Dioclecianus konungr: «Hvar þickizt þu nu kominn, Vite?» Heilagr Vitus svarade: «Til dyragardz se ek mik leiddann vera.» Dioclecianus mælte: «Vert þu heilradr æsku þinne ok blota godum.» Vitus svarade: «Se þier alldri vel, ovinr, skædr vargr, svikare anda! Ef mælt væri vit hund, at hann þegde, ok mælt, at hann skyllde burt fara, þa munde hann skammazt sin ok burt fara, enn þu skammazt eige. Enn ek hefe med mier Krist þann er ek þiona.» Þa reiddizt konungr ok let kynda ofn gloanda ok hella i ofnenn vellanda bike ok vitsmiore ok blye. Þionar giordu, sem þeim var bodit, ok kostudu helgum Vito sveine i ofnenn. Dioclecianus mælte: «Nu mun ek reyna, ef gud þin mune leysa þik ur bondum minum.» Enn er Vito var orpit i ofnenn, þa giorde hann krossmark fyrer sier ok song lof gude i midium ellde, ok mælte: «Þu drottenn, er leiddir sonu Israel af Egiftalande fyrer þræla þina Moysen ok Aron, ok leyster ur anaud, svo gior þu nu myskunn þina vit oss fyrer nafn þitt.» Þa mælte Vitus vit konung: «Hvar eru pisler þinar, Diocleciane?

1 er *Cd.*

þacker giore ek þier, þviat þu lætr giora mier log.» Þa tok allr lydr at kalla ok mælte: «Alldri saum vær slikar iartegner, mikill er gud sveins þessa.» Þa geck Vitus osakadr ur ofne, ok var eige fleckr a likama hans, helldr var horund hans allt hvitt sem snior. Þa mælte Vitus vit konung: «Skammazt þu nu med diofle fedr þinum.» Þa fylldizt hann reide ok let hlaupa at honum hit oarga dyr, þat er hverr madr hrædizt vit, er heyrer rodd þess. Þa mælte konungr: «Mun eige fiolkynge þesse mega enn vit þesu dyre.» Heilagr Vitus svarade: «Skilr þu eige, enn heimske, þat, at Kristr er med mier ok einglar hans, þeir er mik leystu fra pislum þinum.» Enn er dyrit var laust latit, þa giorde Vitus krosmark a moti þvi ok ste yfer grimleik þes. Dyrit rann ok fiell til fota honum. Þa mælte Vitus vit konung: «Nu sier þu, konungr, a(t) kvikendènn giallda[1] veg gude, enn þu kenner eige skapara þinn. Enn þu munder hialpazt, ef þu villder a hann[2] trua.» Konungr mælte: «True þu aa þat ok allt kyn þitt.» Vitus svarade: «Vel mælter þu, konungr, ok æsker þu oss eilifrar blezanar ok sannrar dyrdar.» Þa tok þusund karla tru, er þeir sau þessar iartegner. Konungr mælte vit Vitum: «Er svo romm fiolkynge þin, at þu matt stodva elld ok dyr?» Vitus svarade: «Þesser hluter giallda veg gude enn ei mier, þviat þeir kenna skapara sinn.» Þa let konungr festa i stagl Vitum svein ok Modestum fostra hans [ok Crescenciam fostru hans[3]. Enn er guds menn voru kvalder miok i stagli, þa mælte Vitus vit konung: «Þu hinn grimazte kvalare, hvat sæker þu at konu, edr hverr krafte(!) er þier at lata kvelia konur.» Þa kallade Vitus ok mælte: «Drottenn Jesus Kristus, leys þu oss nu.» Þa giordizt þegar landzskialte mikill, ok fellu morg hof skurgoda, (ok) marger menn er i hofunum voru. Þa hræddizt konungr ok flyde ok mælte: «Vesall em ek, er ek em yferstiginn af svo litlum sveine.» Þa kom eingill guds ok leyste þau ur stagle ok sette þau nidr hia aa þeire, er Siler heiter, þar (er) þau haufdu fyrr tekit hvild under tre. Þa bad Vitus til guds ok mælte: «Drottenn Jesu Kriste, sonr guds lifanda, tak þu ander vorar, ok fyll þu i godum hlutum vilia þeira, er giora minning pislar minnar ok vorar, ok leid þu þa til dyrdar þinnar. Biod þu ok þat, drottenn, at i þessum stad, er likamer vorer hvila, verde alldri sidan mein at mye.» Enn i þeim stad hafde adr verit my svo mart, at monnum þotte eige

1 diallda *Cd.* 2 hana *Cd.* 3 [ *mgl. Cd.*

[byggianda i[1]. Enn er heilagr Vitus lauk biæn sinne, þa kom rodd af himne mælande: «Vite þion minn, gefit er þier allt þat, er þu hefer bedit.» Þa sofnudu þau i fride guds, ok voru sienar[2] ander þeira i dufna likium sniofi hvitare ok solu biartare, ok heyrd eingla rodd syngiande þessum ord(um): «Via iustorum recta, rett er gior gata retlatra ok buenn stigr heilagra.» Enn erner tveir storer komu fliugande ok settuzt i limar tres þes, er guds piningarvottar lagu under, ok vardveittu .iii. daga likame þeira, svo at einkis kyns kvikvennde þorde nær at koma þessum heilaugum likomum.

1 [ byggiandei *Cd.* 2 siednar *Cd.*

# VITÆ PATRUM.

---

(*Cd. 225 folio, A; 232 folio, B; 234 folio, C.*)

**Her byriaz wpp su bok, er kallaz witæ patrum**[1].

(Prologus).

Blezadr gud, hverr er vill alla mennina heila gôra ok til vidkenningar koma sannleiksins, sa er at sônnu greiddi varn veg til Egiptalandz, ok syndi oss mikla dasamliga luti stodandi til minnis eptirkomundum; af hverium at eigi at eins rynni oss upp heilsu sôk, helldr af sealfri sôgunni skapadiz eptirdęmi heilsunnar ok hin skapligzta kenning milldinnar, hver er upplyki viliundum at ganga veg kraptanna hina breiduztu braut med tru fyrr unninna verka.

Nu [ath hvaru[2] at ver sem litt verdugir til frasagnar sva mikilla hluta, ok eigi syniz makligt sva smaleita, audgętliga ok

1 *saal. A*; *Overskr. mgl. B og C.* 2 [ þo *B*.

---

## PROLOGUS SANCTI HIERONYMI

IN

## VITAS PATRUM SANCTORUM ÆGYPTIORUM.

Benedictus Deus, qui vult omnes homines salvos fieri, et ad agnitionem veritatis venire, qui etiam nostrum iter direxit ad Ægyptum, et ostendit nobis mirabilia magna ad posteritatis memoriam profutura; ex quibus non solum nobis causa salutis oriretur, verum ex historia exemplum salutis, atque doctrina pietatis aptissima conderetur, quæ virtutis iter agere volentibus gestorum præcedentium fide amplissimum tramitem pandat.

Quamvis ad tantarum rerum narrationem minus idonei simus, nec dignum videatur, ingentium rerum exiguos ac parvos fieri

litla diktara verda[1] gervara sva agętra kenninga ok boda sva haleitar dygdir med lágum málshętti, þo þvi at þat beidiz brędranna **aa**st optliga af oss, hverra er eru i fiallinu Oliveti, at ver lukim upp lif egipzkra munka, ok dygd salunnar, fegrd godfysinnar, styrk bindendinnar, er ver s**aa**m med þeim, nu mun ek til hętta truandi mik vidhialpanda þeira bęnum, er bioda, eigi sva miok af málshęttinum lofs leitandi, sem af frasǒgn hlutanna vęntandi lesundum oordna uppsmidan, at þa er hverr sem einn verdr upptendradr eptirdęmum verkanna, ladiz at leidaz lastafullar girndir veralldarinnar en at hitta hvilld ok framkvęmd godfysinnar.

Sa ek ok sannliga, segir sęll Jeronimus, Kristz fehirdzlu folgna i mannligum kerum; þa fehirdzlu fundna villda ek eigi leyna sem ǒfundsiukr, helldr hitta sva sem fyrir morgum i mid[2] fram bera ok gera sameigna, viss at þvi fleiri sem af henni audgaz, þvi meira snudgaz mer. Ek mun vist verda rikari, þa er annarra heilsa fæz fyrir erfd minnar[3] þionostu.

Nu þa i upphafi varrar frasagnar bidium ver at vera med oss miskunn drottins vars Jesus Kristz, med þess krapti hafaz allar

1 geymara ok *tilf. C.* 2 mitt *B.* 3 *Her ere 8 Linier bortskaarne i C.*

---

auctores, præcelsasque virtutes humili narrare sermone, tamen quoniam fratrum caritas, eorum qui in monte Oliveti commanent, hoc a nobis frequenter exposcit, ut Ægyptiorum monachorum vitam, virtutesque animi, et cultum pietatis, atque abstinentiæ robur, quod in eis coram vidimus, explicemus: precibus ipsorum, qui hoc imperant, iuvandum me credens, aggrediar, non tam ex stylo laudem requirens, quam ex narratione rerum ædificationem futuram legentibus sperans, dum gestorum unusquisque inflammatus exemplis, horrescere quidem sæculi illecebras, sectari vero quietem, et ad pietatis exercitia invitatur.

Vidi ergo, et vere vidi, thesaurum Christi in humanis absconditum vasculis, quemque thesaurum repertum nolui tamquam invidus occultare, sed quasi pro multis inventum proferre in medium et facere communem: certus quod quanto plures ex eo fuerint ditati, tanto mihi amplius acquiretur. Ego enim locupletior fiam, cum aliorum salus ministerii mei fuerit quæsita mercimonio.

In principio ergo narrationis nostræ adesse nobis precamur gratiam Domini nostri Jesu Christi, cuius virtute omnia hæc pietatis

þessar framningar godfysinnar vid munka Egiptalandz. Ver[1] saam af þeim marga fedr a iôrdunni verandi, himneskt lif gerandi, ok nôckura nyia spamenn, samt upphafda med dygdum hugarins sem embętti spadomsins, hverium eigi fra var stormerki, iartegnir ok undran til vitniss[2] verdleika; ok at verdugu. Hvi mundu þeir eigi taka matt himneskra luta, er ecki girnaz iardligt eda holldligt? Nôckura þeira saam ver sva hreinsada af allri hugrenning ok grunsemd illzkunnar, at þeir mattu eigi muna þegar, þott þeir hefdi nôckut vandskapar i verolldinni gert. Sva var i þeim mikil hogvęri hugarins, ok sva miok hafdi med þeim stadfestz elskhugi godgirndarinnar, at med verdugu se af þeim sagt: Heyrdu, drottinn, margr fridr er elskundum monnum nafn þitt.

Sundr voru þeir dreifdir um eydimôrkina ok skildir i skalum, en samtengdir i ást. Af þvi voru þeir sundrskildir at herbergium, at hvilld sinnar þagnar ok astundan hyggiunnar, fylgiandi gudligum hlutum, okyrdi eigi nôckur raust eda ras eda nôckurr malsendir. Nu med herdum hugum bida þeir sva sem godir fedr, hverr sem einn i sinum stad, tilkvamu Kristz, eda sva sem riddarinn herklæddr i herbudunum nalægd keisarans, eda trulyndir

1 *rettet*; er *A*, *B*. 2 *Her begynder atter C.*

---

exercitia apud Ægypti monachos habentur. Vidimus enim apud eos multos patres cælestem vitam in terra positos agentes, et novos quosdam prophetas tam virtutibus animi quam vaticinandi officio suscitatos, quibus ad testimonium meritorum nec signorum quidem ac prodigiorum deerat efficacia: et merito. Cur enim hi, qui nihil terrenum, nihil carnale cupiunt, non accipiant cælestium potestatem? Nonnullos namque eorum ita ab omni malitiæ cogitatione ac suspicione vidimus defæcatos, ut nec si aliquid mali adhuc gereretur in sæculo, meminissent. Tanta in eis erat tranquillitas animi, tantusque inoleverat eis bonitatis affectus, ut merito de eĩs dictum sit: Pax multa diligentibus nomen tuum, Domine.

Commanent autem per eremum dispersi et separati cellulis, sed caritate connexi. Ob hoc autem dirimuntur habitaculis, ut silentii sui quiete et intentione mentis divina sectantes, nec vox aliqua, nec occursus ullus, aut sermo aliquis otiosus obturbet. Intentis ergo suo quisque loco animis, velut boni patres Christi exspectant adventum: aut tamquam miles paratus in castris im-

sik sva hart þegar i fyrstu i ollum lutum nær sem algervir menn; hversdagliga fastadi hann eda æt sinn a tveim dögum, en hitt var optliga, at hann æt eitt sinn i viku. Aboti klaustrsins undradiz bindendi brodurins ok gerdi gudi þackir fyrir hans erfidi margfalldligt ok athalld. Her eptir bidr brodir abota, at hann gefe honum orlof at fara til eydemerkrinnar. Abote innir upp fyrir honum i fyrstu einkannliga akefd fiandans freistni, þeirar er þar barst optliga at, en hitt med, segir hann, at þar er engi til hugganar aminningarmadr. Inn ungi brodir bidr þvi öruggligarr ok akafligarr. Þar kom um sidir, at abote gaf honum orlof ok blezan sina, feck honum ok .ij. brædr til fylgdar ok leidsagnar. Þat barst at einn dag fyrir sakir mikils solar hita, at þeim gerdiz svefnhöfugt, ok lögduz þeir nidr. Þvi næst kom at þeim aurn einn ok vakti þa upp med vængium sinum; ok er þeir höfdu upp stadit, sögdu brædrnir til ins unga mannz: «Þesse er engill þinn, haf hann fyrir leidtoga ok fylg honum.» Sidan flaug aurninn framm skamt þat ok settiz. En inn ungi brodir kvaddi brædrna astsamliga ok tok at fylgia fram fuglinum, ok er hann kom at honum, flaug (hann) enn framm nockut sva ok nemr stad; slikt sva id þridia sinn, en hvarf sidan i brott. Inn ungi madr for fram þangat, ok fann þar þriu palmtre ok brunn einn fagran, ok þar hia helle. Þenna stad sva sem af gudi gefinn velr hann ser til bygdar .vj. ær i samt, at hann etr alldinit af treanum, þat er dagtilus het, ok dreckr vid vatnit or brunninum. Einn dag bar sva til, at oreinn andi sotti hans fund i asionu ok yfirbragdi nockurs hrædiligs abota. Brodirinn fell þegar framm ok badz fyrir. Fiandinn mællte þa til hans: «Bidiumz enn fyrir, brodir.» Ok sva gerdu þeir. Þar næst fretti fiandi, nær brodir hefdi þar komit. Brodirinn sagdiz þar sex ær verit hafa. Diöfullinn mællte: «Ek hefe her bygt i hia þer ok vordit ecki varr vid þik fyrr en nu fyrir fiorum dögum, at þu værir her. En ek ottumz miok einn hlut i atferdi ockru, er vid tökum alldri holld ok blod Jesus Kristz, ok förum þenna sunnudag eda annan til kirkiu ok bergium þvi, en sidan heim higat badir samt til kofa ockarra.» Brodurnum þockaz vel aeggian ovinarins. Ok þvi at hann kom a næsta sunnudag, fylgir hann honum til kirkiu. En er tidum var lokit ok eptir var leitad, þa fannz hvergi förunautr brodurins. Nu truer hann þo brodirinn, at hann hafe hans þurftar beidz i þagatkvomunni, ok fretti þvi brædr at, ef þeir hefdi þekt þann mann, er kom med honum. Brædr kvaduz öngvan mann seed hafa koma med honum nema

hann einn samt. Her af kannaz brodirinn vid ovinarins slægd, en idraz þo eigi sva nytsamligrar sinnar þarkvomu, hugsar nu heimferd sina þegar eptir messuna. Brædr gengu til hans þvi næst ok skylldudu hann at mataz med ser, adr hann fære heim. Þar eptir gengr ovinrinn enn at honum brodurnum sva sem i asionu eins ungs sveins af verolldinni ok stod fyrir honum, ser a hann upp mille hôfuds ok hæls sva sem ifandi, hvern hann sæe. Brodirinn sagdi þa til hans: «Þu inn ungi madr, hvi hyggr þu sva vandliga at mer?» «Þvi at ek hygg, segir hann, at þu kennir mik eigi, hefir nu ok langt lidit, sidan vid samz ok þu þektir mik. Ek er einn nagranni fodur þins, þess mannz son er þu kant vel, eda hefir eigi fadir þinn ok modir þetta nafn, eda segiz eigi systir þin sva, edr heitir þu eigi sva, eda voru eigi ydur kvikendi sva kend? Nu er þat þer at segia, at modir þin ok systir onduduz fyrir þrim vetrum, en fadir þinn gôrdi þik fyrir skômmu sinn erfingia ok sagdiz ôngum odrum vilia i valld gefa alla sina eign nema sialfs sins syne, þeim er hafnar heiminum, en gerdiz guds sporgongumadr; vill hann, at þu veitir feit fatækisfolki fyrir sæl hans. Eru ok margir þeir menn, er þin bida fyrir þa skylld, ok fa eigi fundit þik. En ek kenda þik þegar, er ek kom higat fyrir sakir eins hattar vinnu; litz ok mer þat gott ræd, at þu farir at gera vilia fôdur þins.» Brodirinn svarar sva, let ôngva þôrf þess, at hann hyrfi aptr til veralldar. Fiandinn mællti þa til hans: »Senniliga hlytr þu at giallda skyn fyrir, ef ferst [fe þitt; en eigi er illmennis rad[1], þot þu veitir eign þina fatækum monnum fyrir guds sakir sem godr forsiamadr, helldr en ribballdar ok portkonur eyde henne ok sundre.» Eigi þarf þar lengra um, af hans aeggian ok fortôlum hverfr brodirinn aptr til heimsins. Ok þegar hann kom i borgina, gengr fadir hans i mot honum ok fretti, hverr hann være. Broderinn blecktr ok skelfdr feck ôngu svarat. Fadir hans frettir þa i annat sinn, hvi gegni þar hans kvoma[2], eda hvat til helldi. Brodirinn sagdi þa inniliga, at engi annarr lutr kom honum or einsetunñi nema ást fôdur sins ok girnd hans synar. Var brodir sidan i verolldu ok fell i oreinsan, ok feck þar fyrir af fedr sinum môrg meinyrdi ok miklar skakrædur[3], en hitt hôrmuligra, at hann vesall gerdi þo eigi idran, helldr lyktadi hann i heiminum sinni lifstund. Her af hyggium ver at, hverri varud geymande er heimsins hafnan eitt sinn upphafin; iafnan er heimrinn hafnande, ok þott skylldulig naudsyn syniz til vera, ôngum koste aptr tak-

1 [er nôckut illins *Cd.* 2 kvomu *Cd.* 3 skaskreidur *Cd.*

ande. Mætti þetta eptir stoda oss til þess, at ver hefim eigi ofhart i fyrstunni, medan ver erum oradnir, helldr provi madr sialfan sik, ok gangi sva til, en eigi eptir vaveifligu hugarins akaste, helldr skoda sem vandligaz tilheimtingarnar, hvart af gudi geraz. Ætlumz ok eigi ôruggir þegar af upphafe gods verks, þviat þott sæl[1] syniz sigling farmanzins, þa (er) hon þo litt (sæl), nema hon hafe hôfn eptir hafit.

163. Annat dæmi ferr her næst af þeim brodur, er hardliga hof upp sitt athæfi, vard hann fyrir freistne ok falle, en feck endalykt lofliga, þviat hann reis upp hraustliga. Einsetubrodir nockurr var i Ramath, þar voru .lxx. palmtrea. Vid þann sama stad lendi Moyses, þar er hann for ut af Egiptalandi. Þesse sami brodir for einn tima i ina idre morkina at finna einsetumenn. Þar hitti hann a hellisskuta einn ok spor manz. En er hann kvaddi dyra, þa vard ecki upp lokit. Lykr hann upp sialfr ok gengr inn, setz nidr, bidr sva bonda; seer sidan, hvar hann ferr, ok i ferd med honum villenaut merkrinnar. Þat sa hann ok, at þesse madr var klædlauss med ollu, utan haar huldi hans likama, þat er mestu vardadi. Husbondi hugdi, at inn tilkomni brodir være andi, þviat hann hafdi opt ordit fyrir þess hattar freistni, sem hann sagdi sialfr sidan. Enn tilkomni tok þa enn til ordz ok sagdi sva: «Se, guds þionn, at ek er madr, hondla mik ok hygg at fotsporum minum, ok prova sva til sanz.» At þvi kendu leidir bonde hann inn, frettir, hvi hann se þar kominn. Hinn sagdi, at gud hafdi nu fullgert girnd hans, lez farit hafa at forvitnaz um bygdir guds þiona. Spyrr sidan, nær þesse gamle madr hefdi þar komit, eda hve langan tima hann hefdi þar vid hafdz, sva ok, hvat hann hefdi til fædzlu, eda hvi hann þyrfte eigi klædnat. Inn gamle fadir færr þa sva til ordz komiz: «Fyrst var ek i einu klaustre Thebaide herads þess hattar athafnar, at ek vaf lin; þar næst tok ek at hugleida, at hitt munde athæfiligra at fara helldr þagat, er ek mætte sitia einsliga enn naduligarr, ok munde ek mer ok odrum nytsamligri, ef ek tæke vid fleirum af erfide minu. Þessa sama hugsan fullkom ek med samvitzkunnar samþykt. Geck ek ut or klaustranum, ok gerda ek mer einn litinn kofa; komu þar iafnan menn til min med einhveria vinnu. En allt þat er ek dro fyrir, feck ek fatækum monnum. Ohreinn ande ôfundadi þetta athæfi mitt ok uordna ômbun, leitadi þvi med sinni smidvæl at talma mitt athæfi. Þar bar sva til, at ek sa meynunnu eina, er feck

[1] sæla *Cd.*

(mer) eins konar athafnir, þær[1] er ek gerda hardla gladliga, sva feck ek henne eigi sidr ônnur æfintyr, at hon ynni mer. Her vard vandi ok traust til optligs tals, þar næst hlatr ok handanna atekning, at lyktum gatum vid harm ok gatum vid illzku ockar i mille. Seau manudr var ek i þesse nidrrapan, adr ek tok at hugleida fyrirheit mitt eda hvat fyrir hondum munde, ef ek ôndudumz i þessu, at þat være eilifs dauda pina, þott ek hefda horat annars manz husfru, en nu hardnar, er ek hafda spillt Kristz festarmey. Tok ek þvi þat rád, at ek flyda fra konunni i morkina af leynd ok ollu þvi, er ek atti, henne til hugganar; fann ek sidan helle þenna ok kelldu[2] ok palmvidinn, er mer veitir atvinnu med sinum avexte; gerir hann a hverium þrimtigum daga einn ridul, vinnr mer sa þôrf, medan annarr vex. En er langr time leid, toku klædi min at slitna ok fyrnaz, en hárit at vaxa, sva at ek hyl med þvi þat buksins, er mest vardar.» Brodirinn fretti þa, hviligt hardretti hann hefdi þolt. En hann lez i fyrstu kent hafa miok kvidsottar, ok virkte i lifrina, sva at hann matte trautt standa a bæn sinni. Þar af kvedz hann þa falla til bænar ok kalla a gud til miskunnar med miklum harme, er hann matte hvergi hræraz fyrir vanmætti ok meginleyse. Þa þegar sa hann einn mann koma at ser, þann er spurdi at meininu, ok at sôgdu, kvat hann enn tilkomna taka lifrina med hondum ser i brott fra briostinu ok opna sva sárit, skafa sidan lifrina yfir einn duk, en leggia sidan aptr i eiginligan stad, ok sagdi sva: Þiona hedan af drottni vorum Jesu Kristo, sva sem þer heyrir til, þviat þu ert nu heill. «Hefe ek sidan, sagdi hann fadirinn, verit her iafnan heill utan allt erfide Se her, hversu hrærd hvilldin ok hoglifit med mikille varud feck fallit, þat er aptr heimtr (!) af þer med algerre idran.»

164. Dyrdligr prestr Jeronimus hefir dictat sôgu ins sæla Malchi i þesse bok, er heitir Vitas Patrum, mille lifs annarra fedra. Hafdi hann af honum sialfum frettina, þar til er hann kannadi klaustr Egiptalandz, ok hefr sva: Einn gamall madr var i Egiptalandi, sa er Malcus het; en vid nidrlagit getr hann þess, at inn godi madrinn ma her taka dauda af vondum monnum eda onnur harmkvæle, en hafa þo sialfr sigrinn hverr, er hreinleikann elskar ôrugliga. En þo er þat augliost af hegningu þeire, er hann þoldi, hversu haskasamligt er at bregda lofsamligu fyrirheite. Af þeire sôgn ma ok nema af reinleikans samhalldi, (hversu) til avaxtar ok ômbunar þat stendr.

1 þar *Cd.* 2 helldu *Cd.*

165. Brodir nockurr spurdi abota Ammonem þessa kostar: «Fadir, seg mer nockut.» Guds madr svarar: «Far ok ger hugsan þina a þann hatt sem bandingiar þeir, sem er inn kastad. Þeir fretta iafnan menn at, hvar domandi se, eda nær hann mune koma, grata þeir þar fyrir okomnar kvalir. Sva skylldi ok munkr vera iafnan ottafullr ok athugall ok asaka sialfs sins sal þessa kostar: Vei mer syndugum, hversu mun ek mega standa fyrir domstole Kriz ok giallda þar fyrir ǫll min verk skilrika skynsemd. Ef þu hugsar þetta, þa verdr þu holpinn.» Aboti Helias sagdi sva: «Þria lute ottumz ek: þann fyrstan, er ǫnd min skilz vid likamann; annan hinn, hverssu ek mun renna i mot gudi; hinn þridia, hversu doms ordi verdr a orpit mitt mál.» Hrædz daudann, son, þviat herra Theophilus erkibyskup heilagrar minningar mællte(z) sva fyrir a deyianda dege: «Sæll ertu, abote Arseni, þviat þu hafdir þessa stund æ þer fyrir augum.» Sincleticen heilagrar minningar sagdi sva: Allir þeir menn er til guds snuaz hafa þraut mikla ok erfide i fyrstu, en eptir þat oumrædiligan fagnat; þviat sva sem þeir er elld tendra upp, grata fyrr fyrir remmu reyksins, adr en þeir nae væru, slikt id sama skulu vær tendra upp med oss gudligan elld fyrir optligt erfide ok hversdaglig taar; þviat sva er ritad, at gud vorr er upptendradr elldr; skulum ver þvi med taarum hann upptendra, at hann vitradiz fyrir elldligar tungur guds postolum, sa er sva er af ritad: elld senda ek til iardarinnar, at ek vil, at hann brenni.

166. Einn tima er abote Silvanus sat hia brædrum, þa vard hann fyrir omegni ok fell aframm, ok gret miok, þa er hann reis upp. Brædr spurdu, fyrir hvi hann grete. Abote Silvanus svarar ǫngu, en gret id sama sitt. Þeir skylldudu hann til þa at segia ser til sǫk grátzins. Hann sagdi þa: «Ek þottumz leiddr til doms, ok sa ek marga med vorum bunadi fara til kvala, en ek sa marga veralldarmenn fara til himinrikis.» Her fyrir sytte hinn helgi abote Silvanus, ok villdi alldri sidan ut ganga.

167. Brodir nockurr spurdi einn alldradan mann: «Hvadan af truir þu, fadir, (at) ek ottumz eigi gud fyrir herdi hiartans?» Guds madr svarar: «Þat hygg ek, ef madr helldi med ser asakan, at honum kæmi gudhrædzla.» «Hvers hattar asakan,» sagdi brodir. Guds madr svarar: «At madr asaki i hvivetna sal sialfs sins ok sege sva til hennar: ver þu minnig, at þer byriar at renna i mot gudi.» Segir hann ok þetta: «Hvat a ek at skyllda vid menn? þat hygg ek, at gudhrædzla komi til þess manz, er þetta hugsar opt.»

168. Brodir nǫckurr spurdi einn gamlan fodur: «Hardla mikla

girnd hefir ònd min til gratz, ok færr eigi, sva sem ek heyri gamla menn grata, ok her af mædiz hon.» Inn gamle madr svarar: «Synir Israels folks komu eptir .xl. aara til fyrirheitz iardar; eru ok tarin su fyrirheitz iòrd, at þu ottaz ecki orrostuna, ef þu eignaz þau. En til þess vill gud mæda ònd manzins, at girne iafnan til þeirar iardar.»

169. Brædr nòckurir komu a skipe til ins helga Antonium, ok vard honum talad mart af helgum ritningum, um handaverk sin ok heilagra fedra setningar. Þar innan bordz var ok einn alldradr madr, sa er ferdadiz a fund ins helga Antonij ok lagdi ecki til talsins. Þat vissu hinir brædrnir eigi, medan þeir voru a veginum. En er þeir komu framm til ins helga Antonium, taladi hann til þeira: «Þer fundut forunaut godan, þar er sia er inn gamle madr.» Sidan sagdi hann sva til ins alldrada manz: «Þer, herra, hittud ok brædr goda.» «Godir eru þeir vist, sagdi inn gamle madr, en eigi hefir herberge þeira hurdir, þviat hverr er vill gengr inn ok leysir asna þeira af stalle.» Þvi sagde hann sva, at þeir tòludu um allt, hvat sem þeim bar a goma. Her af megum ver skilia, at eigi skal iafnan tala af godum lutum. Þar af segir David: «Aptr hellt ek mer, ok þagda ek af godum lutum.» Jacobus sagdi sva: «Litill limr med manni er tungan, en sva stiornar hon òllum likamanum sem styrit skipinu.»

170. Abote Daniel sagdi sva af inum sæla fedr Arsenio, at hann vakti a bæn sinni allar nætr, en er mornade, þa neydde natturan hann at sofa, ok sagdi hann sva til svef(n)sins: «Kom, inn vánde þræll.» Sat hann þa upp litla hrid ok svaf, en stod upp sidan. Sialfr fadir Arsenius sagdi sva: Þòrf vinnr munk at sofa eina stund nætr, ef hann er utan ef orrostunnar. Annarr heilagr abote het Agathon, hann hafdi stein i munni ser .iij. aar, at honum vendiz þagnarhalldit. En hvilik dygd þat er at hallda vel þògnina en fordaz margmælge, þa hòfum ver lesit i bok heilags Gregorij pafa, þeire er Dialogus heitir, at tvær systr voru þær i einu klaustri, er helldu reinleika likamans, ok þottuz eigi uvarfærar um adra lòstuna nema margmælge, ok hitt med, at þær hòfdu optliga veralliga ordrædu. En er þær ònduduz ok voru grafnar i kirkiu, en kirkiuþion syndiz, sem diòflar græfe þær upp ok skære i sundr i midiu ok lete liggia fotahlutinn med heilu, en brendi hveria natt hòfudlutinn. Inntu þeir þvi upp sundrskurdinn ok brenning buksins til ognar inum efra lutanum. Vard þetta ok med sannleik sagt klerkum kirkiunnar, þviat þeir sa òskuna.

171 [1]. Einn brodir bad gud birta fyrir ser utferd andarinnar af likamanum ins rettlata mannz ok ins synduga; ok þetta var honum veitt, þviat fyrir hans bæn sendi gud varg einn til motz vid hann. Vargrinn tok med kiaftinum kyrtilskaut brodurins ok leiddi hann til borgar nóckurrar, ok let hann þar lausan[2] fyrir hlide borgarinnar, en leitar sidan fyrir ser þar utan borgar. J klaustri einhveriu sat einsetumadr nockurr at kominn bana, sa er mikit ord hafdi upp a sik. Her af geriz mikil motraas med kertum ok lioskerum, þar fylgir ok sut ok sorg folksins hans utferd; þickir sem þessa mannz bæn mune id mesta upphalld veitt hafa borginni. Þessu næst ser brodirinn einn herviligan mann med þriengdum[3] krok loganda stiga nidr þangat, er brodirinn laa; hann heyrdi ok ródd, þa er sva sagde: «Sva sem þesse saal let mik óngar stundir hvilld

1 *En anden Recension af denne Legende meddeles nedenfor efter Cd. 657[a] qv.*
2 laugar *Cd.* 3 þriiegndum *Cd.*

---

171. Af brodur einum einsetumanni. Sva er sagt fra brodur einum, þeim er var i einsetu ok lifdi heilaglega, hann bad þess gud, at hann skylldi virdaz at syna honum rettlata ǫnd ok eigi sidr synduga ǫnd, hversu þær vęri utleiddar, eda hverssu vid hvara vęri gort. Ok gud heyrdi bęn hans, honum til hugganar en audrum til eptirdęmis. Þat var einn dag, at vargr kom or skogi ok gekk at honum hogvarlega, hann beit i mauttulsskaut hans, ok heimti hann med þessu moti fram i veginn. Broder skildi, at hann mundi vera senndr sva sem til hans, ok gekk med honum, hvert er vargr villdi fara. Vargr for med honum til borgar nokkurrar, ok þar vid borgarhlidit let hann brodur lausan[1] ok hliopp i brautt. Þessi sami broder sat þar nærri klaustri einu. Þar vid klaustrid var einsetumadr, hann var morgum miog kunnigr, ok ætludu menn, at hann mundi heilagr vera. Þessi einsetumadr laa i kǫr kominn at anlati. Sem þetta spurdiz um borgina, kom saman mart folk sem buid at þiona honum ok hans utferd, sumir med storum tortisum, sumir med sut ok harm eda tara uthellingu, sva sem borgin af hans godleika mundi hialpaz, eda fyrirfaraz af hans frakalli A medal þessara hluta sier þessi sami broder, sem ver gatum, einn helvitisanda nidr stiganda yfir þenna einsetumann, hafandi þrennar tenn elldlegar, ok her med heyrdu þeir, er hia voru, rodd sva męlandi: «Sva sem þesse en veslla ǫnd let mig

1 lausar *Cd.*

hafa med ser, sva skildi hon miskunnarlaust vid likamann.» Þar eptir tok inn helvitlige madr i kiapt inum siuka ok kvaldi hann lengi særliga, adr salin geck brott af bukinum. (Brodirinn geck) inn fra nôckuru lengra ok sa einn utlendan mann fatækan liggia a strætinu at kominn bana, ok hafdi ôngvan hialparmann, ok þvi dvaldiz brodirinn einn dag hia honum. En er daude for at honum, sa hann Michaelem ok Gabrielem stiga nidr til fulltings vid salina, ok settiz annarr til hægri handar inum siuka, en annarr til vinstri, ok bidu sva, medan salin seinkadi. Sidan sagdi Gabriel til Michaels: «Tak salina til þin ok far sidan.» Inn helgi Michael svarar: «Ockr er sva bodit, at vid skulum eigi med afle taka hana, ok þvi bid ek þik, drottinn Jesus Kristr, at þu gerir þinn vilia.» Þa kom rôdd, su er sva sagdi: «Ek mun senda David med hôrpu sina ok alla sôngara himneskrar Hierusalem, at hon gange þa ut, er hon heyrir hôrpuhliodit ok sônghliominn.» Her fylgir fram-

---

eigi hvilaz eina tid med ser, sva skalltu eigi miskunna honum upp rætandi hann.» Ok þessi helvitzki andi kveliandi þann vesla likama um margar stunder heimti ut hans aumu sall dragandi til helvitis. Eptir þessa ena hina ogurlegu syn brodurins gekk hann inn i borgina ok fann aa stræti utlendan mann kominn at bana, eigi hafandi þann þionostumann er honum veitti hialp. Broderinn harmadi vesolld þessa mannz. Sier fyrr nefndr broder tva ei(n)gla Michaelem ok Gabrielem nidr stigandi af himni, setz annarr til hęgri handar honum, en annarr til vinstri handar, bunir til vidtǫku, þegar salin leysiz af likamanum. Ok sem dvǫl vard aa, ok hann var leingi i anlati, męllti Gabriel vid Michaelem: «Tak ut af honum ǫndina, ok fǫrum ver.» Hinn helgi Michael svarar: «Okkr er bodet, at vid skulum hana eigi ut leida med nǫkkuru afli. En þu, enn sęte herra Jesu Kriste, giǫr vilia þinn.» Ok þegar kom rǫdd af himni sva męlandi: «Ek sendi David med horpu sina ok allan syngianda her himneskrar Hierusalem, at heyrd verdi himnesk sǫngfęri minna valdra manna i utgǫngu minnar kięrstu unnostu.» Ok þessi dyrdarfullu raust fylgdi þegar framkvæmd, þviat sagdr broder saa nidr stiga marga flokka med oumrædiligri gledi, ok med þeira haleitum sǫng leid þess(i) hin helga ǫnd ut af likamanum ok i hendr Michaele hǫfudengli, ok lidr sva med dyrdarfullr(i) gledi til eilifs fagnadar. En broderenn hvarf aftr til sinnar einsetu ok þakkadi gudi fyrir þessa vitran.

kvæmd fyrirheite, þviat vid hinn himneska hliom gengr ǫndin gladliga ut, for til handa inum helga Michaele. En hann hof hana upp til himna med oumrædiligum fagnadi. Nu er þat augliost af þessu dæmi, hverssu veralldarmadr ma ǫdlaz meira verdleik en munkr.

172[1]. Brodir nockurr spurdi abota Ysidorum sva: «Hvi hrædaz fiandr þik sva furduliga?» Fadir Ysidorus abote svarar: «Þvi at sidan er ek gerdumz munkr, þa drottnade reidin mer alldri.»

173. Þat er flutt, at inn helgi Johannes var heimoligr inum helga Arsenio, at hann spurdi hann sva af truleiks trauste: «Hvat gǫrdir þu þess, at þu fær af ǫngum manni andæru eda aleitne eptir sva langa einvist.» Inn sæle Arsenius svarar: «Siz ek hof einsetu mina, þa sa sol mik alldri yfir mat, helldr fastada ek hvern tima allt til nætr.» «Sva sa sol mik alldri reidan,» sagdi inn sæli Johannes med idetting[2].

174. Abote Moyses sagdi, at inn sæli Serapion aboti hafe sva sagt af ser, at: «Þa er ek var a æskualldri med abota Theona, tok ek vin ok braud eptir mat ockarn, ok mǫtudumz ek af leynd, svat aboti minn visse eigi. En er lǫstrinn tok at herra med mer, þa skǫmmudumz ek ok fyrirdæmdumz af sialfs mins samvizku, en ek dirfdumz þo eigi til at segia abota minum. Einn dag komu til abota mins brædr nǫckurir at heyra hans aminning. En þat vard i rædu hans, at hann kvat ongvan lut iafnskadsamligan munkum eda sva gledia ovininn sem þat, ef þeir leyndi oreinum hugsonum fyrir helgum fedrum, innte þa ok einkannliga til bindende brædra. En er ek heyrda þetta, hugleidda ek eigi annat, en gud mundi vitrad hafa helgum fedr af efni minu Tok ek þvi at grata med inni mestu vidkomning, ok kastada ek nidr stumpinum[3], er ek hafda i serk mer, med frammfalle, ok bad ek liknar fyrir allan minn misgerning, en bæn heilags fodur fyrir uordit til varudar. Inn gamle fadir sagdi til min: Vit þat, son, at gud hefir nu frelst þik fyrir litillata iatning af þesse ahlecking, ok þott þaugnin daukdi miok þitt briost, þa hefir þu nu fyrir eitt iatningarord vegit þinn astridara, svat hann skal hedan af ǫngvan stad med þer eignaz. En þegar er guds madr hafdi mællt þetta, þa flaug ut af serk mer elldr, sa er fylldi allt husit med hinu mesta oþefiane, svat þat hugdu þeir, er vid voru staddir, at inn meste brennusteinn hefdi verid brendr. Þa sagdi heilagr fadir: Heyr son, se nu, at þetta mark veitte gud þer, at þu trydir þik frelstan, eptir þvi sem ek hefe flutt.»

1 *Jvf. ovenfor Cap. 84 S. 578.* 2 idætting *Cd.* 3 paximatium *lat.*

175. Eitt sinn sendi Epiphanius byskup i Kipr eptir inum helga Ylarione abota ok bad hann koma til fundar vid sik, adr en hann andadiz. Ok er þeir hittuz, vard þar inn meste fagnafundr. En er þeir satu yfir bordum, var borit fyrir þa fuglakiôt. Tok byskup eitt mossel ok bad inn helga Hylarionem kenna. Inn gamle fadir svarar: «Varkynnit mer, herra, þo at ek vilia eigi þetta, þviat ek hefi engis drepins kvikendis kiôt kent, sidan ek tok þenna bunad.» «En ek hefe alldri, sagdi inn sæle Epiphanius, latit nôckurn sva sofa, at hann hefdi eitthvat at kæra vid mik, siz ek tok þenna klædnad; svaf ek ok alldri sva, at ek hefda nockut at kæra a einnhvern.» Hinn alldradi Hylarion sagdi þa: «At sônnu er þitt atferde betra en mitt, ok þvi bid ek ydr fyrirgefningar med varkynd.«

176[1]. Einn brodir spurdi abota Ysidorum sva: «Hvi ottaz fiandr þik sva miok?» Fadir Ysidorus sagdi: «Þvi at sidan ek gerdumz munkr, kom reidin alldri upp um kverkrnar a mer.» Hann sagdi ok sva af ser, at meirr en .xl. aara lez hann alldri hafa samþykt vid synd i huginum, þott hann kende med ser ræring til reide eda annarra annmarka.

177. Inn helgi abote Pastor for naudigr ok gratandi, ef honum var til bordz bodit, hann sagdi ok, at vin være (eigi) munkadryckr.

178. Inn helgi abote Peor matadiz, svat hann geck. En er hann var spurdr, hvi hann gerdi sva, sagdi hann, at þat være eigi geranda[2] sva sem nytsamlig athôfn, helldr sem aukagerd edr þarfleysa.

179. Inn dyrdligi fadir Antonius abote sagdi sva: Þat hygg ek, at likame mannz hafe natturliga ræring med ser at fullkoma ecki þat i verke, at miok se i mot huginum; þviat sa madr ma audvelliga hittaz, þott hann neyte fædu eda dryckiar, at hans likama vekr þat upp til vinnu, en blodit til verma. Þar sagdi postolinn: Vile þer eigi at gera ydr ginta af vine, þviat losta lif liggr þar i. En sialfr drottinn gaf þetta bodord i gudspiallinu sinum lærisveinum: Siaiz þer sva um, sagdi hann, at hiôrtu ydur þyngiz eigi af istru eda ofdryckiu. Er ok annarr hattr sa, er til kann falla med guds þionustumonnum fyrir ôfundarfulla umsat inna fornu fianda. Þat hæfir ok at vita, at þrigreindar eru likamans hræringar; er su ein, sem fyrr var greind, at ecki fullkemr til verks, nema med villd hugarins, en ônnur gôriz af fædu fylling, en hin þridia af oreinum ôndum. I mote þessum þrennum ræringum[3] skylldim ver iafnan

1 *Jvf. ovenfor Cap. 84 og 172.* 2 gratanda *Cd.* 3 næringum *Cd.*

beriaz ok bidia gud fulltings; þviat megum ver at standa i mot vǒndum hugrenningum med sorgmodligu erfide, en eru ver menn til at ræta þær upp eda brott reka. Skylldi þvi iafnan reins mannz hugskot erfida i einhveriu ok ahyggiaz, at idiuleysit er einn inn mesti ovinr andarinnar. Þar af sagdi nockurr einsetumadr einum brodur: Hygz þu sofande hialpaz munu? gack ok erfida, bidz fyrir ok vake; veiz þu, at dysterarar eda adrir kappar heyia orrostur opt inar hǒrduztu, ok ef þeir sigraz, verda þeir vegsamadir ok koronadir fyrir sitt erfide ok starf. Nu fyrir þvi, brodir, statt ok stadfestz i godu; þviat ovinr þinn mun audvelliga yfirkomaz ok sigraz af sialfum gudi. Fyrirlit þik eigi, brodir, þviat annarr alldradr madr bar þat vitne, kvad oss alla abarning ovinarins þola med vangeymslu vestre, þviat ef ver hugleiddim, at gud byggir med oss, þa mundim ver eigi iafnan leida inn til vor annat efne. Þar fyrir geymum ver karllmannliga, ok gerim oss helga helgum gudi til handa, at ver megim sælliga ok dyrdarsamliga syngia psalminn: Allir þeir sem treystaz i drottni, sva sem fridar synar fiall, munu eigi at eilifu oroaz eda ræraz. En eptirfarande dæmi birta þat, hvert kostgæfe hinir helgu mennirnir hafa tillagt at geyma reinleikans.

180. Einn brodir var hardla athugall sinu medferde, en þesse vard hrelldr miok af oreinsanar anda, ok þvi for hann at hitta einn alldradan mann ok sagdi honum greiniliga, hversu hans var freistad af oreinsanar anda i hugsan sinne. Inn gamle madr hafdi alldri þesshattar freistne kent, ok þvi tok hann nauturliga a brodurnum, kalladi hann auman mann ok vesalan ok ovirduligan at bera munks bunad, er hann tok vid þesshattar hugsanum. En er brodirinn heyrde þetta, fell hann i ǒrvæntan, fyrirlet kofann en ferdadiz til veralldar. En af gudligri villd rann i mot brodurnum fadir Apollo ok sa hann hryggan miok, ok spyrr hann sva: «Heyr, son, hvi ertu sva hryggr?» Brodirinn skammadiz i fyrstu at segia ok þagdi þvi vid. En er heilagr fadir fretti, hverssu hann hefdi sik, þa iatar hann, at oreinsanar andi hafdi hann okyrdan, innir ok upp, hversu hann hafdi ok ǒrvæntat ok ferdaz til veralldar fyrir þat eina, at fyrr minntr fadir kvat honum ǒng(r)ar hialpar von fyrir oreinsan sina. En er fadir Apollo heyrde þetta, eggiar hann brodurinn sem einn snotr læknir at inna fyrirheit sitt, segiz optliga æ æsku alldri hafa onadaz af þesshattar freistne, ok[1] sagdi, at þat var ofært at leggiaz fyrir af þessu tilfelle, at omattuligt

1 at *Cd.*

var, at af mannligri astundan mætte audmiukliga grædaz, nema med guds miskunn, «ok þvi gef mer, brodir, bæn mina; þa er ek bid þik i dag, at þu hverf heim aptr i kofa þinn.» Broderinn gerde sva. Þvi næst for fadir Apollo til kofa þess brodur, er ǫrvæntan hafdi gert inum unga manni, nemr stad fyrir dyrum uti ok bidz þar fyrir sva gratande: «Heyr þu, drottinn, er nytsamliga flytr freistnanirnar til med monnum, snu upp a þenna alldrada mann þeire þraut, er hinn unge brodir hefir borid, at hann neme nu um sidir i elle sinni, hveria varkynd hann skal veita þeim, er starfa undir oroa þesshattar akastz.» Ok er hann hafdi lyktad bæninni, sa hann einn blamann standa hia herberge ins alldrada manz ok skiota at honum listaskeytum[1] i akafa af handboga. Þessa sama kennir inn gamle madr a ser, snyz þvi higat ok þagat sem vindruckinn madr, en at lyktum þolir hann eigi vid ok gengr ut af kofanum, ferdaz þann sama veg til veralldar, sem unge brodir hafdi fyrr farid. Abote Apollo rennr þa a mot honum ok spyrr, hvert hann gerdiz fara, eda hvat til helldi hans ræring. Inum gamla manni vard[2] ordfall a munne, þviat hann þottiz skilia, at fadir Apollo visse allt hans efne. Fadir Apollo sagdi þa til hans: «Hverf heim aptr i kofa þinn, ok kannaz vid ostyrkleik þinn hedan fra med sialfum þer, ok vit, at allt higat til hefir annathvart diǫfullinn (verit) duldr[3] þins efnis, eda þu hafnadr af honum, þar er þu hefir eigi verit verdr at þola slikar þrautir sem adrir dygdarmenn, þar er þu fekt eigi stadiz eina dagstund hans arás. En vit þu, at þvi hefir þetta at boriz, er þu slott ǫrvæntan a inn unga mann, þar er þu skylldir allan lofa vid hafa lagt at styrkia hann mote freistne med hugganarordum; eigi hugsadir þu þat ok merkiligt ord, er oss er bodit at frelsa þa, er til dauda eru dæmdir, ok hafa eigi vangeymslu vid at hialpa þeim, er til hǫgs eru leiddir. Eigi minntiz þu ok vars lausnara, þar er hann sagdi sva, at þu skallt (eigi) hrista brotinn reyr ok knosadan ne slǫkva reykianda lin; þviat enge madr ma bera umsatir fiandans ne slǫkva bolgnanda elld likamans natturu, utan guds miskunn kome til vid veykleik mannzins at hefta oreinsanirnar. En med þvi at gud hefir matt at greida ok meida, hefia manninn, ok leggia dauda ok lifga snauda, leida til helvitis ok aptr þadan, þa skulo vid nu bidia, at eptir gudligri gæzku ok miskunnsemd hverfe fra þer þesse hegndarsprote likamligrar oreinsanar, er þu hefir þolt.» Ok þegar er fadir Apollo lyktadi bæn sinni, þa frelste gud inn gamla mann af allre oreinsan.

1 sagittas *lat.* 2 ecki *Cd.* 3 dustr *Cd.*

181. Einn brodir vard broddadr af oreinsan sva beiskliga, sem freistnebroddrinn være brennande elldr nott ok dag i hans hiarta. Hann stridde sva karllmannliga i mot hugsan sinne, at hann samþycktiz henne alldrigi, ok fyrir þat hvarf freistnebroddrinn i brott fra honum um sidir, ok hellz eigi vid fyrir hans stadfesti, birtiz þa ok i hiarta brodurins gudligt lios.

182. Annarr brodir bardr oreinsanar brodd reis upp þegar sômu natt ok for til fundar eins alldrads mannz ok sagdi honum greiniliga alla sina hugsan. Feck hann þar fyrir af honum fagrliga huggan, hvarf sidan heim aptr huggadr til sins innis albættr. Annan tima er hans var freistad, for hann enn til ins alldrada manz ok feck þar aminning. Ok þetta sama gerdi hann optliga, þviat heilagr fadir hrygde hann alldri, bad hann helldr koma sva opt, sem hann þættiz þurfe, ok sagdi sva: «Le eingis fangstadar fiandanum a þer, brodir, hleyp hverge huginum, helldr sva opt sem hann mædir þik, asaka hann, ok hverfr hann vid þat i brott. Kom ok birt hátt freistne þinnar, þviat enge lutr rekr oreinsanar anda iafnbratt i brott sem þat, ef hans broddar eru birtir. Gledr hann ok ecki meirr, en þat ef hann leynir oreinsanar hugrenningum med ser.» Ellifu sinnum kom brodir til ins alldrada mannz ok kiærde æ a sinar hugrenningar. Um sidir sagdi inn gamle madr til brodur sins: «Heyr mik, son, gefe gud mer orlof til at telia þer minar hugsaner, eda ef mins hugar [oreinsanar broddr[1] hyrfe i[2] þitt hiarta, þa fengir þu fallit utan ef.» At sva mælltu af hinum alldrada manni, hvarf oreinsanar broddr a brott fra brodurnum fyrir sva miklu ok faheyrdu heilags fodur litillæte.

183. Annarr brodir var broddadr af oreinsan, hellt sik fra fiortan ar undir ina beiskuztu bindende ok samþycktiz alldri oreinsanar girnd sinne fyrir heilagt athalld. En hann frelstiz med þessu mote, at hann sotte til heilagrar kirkiu ok gerdi þar augliosa fyrir fiôlda brædra alla sina ostyrkt, ok badu þeir fyrir honum til guds.

184. Einn madr var sa i morkinni Scithi, er fra modur miolk var med munkum, ok sa alldri konu ne visse, hvat kona var. En er hann var vaxinn madr, þa syndu fiandr honum um nætr kvenbunad. Hann flytr þetta fyrir fedr sinum, ok furdar hann hardla miok. Eitt sinn ferduduz þeir nidr i Egiptaland badir samt, ok sa kvende fyrir ser. Þa mællte hinn unge madr: «Þetta sama folk kom til min um nætrnar i Scithi, er nu siam

1 [broddr oreinsanar brodir *Cd.* 2 brot *tilf.* *Cd.*

vid.» «Þessir eru munkar veralldarinnar, son minn, sagdi fadir hans, ok hafa annan bunad en eydemerkr mennirnir.» Undradiz þo inn alldrade fadir, hvi fiandr skylldu kvensligar asionur synt hafa i svefninum. Ferdadiz skiott heim aptr til sins herbergis. Her af ma marka, hverssu varudliga ver eigum at fordaz kvennanna felagskap eda blidmæle eda saurugliga tilsyn, er oreinir andar presentudu þeim lygiligar kvenna likneskiur, er alldri hafdi fyrr konur seed.

**185.** Brodir nockurr kom i morkina Scithi at geraz munkr. Þesse hafdi med ser son sinn, þann er nytekinn var af modur kvide. Ok er sveinninn vard munkr, þoldi hann miklar aarasir oreinna anda, sva at hann gafz upp um sidir ok sagdi til fedr sinum: «Eigi ma ek standaz lengr, fadir, holldzins teygingar, ok mun ek fara til veralldar.» Fadir hans huggar hann fagrliga ok bad hann halldaz i uppteknum hætte lifnadarins. En sva for optliga med þeim. Þa sagdi sveinninn um sidir: «Gef mer orlof, fadir, þviat lokit er um þat, at ek vilia her lengr vera.» «Heyr mik enn einn tima, son minn, ok haf rad mitt; tak þer .xl. brauds ok .xl. daga vinnu palmlaufs, far eptir þat i idre morkina, ok ver þar .xl. daga, ok bid gud gera sinn vilia.» Sveinninn gőrir fodur sins vilia, ferr i morkina ok gőrir beyging af palmlaufinu med miklu erfide, en etr þurt braudit. Nu er lidnir voru .xl. daga, ser hann standa hia ser blalenzka konu afleitliga tillitz, fula ok ferliga, svat hann þottiz eigi þola mega oþefian þat, er af henne stod, ok þvi rak hann hana fra ser. Hon mællte þa: «Ek synumz allt sætt hiarta margs mannz, en fyrir hlydni þina ok erfide, þat er þu þolir, þa bannar gud mer at bleckia þik, helldr hefir hann odaunan mitt gert þer opinbert ok augliost.» Her fyrir hvarf brodir heim aptr ok gerde gudi þackir, ok sagdi fedr sinum greiniliga allan atburdinn, let þat fylgia þar med, at hann kvez horfinn vera heimsins aptrhvarfe, sagdiz seed hafa odaunan fiandans ok hans vandskaparfull verk. Fadir hans med fagnadi skilr glőgt hans efne allt, ok sagdi sva: «Hefdir þu, son, sem ek baud þer, dvaliz .xl. daga i morkinni, þa mundir þu seed hafa meira hattar eitthvat.» Her af þessarre sőgu ma marka, hverssu eiginligt erfide barg brodurnum med fődurligri fortőlu ok ofalsadri tru.

**186.** Eitt sinn kom brodir nőckurr at hitta einn gamlan mann ok mællte til hans: «Ek þole naud mikla fyrir skylld brodur mins, er gengr ut ok inn, en bidr hvergi[1] ro af reikan

[1] hvarki *Cd.*

sinni ok lausleika.» «Ber þo, brodir, lundgodliga, sagde inn gamle madr, þviat gud mun sia þol þitt ok erfide ok snua honum til sins samþyckis. En hitt er omattuligt, at nôckurr madr batni af girnd ok hardindum, sva sem fiande fare fianda ut at kalla, helldr (kalla þu hann) med vægd ok godgirnd til þin at gudligum dæmum, er med huggan helpr vid mônnunum ok heimtir at ser.» Sidan sagdi inn alldradi madr brodur einum fra þvi, er tveir brædr hôfdu bygt i Thebaida heradi; en er annarr þeira fell i oreinsanar hugsan ok sagdiz hverfa mundu aptr til heimsins, svarar hinn, er reinn var, med grate: «Enge von er þess, at ek gefa þik upp, at þu glatir meydome þinum ok astundan.» Brodirinn vill eigi heyra hann, lez sannliga fara skylldu, bad hann gera hvart er hann villde, at fara med ser eda vera eptir. Þetta kostabod berr brodirinn upp fyrir einn alldradan mann. En hann sagdi sva: «Far med honum, brodir, ok mun gud frelsa hann fra falle fyrir þina fylgd ok farmædu.» Nu gerde hann sva, for hann med brodur, unz þeir koma til bæiar nockurs. Þvi næst ser gud ást ok erfide hins, er fylgde brodur sinum, ok frelste brodur hans[1] af allri likamligri girnd, sva at hann iate þat fyrir honum þessa kostar: «Nu skil ek, brodir, þott ek saurgumz med konu, at þat er engi avinningr helldr sialfum ser svivirding.» Hurfu þeir sidan heim til sins herbergis at ôllu ospilltu.

187. Brodir nôckurr sagdi sva einum olldrudum manni: «Hvat skal ek gera fyrir, oreinsanar hugsan hefir fyrirkomit mer.» Inn gamle madr sagdi: «Ger, brodir, vid þik, sem modir gorir vid barnit; er hon venr þat af brioste, þa bregdr hon einhveriu beisku undir briostin a ser, at barnit kenne fyrr beis(k)leikans en briostzins, er þat kemr at suga.» «Hvat beisku bidr þu mik helldz hafa, fadir?» kvat brodir. «Hugsa [þu iafnan [2], kvat fadir, dauda-stund þina ok þær kvalar, er syndugum monnum eru bunar i oordinni verolld.»

188. Annarr fretti at einn helgan fodur, hvat hann skylldi gera, kvat hugsan sina æ stunda a oreinsan. Heilagr fadir bad brodur standa i mot oreinsaninne þegar i upphafinu, þviat þott oreinir andar kostgæfi at sa sôrleik at hugskotinu, þa er þitt at samþyckiaz þar eigi vid, helldr med guds fulltinge at reka hann brott fra hugskotinu; edr veiz þu, brodir, sagdi heilagr fadir, hvat heradsmenn af Madians folki gôrdu Israelitis? þeir skreyttu dætr sinar ok letu þær leika fyrir lydnum; en þeir einir saurguduz

1 sinn *Cd.* 2 [kvafnan *Cd.*

med þeim, er syndinni samþycktiz af eiginligri villd, en hinir, er guds vinir voru, gerdu ina greypiligztu hegning vid horkarllana. Nu skalltu ok sva gera, brodir, þott hiarta þitt hræriz til oreinsanar.» «Ek em breyskr, fadir, sagdi brodirinn, ok þott ek beriumz i mot, þa verd ek yfirstiginn.» Guds madr mællte: «Verttu æ andvigr andskotanum, en einkannliga i fyrstunni, er horan hefdz til tals i hiartanu, þa svara henne eigi, helldr ris upp ok bidz fyrir þessa kostar: Heyr, guds son, miskunna þu mer.» Inn freistade sagdi þa: «Iafnan hugsa ek slikt, herra abote, en þo kann ek eigi krapt ordanna, ok þvi komumz ek ecki vid.» Abote mællte: «Hugsa æ at hvaru heilagt guds ord, þviat ek hefe heyrt, at abote Pastor ok margir adrir fedr sǫgdu fra þvi, at optliga kann sa eigi krapt kvædissins, er at orminum kvedr hliodit eda galldrinn. En ormrinn rædiz ok hrǫckr undan, þviat hann skilr afl ordanna, þegar hann heyrir. Eru þesse var orrostulig vapn ok hvǫss skeyte ins mattuga guds. Skeytit hefir þa natturu, at þat særir eigi at sidr, þott sa se okænn, er þvi skytr; er þat ok eigi furda, þott dygs mannz bæn hafe[1] mikit megn med ser, þar sem ver lesum i Dialogo, hveria hialp hinn helgi kross veitti trulausum gydinge signudum, er hann vann hann ǫruggan af all(r)e áraas ohreinna anda.»

189. Tveir brædr hrelldir af oreinsan toku ser husfreyiur. Þvi næst tǫludu þeir med ser, hvat þeir hǫfdu snudgaz eda hvi þeir hǫfdu tynt. Reiknadiz þeim sva til, at engiligu[2] athæfe var utkastat, en oreinsan inntekin; redu þvi þat af at gera idran fyrir unnin afbrigde ok hverfa i morkina aptr. Helgir fedr luktu (þa) inn i kofa sinum ein missere, svat þeir gafu hvarumtveggia med iafnadarmælıng braud ok vatn. Brædr þessir voru idlika asionum. En er ærit var lidit, foru helgir fedr at forvitnaz til þeira, ok fundu annan fǫlleitan ok hryggiligan, en annarr var riodr ok biartleitr i yfirbragde. Þetta fundu þeir fedr ok frettu, hvat hvarr þeira hafdi hugsat. Inn bleike brodir lez iafnan hafa hugsat eymd sialfs sins ok okomna pinu, þa er hann munde þola, kvez af þeire hrædzlu sva þurr, sem kastat være skinne a bein. Þvi næst spurdu þeir hinn, hvat hann hafdi hugsat. (Hann sagdi:) «Ek gerda æ gudi þackir fyrir þat, er hann hafdi frelst mik fra heimsins hegoma ok oreinsun (ok) annars heims pinu, en ladat[3] til engiligs lifnadar. Nu fyrir þat sama, sagdi brodir, hefir ek iafnan gladz, er gud virdiz at syna sina sva miskunnarfulla huggan til min.» Fedrnir sogdu, at iǫfn være beggia þeira idran brædra fyrir gudi. Birtiz her af,

1 hefe *Cd.* 2 eiginligu *Cd.* 3 ladaz *Cd.*

hverssu gôfugligt er at grata gôrvar syndir ok væenta liknar. Innir ok þat psalmaskalldit, er hann segir sva: Þione þer gudi i otta, en fagnit honum med rædzlu, þviat fyrr verdr at þiona med ugd pinunnar, adr madr geriz verdr at glediaz af von liknarinnar. En þat verdr opt, at (sva sem) bustinn leidir i ledrit þradinn, sva snyr þrelslig þionkan huginn til eylifrar elsku. Snuum ver oss a[1] þessa sama þionkan vid hans gudliga vegsemd, ef ver girnumz iafnfusliga at endrgetaz vid hans fôdurliga frændsemi, sem nu krefr skyllda, at hvers mannz hugskot ottiz hann sem herra.

190. Einsetumadr nockurr bygde ina idre halfu Egiptalandz sva frægr ok anafnadr, sem hann sæti einn i eydemork. Nu med fiandligri fortôlu fretti ein orádvônd kona, at þesse gamle guds vin atte ser ôfundarmenn, ok þvi slo hon kaupe vid þa, at þeir gafu henne eitthvat, en hon het at fell(a) heilagan fodur fra einsetunni. Ferr hon sidan ok kom at kvelldi til heilags fodur. Hann frettir, hvi hon se þar komin. Hon kvez villz hafa i morkinni; en þviat hon gret amedan, þa beidde guds madr hana ganga inn um gardinn, þann er gætti herbergissins. Gerir hann þetta fyrir godvilldar skylld. Kona kallar ser kastat ut fyrir dyrr ok grætr nu halfu meirr en fyrr. Guds madr hugleidir nu med ser, hvat hæfa mun, ok segir sva: «Hvadan til helldr mer, (at) reide þesse ok hugarherde hafa flogit at mer?» Tekr hann sidan til hennar ok leidir hana inn i kofann. Þvi næst tok oreinn ande at sveigia hug hans til samrædis vid konuna, ok er hann skilr fiandans fortôlu, sagdi hann med ser: «Uvinarins vegar eru myrkr, en guds son er satt lios.» Reis hann þvi upp ok tendrar ser lios, ok gengr þo eigi undan girndar hitinn vid þat, helldr vex hann ok ohægiz. Þa sagdi heilagr fadir: «Senniliga verd ek at prova mik, hverssu ek mun þola eilifan elld, þviat ifalaust hliota þeir hann, er starfa i horaninni.» Tekr hann nu ok rettir ymissa fingrna framm i liosit allt til morgins, ok for sva, at hann kendi eyfit ins ytra brunans fyrir idri girndinne. Nu er hon salug kona sa þetta hans tiltæke, vard hon sva rædd, at sortnade um hana, stirdnade þar næst sem steinn, ên andadiz sidan. Um morgunenn snemma kvomu ôfundarmenn munksins ok frettu hann, hvart enge kona hafdi þangat horfit af morkinni um kvelldit. Hann visar þeim til, hvar hon svaf. Ok er þeir ganga til at vekia hana, finna þeir, at hon er daud, ok segia honum sva komit. Hann skok þa af ser yfirklædit ok retti framm fingrna i syn vid þa ok sagdi: «Her megit

1 af *Cd.*

þer sia, hvat þesse diôfulsins dottir hefir mer gert; ok þviat ek em skylldr at giallda godu illt, þa mun ek bidia fyrir henne.» Ok er lette bæninni, reis hon upp heit ok hellt sik hreinliga, medan hon[1] lifde. Se her, hverssu loflig ok smasmugal gudlig tilskipan er ok glôgg, at[2] faskyrlig vandfyst konunnar gerdi[3] helgan helgara, en snere henne rettleidiss, en tok illvilia af ôfundar(monnum) guds vinar. Sva vard Saulus fordum limr krizninnar, sa er stridde a hana. Inn loflige madr Job hugleidde ok þesshattar tilfelle, þa er hann sagdi sva: «Þu gud minn gôrdir mik gagnstadligan þer, ok vard ek þar fyrir þungr monnum.» David konungr sagdi sva her af: «Þarflausliga vakir saa, er borgarinnar gætir, nema gud gæte hennar.» Sva ferr oss ok, at ver faullum ok faam eigi upp risit fra fallinu af voru afle utan veitandi guds miskunn.

191. Brodir nôckurr vard bardr af oreinsan, þviat hann bra augum ok hugþocka til dottur hofprez eins heidins, ordadi sidan fyrir henne, at hann villde fa hennar til eiginnar konu. Hofprestrinn svarar, lez eigi mega[4] festa meyna fyrr ne heita, en hann hefdi adr blotad gud sinn. For þessu næst til diôfuls þess, er hann dyrkadi, ok sagdi til hans: «Skal ek gefa dottur mina munkinum?» Fiandinn svarar: «Vittu, ef hann vile adr neita gudi sinum, skirn ok munkligu medferde ok fyrirheite, ok seg mer sidan.» Allt þetta samþykte munkrinn vid hofprestinn. En i þvi er hann iatte, sa hann dufu fliuga upp til himinssins fra munne ser. Her eptir tiade hofprestrinn þa þria lute, er munkrinn hafdi heitit honum at afneita. Fiandinn svarar: «Gef honum eigi enn meyna, þviat gud hans er enn eigi horfinn honum, helldr helpr hann honum.» Ok er hofprestrinn flutti fyrir honum, at gud hans hafdi fyrirkvedit honum kvanfangit, sagdi gud honum eigi ordinn enn afhuga, þa hvarf hann aptr til sin brodirinn, er hann heyrde þetta, ok mællte: »Ef gud minn synir mer sva mickla godvilld, þar sem ek vesall hefir neitad honum, skirninni ok munksins frammiatan, þa er (hann) sannliga godr, ok hvi muna ek snuaz fra honum, ef hann helpr mer enn, slika odygd sem ek hefe drykt ok vandskap vid hann.» Gôrir hann þvi næst i kunnleika allt efnit einum andligum fedr. En hann baud brodur at sitia hea ser þriar vikur i sialfsins herberge med fostu, ok lezt mundu iafnliga bidia til guds fyrir honum. Brodir þektizt þetta. Lidr þar næst ein vika, frettir þa heilagr fadir, ef brodir hefde nockut sed til nylundu[5]

1 hann *Cd.* 2 ok *Cd.* 3 gerdu *Cd.* 4 mæga *Cd.* 5 nylunda *Cd.*

Hann lezt sed hafa dufu ofarliga vid himni at sea gagnvart hôfdinu a ser. Guds madr bad hann bidiaz fyrir med gaumgæfd ok athygle. Lidr sidan ônnur vika, adr inn gamle fadir fretti, ef brodir hefdi nôckut seed nys. Brodir kvez sia, at dufan flaug nidr ok nam stad nær hôfdinu a ser. Guds madr baud honum þa enn at vera a bæninni med hogværum hug. Nu at lidinni inni þridiu[1] viku flytr brodir helgum fedr, hversu dufan hafdi komit ok stad numit i hôfdinu a ser, «en er ek tok hendinni til at hallda henne, let hon skridnaz i munninn a mer.» Heilagr fadir gôrde þa gudi þackir ok sagdi til brodurins: «Þegit hefir gud idran þina, ver nu athugall ok ahyggiufullr hedan af um þitt efni.» Af þessu dæme ma marka, hverssu nalæg guds miskunn er inum goda manninum, þott hann misgere, ef hann er buinn at bæta med bænarinnar alvôruligri astundan. Ma ok her af marka, hverssu meyrligr er mattr ovinarins utan guds orlof, edr hversu þungt missfelle fyrirgefdz skiotliga af gudi, ef ôrugg er idranin.

192. Einsetumadr nôckurr var dasamligs medferdis at manna yfirsyn, ok er hann stod i þesse gezku, riss i gegn honum ovinarins ôfund eggiande hans hugsan upp aa at þiona ôdrum helldr en taka þionustu af monnum, en at minnzta koste at þiona sialfum ser; talar sidan sva til sin: «Far til borgar med laupa þina ok kaup þer þat er naudsyn beidir, at þu sert eigi odrum monnum erfidr ne hôfugr.» Med þessu atferle ôfundade ovinrinn hans hoglife ok vidrkvæmiligan velgerning i guds auglite fyrir margs mannz hialp, astundadi hann at veida med sinum vondskap. Þar næst fullkom munkr sva sem þessa goda hugsan, ferdadiz fra klaustrinu til borgar ok fann konu eina a veginum fyrir ser. Foru sidan um morkina bædi samt, þar til er aa ein vard fyrir þeim, þar lagdiz hann med henne; hugsadi sidan, hve miôk fiandinn munde fagna af hans falle, tekr nu at ôrvænta, er hann hafdi hrygt guds anda ok helga engla ok virduliga fedr, þa er borgir bygdu ok stigit þo yfir fiandann margir. Gôrdiz nu hryggr miôk, en ominnigr hins, at gud gefr krapt hverium, er til hans[2] snyz. Hugsade nu helldr at gôra fullkominn fagnat fiandanum ok dreckia ser i aana blindadr athugaleyse sialfs sins syndar. I þenna punkt vitiar hans guds miskunn ok snere honum heim aptr til klaustrs sins med miuklatligri rettleiding sorgligrar idranar; lykr hurdina ok rekr stock fyrir; ok sva sem hann fyrrmeirr hafdi alsaurgaz ok ôrvæntaz, sva leggr hann sik nu undir andvarpliga idran. Hann vakir ok fastar ok þynnir

1 þridia *Cd.* 2 andans *Cd.*

likamann med allzhattar þrôngving, ottaz þo iafnan, at nôckut mune a skorta algerva idran. Brædr komu at hitta hann ok beidduz inngongu. En hann bad þa bidia fyrir ser, lez þvi hafa heitit gudi at gera godfusliga idran in næstu missere, finnr þo nu varla, hversu hann skal fordaz þeira fund misþyckiulaust. Paschanottina fyrstu setr hann kerte[1] yfir stiku lioslaust, fellr sidan til benar ok sagdi sva: «Milldr ok miskunnsamr gud, er ôllum vill hialp(a) ok til vidrkenningar[2] koma ins sanna, til þin flyda ek grædara godfusra manna. Miskunna mer, er þik hefig reittan margfalliga, en ovininn gladdan. Se nu, at ek em þvi daudr, er ek hlyddak honum. Þu drottinn, er miskunnar þeim, er overdir eru fyrir sina umilldi þinnar miskunnar, ok bydr at (g)netta naung sinn med miskunn, miskunna nu minu litillæte, þviat þer er ecke um megn, þott ônd min se eydd til helvitis nærr sem dupt iardarinnar; ger miskunn vid skepnu þina, er a upprisudege mun(t)u upp vekia likame daudra manna, þa er nu eru fyrirordnir; heyrþu drottinn, þviat ande minn er þrotinn, en ônd salug svikin, likame spilltr, ok þvi at ek hefir tapat tru minne, ma ek eigi lifa. Varkynn mer tvifallt misfelle ôrvæntanar ok oreinsanar, lifga mik latinn, biod, at þetta kerte tendriz af þinum elldi, at ek fáe þar af traust þinnar liknar ok miskunnar at lifa hedan af godfusligarr en her til i þinni þionustu.» Ok er hann hafdi þessa lute talt med môrgum tærum, fann hann kertid loglaust, er hann reis upp af bæninne. Dôggvir þa enn andlitit med tárum ok bidz sva fyrir: «Veit ek, drottinn minn, at ek verd þraut at þola, adr en lifs korona ôdliz, þviat ek fell fyrir holldzins girnd undir vandra manna pislir ok kval(ir); varkynn[3] mer, drottinn, þo, þviat ek iate sekt mina ok afgerd þinni godgirnd ok heilagra engla ok allra rettlatra manna þinna, þviat ek veit, at þeir eru rettir af minne rasan. Miskunna mer, drottinn, at ek mege adra læra; lifga mik, drottinn.» A þenna hátt badz hann fyrir þrysvar, ok feck seed um sidir, er hann reis af bæninni, at kertid var med loge; fagnadi þa mikilliga ok gerdi þackir gudi med margfôlldu lofe ok hiartans ôrugligri van, sva at fyrir guds lofe ok andligri gledi gleymir hann girnd likamligrar fædu um daginn. En alla sina lifdaga geymde hann at loge kertissins ok rende vid vidsmiôrvi, at eigi mætti slokna. Bygdi ok þadan af æfinliga guds ande med honum, sva at hann vard af ôllum vegsamadr fyrir sitt litillæte ok gudligar þackir med andligri gledi; var honum ok birtt af andlatztid sinne nôckurum dôgum

1 kære *Cd.* 2 varkyndar *Cd.* 3 syner *Cd.*

fyrr en framm kvæme. Maa af þessu dæme skilia, hversu inn rettlate madrinn riss styrkliga upp, þott hann falle, þegar er gud er i fulltinge; syna þat næstu tvenn dæmi, hversu ǒrvæntanin ma geraz þyngri en afneitanin, ok hverssu leynd synd hefz verr en greidiz seinna, þar er afneitanin var uppgefin i fyrra dæminu a þrim vikum fyrir sanna idran, en her gerdiz idranin allt aarit fyrir eina samt ǒrvæntanar þaugnina.

193. Einn madr af veralldar lifnade sneriz til munkligs sidlætis. Þesse tiade þat fyrir helgum fedrum, hversu uvinrinn eggiadi hann at girnaz eiginkonu sinnar, er verid hafde. Fedrnir sa, at hann framdi iafnan hofgara, en honum var a hendr lagit, ok budu honum þvi sva þungt um sidir, at hann syktiz af. En med guds forsia kom til hans einn heilagr fadir, er ferdadiz i morkina Scithi ok undradiz, er opid var herbergit, hvi ecke var utgengit i mot honum, ok geck inn ok fann bondann siukan, ok sagdi til hans: «Hversu hefdz þu vid, fadir?» Hinn svarar, lez verit hafa af veralldar lifnade, en kvez nu kenna freistne til hiuskaparfars vid husfreyiu þa, er hann hafdi att, «hafa ok helgir fedr, þa er ek hefi þeim sagt, ymisligar þunganir a mik lagt; en þott ek villda þær fylla, þa fær ek eigi fyrir vanmegne; en freistnebroddrinn vex, en ek fyrirverdu(m)z.» At sva heyrdu vard guds madr ryggr, sagdi helga fedr sem mattuga menn hafa hǒfga lute honum a hendr lagda, «en haf hedan af mitt tillag, ger smam þeim guds verk, en tak fædu a tilsettum tima, at þu hafir afl þitt ok styrk þar af, en gef hugsan þina a guds valld, þviat her er þat efni, er þu matt eigi med sialfs þins erfide yfirkoma; þviat kiǒt vart er sem klædi, ef þu hondlar þat athugasamliga, þa hefdz vel ok er sæmiligt, en fǒlnar skiott, ef þess er eigi geymt.» Ok er guds madr gerde, sem heilagr fadir hafdi fyrir sagt, hvarf fra honum freistnebroddrinn at faam dǒgum lidnum.

194. Aboti Daniel flutti af inum helga Arsenio abota, at nockut sinn kom til hans med testamentum einn madr, þat er einn ǒlldungr nafrændi hans hafdi sent honum. Guds madr villdi þegar skipta i sundr ollum audinum. Enn tilkomne madr fell til fota honum ok mællte: «Ek bid þik, fadir, at þu skiptir eigi fiarhlutinum ne logir, þviat þar liggr vid lif mitt.» Abote Arsenius sagdi þa: «Hversu ma hann gera mik erfingia, þar sem ek var fyrr daudr af heiminum en hann.» Sendi sidan aptr oll audæfin ok villdi eigi vid taka. Syndi heilagr fadir i þessu þat, at þeir, er um sinn hafna heiminum, eigu nǒcktir at fylgia Kriste

en lita eigi aptr til iardligra luta, ok at þeir heyrdi eigi þat brigzli af Kriste, er brodir Sinclicius heyrdi af hinum helga Basilio byskupi.

195. En brodir Sinclicius[1] þesse hafnade heiminum en hellt hia ser eiginlig audæfe, en veitti sum fatækum monnum, ok hugdiz med þessum hætti mundu odlaz litillæte munkligs medferdiz. En Basilius byskup bar honum þetta vitni: «Þu Sinclicius ætladir þik ǫlldung, en gerdir eigi sannan munk.»

196. Einn dyrdligr abote het Agathon, hann smidadi ser upp langan tima klaustr eitt vid fullting lærisveina sinna. Ena fyrstu viku sa hann eitthvat, þat er honum var oskapfellt innan klaustrs, ok taladi til sveina sinna: «Risum upp ok ferdumz i brott hedan.» Sveinarnir urdu ryggvir ok sǫgdu: «Hvi lǫgdu ver her sva mikit starf ok stundan fram, fadir, ef ver skulum eigi niota mega, at menn stygdiz vid oss ok segdi, at ver þolim hvergi kyrrir.» Ok er hann sa, at þeir rygduz ok ǫngruduz, svarar hann sva: «Nu þott nǫckurir ryggiz her af, þa munu nockurir endrbætaz ok segia: Sælir eru þessir, er hafna herbergi sinu fyrir guds sakir ok ganga fatæker fra i brott. Nu fare sa med mer, er vill.» Þar næst fellu þeir framm fyrir helgan fodur ok badu fyrirgefningar (ok) at fylgia honum, ok fengu hvarttveggia. Her af ma heyra, hve heilagr madr geymdi eigi um gnadd þeira ok gadi helldr þess raads, er nytsemd kendi ok avisar i spektarbokinni þessa kostar: Heil aast hefir eigi oþol, en rangr romr verdr skiott ræktr, þviat eptirkomanda lif er vattr ins fyrra, er ok omattuligt, at utan allan umlestr vandra manna mege nockurr þetta lif til lykta leida, þviat þat er huggan illmennis at tǫgla um hæl heilagra, ok hyggiaz sva munu minka sin misfelle med mergd syndugra; en halmelldr verdr hardla skammærr, ok mikit baal sloknar skiott, þegar vidinn vantar; hyggium sva fyrir, at fiandinn hirdir eigi sva miok at fyrirfara fordædum edr illmenne, helldr er hans fæda agætismenn, sem Abbacuk propheta innir. A Job girntiz hann, ok er hann hafdi solgit Judam, beiddiz hann mattar til at sællda postolana eda hrista sem hveite, at þat sanniz, er lausnarinn lez til þess komit hafa at senda sverd a iǫrdina helldr en frid.

197. Vinnumadr nǫckurr var i Jorsalaborg, Pilagrius at nafni, sa er lifde vid handaverk sin. Einn dag er hann stod a stræti at selia handaverk sin, bar sva (at), at fesiodr fell nidr fyrir einhverium manni med .m. skillinga silfrs, ok fann Pilagrius; sagdi sidan med ser, at þeim være naudsyn þar at koma, er fiarins hafdi

[1] Simplicius *Cd.*

mist. Kom hann ok litlu sidarr gratande. Guds madr feck honum i hendr fesiodinn þegar, ok þott hinn bædi (hann) mikilliga at þiggia nockura fiarmune fyrir fundinn, þa var þess enge kostr. Hinn tok þa at kalla a menn ok mællte: »Siaid her guds mann, hvat gerde.» En Pilagrius flyde þvi næst i brott af borginni, at hann yrdi eigi kiendr fyrir þetta tiltæke, ok veralligr mætte eigi minka vegr verdleik hans.

198. Nôckurr rikr madr ofradi einum olldrudum fedr fiarhlut ok bad hann hafa hia ser, er hann var bædi gamall ok krankr ok likþrar. Guds madr bad hann brott færa silfr sitt ok sagdi: «Þu komt eptir sextige aara at svipta mik matgiafa minum, vil ek þvi eigi þiggia fe þitt, at gud sialfr hefir fæddan mik i sva lôngu vanmegni, at ek hefe engis veralligs vid þurft.»

199. Menn nockurir komu eitt sinn i borg þa, er heitir Ostratim, at gefa þar ôlmusu sina. Þeir letu valldzmenn stadarins tia ser fatækisfolkit, ok voru þeir leiddir til eins likþrás mannz med olmusugiôfinni. En hann neitade þvi ok mællte: «Ek hefe palmur nôckurar at vinna, ok er þar yfrid til vidrlifnadar.» Þadan voru þeir leiddir til kofa eckiu einnar fatæ(krar), ok kvôddu þeir dyra. Dottir hennar nôkt geck til dyra, þviat eckian var farin til idiu sinnar, hon var sôngmær[1]. Þeir budu meyiunni ôlmusu, en hon villde eigi vid taka, sagdi mædr sina sva mællt hafa um morgininn, er þær skildu: «Treystu a gud, dottir, þviat ek feck enn verknat i dag til atvinnu ockr.» Þvi næst kom husfreyia heim, ok badu þeir hana þiggia, en hon villde eigi ok sagdi sva: «Ek a mer þann gud, er min geymir ok giætir, en þer vilit hann taka fra mer i dag.» Nu at sva mikille stadfeste fundinni med konunne dyrkud(u) þeir gud ok foru i brott.

200. Einn mikils hattar madr kom i morkina Scithi med gull mikit ok bad prest merkrinnar veita brædrum. En (hann) kvat brædr ônga þôrf hafa til gullz. Hinn bad þess at akafligarr, en prestrinn hlyddi litt aa. Þa setti hann um sidir vandlaup i kirkiudyrr med gullinu ok sagdi til brædra enn: «Sa er þarf take her gull.» En enge tok, en hinir voru nockurir, er eigi villdu sia þat. Þa mællte prestr: «Þegit hefir gud offr þitt, ok kyss hugr ômbun fyrir þina astundan, en gef gullit fatækisfolki.» For hann sidan i brott miok uppsmidadr.

201. Nockurr madr starfadi i vingardzverke, en veitte allt i ôlmusu nema atvinnu sina, þat er hann feck aa. Þvi næst setti

1 *lat.* candidatrix = *fr.* blanchisseuse.

fiandinn i hugskot hans þesshattar hugsan, at hann skylldi hallda hia ser nôckurum fiarmunum fyrir elle sakir, eda ef hann syktiz, ok fylldi hann byttu eina penningum. Barst þat ok bratt at, at hann tok krankleika med þvi mote, at fotrinn funade, ok feck hann læknum feit; en þat kom fyrir ecke, ok var æ at verr. Þenna tima sotte einn reyndr læknir ok lofligr hans fund ok (sagdi), at funade allr hans bukr nema af honum være hôggvinn fotrinn, ok stad(di) þat med ser. Um nottina sneriz allr vinnumadrinn til idranar med sut ok sorg, ok sagdi sva: «Minnztu, drottinn, inna fyrre verka, er ek erfidada i vingarde minum ok þionad(a) ek fatækum monnum.» At sva mælltu stod hia honum guds engill ok sagdi: «Hvar eru penningar þeir, er þu drott saman, eda van su er þu talar af.» Hann skilde þetta ok sagdi: «Ek misgerda, drottinn, varkynn mer, en ek heit at gera eigi hedan af.» Engillinn tok þa þegar til fotarins, ok vard hann heill. Reis hann upp um morgininn ok for til verks sins. En læknirinn kom um morgininn, sem þeir hôfdu vid melltz, ok hugdiz hôggva skylldu af honum fotinn, unz honum var flutt, at hann være farinn i vingard til verks; for sidan furdande til motz vid hann ok sa, at hann var heill ok osakadr af grôft gardzins, ok gerdi þar fyrir þackir guds miskunn.

202. Brodir nockurr bygde einn ser, sa er rærdiz af hugsan sinni ok sagdi inum helga abota Theodoro til sva komins. Inn gamle fadir bad hann fara ok byggia hia odrum brædrum med litillæti ok undirgefning. For hann þvi næst til annarra brædra, ok dvaldiz þar um hrid hia þeim, hvarf sidan aptr til heilags fodur ok kyndi honum sitt efne, kvez hvarki faa nadir einn samt ne hia odrum. «Hvi gerdiz þu munkr, sagdi guds madr Theodorus, ef þu færr hvarki hvilld einn saman ne med odrum, nema til þess at þola andæru[1] ok kvôl utan kvein? eda hve morg aar hefir þu borid, brodir, bunad þenna?» «Atta,» sagdi hann. «En ek hefe nu sea(u)tige aara verit med munkaklædnade, ok feck ek enn alldrigi fengit eins dags ro; en þu villdir nu hafa hvilld þegar fyrir ein atta aar.» Her af ma marka, hverssu styrkliga madr aa at strida ok gôra med ást ok elsku guds verk, þviat algôrr ást rekr ut ottann, sem birtiz i þvi dæme, er her fylgir.

203. Þenna sama Theodorum spurde brodir einn þessa kostar: «Hvart mundir þu ottaz, abote, ef gnyr nôckurr eda rapan yrdi vaveifliga.» Guds madr Theodorus svarar: «Þott bædi brenni himin ok iôrd, þa ottaz Theodorus eigi,» sagdi hann. Þvi sva at

[1] andæra *Cd.*

hann hafde fyrir helga bæn þat þegit af gudi, at allr otti var fra honum numinn, spurde ok þvi brodir þessa.

204. Abote Theodorus ok abote Lucius þoldu fimtige aara enu sômu freistne ok sôgdu sva a hausttimum: «A(t) sumarmalum munu vid andaz.» En er sumar kom, sôgdu þeir sva: «At sumartima lidnum munu vid andaz.» Þessa kostar gôrdu þeir allan tima sins medferdis, þar til er freistnin let undan. Nu liknade þeim her langt þol, er heimslig heit velktu uvisliga.

Voru ok þeir þrir fedr adrir, er fyrir brædrum hôfdu þesshattar ordslattu allan sinn lifstima: «At lidnum vetri munu ver luka nausum,» en eptir vetrinn sôgduz þeir mundu andaz um haustit. Þetta mælltu þeir eigi af þvi, at þa mæddi þesshattar aslatta, helldr til hins at auka odrum ynde ok samhallda stadfestu.

205. Ammonas abote sagdi þat af ser, at hann lez fiortan aar hafa bedit gud i morkinni, adr hann feck, at hann gæfe honum dygd at sigra reidilôstinn.

206. Abote Besarion stod yfir þyrnė a bæn sinne .xl. natta at leysa einhveria lôstu med fullu fra ser.

207. Nockut sinn er Macharius abote for nidr fra morkinni Sciti, lagdiz hann til svefns i leide einhveriu, þar sem heidingiar hôfdu grafnir verit fyrrmeirr, ok dro undir hôfud ser einn bukinn, sem dunkoddi[1] være. En er fiandr[2] sa þetta hans traust, [ôfundudu þeir[3] hann miok ok villdu hræda hann, kôlludu þvi næst sem konu nockura ok mælltu: «[Na na fostra[4], villt þu fara til bads[5] med oss?» Annarr oreinn ande svarar sva sem fyrir buk þann inn dauda, er guds madr svaf yfir, ok mællte: «Ek ma eigi koma fyrir einum utlendum manni, er liggr a mer.» Inn gamle fadir utan allan otta laust bukinn ok sagdi: «Gack, ef þu matt.» Ok er fiandrnir heyrdu þetta, kôlludu þeir med hareyste: «Sigradir þu oss,» ok flydu fra honum yfirstignir.

208. Þa er abote Milido bygde, ok [tveir læresveinar[6] hans hia honum, i [Serklandz endemorkum[7], þa foru .ii. synir Serkia konungs eptir veniu sinni at dyraveidum a skoginn, þann er heilagr fadir leyndiz i, ok slogu netium sinum. En er þeir sa guds mann hrædiligan i vidrlite ok lodinn allan, þa undruduz þeir ok mælltu til hans: «Hvart ertu madr eda ande nockurr?» Guds madr svarar: «Ek em syndugr madr, ok for ek ut i morkina at grata syndir

1 dunhoddi *Cd.* 2 fiandinn *Cd.* 3 [ôfundade *Cd.* 4 [Nonna illa *lat.* 5 bods *Cd.*; ad balneum *lat.* 6 [var lærisveinn *Cd.* 7 [Serklande eydemork *Cd.*; in finibus Persarum *lat.*

minar ok dyrka Jesum Krist son guds lifanda.» Þeir sǫgdu þa: «Eigi er sannr gud nema sol ok elldr ok vatn, fær þeim fornir med dyrkan.» Hann svarar: «Þer villiz, þviat þetta eru skepnur guds; en ek bid ydr, at þer vitkiz ok kenniz vid sannan gud, þann er þessa lute hefir skapat ok alla adra.» Þeir hlogu þa at honum ok mælltu: «Segir þu þann sannan gud, er fyrirdæmdr var ok krossfestr?» Hann svarar: «Þann sege ek sannan gud, er krossfeste syndina, en drap daudann.« Þa neyddu þeir hann at blota ok þa brædr, er med honum voru, med morgum saarligum piningum ok harmkvælum, en halshiǫggu brædrna bada, þviat þeir villdu eigi blota; en sidan pindu þeir helgan fodur marga daga, en at lyktum hǫfdu þeir hann at skotspæne, ok skaut annarr þeira til baks en annarr til bringu. I þenna punkt sagdi guds madr sva: «Nu med þvi at þid hafid eitt samþycki til at hella ut saklausu blode, þa mun þar fyrir a morgin modir yckur vera aan sonum, ok mun hvars[1] yckars skot veita ǫdrum bana.» Þeir gerdu op at ǫrdum hans; en foru um morgininn eptir at veidum eptir veniu. En sva bar til, at hiǫrtr einn komz fra þeim, ok lupu þeir a hesta ok ridu eptir honum, skutu þvi næst badir senn til hans, svat hvars skot kom i briost odrum; letu sva lif sitt, eptir þvi sem guds madr hafde fyrir sagt.

209. Einn brodir vard bardr .ix. aar af hugsanum sinum, sva at hann tok hvern dag skinnklædi, þat er hann hvilldi i, ok ætlade brott fra brædra sambud, sagdi hann sva med ser um kvelldit: «A morgin mun ek fara.» En um morgininn sagdi hann sva æ: «Skal ek vera i dag fyrir guds sakir.» En er .ix. aar voru lidin þessa kostar, þa tok gud fra honum alla freistni. Ma her af marka, hve hversdaglig stadfeste ok gudligt traust styrkte ok endrbætte krankan hug ok skridnadan af langri þraut.

210. Var ok annarr brodir, sa er i freistne fell ok dasadiz miok i stadfestinni, svat hann hafdi tapat af vanrækt munkareglunni ok hversdagligu sidlæte, ok þott hann villde nu aptr hverfa til fyrra sidferdis, þa heck hann af ser ok himde ok feck eigi snuiz fra hversdagligum ohattum, ok sagdi sva med ser: «Nær mun ek finna mik þvilikan, sem ek var fyrr.» Legz hann nu fyrir med ǫllu ok gerir ecke til gods af þvi, er munk heyrdi til, þar til er hann flytr um sidir fyrir einum helgum fedr allt sitt tilfelle; en hann sagdi honum þetta dæme.

Einn madr atti iǫrd, þa er af vangeymd geck klungrum ok

[1] hvers *Cd.*

þyrnum ok odru illgrese. Nu syndiz honum at faga iǒrdina um sidir ok sagde[1] til sonar sins, at hann skylldi faga iǒrdina. Sveinn for ok lagdiz nidr til svefns, þviat hann ǒrvænte frammkvomu starfsins ok a auka erfidissins, ok svaf hann þvi sva miok marga daga. Um sidir kom fadir hans at sia verkit sveinsins, asakar hann, hvi hann lægе. Hann svarar sva: «Mergd þistla ok þykd þyrna[2] gafu mer ǒrvæntan gerningsins.» Fadir hans sagdi: «Far nu, son, ok ryd[3] hvern dag lengd þina af iǒrdinni, en eigi meira.» Ok var skambragds eignin alrudd.

«Nu ger þu ok sva brodir, sagdi guds madr, vinn smam þeim gott, ok mun gud med sinni miskunn leidretta mál þitt.» Brodir hlyddi þvi, er honum var kent, for i brott fra helgum fedr ok feck skiott endrbætt allan sinn krapt ok lifnad. Skilz her af, hve avaxtaligt ǒndinni er at standa i mot himanda hug, ok hve audvelliga aptr heimtiz athæfissins hattr med stǒdugligri astundan. Birtir þat ok eptirkomanda dæme, hve nytsamligt er at neyda huginn stundum til nytsemdar fra eiginligri villd.

211. Einn alldradr madr bygdi hellisskuta nockurn i Thebaida herade, sa er atte inn lofsamligzta lærisvein. Þat var hattr þessa helga mannz, at hann lærdi sveininn sid a kvelldum greiniliga af þeim lutum, er saluhialp hans heyrde til, en sidan lyktudu þeir bænahallde badir samt, fyrr en sveinninn fære at sofa. Skynsamir leikmenn voru ok vanir optliga at finna helgan fodur. Nu bar sva at eitt kvelld, er hann kende sveininum, en hinir voru heim horfnir, at honum hǒfgadi vid talit ok sofnade hann. Brodirinn beid, ef hann vaknade, ok lyktade þeir bæn badir samt eptir veniu; sitr lengi sva ok hugsar at hverfa heim, berst þo i mote oroa hugsanar ok sitr kyrr. Lidr nu framm stundin, ok sefr heilagr fadir, kemr in sama hugsan at brodur, ok sigraz (hann), þott hon mædi hann þa enn meirr en fyrr. Sva for .iiii. sinnum, at hann sigradi hugsanir sinar þesshattar. En er mid natt munde vera, þa vaknade karl ok sagdi til sveinsins: «Hvi fortu eigi heim i natt?» «Þviat ek villda eigi reita þik,» sagdi sveinninn. Lyktudu þeir ottusǒng, adr hann gaf orlof sveininum, en sidan sat guds madr einn samt, ok seig a hann omegin; ok i þvi synde einn madr honum nockurn dyrligan stad, ok þar i sæte, ok .vij. koronur yfir sætinu. Inn gamle fadir fretti, hverr ætte koronurnar. Honum var sagt, at lærisveinn hans ætte, ok þat med, at þenna sess ok stad hafdi gud honum veitt fyrir sitt medferde, en koronur þær .vii. hafdi

1 lagde *Cd.* 2 ok *tilf.* *Cd.* 2 hryg *Cd.*

hann ôdlaz a næstu natt. Þvi næst vaknar guds madr med otta miklum ok rædzlum, kallar til sin sveininn ok frettir, hvat gods hann hafdi gert um nattina. Sveinninn svarar litillatliga, lez ecki til gods gert hafa, villde helldr raunar hylia bliode godgerning sinn en hafa hol fyrir hræsnina, ok bad helgan fodur varkyndar. Guds madr lez eigi mundu fyrr af lata, en hann segdi. Brodir bad liknar, kvez ecki kunna at segia þar af. Heilagr fadir ferr þa eptir allt hardara ok bad hann segia. «Eingis gods veit ek mik gert hafa, sagdi sveinninn, nema þat eitt, at ek hvarf eigi heim utan þitt orlof, sva lenge sem þu svaft, þar er ek var .vij. sinnum knuidr af hugsanum minum.» Ok er heilagr fadir heyrde þetta, skildi hann, at sveinninn var sva opt koronadr af gudi, sem hann hafdi hugsanar reiting fyrir hans skylld sigrad, leynde þo sveininn þessu, þviat hann hugde honum þetta henta; en hann flutti fyrir helgum fedrum, at ver næmim her af, hver ômbun veitiz af gudi þeim er ecke gott lætr olaunad fyrir smaligar hugsanir. Ma her af hugsa, hver nytseme ôndinni er at bera afle inn ytra manninn, eptir þvi sem gudspiallit vattar, at afl þolir himnariki, ok oflgir[1] hliota þat. Ma þat ok marka, hversu sa munde miok afle bera buksins beidne osiuks, er hvarke kveinade af krankleikanum ne beiddi fodur fulltings, sem birtiz i eptirfaranda dæme.

**212.** Einn alldradr madr syktiz, ok hafdi ongvan þann, er fædu færde honum eda veitti annat fullting, ok þvi tok hann þat, er hann hitti i herberginu, utan skilgrein i slikri naudsyn, visse, at i tilbodinu var synd en eigi i fædunni. At honum sva hôlldnum þriatige daga utan mannz þionkan, vitiar guds engill hans ok þionar honum .vij. daga i samt, i þvi er hann þurfte, stod yfir honum ok huggade hann. I þann punkt sottu brædr a hans fund, þott þeir visse eigi krankleika hans, ok kvôddu dyra. Bondi þegar hann heyrde, þa bad hann þa[2] alhugliga eigi inn ganga. Þeir gafu ôngar geymdir at þvi ok hofu hurdina af hiôrrum, gengu inn ok frettu helgan fodur þvi næst, hvi hann bannadi þeim inngongu. Hann greinir þa fyrir þeim allan hatt glôggliga, hverssu guds engill hefde um .vij. daga i samt þionad honum. Ok er hann hafdi þesse ord talat, þa skilz hans heilog ônd vid sinn likama, feck þann[3] leidtoga til himins, sem honum hafde þionad i sottinne, sva (at) hann hefde til þess fiarrlægt sik, er brædr beiddu inngongu, at hann ryddi veg til himins helgum fedr. Segir her til, hvern verdleik ok huggan hverr færr, sa er þrôngvir likams rækd, ok beidiz eigi

1 eflgir *Cd.* 2 hann *Cd.* 3 hann *Cd.*

fædu ne næringar honum til letta, helldr hins eina at lykta lifinu med lofligri þraut. Þat er ok her skyrt, hve verdug er kiotzins mæda, þott slikir lutir mege utan avaxta a likam leggiaz, sem her segir. Haurd bindende med frammretting er af diðfuls akaste, ok hann fylgir at hana gera, en hverr mun kunna at greina, segir sa er þetta hefir diktad, gudliga ok konungliga bindendi af diðfulsins drepi vikingligu ok haschafullu, ok þvi er betra at hafa mundangliga bindende allan tima sins medferdis a einn[1] hatt fôstunnar reglu, nema opinberliga se birtt af gudi; fasta eigi .iiii. daga edr .v. i samt ok leysa eigi likamans dygd fyrir fiðld fædu eda krasa, þviat þat gledr fiandann; er þat ok flest med spelle, er eigi hefir mundangshofit. Kasta þvi eigi hvatskeytliga[2] fram vopnum þinum, at þu verdir eigi fanginn slyppr i orrostunni; en vopn var er likame vorr, en ôndin riddarinn. Þa skylldi þat hvarr her hvarum veita, at hvarr giæti[3] sinnar þionustu halldinn i sinum naudsynium. Er allt bindende med tempran upptakande en eigi med akefd med drottinligu bode, er sva segir: Sa er þarnaz, forsmar eigi þann, er neytir med reinne samvizku. Dyrkit hann sva af mætri giðf, at hann hafne eigi adra, ok minniz þess, er þat bar at, er her næst verdr af sagt.

213. Tveir brædr komu i eina convent mikils lifnadar, er hverr sa guds miskunnargiðf med ôdrum. Einn tima bar sva til, at annarr þeira geck ut af klaustrinu a fôstudag ok sa nôckurn mann snæda snemma, ok sagdi til hans: «Hvi etr þu þenna tima a fôstudege?» Um morguninn eptir er fyrr inntir brædr stodu at messu, vard hinn ryggr brodir, er heima haf(d)e verid, þviat hann sa guds miskunnargiðf fra honum horfna, er ut hafde gengit, ok frette hann at, hvi gegnde. Hann lez eigi vita sokina til hvarke i hugsan ne verke. «Ok ecke ord idiulaust hefir þu mællt,» sagdi hann. Nu mintiz hann a brodir ok mællte: «Þat er satt, sagdi hann, at ek sa einn mann mataz snemma i gær, ok spurda ek, hvi hann æte sva ærla; nu er þesse min synd. Beide ek þik, at þu, brodir, bidir fyrir mer liknar vid gud ok erfidir med mer halfan manud.» En er sva langt var lidit, sa hann guds miskunn aptr koma til brodur, ok gerdu sidan badir gudi þackir. Þat er umfram alla lute, er godr er (gud); ok hugguduz badir mikilliga sin i mille. Nu ma her af marka, hve ovarligt er at dæma diarfliga annarligan lifnad, þviat eigi er ôllum einn heilsustigr, helldr hlytr at skoda skyrligarr asionur mannanna til sidlætis ok

1 eitt *Cd.* 2 hatt skiotliga *Cd.* 3 giædi *Cd.*

bindende, þviat þott lifit syniz i morgu lage mislikt, þa ma þo verda verdleikrinn vidrlikr, sem eptirfaranda dæme innir.

214. Nockut sinn kom munkr nockurr af Romaborg, sa er mikinn stad hafde haft i keisarans hall, en bygde nu i nand einne kirkiu, ok hafdi einn svein med ser til þionustu. Prestr kirkiunnar sa krankleika hans ok þeckte, at hann hafdi sællife vanr verid, ok þionar honum þvi af sinu gozi ok alltarins offre. En er þesse madr hafdi verid halfan þridia tôg aara i morkinni Scithi, gerdiz hann mikilligr tilliz ok inn frægazte a godgerninga, ok eigi sidr frammsynn[1] um oordna lute. En er þesse himneska frægd heyrdiz af honum, gerdiz einn egipzkr munkr til motz vid hann til uppsmidanar sialfum ser at sia athæfe hans, er hann hugdi enn hardara en reyndiz. Ok er hann er kominn, ok þeir hôfdu hiartaliga[2] heilsaz, at lyktadre bæn settuz þeir nidr. Ser egipzkr munkr inn romverska klæddan blautliga, ok breitt skinn undir hann, ok kaprun a hôfde, reina fætr med hosum; stygdiz hann vid ok sagdi med ser, at onnur var venia egipzkra munka, strangare bindende med enn meira hardretti. Þetta skilr inn romverske munkr af skyrleik sinum, at brodir reitiz ok hugdi a heimferd. Bidr þion sinn kalla hann aptr, ok sagdi til hans sveinsins: «Fyrir skylld ins tilkomna brodur ger oss godan dag.» Var sidan seytt litid af kale fyrir sakir kvidar krankleika, er hann hafdi munkrinn, eigi sidr var ok sett fyrir þa vin nôckut; segia sidan psalma, ok lidr sva til kvelldz. En er lokit var aptansông i sinn tima ok nattidum, riss inn egipzke munkr upp ok tekr orlof med blezan, ferr i brott sidan utan aminning. Inn romverske munkr harmar hugrenning brodurins, kallar hann aptr ok frettir, hver athôfn hans hefdi verid i verôlldinni fyrrmeirr, edr hvar hann hefdi verid i borg edr hofgarde edr þorpi, hvat hann hefdi til fædu edr dryckiar, hvilika hvilu edr framiatan. Brodir svarar, lez egipzkr munkr at ætt, segiz alldri borg hafa bygt, helldr hafa gert akra ok haft þurt braud til atvinnu, sialldan salselad[3], en vatn til dryckiar, legit a berre iôrdu. Inn romverske fretti þa, hve opt hann hefdi bad. Brodirinn lez eigi badaz hafa utan i ainne. Heilagr fadir telr þa sitt lif, þat er lidit var, til aminningar, er hann sa hann reittan, ok sagdi sva: «Ek syndugr er þu ser, em fæddr i inni miklu borg Roma, var ek i keisarans hall hæst virdr af sialfum honum, þar atta ek haleitt herberge ok otalligan fiarhlut med gullofnum klædum, utan hin er ek bar sialfr a mer, er yfir gengu verd edr virding,

1 frammsyne *Cd.* 2 heitteliga *Cd.* 3 salsamenta *lat.*

þar med oll katel umframm allt hof, þionustumenn margir ok optligt bad, sva ok allzhattar sôngfære, er heyra girnte, er ek girntumz upp æ. Nu fyrirlet ek Roma, herbergin, frændrna, ok skipta ek sva keisarans hôll i hreyse, ym(is)ligum krasum i eylitid vin ok kál, er ek hefe fyrir kvidarins krankleika; en fyrir gullbuna reckiu þessir skinnleppar, er þu ser her, fyrir utalliga þiona þenna einn, er gud hefir gefit litillætis anda til þionostu vid mik; fyrir þat optliga bad, er ek hafdi þa, þetta litla vatn, er ek þvæ i fætr mina; fyrir skinandi klædi, er ek skryddumz þa, hosur þessar, er her ser þu; þa girntumz ek or hofe leikfære ok saungraustir, en nu hugsa ek psalma; þat er fyrr var ohof ok ofgeytla, er nu inn minnzte þarfvinningr. Her af, herra abote, sagdi hann til ins egipzka, bidit fyrir mer, en styggiz eigi vid mina ostyrkt.» Ôll þesse ord med hugvære tôlud heyrir inn egipzke munkr, ok komz vid miok med sialfum ser ok sagdi: «Vei mer, er munks medferde valdag mer til hvilldar, ok fordu(du)mz sva margfallda naud ok erfide veralldarinnar, hefe ek nu þat mart til eptirlifis, er þaurnudumz ek utan allan oroa heimligs athæfis. En þu skiptir krasum i fatækt med vilianligri lægd; þar er fyrr hafdir þu heimsins blidu ok virding ok upphafning, hefir þu hôfga af honum ok þvingan.» Geckz brodir mikit vid til mannkosta ok var hardla kærr vin ins romverska fôdur, ok for opt til hans fundar fyrir sialfs sins saluhialp, þviat hann flaut allr i ilme heilags anda fullr af skilgrein ok skynsemd. Segir i þessu dæme til, hversu skodande er stundum af manna mun hattr sidlætis, þviat þo kann verda vidrlikt verdleika, þott sidferdit mannzins verde sundrleitt, sem sagde abote Pastor: «Ef einn af þrimr velr hoglife ok hvilld, ok annarr sykiz ok gôrir gudi þackir, en inn þridi[1] þionar þeim af einkannligri ást, þa eru þessir þrir iafnan fyrir gudi, sem þeir se einnar athafnar.» Þetta heyrir ok eigi minnr þeim til, er einne frammiatan fylgia, þott ymisligar asionur athæfissins edr natturur gere suma at lifa þrôngligarr en suma, þa er iafnan þrôngva hlydninnar geymslu(r); en hvers verdleiks hon er, opinberaz i þvi er eptir ferr, segir ok hve naudsynlig hon er heims hafnendum.

**215.** Madr nockurr kom til abota Sisosij ok villde geraz munkr. Abote spurde, hvat hann ætte um at vera i verolldunni. Hann lez eiga son einn. «Far þa, sagdi abote, ok kasta sveininum a aana ut, ok gerst sidan munkr.» Veralldarmadrinn villde giarna fylla þenna bodskap. Sidan sendir abote eptir honum mann at

1 þridia *Cd.*

skoda, hvat hann hefdiz at. Hann hitti hinn i þvi, er hann ætladi at kasta sveininum a aana, ok bad hann eigi tortima barninu. Hinn kvat abota þat bodit hafa ok villdi eigi at lata. «Vit þat, sagdi inn tilkomne brodir, at abote kvat þetta sidarr, þott hann bydi hitt fyrr.» Let fadirinn þvi sveininn frid hafa, en gerdiz sialfr inn lofsamligzte munkr.

**216.** Einn brodir het Jon skamme, þesse for til eins alldrads manz tebuerescz[1] at ætt, er bygdi i morkinni. Inn alldradi madr villdi prova einfelldi ok hlydni Johannis ok tok eitt þurtt tre ok grof nidr i iôrd, bad hann sidan bera til hversdagliga fotu[2] fulla vatz rotum tressins, þar til er þat blomgadiz ok bære avôxt. En eptir vatni var sva langt, at varla komz aptr um kvelldit, ef um morguninn var farid. En er þriu aar voru lidin, leit gud hlydne sveinsins ok godfyse, ok blomgadiz treit ok gerde avôxt. Tok abote sidan avôxt af þeima sama avexte, ok bar til brædra ok bad þa snæda af hlydne avexte. Nu fagnade abotinn mikilliga bædi af lydne brodurins ok taknsamligum avôxt tressins, er sprottid hafdi utan alla natturu ok edle. En hve mikill kraptr fylgir hlydninne, þa megum ver vel i mid setia dæme ins dyrdliga Pals, er einn var af lærisveinum heilags fodur Antonij.

**217.** Nockut sinn komu þrir brædr til eins alldrads mannz i morkina Scithi, ok sagdiz inn fyrste fest hafa i minne utan bokar bæde in fornu lôg ok in nyiu. Guds madr spurde, ef hann hefdi fyllt loptid af ordum. Annarr brodir sagdi helgum fodur: «Ek hefe sialfs mins hendi ritad allt id forna logmal ok id nyia.» Guds madr sagdi: «Fylldir þu gluggana af brefum?» Inn þride sagdi: «Vit þat fadir, at ek hefe allt herberge mitt hladit af grôsum upp at reykhafinum.» «En þu geymdir þo ecki gestrisninnar,» sagdi guds madr. Ok svaradi þvi sva hverium þeira, at hann skilde, at hinir tveir hælduz af sinni athôfn, en hinn þride, sa er grôsin hafdi saman borit til gesta vidtôku, þa girntiz eigi sva miok guds þar fyrir sem mannligs eptirmælis ok ômbunar. Var þvi miklu lofsamligri einfalleikr Pals en drambande smasmygle þessarra i þvi, at einfelldinnar krefr gud af oss meirr en smasmygle, sem hann vattar sialfr, er hann sagdi: «Yfir hverium mun hvilaz ande minn nema yfir litillatum ok hogværum ok ottanda min ord?» Skipade hann ok þvi smasveine mille lærisveina, at hann lofade hans einfellde þeim til eptirlikingar, ok sagdi til þeira: «Nema þer algeriz sem þesse smasveinn, þa munu þer eigi inn ganga i himnariki.»

1 Thebæum *lat.* 2 foru *Cd.*

Þat er sva skilianda: Smasveinn fylgir þeim, er hann skedr, ok varkynnir audmiukliga, hugsar eigi annat, en hann talar utan alla flærd. Þar af segir Pall postole: «Þer skulot vera smasveinar at illzkunne, at þer seed algervir i skilningu.» Þat heyrir þvi til, er Salomon segir sva: «Eigi mun spekin ganga inn i illviliadan mann»; þat ma sva skilia, at guds son, er speki er fôdur, verdr eigi skildr ne inntekinn af illgiôrnum monnum. Þadan af segir David: «Þu gud algerdir lof þitt af barna munne ok miolk drecka.» Ok i odrum stad telr hann, hverium audvelligaz veitiz innganga himinrikis, ok einkannar þa til, er meinlausar hendr hafa ok reint hiarta. Nu hverr er hallda girniz guddoms hæd, þa fylge hann veg litillætissins, þviat fyrir litillæte ok hlydne kemz madr til himinrikis, ok med einfelldi skal þangat ferdaz, ok sva sem daudinn kom i heiminn fyrir uhlydnina, sva leitaz guds miskunn fyrir hlydnina. Ma þat ok marka, hve miklu kostgæfe inir helgu mennirnir hafa hennar geymt, sva sem lesit er af Marco lærisveine Silvani abota fyrr i bokinni ok morgum odrum munkum ok einsetumonnum, er iafnvel hafa lifit ut lagt at fylla lydnina. Er hon ok, sva sem einn heilagr fadir hefir flutt, heilsa allra trulyndra manna, modir dugande manna ok dadanna, fundning himinrikis; lykr hon upp himna, hefr upp manninn af iordunni, hon er ok sameiginlig guds englum; hon er ok fædzla allra heilagra, ok fyrir hana (geta) allir helgir algerleik ok afmædraz heiminum, sva sem eptirfaranda dæme segir, at þeira er þvi ollu þyngra fallit, sem frabærre er koronan.

218. Einn af hinum ellrum monnum Thebaide borgar sagdi af sialfum ser, at hann hafdi verid son hofprestz nôckurs, ok sa hann optliga fodur sinn ganga inn i hofit at fornfæra skurdgodinu. En (er) hann sat hia einn tima, geck hann inn eptir honum leyniliga ok sa andskotann sitia ok alla hans hird standa fyrir honum, hann sa ok, hverssu einn af hans hôfdingium kom til hans ok dyrkade hann. Uvinrinn spurde, hvadan hann være kominn. Hann svarar, lez verid hafa i borg einne ok vakit þar upp orrostur ok margar styrialldir med mikilli blods uthelling, ok kom nu at segia honum þat sama. Uvinrinn spurde, hve langan tima hann hafdi þat gert. Hann lez þriatige daga verid hafa i þessu starfe. Uvinrinn baud þa, at hann skyllde hudstrykia, ok kvad hann allitid hafa idnad a sva langre stundu. Kom sidan annarr til hans ok dyrkade hann. Uvinrinn fretti, hvadan hann være at kominn. Hann kvez upp hafa vakt storma ok hafgialfr, drekt skipunum

en drepit mennina, ok kominn nu at segia honum. Fiandinn frettir nu at timanum, en er hann heyrde .xx. daga, vard hann reidr miok, ok bad fiandinn fa (hann) kveliðrum. Þa geck hinn þride framm; er hann var (frettr), hvat hann hafdi gert, sagdiz hann at brudlaupum[1] verid hafa ok vakt upp þrætur ok drepit margan mann ok iafnvel sialfan brudgumann. En (er) hann var frettr at stundinne, ok heyrduz x dagar, afvirde ovinrinn hann ok bad beria med svipum, sem hann hefdi litit snudgat a sva langri stund. Þar næst kom einn ok var frettr, hvar hann hafdi verid edr hvat hann hafdi gert. Hann kvez verid hafa i eydemork ok stritt a einn munk .xl. aara, ok lez varla þvi a leid hafa komit, at hann saurgadiz med konu þa næstu nott, er þa var lidin. Ok er fiandinn heyrde þetta, reis hann upp i mot honum ok minntiz til hans, tok sidan koronu, þa er hann hafde, ok setti a hôfud honum, ok let hann sidan sitia hia ser, ok kvat hann hafa unnit mikinn lut ok mattuligan. En er ek hafda þetta seed ok heyrt, sagda ek med mer, at hardla mikil være munkanna stett, ok likade gudi sva at gefa mer heilsu, geck ek sidan ut ok gerdumz munkr. Nu heyrdiz, hversu mikilliga at gudi er þeck hlydnin, þott hon se þa enn avaxtsamare, er hon samtengiz litillætinu, sem kynniz i þvi, er her fylgir. Hversu mikil litillætis dygdin er, þa sannar inn helgi Antonius, er hann sagdi sik allar snôrur ovinarins seed hafa uppegndar a iôrdunni, ok mællte hann med miklum grate ok sut: «Hvat hyggr þu, hverr þessar allar mune fordaz fa, sva at hann skade ecke.» En hann heyrdi mikla rôdd er sagdi, at þat være litillæte eitt saman. Nu ma siá, hve mikil dygd er þesse gr(e)ind af sliks fôdur vitne, ok þat sem meira er af vitni gudligrar raddar. Mattu ok heyra, hversu eptirkomanda dæme birtir, hversu fiandrnir ottaz[2] krapt litillætissins.

219. I borginni Babilon var dottir hôfdingia eins diôfulod. En fadir hennar elskadi munk einn, þann er sva sagdi fodur meyiarinnar: «Sannliga true ek, at dottir þin ôdliz heilsu, ef einsetumunkar merkrinnar bidia fyrir henne; en þetta muntu eigi fa af þeim, þottu farir til þeira, þviat þeir vilia fordaz allt mannligt lof fyrir litillætis skylld at selia verk sin. Lat, at þu vilir kaupa nôckut at þeim, en er þeir koma i þitt herberge at taka andverdit, þa mæl, at þeir gere bæn fyrir meyiunne.» Fadir hlydir þessu raade ok fann einn þann, er selldi vandlaupa, ok leidir hann til innar siuku meyiar eptir fyrirhugsudu ráde. En er munkrinn

1 braudlaupum *Cd.* 2 ok predica *tilf. Cd.*

geck inn, rann i mot honum in diôfuloda ok slo hann pustr. En munkrinn snere at henne ôdrum kinnarkialkanum. En pukinn tok at kalla at senu sva miklu litillæte ok sagde: «Ho, hversu hardudliga bodord Jesus Kriz rekr mik i brott.» Vard mærin skiott alheil. Var þetta flutt helgum fedrum, ok dyrkudu þeir gud ok sôgdu, at þat er venia diôfulligrar drambanar at falla fyrir tru kristinna manna ok litillæte.

**220.** Nockurum brædrum birtiz fiandinn med eingiligri asionu biartr ok blidligr i yfirbragde, ok sagdi: «Ek em Gabriel sendr til þin.» Brodir svarar: «Se, hvart muntu eigi til annars sendr, þviat ek em eigi verdr, at engill sendiz til min.» Hvarf fiandinn sidan skiott i brott. Ma her sia, hverssu audvelliga litillæte brodur sigrade drambanda diôful, er sik hof upp i lioss eingils asionu. Er su sama dramban iafnan med diôflinum, er heima hofzt med honum a himnenum, þa er hann sagdi: «Ek mun setia sess minn i nordre ok vera likr hinum hæsta.» Ok þat sama, er hann matte eigi vid hôfudit fremia, freistadi hann vid hans lim at gôra.

**221.** Einn alldradr madr fastadi .lxx. vikna ok snæddi eitt sinn i viku, at gud birti honum skyring ordz þess, er hann efadiz adr i, ok feck (eigi) fyrir fôstuna. Sidan sagdi hann med ser: «Nu hefe ek langan tima stundat til þydingar ordz þessa ok fengit eigi, þvi mun ek fara til brodur mins ok fretta hann ordzins.» Ok er hann var a veginum, vitradiz honum guds engill ok sagdi til hans: «Þu hefir fastad .lxx. vikna mædiliga ok fengit eigi bæn þina, en þviat þu litillætir þik nu ok villt hafa rád vid brodur þinn, þa se her ordit med sinni skyringu» Hvarf sidan eingillinn brott fra honum. En brodir feck skilt, at gott er at spy(r)ia brodur sinn þess, er hann skilr eigi, ok naudsynligt heilsu mannz ok hialp. Ma her af skilia, at stundum er (meirr) leitanda fulltings mannligs, en beidanda gudligra iarteina til allra luta, þar sem litillætid ôdladiz her þat, er hvarke feck fyrir bæn ne fôstunnar krapt.

**222.** Einn brodir hrygdiz vid annan brodur. Sidan kom sa, er hann hafde hrygt, ok bad liknar, en hinn villde eigi luka (upp). Þetta flytr sa er hurdarinnar hafdi kvatt fyrir einum gômlum manni. En hann sagdi sva: «Sia vid, at þu hafir eigi sva komit sem at kiæra a brodur þinn til annarrar handar ok syna hann sekian en rettlæta sialfan þik[1] ovidrkvæmiliga, ok mætti at þvi geraz, at þadan af tendrade upp hardare reide, ok kann vera, at gud hafe þvi eigi vitiad hiarta hans til upplokningar vid þik. Nu skil þat

[1] sik *Cd.*

er ek sege: hefde hann misgert vid þig, skylldir þu rettlæta gerning brodur þins ok setia i hiarta þer, sem fyrir þina synd hafe þer þat at boriz, ok munde þa gud gefa hans hiarta frid vid þik.» Sidan sagdi heilagr fadir brædrum slikt dæme. Veralligir menn tveir voru þeir sidlatir ok sômdu þat med ser at ganga ut i morkina ok geraz munkar. En þeir hôfdu lettliga skilning upp a gudspiallit med vandlæte, en eigi þa ina andligu, er þeir skylldu haft hafa i þeim stad er sva segir: Ef limr þinn styggir þik, snid hann af ok kasta brott fra þer. Nu limudu þeir sik sva, sem þeir munde at þessum koste hafa himinriki. En er þetta heyrdi erkibyskup stadarins, skilde hann þa fra samneyte manna. Þeir trudu sik vel hafa gert ok vanvirdu vinmæle hans ok sôgdu: «Vid hôfum aflimat oss fyrir guds sakir, en byskup þesse skilr oss fra samneyte manna. Nu fôrum til Jorsala byskups ok appellerum erkibyskup þenna fyrir honum.» Ok sva gerdu þeir. En hann svaradi ok lez skiliá þa fra samneyte manna. Nu hrygduz þeir ok foru til byskups Anthiochiæ borgar ok fengu þar vidrlikt doms atkvæde. At sva komnu sôgdu þeir med ser: «Fôrum til herra pafans, ok mun hann leysa ockr en hegna byskupa ok hefna ockar.[1]» Eggia hann sidan þess ok segia honum allan malavôxt, sva sem hæfde, ok herra byskupa med fullkomnum flutt(n)inge, ok fengu þar in sômu hardinde ok af hinum. Þar af forþockadiz þeim miok ok mælltu: «Byskupar þessir hafa samband med ser, er þeir hittaz a þingum; nu skulu vid fara til guds manz Epiphanium a Egiptaland, þviat hann er spamadr ok virdir eingis manna mun.» En er þeir komu i nand borginne, þa var honum vitrad af þeira efne, ok sendi hann menn til þeira ok bad þa ecke koma inn i borgina, þviat þeir voru i forbode. Þa hurfu þeir aptr til sin ok sogdu: «Sannliga eru vid sekir, ok til hvers rettlættu vid ockr, þviat þott þeir hefdi rangliga forbodat ockr, þa munde eigi þesse spamadr þat gera, ok sannliga hefir gud vitrad honum af ockro efne.» Toku þeir nu brædrnir ok idruduz beiskliga sins glæps. Ok þat sa gud ok birti inum helga Epiphanio, at hiôrtu þeira voru bleytt, kallar hann þa aptr til sin ok huggar ok tekr i samneyte, ritar sidan med þeim til byskups Alexandrie ok bad hann taka vid sonum sinum, þviat þeir hafa nu med sannleik gert idran sins glæps. Slika lute sagdi fyrr minntr fadir brædrum, ok lagde þetta til, at þat vill gud, at þat hialpe manninum, at hann asake sialfan sik ok gefe glæpinn a guds dom med litillætis asakan, en steriz

1 *Her ma noget være oversprunget i Cd.*

eigi til verndar med dramban. Ok er brodir hafdi þetta heyrt, gerde hann eptir ordum ins gamla mannz ok aminning, tok a sik fullkomliga idran med vidrkomning, hvarf aptr ok kvaddi hurdar herbergis brodur. Brodirinn er fyrir var skilde þetta ok bad gud fyrst liknar fyrir innan, en sidan lauk hann upp hurdunni, ok mintuz (þeir) til semiande med ser inn sterkazsta frid i guds auglite. Birtiz þat her af, hvat vinnr satt litillæte, er hurdin laukz upp litillatum, su er byrgd var fyrir drambsaumum. En ef hann hefdi viliat rett hugleida, þa skyllde hann þegar med litillæte hafa kvatt hennar ok erfidre asakan vid sik, at hann fengi med fride heim farid; er ok her nær sa meistare er þat kennir, heyrum hann.

**223.** Brodir nǒckurr spurde einn alldradan mann: «Seg mer einn þann lut, at ek life eilifliga fyrir, ef ek geyme.» Inn gamle fadir mællte: «Ef þu mættir þola vel meingerd ok bera hana sidan, þa er þesse lutr mikill ok umfram allar dygdir heil kenning, en sialldfeingr sa er geyme, ok þvi fagiætare er sa er, þa er dyrmætare kraptrinn. Berr sa vegsamligt vitne þessum krapte, hvers verdleiks hann se, er sik setr herviligan ok lagan i sialfs sins augum. Ok hviliks verdleiks þesse dygd se ok kraptr, þa gengr framm ein styrk kona ok provar þat, su er eigi sparde at verda her afleitlig ok brigzle annarra manna fyrir guds sakir.

**224.** I einu nunnusetri var mær nockur, su er sik likte sva sem heimska ok diǒfuloda. Enge systir samneytti henne, lifnadr hennar var sa, at hon for alldri brott fra steikarahuse, fylldi hon þar embætti allrar þionustu, svat eptir almenniligum ordzkvid mætte hon kallaz niardarvǒttr allz hussins.[1] Reynde hon þat med ser, er ver lesum i heilagri ritning: ef nockurr ydvarr hyggr sik spakan vera, se hann heimskr þessa heims, at hann verde spakr. Opt hugde þesse in helga mær at ritningum ollum. Þionade hon med huldu hǒfde ok sveipadre asionu. Enge af .iiij. .c. meyia, er þar var, sa hana nockut eta edr vid bord sitia, alldri þa hon fædu af nǒckurri þeira, helldr lifde hon vid þat eina, er hon hendi mola þann, er fell af borde, ok þo fonta edr grytur. Ǒngri þeira gerde hon nockut (i) meingerd edr mællte, enge heyrdi hana mǒglande edr med gnadde, ok þar er hon lifde vid allra þeira hatr[2] ok barsmidir, bannan ok meingerdir, þa bar hon þat med þolinmæde þeire, at hon talade alldri hvarki miok ne litt i mein nockurre þeira, er hana aleitudu. I þenna punkt stod guds engill hia einum helga manni, er Ipoterius het ok iafnan hafdi i eydemork lifat

1 erat secundum vulgare proverbium universæ domus spongia *lat.* 2 hatt *Cd.*

med inu lofsamligzta medferde, ok talar til hans þesse ord: «Hvi[1] hyggr þu þik mikit nockut vera edr þa brædr, er þenna stad byggia? Far til nunnusetrs kvenna tabennensiotarum, þeira er sva eru kendar, ok muntu þar finna eina mey med koronudu hôfde, ok vit hana vera þer betri; þviat þar er hon gengr nott ok dag fyrir mannfiôllda, þa berst hon sva i mot huginum, at alldri hverfr ne skiptiz hiarta hennar fra gudi; en þu sitr i einum stad ok hræriz hverge, ok reikar þo i hugskotinu ok hiartanu her ok hvar um borgir.» Ok er hann heyrir þetta, skundar hann ferdinni til fyrr nefn(d)s klaustrs. Var þar tekit vid honum vegsamliga af meistôrum stadarins ok rædismonnum, feck hann ok inngongu i klaustrid, er hann beidde. Ok er hann var inngenginn i klaustrid, bydr hann, at ôll conventin kome i syn vid hann. Mædr munklifissins flyttu þvi miok ok sôgdu honum, þa er allar voru þar komnar. En hann ser eigi fyrr nefnda mey ok ser fyrirheitna, ok frettir hver fra se. En þær kvadu allar þar vera. Þa grof hann at enn glôggligarr.» «Heyr, heilagr fadir, sôgdu þær, ok true, at ôll convent vor er her samankomin. Enn hôfum vær eina heimska i sodhuse.» Sa var sidr þeira at kalla hana diôfuloda. En er hann heyrdi þetta, bad hann leida hana i syn vid sik. Ok er hon var kollut, færiz hon undan ferdinni, þviat hon vissi reyndar af gudligri vitran, hvar af gerdiz. Þar næst var hon skylldut til ok sagt, at inn helgi Ipoterius girntiz at sia hana, en hann var hardla heyrinkunnigr ok mikils nafns. En er hon var færd framm fyrir hann, ok hann sa asionu hennar vafda med tautre, fell (hann) til fota henne ok bad hana blezanar. Hon fell þa framm ok mællte: «Þer eigut, herra, mik at bleza.» Systrnar furdudu ok sôgdu til hans: «Vil eigi, heilagr fadir, at þer sva mikla meingerd, þviat þesse er heimsk, er þu ser.» Hann mællte þa til þeira: «Þer erut at sônnu helldr heimskar, en þesse er allra var drottning, ok þess bid ek gud, at ek audlimz at vera henne likr a domsdege.» Ok er systr heyrdu þetta, fellu þær framm serhveriar fyrir hana ok iatudu grein(i)liga syndir sinar ymisligar ok badu liknar. Onnur sagdiz hellt hafa yfir hôfut henne sodinu, er hon hafdi skolat skutil sinn; ônnur kvez hafa halslostid hana, en ônnur fyllt nôs hennar af mustard; iatudu sva sidan ymissar ut ok ut. Hinn helgi Ipoterius bad þeim ollum liknar, ok for heim sidan. En guds ambatt þottiz eigi mega bera dyrd þa ok vegsemd, er[2] systr veittu henne ok trude sik mundu þyngiaz af ymissum þeira undanfærslum ok

1 þvi *Cd.* 2 ok *Cd.*

afsakan, ok þvi geck hon ut leyniliga af klaustrinu. En hvert er hon hefir farit, veit enge madr, edr hvar hon hefir stadar numit, edr hverium enda hon hefir lyktad sinu life. Heyrdu þer nu, hversu verdugr ok þægr er litillætis kraptr fyrir gudi, ok hversu þesse audgætliga mær þoldi med lægd meinmæle ok motgórdir, hógg ok hraka, ok górdiz þar af verdug eingiligrar hugganar, svat óll conventin hirtiz af hennar einnar styrkd. En hinn helgi guds madr gerdiz af godum betri. Kynniz her af nogliga, hve naudsynlikt er litillætid, ok flytr þat þa enn meira verdleik til formanna ok undirmanna, ef þeir geyma þessa vandliga ok elska þat mikilliga, svat sa er stiornar, biode med litillæte ok gudrædzlu, en eigi med grimd edr akefd. Stendr her ok nær heyrande vottr, er þar af kennir.

**225.** Sva sagdi einn gamall madr: Ef nockurr vill boda brodur nockura athófn med gudrædzlu ok litillæte, þa gerir brodur þat mal fusan at fylla med godfyse hitt, er bodit er, þviat eigi ma oavaxtsamt vera mal kennandans, þat er dygd gudligs elskuga tendrar upp fyrir innan. En ef einnhverr vill syna matt sinn ok rikdom ok bioda brodur utan gudrædzlu, þa lætr gud hann hvarke heyra ne gera þat, er hann bydr, þviat opinbert verdr þat verk, er af gudi geriz, ok sva verdr opinbert þat, er af vallde ok villd legz aa; þviat þat er af gudi, er byz af litillæte ok bæn, en hitt geriz af oreinum anda, er fram ferr med vallde, æde edr oroa. En þat er embætte inna ædre manna at ahyggiaz um þat iafnan, at þeir mege at rettu meirr af formenzkunni elskaz en ottaz, ok syne helldr undirmonnum sætleik litillætis en matt velldissins, svat af snidiz hiartarotinni riklyndissins herde, (ok) veki af þeira kostgæfe briostfóst elska undirmennina til kraptaverka utan drambanar stærd; stille hogvære reide hugskotzins med afle ofalsadrar astar, þviat vitleyse er þat likt, ef einnhverr girniz at drottna odrum ok drotne eigi adr reidne [sialfs sins.[1] Skal þat godr hirdir eigi syna i greimleiks þunga, hve mikit hann ma, helldr hve miok hann elskar, þviat þvi meirr sem hann elskaz, þvi lofligri provaz hann, þa er raundagrinn kemr. Heyre hófdingiar þat, er fyrir nóckurn snotran mann er mællt til þeira: sem einn af þeim verande settu þeir þik hertuga mille sin, þviat oreinn er hverr, er upp hefr hiarta sitt. Minniz stiornarmenn, at þeir eru iórd, ok stæriz eigi, helldr nemi þeir at mer, þviat ek em miuklyndr ok litillatr i hiarta; ok ef þeir vilia þiona til litillætis konungs, þa siaz þeir vel um iafnan at varaz drambanar skeyte. Ma nu sa sem less skoda, hveria godfyse gerir undirmanninum litillæte bodandans; batnar

1 [sins sins *Cd.*

þar fyrir hvorr af annars gætzku, at annarr bydr med litillæte, en annarr hlydir med godfyse. Fare þvi framm tveir lampar ok tvær kertistikur, þat eru þeir menn .ii., er reyna, hverssu annarr batnar af annars litillæte, ok annarr af annars hlydne.

226. Brodir sa, er Pistus het, kallaz komit hafa, ok .vii. brædr med honum, at sia .ij. fedr, er sva hetu Or ok Atrem, ok batna af þeira gæzku. Abote Atrem hafdi ina hæstu lydne, en Or id mesta litillæte. Þesse brodir Pistus segiz verid hafa nockura daga at skoda dygdir þessa fedra, ok lez seed hafa einn furduligan lut, er Atrem gerde. Nôckurr madr hafdi fært þeim fisk, ok villde Atrem matbua hann fodur Or, er þeira var ellri, ok hafdi knifinn i fiskinum til sundrskurdar, er abote Or kallar med nafne tysvar. Nu skundade hann sva miok ferdinni, at hann let knifinn standa i fiskinum ok villdi eigi i sundr skera. «Þessa hlydne hans furdada ek, sagdi brodir Pistus, hvi hann bad hinn eigi bida, medan hann sundrade fiskinn, ok spurda ek, hvar hann hefde fundit sva mikla miskunn lydninnar.» Hann svarar ok kvat eigi sina vera, helldr þess gamla fodur, er allt tok med litillæte þat, er hann gerde, «ok iafnvel muntu þat mega (sia), sagdi abote Atrem, med raun, hverssu hann lofar med sinne hlydne ok litillæte min mistæke.» Steikir hann sidan fisk med villd sinne, svat onytt var, ok setti fyrir abota Or. En hann át ok talade ecki um. «Syniz þer eigi gott, fadir?» sagdi Atrem. Hinn kvad: «Hardla gott.» Eptir þat steikte hann litid af fiske hardla vel, ok kvez þvi tapat hafa i i steikingu. Abote Or svarar, kvat þa hafa illa tekiz. Sidan sneriz abote Atrem til min, sagdi brodir Pistus, ok sagde: «Nu mattu sia, sagdi hann, at hlydne, þa sem þu eignadir mer, vinnr litillæte þessa ins gamla fodur, þviat ecki gere ek sva litilliga, at eigi taki hann med þôckum, ok vænte ek fastliga, ok true ek mik munu hialpaz af hans litillæte, þviat ek verd af þvi lydinn.» «Nu mun ek, segir brodir Pistus, þviat ek hefe hugfest þeira litillæte, kostgæfa[1] at fylgia hvarstveggia fotsporum, sem ek þickiumz mega.» Ma her heyra menn mikillar styrktar, er hvarr predicar annars dygd, en hylr sina hlydne; forduduz þeir sva ræsnina, at hvarr eignade odrum annars dygd sinn verdleik. Skile þvi sa er less, hvat[2] gods vinnr midlan astarinnar, þa er annarr tekr med þôck annars vanhyggiur sem godfusliga þionustu, ok hverr er sterkan hug vill hafa af sinne lægd en annars hæd[3], þa (heyri) hann þat, er her fylgir.»

1 kostgæfe ek *Cd.* 2 hvart *Cd.* 3 hat *Cd.*

